genn icke wforrette eller wdbygge. emedenn the gielde theris leyer. lanndskyld oc andenn theris rettighed tiill forschreffne closter. oc wille wij were forschreffne Nicolaus Thorstensonn enn naadig herre oc konning oc hannom holde wed Islandz loug oc rett oc for wold och wrette hannom forsuare. beskierme oc handt haffue. forbiudenndis ther fore alle etc. cum clausulis consuetis. Datum Hafnie 15 die Augustj. Aar etc mdlxiij.

---

115. 15. ágúst 1563. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Vigfúsi Þorsteinssyni Þingeyjarsýslu, Möðrufell og Gilsbakka, allt afgjaldsfrjálst um 6 ár, en síðan með venjulegri ársleigu.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 8, 530—1 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Fuse Thorstensonn paa Islannd fick breff saa liudendis.

Wij Frederich thennd andenn etc. Giøre alle witterligtt. att effthertij wor thro wndersotte. oss elskelige Fuse Thorstensonn paa wortt lanndt Islannd haffuer nw wnndt oc wdlagtt tiill oss oc kronenn for euig eyendom alle the namer oc suogelbierge. som hand haffuer oc nu findis paa hanns grunndt. eller oc her effther findis kunde wdj forschreffne Fuse Thorstensonns land oc eyendom ther paa Island. effther thett breffuis liudelsse. hand oss oc kronenn ther paa giffuitt haffuer. tha haffue wij wndt oc forlentt oc nu mett thette wortt obne breff wnde oc forlene forschreffne Fuse Thorstensonn wortt oc kronens sissell. norder sissell. som Mogens Jonsenn sist j were haffde. Sameledis enn wor och kronens gaardt. kalldis Miørresieldt mett Gilsbacke. som er kott oc hiolege. frann forschreffne Mørefielde liggenndis for nordenn paa wortt lannd Islanndt. mett alld theris renthe oc retthe tilliggelsse. att haffue. nyde.

bruge oc beholle. frij wdenn affgifftt wdj sex sambfelde aar nest efftther thette wort obne breffuis datum regnendis. oc skall hannd mue nyde oc beholde alle sex mercke maall oc ther wnnder wdj forschreffne syssell. oc hues ther offuer falde kannd. skall komme oss tiill beste oc forschreffne Fusse Thorstensonn were pligtig ther fore aarligen att giøre wor lensmannd ther samestedz gode rede och regenskaff. oc nar forschreffne sex aar forlobne oc wde ere. tha maa oc skall forschreffne Fuse Thorstensonn framdelis haffue. nyde. bruge oc beholde forschreffne noder[1]) syssell. Mørefielld oc Gilsbacke wdj hans liffs tiidt oc saa lenge hannd leffuer. oc tha ther aff aarligen giffue tiill oss oc kronnenn slig affgifftt. som ther pleyer oc bør aff att gaae. dog saa hannd skall were oss oc wore efftthcrkommere. konninnger wdj Dannmarck. oc kronnenn huld oc thro oc wor befallingismand offuer wortt land Islannd. thend som nu er eller her efftther komendis worder. hørig. liudig oc følagtig. wdj hues hannd hannom paa wore wegne tilsigendis worder. Sameledis skall hannd were sysselmannd wdj forschreffne syssell oc ther hielpe huer mannd Islandz loug oc rett. saa ingen klage offuer hannom komendis worder. Tisligiste skall hannd bygge oc forbedre forschreffne Mørefield oc thennd holde wed god heffd oc magtt oc bøndernne. ther tilligger. wed Islandz loug. skiell och rett oc thennom emod lougen icke wforretthe eller wdbygge. emedenn the gielde theris leyger oc landskyldt oc andenn theris rettighedt tiill forschreffne Mørefieldt oc wille wij were forschreffne Fuse Thorstensonn enn naadig herre oc konning oc hannom holde wed Islanndz loug oc rett oc for wolld oc wrett forsuare. beskiemme oc handthaffue. Forbindendis ther for alle etc. Cum clausulis consuetis. Datum Hafniæ xv die Augustj Anno etc. mdlxiij.

---

1) Svo.

116. 19. ágúst 1563. í Reykholti.

VIRÐING á kirkju og stað í Reykholti.

AM. Apogr. 2221 „ex authentica membrana templi Reykholtensis“. — Héraðsbók Halldórs prófasts í Reykholti Jónssonar í þjóðskjalasafninu, bl. 6.

Þa sira Einar Martheinsson medtok enn Þordr Gudmundsson sleppte.1)

Anno dominj. M.d.lx oc iij. fimtudaginn j uikunne efter tiunda sunnudag trinitatis liet herra Gisli Jonsson uirda kirkiuna j Reykiahollti oc stadin allan med utjhusum. voru þessir uirdinga menn. Herra Marthenn Einarsson. sira Asgeir Hakonarson. sira Freysteinn Grimsson. sira Jon Magnusson. Magnus bondi Jonsson oc Oddur Halldorsson. var kirkian [virt] fyrir .vc. og xx. enn staduren allur fyrir .xxxc. med sman2) husum oc storum ute oc jnne.

---

117. 23. ágúst 1563. á Hólum.

SKIPTI á Gröf á Höfðaströnd fyrir Lund og Þrasastaði í Fljótum og milligjöf.

Jbskj. AM. Skagaf. 9 (nú í þjóðskjalasafni) „fra Ragnheide Jonsd[ottur] i Grøf“ (AM.). — Island og Færø (í ríkisskjalasafni Dana) VI, 52.

Eg Pall Stigsson konglegrar Majestets bifalningsmann yfer allt Jsland giore godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu briefe. ad effter godum vilia og konglegrar Majestets tillatelse og giæskufullum vilia. hefi eg sellt og feinged Sigride Sigurdardottur. konglegrar Majestets og kirkiunnar jord Grauf sem er Lxc liggiande a Hofdastrond j Hofskirkiusokn. med Øllum þeim gognum og giædum hlutum og hlunnindum. sem greindre jordu filger og filgt hefur ad fornu og niju. kongleg

---

1) Þetta stendr aftan við greinina, en Árni segir það skýlaust eiga hér við. 2) Svo.

Majestet og kirkiann. hefur fremst eigande ad orded. Hier j mot skillde Sigrijdur Sigurdardotter med Rade sjns hussbonda Olafs Hialltasonar Superintendens Hoolabiskupsdæmis. giallda og greida konglegre Maiestet og kirkiunne. jordena Lund fyrir iiij^c og xx. og jordina Þrasastade fyrir xx^c liggiandj bädar fyrir framann Stjflu j Fliotum j Knapstadakirkiusokn. med øllum þeim gognum og giædum hlutum og hlunnendum. sem þeim filgt hefur ad fornu og nju. og þar til skillde hun giallda konglegre Majestet og kirkiunne x^c jord og xx. Jocumdale. enn a medann su x^c jord er eche golldenn. skal hun giallda so mikla landskylld. sem landskylldenne svarar. af þessare x^c jørdu. skilldu þeir hallda til laga er keifftu. enn þeir svara lagarifftingum er selldu. voru þesser giorningsvottar vid stadder er eg giørde þennann giorning konglegrar Majestets vegna og kirkiunnar. Þorsteirn Hallsson Holastadarradsmadur. Jon Jonsson. Hiallte Tomasson prestar Hoolabiskupsdæmis. huørier ad settu sijn jnnsigle med mijnu signete fyrir þetta jardarkaupsbref. er giort var og frammför a Hoolum j Hialltadal xx og iij dag Augusti manadar Anno Domini M D Lx iij.

Povel Stisen med egenn handt.

Ofannskrifad hofum vid ordriett samanlesed. vid giorning a kalfskinn ritadann med fiorum hangande jnnsiglum. ad Grof a Hofdastrond Anno 1704. þann 25. Junij.

Petur Marcusson. Asmundur Einarsson
Egh.

---

118. 28. ágúst 1563. í Skriðu.

MAGNÚS JÓNSSON áskilr sér undanfærslu um vitorð með breytni barna og stjúpbarna Kolbeins Arngrímssonar.

AM. Apogr. 4729, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali fra Jone Jonssyne a Gunnsteinsstodum“ (AM.).

Þat giorum vid Jou Tindzson og Oddur Halldorsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi arum epter Gudz burd m. d. lxiij a midvikudaginn næstan fyrir Decollacio Johannis Baptiste[1]) i kaupstadnum i Husavik vorum vid tilkallader af Magnuse Jonssyni vitni vm at bera samtal þeirra Vigfusar Bonda Þorsteinssonar syslumanz og hans. suo og voru þar þa og vid stadder þesser menn Jon Magnusson. Þorbergur Bessason og siara Jllugi Gudmundzson. J fystu baud Magnus fyrir sig log og dom. sina menn. godz og peninga. og sierdeilis fyrir jordina Grænavatn vid Myvatn. þar epter beiddizt hann þings ä Helgastodum og sagdizt bod hafa lated vpp skiera og bad Vigfus sier þar log giora ä laugardagin næstan fyrir decollacio Johannis Baptizte. þui hann sagdizt heyrt hafa. at Kolbeirn Arngrimsson skyllde hafa nockrar lysingar þær ä honum ad hann villdi beida doms ä. huor þar væri af þeim tueimur likari til sanninda. Enn þessar væri lysingar Kolbeins sagdar enn eigi vissi hann huort sannar væri. at hann hefdi sagt hofudzmanninum Pali Stigssyni at hann hefdi þui sellt Magnusi Grænavatn at hann hefdi lofat at forsuara oll brot sinna stiupsona og dætra og þad at sialfur Kolbeirn hefdi hier af vitad med Einare og Gudbiorgu. Enn Magnus beiddizt hier a vndanfæris þui hann sagdizt af atferli folks Kolbeins eigi hafa vitad vtan þad sem odrum var kunigt adur þau medkiendu sin brot og alldrei nockra oraduendni lofat fyrir þau at forsuara. og hier sagdizt hann vilia sueria at fullann eid nær hann væri logliga til krafdur. J odru lagi sagdizt hann og heyrt hafa sagt jnnann vr Eyafirdi at Fusa hefdi verit skipat at taka ad sier Grænavatn. og skipta Arngrimi halfu en konginum halfu. og sagdi sier þætti þad otruligt og ei sagdizt hann sannindin vita þar af. þa sagdizt Vigfus eigi vera lidugur at þinga at sinne. Og til sanninda hier vm. setium vid fyrgreinder menn ockar jnsigli fyrir þetta bref. skrifat i Skridu þrem nottum sidar enn fyr seiger.

1) þ. e. 25. ág.

119. 30. ágúst 1563. í Görðum.

GÍSLI byskup Jónsson kvittar Þórð Guðmunddsson um alla meðferð staðarins í Reykholti.

AM. Apogr. 4743, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali Arna Hannessonar yngra". Öll (4) innsiglin voru „burtu".

Þad giorum vier Einar Eireksson. Hallur Olafsson. Gudmundur Þordarson og Þormodur Asmundzson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi at þa er lidit var fra gudz burd M. D. lx. og iij. är j Gaurdum a Akranesi. manudagin næstan efter Bartholomeusmesso vorum vier i hia saum og heyrdum ä. at herra Gisli Jonson gaf med fullnadar handabandi Þord Gudmundzson[1]) auldungis kvittan og akiærulausan fyrir sier og aullum sinum efterkomindum[2]) Skalholltz domkirkiu formonnum. fyrir medferd stadarins i Reykiahollti og alla stadarins peninga. þar med kirkiunnar medferd og hennar eign. med allri þeirri porcio sem þar hefdi fallit sidan hann medtok stadinn. og hun atti utan sig og innan. Svo og medkendizt fyrr nefndur herra Gisli at hann hefdi fulla og alla peninga upp borit sem sier vel likadi og anægdi kirkiunnar vegna um allan adr greindan reikningsskap. Og til sanninda hier um festum vier vor innsigli fyrir þetta vitnisburdarbref. Skrifat i sama stad. ar og dag sem fyr seiger.

---

120. 8. september 1563. í Hafrafellstungu.

KAUPBRÉF fyrir parti í Grímsstöðum og Hólakirkju lagðir í staðinn Skárastaðir.

AM. Apogr. 5879, m. h. Jóns Magnússonar (d. 1738) „Ex originali" „ä pergament".

Eg Olafur Hialltason vnder gudz þolinnmædi Biskup a Holum og ouerdugur Superintendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessu minu

1) „er sidann vard løgmadur" (AM.). 2) Svo.

opnu brefi ad ec hefi feingid heidarligri dandi kuinnu minne frændkonu Ragnhillde Arnadottur þann part i eydikotinu Grimstødum sem reiknadur hefur verit Holakirkiu motz uid Skalaholltzmenn sem kalladur hefur verit iijc thil fullrar eignar og frials forrædis vndann Holakirkiu og mier enn vnder fyrrgreinda Ragnhillde og þann eda þa sem hun uill greindz jardarpartz vnna epter sinn dag med ollum þeim gøgnum og gædum sem hun kann af greindum jardarparti ad hafa. Skal eg leggia greindre Holakirkiu jafnhagliga peninga nærri skolanum aa Holum þui hun ei[1]) hefur i nestu hundrat aar aungua[1]) gagnsmune af þeim jardarparti haft ad gamalla manna søgn sannordra. Og thil sanninda hier vmm set ec mitt jnsigle fyrer þetta bref er giort var i Hafrafellstvngu i Oxarfirde attanda[1]) dag septembris manadar. Anno domini M d lxiij.

hier i mot hefi eg feingit kirk[i]une i stadin jordina Skärastadi i Austurardal i Midfirde i Nups kirkiu sokn er eg keypta af Sira Jone Gudmundzsyni fyrir vjc. liggur hun saman vid adrar kirk[i]unnar jarder þar.

---

**121.** 8. september 1563. á Ærlæk.
8. mars 1566. í Múla.

HELMINGADÓMR í héraði um nytjan teiga á Brunnárbökkum frá Klifshaga og Þverá.

AM. Apogr. 4796 „Ex Apographo 1623 (25) fra Sira Pali Amundasyne“ (AM.). — AM. 255, 4to., bls. 95—7. Uppskrift ca. 1750 meðal Klifshagaskjala i þjóðskjalasafni.

Eg Olafur Hialtason med guds þolinmædi biskup ä Hölum og Superintendens alls Hölabiskupsdæmis og Vigfus Þorsteinsson. kongsins syslumann i Þingeyarþinge giørum gödum monnum kunnigt med þessu ockru opnu briefe ad þä lidit var frä holldgan Christi M. D. lx

1) Svo.

iij är ättunda dag Septembris. ä Ærlæk i Auxarfirde i riettri visitacione og almennelegu hieradsþinge. kom fyrer ockur Jon prestur Loptsson sem þä var Beneficiatus Skinnastadar. atalde og äklagade vegna sins stadar vmm þa teiga sem Klifshaga og Þverärmenn i Auxarfirde haft hafa i langa tima og enn høfdu ä Brunnárbacka fyrer vestann Brunnaa. J annare grein þar i mot kom til andsvara Þordur bonde Peturson er þä ätte Klifshaga og synde þar fyrer oss kaupbref fyrer jørdunum Klifshaga og Þveraa nær 1½c ära gamallt. epter þui sem þess datum vtvijsar. med heilum og oskoddum jnciglum. so hliodande ä millum annara orda: Teiga ä myre sem ad fornu hafa verid med iørdunum. jardareign ä sande fyrer vestann Brunnaa er fylger jørdunumm Klifshaga og Þveraa. Hier med kom þar framm annad kaupbrief lx og ix ära gamallt. suo innehalldande ad fyrgreind Þveraa var þä selld. og henni var þä reiknad af þeim sem selldi ad iørdinn Þveraa ætte landeign ad fornum Brunnaarbauckum. og halfs manadar teig nidri ä sandi og annann vte ä myre. þar med mørg ønnur bref og vitnisburde hinna ellstu manna vmm gamla hefd. ad alldri hefdi verid ätalid fyrr enn vmm daga sira Sigmundar er fyrer nockrum ärum hafde hallded Skinnastad. þui kollum vid til med ockur þä ena visustu og bestu menn sem þä i nänd voru. sem var Kietill Jonsson. Jon Jonsson og Jlluge Gudmundsson prestar. Jon Eireiksson.[1]) Jon Saulvason og Arne Þorsteinsson leikmenn. til ad skoda og ransaka þetta sira Jons tilkall og þau bref sem þar framm komu og fyrer jørdunum voru. Þui ad guds nafne tilkølludu. litust oss þau bref mindug og skiæleg. og þau hlyti ad räda og hvad vj dande monnum litist af hvørutveggium tilnefndum. ad epter gamalla manna tilsøgn og vitnisburdum. hvar ad Brunnarbackar være kallader. þä være i þann farveg landeign Klifshaga og Þveraar. og þä sem ä greindum jørdum bua meiga þess lands svo neyta

1) Svo.

sem løgbök vottar vmm þad land sem ä brytur af lande mannz. þui þar voru kallader enu fornu Brunnarbackar. langt vestur frä Brunnaa fyrer austann Skinnastadasel. Enn þangad til aa være ridid af vj skinsømumm monnum sem fyrr seiger. leist oss ad þeir sem bua ä greindum iørdum mega beita vestur yfer Brunnaa i fyrrgreint takmark. øllum sinum peninge sem þeir sialfer hafa. þä þeir vilia vetur og sumar. enn liä þar onguum til vetrargaungu edur sumarhaga. sem sagt er ad þeir hafe ädur hier til giørt. tekid vpp i þad land hesta til vetrargaungu. og þeir hafe geingid ä Skinnastadasandi og þui skule ägreininginn hafa tilkomid. Enn Einge þad. sem iardernar Klifshage og Þveraa eiga ä Skinnastadasande leijst oss ad þad skyllde vera ferskeytt. frä Holskijl ut og sudur og austur ä sandinn. eins ä alla vegu. þö þar kynne nu i ad vera samfeingid med hrijs og sinubruk saker langrar vanræktar. var þad mänadarverk frä Klifshaga. enn halfs manadarverk frä Þveraa. enn ef nockur þikest vanhalldinn. þui vær vissum ögiørla hvorsu mikla peninga i þad land mætte setia sem aaen hefde ä geingid. þä skyllde sä þar fyrer beidast ad läta þar med løgum ä rijda. Enn þetta leist oss riettelegast vera fyrer gude og mønnum. Og til sannenda hier vmm set eg fyrrnefndur biskup Olafur. og adurgreindur Vigfus Þorsteinsson ockar incigle med fyrskrifadra presta og leikmanna inciglum fyrer þetta bref. hvort ed skrifad var ä Müla i Adalreykiadal attunda dadg Martii manadar þrem ärum sijdar enn fyrr seiger.

---

122. 8. september 1563. í Múla.

MÁLDAGI Múlakirkju.

Eftir frumritinu á skinni í þjóðskjalasafni komnu frá Múlakirkju 1901 (meðal Múlaskjala). Þrjú innsigli hafa verið fyrir bréfinu.

Maldæge Mvlakirkiu.[1])

Kirkian j Mula er helgud gudi og uorre fru. og enum heilaga Nichulao. til kirkiu liggur allt heimaland. millum Saurlækiar. Eyuindarlækiar. Laxar og Kalfalækiar. stadnum fylger Hafurey. Skaley. Hrisey. Mioey med ollum Uesturholmum. og Austurholmum. þridiung j Eingey. og ix holma næst fyrir nedan Eingey. og ueidar allar j Lagsaa fra Kalfalæk. og ofan um Eingey. þar med fylgier stadnum Einarstader. Jngigierdarstader. Skarastader. Biargastader.[2]) Skeidsland. Kraunastade[r]. Fotaskinn. kirkian aa Fiallz land. med ollum Ualahrisum. teiga eiga menn j Ualahrisum. enn aungua beit. Fagranes. Geirbiarna[r]stadi j Kinn. og Leikskalaaa. Mosuatn. Vindbelg. Þeistareykia land. og Mælifell. Barkahris j Kelduhuerfi. ij hluti j Siofar landi. þridiung j Sugurdarstodvm. lambareckstur aa Huamsheide. gomlv fie j Nattfarauikur. c. og lxxx. ueidar j Uesturvatne med slijum og holmum. Reka skal smala. þadan til skiola j Uatzhlid jafnan þa uill. Þar fylgier Bryggiuteigur og Karateigur. Stadnum fylgier allur reki aa Fliotzsande. millum Greniastadar[3]) reka og Myrar reka. halfur reki tueim megin Lagsaroos. med flutningum. fiordung j Langa reka. attungur j Kielldunes reka og allvr uidreki og oll flutning. og xiij uæter[3]) af oskiptum hual. ef rekur. halfur Hardbaks reki. halfur Hestanes reki. aa Asmundarstodum reka fra Ravda steine og til steins j Hardbaksmaut. allur uidreki. og allar flutningar. og þria hluti hualreka. og xuj. uætter af oskiptum hual. halfur hualreki og uidreki. og flutning j Holldzskulldznesi. allann aa Hundznesi. og uidrekanna tolftung. og flutning. ij hluter j Kollauik og flutning. og so j Krossavik. halfur Sæfarlandzreki og flutning. j millum aa fiordungur hualreka og flutning. fyrir Breckna londum badum fiordung hualreka og flutning. fyrir Gudmundarlone j millum steins og staurs. halfer þrir hluter hual-

1) Aftan á bréfinu: — Hefir verið lagt fram í yfirdómi 1872, og er það einnig vottað aftan á bréfinu. 2) Utanmáls dauft, og vísað inn. 3) Svo.

reka. Enn þadan fra halfer hualrekar til motz uid Saudanesmenn. og flutningar. fyrir Hrossauollum tolftungur hualreka og flutningar.

Hier til aa Mulastadur. þridiung j aullum Klifshaga rekum. enn Greniastadur. ij. hluti. og erv þat epter farandi rekar. fyst .iij. uætter j Kleifar reka. ef aa erv xx uætter. þrar ef minna er. ecki ef minna er enn xij uætter. huort sem rekur eda er flut[t]ur. j Leirhaufn attungi minna. enn halfur hualur ef rekur. j Grotnes reka huort sem fluttur er eda rekur. halfur hualur. afreidsla xij uætter. ut fra Haufdaskala. af oskiptum ef rekur. ella ecki. sa reki geingur ut j gia j Raudanupi. j Uellankautlu uestri halfur hualur ef fluttur er en ef rekur fiordunginn og uj uætter. Enn j eystri Kautlu huort sem rekur eda er fluttur. halfur hualur af oskiptum hual. skal reida xij uætter. A Hestanesi uj uæt[t]er. ef adur hefer Mula stadur helming sinn. og sie þa epter xx uætter eda meira. enn þriar uætter ef minna er. ecki ef minna er enn x uætter. J Straumlone reka og flutning med ollum gognum. og so fyrir Sugurdarstodum. Þessi reki er austur fra Straumlonsosi. og til oss hins forna. hier fylgier og egguer og half flutning medal osa. A Rifs reka uj uætter ef aa er xx uætter. þriar ef minna er. Suo at Skinnalone. suo at Tiornum huortt sem rekur eda er fluttur. A Hardbak xx uætter ef fluttur er. og sie aa. c. uætta a hinum fysta uj uætter. Þadan fra þriar uætter. ef rekur. skotmannz hlutur er at helmingi med þeim reka. A Asmundarstodum fiordungur huals ef rekur. J Aurfiriseyu fimtungur huort sem rekur eda er fluttur. og af oskiptum þeim fiordungi siettung enn giallda af xuja hlut ef rekur. af oskiptum hval. J Raufarhofn helmingur ef rekur og giallda af attung. af ollum saman. og fiorar uætter og xx. aa Hundznesi. tolfti hlutur ef rekur. j Krossauik uj. uætter. ef aa eru xx uætter. þriar ef minna er. ecki ef minna er enn x uætter. huort sem rekur eda er fluttur. slicktt j Kollauik. slickt j Flautafellz reka. slickt j Heriolfsuik. ef rekur af þeim hluta er atti Einar prestur.

Þat giorvm vier Kolbeirn Audunarson Jon Loptsson og Ketill Hallzson prestar godum monnum kunnigt med þessu vorv opnu brefi at vier hofvm sied og yfer lesit svo latandi iii Hola domkirkiu maldaga. sierdeilis vm Holma land og reka. þo vm iardirnar hafi vmskipti ordit. voru þessir maldagar aller forgamler. og svo freker sem þessi sem hier fyrir ofan skrifadur er. Og til sannenda hier vm setium uier fyrnefnder prestar uor incigle fyrir þenna maldaga. og vornn vitnisburd skrifadur j Mula attvnda dag septembris anno domini M d lx og iii.

---

123. 8. september 1563. á Látrum.
14. febrúar 1564. á Þingeyrum.

JARÐASKIPTABRÉF, og er Látrum í Aðalvík skipt við Steig og Karlsstöðum í Veiðileysu.

AM. fasc. LXVIII, 6, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi; bæði bréfin rituð á eitt bókfell. Tólf innsiglaför og þvengir, en öll innsigli glötuð. — AM. Apogr. 853.

Kaupbref wmm Laatur j Adalwijk.[1])

Þath giorum uier Jon Þorsteinsson. Gunnlaugur Kodransson. Þorleifur Jonsson. Jon Sueinsson og Ölafur Gudmundsson og Magnus Gudmundsson gödum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad arum epter Gudz burd. M. d. lxiij aa Latrum j Adaluijk miduikudaginn næstann fyrir ymbruuiku wmm haustit. vorum uier j hiaa säum og heyrdum aa ord oc handaband þessara manna af eirne alfu Odda Magnussonar og hans systur Gudrunar enn af annare alfu Arna Gijslasonar ad suo fyrir skildu ad nefnd syskin Oddi og Gudrun selldu greindum Arna Gijslasyne sijna iord xij^c j Lätrum er liggur j Adaluijk j Stadar kirkiusokn undan sier oc sijnum erfingium enn under greindan Arna til frials forræðiss og fullrar eignar med ollum þeim gognum og

---

1) Utan á bréfinu með sömu hendi sem er utan á mörgum bréfum, er varða Árna Gíslason, og er það hönd hans.

giædum sem greindri iordu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu bædi til sios og landz ad aullu til skildu enn aungw fra epter þvi sem þau urdu fremst eigande ath. hier j möt gaf Arne Gijslason greindum syskinum Odda og Gudrunu jardirnar Steig og Kallstadi er liggia j Ueidilaus j Stadar kirkiu sokn j Grunnavijk fyrir xc og þar med ij kugilldi og þar til gaf Arne greindum syskijnum xij fiordunga smiors. selldi optnefndur Arne titt nefndum syskynum adur greindar jarder med aullum sinum gognum oc giædum sem greindum iordum fylger og fylgt hefur ath fornu og nyu og eigi hefur med laugum uerid fra komit til frials forræðiss oc fullrar eignar. lofudu opt nefnd syskin Oddi og Gudrun j fyrnefndu sama handabande. ad selia greindum Arna edur hans erfingium fyrstum greindar iarder Steig og Kallstadi fyrir suo myckla peninga ad upphæd sem hann selldi þeim þær nu j malnytu oc audrum gödum þarfligum penin[g]um þä þau uilldu sialf selia. samþyckti þennann allann kaupskap oc laugmäla med handsaulum uid Arna Gijslason moder Odda og Gudrunar Þuridur. skylldu huorer fyrir sig suara lagariftingum aa þui er selldi enn hallda til laga þui er keypti. skylldu huorutueggiu greindar iarder ad sier taka ad næstum fardaugum. Og til sanninda hier wm setium uier fyr nefnder menn uor jnnsigli fyrir þetta bref er skrifad uar j sama stad deigi og är sem fyr seiger.

Þath giorum vier Magnus Magnusson. Styrkar Hallsson. Biarne Arason prestar. Fusi Ölafsson. Gijsle Brandsson og Gunnlaugur Kodransson gödum monnum kunnigt ad uier hofum sied og yfir lesid þath kaupbref er giort hefur uerid wm þann kaupskap er Arni Gijslason hefur haft uid Odda Magnusson og hans systur Gudrunu j hueriu kaupbrefi ad suo stendur skrifad ad greindur Arne keypt hafi ad fyr nefndum syskinum xijc j iordunne Laatrum j Adaluijk o giefit þeim fyrir iardirnar Steig og Kallstadi er liggia j Ueidileysu. suo og hefur Arne Gijslason lyst þeim laugmäla fyrir oss er hann hefur lagt j greindar iardir Steig og Kallstadi huer sami

laugmali er jnn skrifadur j fyr nefnt kaupbref. Og til sanninda hier wmm setium uier fyrrnefnder menn uor jnnsigli fyrir þetta uitnissburdarbref er skrifad uar aa Þingeyrum j Uatnzdal þridiudaginn j faustu jnngang arum epter gudz burd M d lxiiij.

---

124. 14. september 1563. á Sæbóli.
VITNISBURÐR um lofan á sölu Látra i Aðalvík.

AM. fasc. LXVIII, 2, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi með sömu hendi sem er á mörgum bréfum Árna Gíslasonar. Segir Árni Magnússon með berum orðum: „Brefid er ritad med hendi Arna Gislasonar (ä Hlidarenda)“. Fjögur innsiglaför og þvengir, en nú ekkert innsigli. — AM. Apogr. 852.

Lysing Magnusar Jonssonar wm Laatur j Adalwijk.

Þath Giorum wier Jon Þorsteinsson. Gunnlaugur Kodransson. Gudmundur Olaafsson og Jon Sueinsson gödum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi aa Sæböli j Adalwijk wmm haustid aa chrossmesso arum efter Gudz burd M d lx iij worum wier j hia saaum og heyrdum aa samtal þeiʀa AArna Gijslasonar og Magnusar Jonssonar j fyrstu spurdi greindur AArne Gijslason Magnus Jonsson opinberliga ath huort hann hefdi werid wid staddur nauckurn giorning þeiʀa Sijra Pantalieons Olaafssonar og Odda Magnussonar wm jordina Laatur j Adalwijk. Sagdi greindur Magnus suo felldann frammburd framm fyrir oss ath hann hefdi werid wid staddur aa Stad i Adalwijk aa huijtasunnu wmm worid þar j kirkiunni. sagdist hann ecki minnast huort sijra Pantalieon hefdi sagt ath Oddi Magnusson hefdi sellt eda lofad ath selia sier part j Laatrum i Adalwijk. sagdist greindr Magnus ecki muna huort saa partur hefdi werid mikill edr lijtill. Enn Oddi hefdi sagdst ecki wita nema þath mætti werda. sagdist Magnus aungua peninga hafa heyrt Odda skilia sier fyrir nefndann iardarpart. Sagdi þraatt nefnndur Magnus sira Panntalieon hefdi spurt sig ath huort hann willdi sueria efter þess-

um þeirra giorningi Odda og sijra Panntalieons. Enn Magnus sagdist hafa sagt hann wissi þath ecki. Og hier efter wilium wier sueria ef þurfa þikir. Og thil sanninda hier wmm setium wier fyr nefnder menn wor jnnsigli fyrir þetta witnisburdarbref er skrifath war j sama stad deigi og aari sem fyr seigier.

---

**125.** **14. september 1563.** **á Látrum.**

VITNISBURÐR um sama efni sem næsta skjal á undan

AM. fasc. LXVIII, 3, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi; hefir með 3 innsiglum verið læst saman við LXVIII, 4, frá 14. sept. sama ár. Sama hönd sem á LXVIII, 5. — AM. Apogr. 851.

Witnisburdur wmm Laatur j Adalwijk.[1])

Suo felldann witnissburd ber eg Olaafur Gudmundsson ath eg war aa Stad j Adalwijk huijtasunnu wmm worid. kalladi sira Pantalieon Olaafsson mig til witnisburdar þar j kirkiunni. sagdi hann suo ath hann hefdi lagt wed j viijc j iordunni Laatrum i Adalwijk og spurdi at Odda Magnusson huort hann giengi þar ecki wid. Enn Oddi sagdi þar jaa wid. toku þeijr þaa haundum saman hann presturinn og hann Oddi. Spurdi sira Panntalieon Odda ath hueria peninga hann willdi fyrir hafa. frijda peninga sagdi Oddi. nu nu þat skal suo wera sagdi sira Pantalieon. heyrdi ec sira Pantalieon aunguann skilmaala annann hafa wid Odda enn þennann og eij helldur Oddi wid sira Pantalieon wm fyr sagt efni og hier efter wil eg sueria ef þurfa þikir og annann witnissburd hefi eg ecki wt giefid sira Pantalieon enn þennann wmm þetta efni. Og til sanninda hier wm set eg mitt innsigli fyrir þetta witnissburdarbref er skrifad war aa Laatrum j Adalwijk chrossmessu wm haustid arum efter Gudz burd M d.lxiij.

---

21) Utan á bréfinu m. h. Árna Gíslasonar á Hlíðarenda.

126. 14. september 1563. á Látrum.

VITNISBURÐR um sama efni sem næstu tvö skjöl á undan.

AM. fasc. LXVIII, 4, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi (uppskafning) með sömu hendi sem mörg bréf, er varða Árna Gislason, læst með 3 innsiglum (nú glötuðum) saman við LXVIII, 3, frá sama degi. — AM. Apogr. 851.

Suo felldann witnissburd berum wid Jön Þorsteinsson og Gunnlaugur Kodransson ath wid worum j hiaa saum og heyrdum aa aa Laatrum i Adalwijk a krossmessu wmm haustid þaa Olaafur Gudmundsson gaf wt þennann witnissburd sem nu er med festur þessu ockru witnisburdarbrefi. Suo og lofadi greindur Olaafur AArna Gijslasyni med hanndsaulum ath hann skylldi meiga laata jnnsigla med innsigli aadur nefndz Olaafs þennann sama witnisburd sem nu er hier med festur þessu ockru witnis[1])burdarbrefi. Og thil sanninda hier wmm setium wid fyrnefnder menn ockur jnnsigli fyrer þetta witnissburdarbref er skrifad war aa Lätrum j Adalwijk chrossmesso wm haustid arum Efter Gudz burd M d lxiij.

---

127. 14. september 1563. á Látrum.

KAUPBRÉF fyrir 4 hundr. i Látrum i Aðalvík.

AM. fasc. LXVIII, 5, frumrit á skinni frá Bæ á Rauðasandi, með sömu hendi sem LXVIII, 3. Fjórir þvengir og innsiglaför, en innsigli nú engin. — AM. Apogr. 850.

Kaupbref wm part j Laatrum j Adalwijk.[2])

Þath giorum wier Jön Þorsteinsson. Gunnlaugur Kodransson. Þorleijfur Jonsson og Ion Sueinsson Godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi ath aar-

---

1) Tviritað. 2) Utan á bréfinu með sömu hendi, sem utan á er mörgum bréfum, er varða Árna Gislason, og er það hönd Árna sjálfs.

um efter Gudz burd M d lxiij aa chrosmessu wm haustid aa Laatrum j Adalwijk worum wier i hiaa saaum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna Þördar AAsbiarnarsonar og AArna Gijslasonar ath suo fyrir skildu ath greindur Þordur selldi nefndum AArna iiij c i jordunni Laatrum er liggr j Adaluijk i Stadar kirkiu sokn wndan sier og sijnum erfingium enn greindum AArna Gijslasyni thil fullrar eignar og friaals forrædis med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum iardarparti i Laatrum hefur fylgt ath fornu og nyiu og ecki er med laugum fraa komid. hier j mot skylldi AArne giefua greindum Þordi iiij maalnytu kugilldi og skilldi Þordr þath thil ath AArne skylldi hafa þau til leigu þaangad til ath Þordur willdi þau siaalfur wt taka og þui iaatadi AArne og lofadi. Skylldi oft nefndur Þordr suara laga riftingum aa tijttnefndum iardarparti Enn AArne hallda til laga. Og til Sanninnda hier wm setium wier fyr nefndir menn wor innsigli fyrir þetta bref er skrifath war j sama stad deigi og aare sem fyr seijgir.

---

128. 17. september 1563. á Ási í Kelduhverfi.

TRANSSKRIPTARBRÉF af jarðakaupabréfi 9. apr. 1414 (Dipl. Isl. III. nr. 630).

AM. fasc. VII, 4b, transskriptið á pappír með fjórum innsiglum.

Þat giorum vier Olafur Hialltason ouerdugur Superintendens Holabiskupsdæmis og Vigfus bondi Þorsteinsson konglig majestets vmbodzmann j Þingeyiar þingi og Einar prestur Sigurdsson og Sueirn prestur Bardarson [kunnugt] at vær hofum sied og yferlesit suo hlioðandi bref ord eptir ord sem hier fyrir ofan stendur med hangandi jnnsiglum. Og til sanninda hier vm setium vær vor jnnsigli fyrir þetta bref er skrifat var j Asi j Kellduhuerfi xvij dag Septembris manadar Anno domini M. d. lx iij.

---

129. 18. september 1563. í Skálanesi.
2. nóvember 1564. í Saurbæ.

SÍRA Þorleifr Björnsson kvittar Sigurð Ormsson af barneign með Herdísi, dóttur sinni.

AM. Apogr. 4752 „Ex originali". Árni lætr draga upp innsiglin i transscripti (og stóð í því S: IOHANI. OLAVI. PSTER., en í hinu S: THORLEVI. IOHANI).

Jhesus.

Þath giore eg Þorleifur prestur Biornsson godum monnum kunnigtt med þessu minu opnu brefe at eg medkennuzt ad eg hefe kuittann gefid Sigurd Ormsson vm þa legordz sok og hugmod semm hann [var opinnber ad og[1]) [vid gekk[1]) fyrir godum monnum. [og opinnber ad[1]) med minne dottur Herdise j suo mata hann skal uera mier til gagns og goda og minum varnade huar hann kann vera vid staddur og honum moguligtt er. Somuleidis skal hann vera kuittur fyrir mier og aullum minum aurfum og epterkomendum vm adurskrifada legordz sok og hugmod. Hefe eg þennan hugmod og sok gefid j Gudz hendr og j valld mins kiæra frænda Sijra Jons Þorleifssonar ad nær verannde Sijra Olafe Magnussyne. Og til sanninda hier vm þryckke ek mitt jnsigle vppa þetta kuittunarbref Skrifad ä Skalanese xviij. dag Septembris manadar Anno Domini M. d. lx og iij.

Þat medkennunzt vid Jon prestur Olafsson og Þorleifur Jonsson ad vid haufum sied og yfer lesid suo latande bref ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad er med heilum og oskoddum þrycktum jnsiglum Sera Þorleifs Biornssonar og Sera Olafs Magnussonar. Og til sanninda hier vm festum vid okkr jnsigle fyrir þetta transskriptarbref Skrifad j Saurbæ aa Raudasande fijmtudaginn næstan epter allra heilagra messu Anno Domini. M. d. lxiiij. ar.

---

1) [Svo.

130. 27. september 1563. á Bessastöðum.

SKIPAN hirðstjóra og byskups um kirkju og sóknir um Snæfellsnes.

Eftir frumrituðu transskripti Staðastaðarkirkju á pappír 12. dec. 1694. — Meðal Staðastaðarskjala er og uppskrift eftir þessu transskripti frá ca. 1760 (brot), og einnig dönsk þýðing frá þeim tímum. — Uppskrift frá ca. 1670 meðal konungsbréfa framan við þingbók Þórðar lögmanns með rangri dagsetningu og ártali (27. dec. 1565), og eptir þeirri uppskrift er bréfið prentað í Lovsaml. f. Isl. I, bls. 90—2 (= Þ). — Uppskrift í Lbs. 101, 4to., bls. 150—1 m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720, eftir lakri uppskrift, sem leiðrétt var eftir annarri, er stafað hefir frá grundvelli Staðastaðartransskriptsins. Seinast á þeirri kopíu stóð skrifað: „Hvad kiemur til að ytra Raudamelskirkia stendur, sem þo er a moti þessu Brefi? Johann Bucholtt var skeinkt lest fiska. NB. þad er sannast, ad ytra Raudamelskikia var þa ei talin med soknarkirkium." — Utanmáls ritar síra Jón: „Þad jnnsiglada Bref lä a Jngialldshole hia syslumannenum Marteine Erasmussyne". — Í JS. 143, 4to., bls. 318, skr. ca. 1600, er færðr inn kaflinn um Krossholt.

[Stifftunar Bref Paals Stijgssonar vmm kirkiur. j Þörnessþinge.[1])

Vier Päll Stijgsson kongligrar Maiestetz befalningsmann yffer allt Jsland og Gijsle Jönsson Superintendens üti Skalhollts stikte heilsum ydur øllum. sem biggia og büa. og erud üti Snæfellsnessyslu. kunnigt giørande ad um kyrkiur og sökner høffum vier saker naudsinia. med dändimanna räde. sem ad eru herra Marteirn Einarsson. Sijra Lofftur Narfason. Sijra Olafur Sveinsson. Jön Halldorsson. Brandur Einarsson. Arne Oddsson. svo fellda skipan og skickan giørt. sem hier greiner. innan sagdrar sislu.

ad ä Breidabölstad ä Skögastrond skal vera alkyrkia. [og þeirre[2]) sökn til liggia[3]) Hölatun.[4]) Laxärdalur. Borg.[5]) Leite. Billduhöll. Vørdufell. Backe. Valshamar. Drängar. Häls. Enn hinar samt til Eyrar. og Ulbansfell.[6]) skal eirn prestur hafa þessar bädar kyrkiur.

1) [Þ; Høfudzmannsinns Päls Stijgssonar Bref um kyrkiu Skickaner j Snæfells Syslu. Anno 1563. 101. 2) þesse Þ. 3) [sl. 101. 4) = Hólmlátur, sem og stendr í 101. 5) Borger Þ, 101. 6) Ulfarsfell Þ, 101.

Og at þïngasokn um Eyrasveit skal liggia til Setbergs. og skal ï Krossnese vera halfkyrkia sem ädur hefur vered.

Jtem ad Frödä millum Høffda og Ennis skal vera alkyrkia og þar til liggia Mäffuahlid og þeir bæer sem under Mäffuahlid leiged haffa. Svo og skal til Frödär kyrkiu gialldast tiunder og tollar sem ädur hafa golldist til Mäffuahlidar halfkyrkiu. þvï hun skal med ollu aff leggiast. Enn Jngialldsholskyrkia skal vera samt sem hün hefur vered med allre sinne rentu. og þar til liggia Saxahöll og Aundverdanes.

Jtem skal ï Löne upp biggiast söknarkyrkia. og under liggia þesser bæer. Hölar. Gardar. og Berevïk og Dritvïk. med tollum og tïundum. Svo skulu og aller büdarmenn og utrödrarmenn ï Dritvïk og Löne giefa til kyrkiunnar upphelldis ärlega eirn fisk hvør madur. og greida þeim þä sem kyrkiuna helldur. Enn eff nockrer vilia þriöskast. og ecki greida þennann fisk ärlega. þä skal kongligrar Maiestetz vmbodsmadur makt til hafa. ad taka af þeirra hlut eirn fisk kyrkiunnar vegna.

Jtem skal ä Laugarbrecku vera söknarkyrkia. med þessum bæium til løgdum. Døgurdarä. Midveller. Auxnakiellda. Breckubær. Vætekrar og Arnarstape med tollum og tiundum.

Til Hnarrar kyrkiu skal liggia øll Breidavijk. ut ad Sleggiubeinu. Enn ï Hraunhøfn bænhus.

Gaular kyrkia og Hofstada kyrkia skulu vera samt med allre sinne rentu. sem til forna.

Miklahollts kyrkia skal vera sem til forna. og þar til liggia sokn og renta frä Holslande og Humlhollte. Raudkollsstødum. Hrusshollte. Saudulshollte. Haffiardarej og Hausthusum.

aff Haffiardarejar kyrkiu skal biggiast kyrkia ï Hrosshollte. til þess ad presturenn meige hvïlast þar tveim nöttum saman. þä hann fremur sïna þiönustu firer fölkinu. þegar naudsyn til dregur.

Raudamels kyrkia skal [med øllu[1]) aff [leggiast.[2])

1) [sl. *þ*. 2) [*þ*; sl. *a*. — 101 sleppir þessari grein um Rauðamelskirkju.

Jtem skal Kolbeinstada kyrkia standa. med allre sinne rentu. og til liggia Kolvidarnes. Hrossholtt. Þverä. Dalsminne. Akurhollt. Gerdaberg. ytre Raudamelur.

A[1]) Krosshölltt skal kyrkia[2]) biggiast og ecki þö stör. og sökn til liggia frä Jørva. Brüarhraune.[3]) Einhollt. litle Kalfalækur og Skiphilur.

Enn halfkyrkiann ä Raudamel enum sydra skal med øllu aff leggiast.

Hier med[4]) meige þier vita ad rietta ydur effter. þvï vier vilium þetta svo läta halldast sem ädur er skïrt. Enn hvør annars eda hier ï möte giører. þä sie hann sekur. og svare fiörum mørkum sem ï[5]) dömroff.

Og til sannenda hier um setium vier ädur nefnder menn vor jnnsigle firer þetta breff. hvørt ed skrifad var heima ä Bessastødum þann 27 dag [Septembris Anno domini 1563.[6])

Jeg Martin Erasmusson kiendis med thenne mijn egenn handskrifft. at jeg hafver seett þad breff jndsiglad ä Arnerstappa. som liuder ord fra ord. som hier for offuen stender skriffuad. thil vitnisburder hier um trycker jeg mit signette neden for thette breff. Skriffuad ä Jngelshole. den 22 dag Martius. aar effter Guds byrd 1588.

Þad medkiennest eg Jon p[restur] Jonsson. ad jeg heffe sied og yfferlesed þvïlïkt breff svo hliodande ord effter ord. sem hier fyr skrifad stendur. um kyrkna skickaner. og ad vera jnsiglad med høffudsmannsins og biskupsins jnsiglum. med fleirum annarra þeirra jnnsiglum sem ï þessu breffe standa. Og til sannenda hier um þricke eg mitt zigneth nedan firer þessa mina handskrifft. Skrifad ä Þæfesteine 22 dag Martius Anno domini 1588.

Medkiennest eg Brandur Einarsson. ad eg var med ødrum dandemønnum til kalladur af þeim heidurs-herra og hoffudsmanne Päle Stïgssine (nü ï Gude sofn-

1) Ad *þ*. 2) upp b. v. *þ*. 3) bru hraune *þ*(!). 4) sl. *þ*. 5) fyrer *þ*. 6) [10bris 1565, *þ*(!).

udum) þä hann med allra vor räde og samþicke og effter forlage og samþycke biskupsins herra Gijsla Jönssonar. giorde og stadfeste slika skickun. sem þetta þeirra breff jnne helldur. i krïngum Snæfellsnes. iffer øllum kyrkium og büendum. ï øllu firgreindu takmarke. Og til sanns vitnisburdar hier um þricke eg minu Signete hier under. skriffad ad Hiardarhollte i Laxärdal þann 3 dag paska[1]) Anno Christi. 1588.

Þessa framan skriffada skickun Pals Stïgssonar og herra Gijsla Jönsonar. um kyrkiur ï Snæfellsnessyslu. høffum vier underskriffader sied og iffer lesed ä pappïr vpp skrifada. hvørre med filgdu vitnisburder Martins Erasmussonar og Jons prests Jonsonar. med äþricktum undersettum zignetum. hvørier ad medkienna sig sied haffa. sohlödande innsiglad breff ord firer ord. effter sem hier firer offan um gietur. hier med filgde eirnenn medkienning Brands Einarssonar um hans vidurvist. nær þesse firsogd høffudsmansens og biskupsins skickun framm fared haffe. effter sem næst firer farande lïnur til vïsa. Allt þetta framanskrifad var ord firer ord hliödande eins og þad hier firer framann upp skriffad finst. Og til sannenda merkes þar um. underskrifum vier sem saman läsum vor nøffn hier ad nedan. ä Stadastad d. 12 Decembris Anno 1694.

Jon Palsson m e h. Jon Arason med Eh. GvdBrandur Gvdmvnsson m e h.

---

131. 27. september 1563. á Bessastöðum.

JARÐASKIPTABRÉF hirðstjóra fyrir hönd konungs við Skálholtsstól.

AM. Apogr. 2646 eftir frumritinu á pappír. — AM. 238, 4to., bls. 33—5, m. h. Hákonar Ormssonar. — Prentað í Safni til sögu Íslands I, bls. 131—2.

Jeg Pall Stigsson kong. majest. bifalningsmann yfer

---

1) þ. e. 9. apr.

Jssland giøre ollum viturligt med þetta mitt opna bref. ad efter kong. Majest. mins nadugasta herra bode og bijfalningu sem hans nadar opid innsiglad bref bijvissar. hefe eg giort sodan makaskipte vid heidarligan mann herra Gijssla Jonsson Superintendent yfer Skalhollt Stigte þessum fromum monnum hia verundum. Sira Jone Biarnassyni. Sira Lopte Narfasyni. Orme bonda Jonssyni og Gissla bonda Sveinssyni. a þessum efterskrifudum krununnar og domkirkiunnar jordum. ad under minn nädugasta herra og Krununa skulu þessar jarder liggia til eignar oc aftekta hveriar jarder ad liggia j Gullbringu Sysslu. og so heita:

Hvalznes med Hualsness hverfi fyrer j$^{c}$ hundrada
Lambastadi fyrer xx$^{c}$.
Gardar fyrer xvj$^{c}$.
Skeggiastadi fyrer x$^{c}$.
Brecku fyrer x$^{c}$.
Varer fyrer xvj$^{c}$.
Meidarstadi fyrer x$^{c}$.
Jwarshus fyrer x$^{c}$.
Kothuss fyrer x$^{c}$.
Gufuskalar fyrer xx$^{c}$.
Holm fyrer l$^{c}$.
Niardvik fyrer xx$^{c}$.
Halt Hvassahraun fyrer x$^{c}$.
Ofridastader fyrer x$^{c}$.
Auridakot fyrer viij$^{c}$.
Helliskot fyrer viij$^{c}$.
Halt Helgafell fyrer viij$^{c}$.
Þerney fyrer lx$^{c}$.

Og Kopavog til yfersiönar og byggingar. enn landskylld fære sem adur hefur vered. Voru med ollum þessum fyr skrifudum jordum .lvij. kugillde er domkirkiunne hafde tilheyrt.

Hier j mot hefe eg skickad oc tillagt Domkirkiunne j Skalhollte þessar Krununnar og Videyar klaustursjarder liggiande j Borgarfirde og ä Hvalfiardarstrønd og so heita:

Uppsaler fyrer .xxiiijc.
Burfell fyrer .xxiiijc.
Raudzgil fyrer .xxiiijc.
Ulfstader fyrer .xxc.
Klepiarns Reyker fyrer .xijc.
Halt Hurdarbak fyrer .xijc.
Litle Kroppur fyrer .xxc.
Hegstade fyrer .xlc.
Hvitarvelle fyrer .xlc.
Brenna fyrer .viijc.
Brautartunga fyrer .xvjc.
Holl fyrer .xxiiijc.
Snartastade fyrer .xvjc.
Brecka fyrer .xlc.
Hest fyrer .lxc.
Hals fyrer .xvjc.
Galltarhollt fyrer .xijc. og
Hrissakot fyrer .viijc.

med so morgum kugilldum sem med hinum jordunum voru og adur er skrifad. Hier til lagda eg Vælugierdi liggianda j Floa ä AAssum. Skulu þesse adurskrifud jardaskipte Krununnar og Domkirkiunnar obrigduliga standa hiedan j fra. Og til meire audsyningar og stadfestu hier um þrycke eg mitt Signet ä þetta jarda Skiptisbref med herra Gisslla og adur nefndra manna jnnsiglum. skrifad a Kong. Majest. gard Bessastaudum a Kongs nessi þann 27. dag Septembris Anno Domini 1563.

Framan og ofanskrifad er riett Copierad epter Originalnum sem er a pappir. med äþrycktum jnnsiglum høfudzmannsens Päls Stigssonar. herra Gisla Jonssonar. Sira Jons Biarnasonar. Sira Lopts Narfasonar og Orms Jonssonar. Enn Gisla Sveinssonar jnnsigle hefur þar alldrei under komid. Til sannenda merkis setium vier vor nøfn og Signet hier under j Skalhollte þann 14. Martij Anno Christi 1710

Jon Halldorsson profastur i Þverärþinge fyrer vestan Hvijtä og soknarprestur til Hijtärdalz kyrkiu.
Arngrimur Biarnason radzmadur i Skalhollti.

Vigfus Johannsson heyrare j Skälholltz Skola.
Þördur Þördarson.

---

132. 27. september 1563. á Bessastöðum.

HIRÐSTJÓRI leggr niðr sóknarkirkju í Krýsivík eftir beiðni Gísla byskups Jónssonar og með ráði þeirra manna, er getr í bréfinu.

Bps. Skalh. VII, 1, frumritað transscriptum á skinni. Af 4 innsiglum eru 3 fyrir bréfinu. Þar með liggr nákvæm uppskrift Pálma yfirkennara Pálssonar (d. 1920). — AM. Apogr. 2586.

Brief vm Krysevijk.

Þad medkiennünnst Eg Pall Stijgsson kongleg Maiestatis Bifalningzmann yfer allt Jsland. Ad aa Bessastaudum vm hausted manudagenn næstann fyrer Michaelsmessu. kom fyrer mig herra Gijsle Jonsson Superintendens Skalhollttz Sticktis. Spurde mig raada og tillagna huer naudsyn mier þætte aa þeirre kirckiu sem halden hafe vered j Krysevijk. Þui tok eg med mier þessa heidurs danimenn Jon Biarnarson. Loptt Narfasson og Jon Loptsson prestmenn. Jtem Orm Bonda Jonsson. Gijsla Sueinsson og Niels skrifara Olafsson. Þötte mier med þessum fyrrnefndum danimonnum. j fyrstu eingen þaurf eda naudsyn til vera edur vered hafa ad j þessare nefndre Krysevijk alkirkia være. þui þad ma einginn soknarkirckia kallazt sem eingenn samkünda til liggur. Þui leizt oss süo best fara og sannliga stadfestum ad þesse Krysevijkarkirkia aflegdezt enn læge til Strandar kirkiu j Selvoge til kirckiu soknar sæde Krysevijk og þad køt þar hia er. Suo og gylde til Strandar kirckiu bæde tolla og tijunder og alla adra rentu suo sem adrer almenningzbæer skyllduger eru sijnum soknarkirckium ad veita. Enn vmbodzmenn domkirkiunnar j Skalholltte skyllde Krysevijk byggia til fulls landgilldis og afteckta Skalholltz domkirckiu vegna. Suo og lijka Herdijsarvijk og annad þad fleijra sem þessum Krysevijkar stad hefur fylgtt. Enn sokum þess ad þesse optnefnd Kryse-

vijk liggur nockud j fiarska ad vegaleingd til Strandar kirckiu þa þotte oss vel fara þo j Krysevijk stæde lijted hüskorn Gudz vegna og þess heimilis folks sem þar kann ad vera siuktt eda gamalltt: Og herra Gijsle skyllde nockur kugillde til leggia suo ad Gudz ordz þienare mætte þar huild nætur saker hafa þa hann þar kiæme eda þyrftte þar ad koma Gudligrar hiardar ad vitia. Skyllde þetta vortt alit og giørningur obrygdanliga standa hier epter. Samþycktte þennan vorn giørning herra Gijsle Jonsson. Og til stadfestingar hier vm þryckium vier aller fyrrnefnder menn vor jnnsigle aa þetta bref. Skrifat aa Bessastaudum þann sama dag sem fyrr seiger. Arüm epter Güdz burd. M. D. lxiij.

Suo felldann vitnisbürd berüm vier epterskrifader menn Sera Jon Biarnnarson. sera Gijsle Þormodsson. Skule Jonsson og Halldor Jonsson ad vier høfum sied og yfer lesed suo latande brief ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifat stendur ofan a pappijr oc vnder þrycktum atta Signetum. Og til sannenda hier vmm festum vier fyrrnefnder menn vor jnnsigle fyrir nedan þetta transskriftarbrief. Skrifad j Skalhollte þann xi dag Decembris Ar. mdcxj.

---

133. 29. september 1563. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR segir slitið samningi í milli sín og þeirra Löjtz-frænda, er gerður var 28. júní 1561, um brennistein, en birtir nú nýjan samning við sömu menn, þess efnis að þeir lána hnoum 60000 dali í silfri til þriggja ára og ganga í félag með honum um brennistein frá Íslandi í sjö ár.

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönland, 38 b, frumrit á skinni, og er innsigli konungs og 8 önnur innsigli fyrir bréfinu. (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to.). — Ágrip á dönsku er pentað í MKet. II. bls. 26—8.

Wir Friderich der Annder vonn Gottes gnadenn zu Dennemarckenn. Norwegenn. der Wenndenn vnnd Gott-

en Køning. Hertzog zu Schleszwig. Holstein. Stormarn. vnnd der Dietmarschenn. Graffe zw Oldennburg vnnd Delmenhorst. Thun kundt hiemit. Nachdeme sich zwischenn vnns vnnd denn Ernuesstenn vnnsern liebenn Besonndern Steffann vnnd denn Anndern Loitzenn. gebruedern. Vettern. vnnd Jren mitverwanndten. Streit vnnd Missuerstanndt. die Ausfur Schweuels. aus Jslanndt Norwerts etc. betroffenn. Vss vrsachenn voriger dennselbigenn vonn vnns zuegesteltenn begnadung. Im dato. denn Acht und zweinziggistenn Junij. des Negst verflossenen. Ein und sechtziggistenn Jars erhaltenn. vnnd aber zuuerrichtung derselbigten Jetzo gemelter. Steffann Loitz alhir. vf vnnser furdrung erschinnen. Das Wir demnach obgernrter Zwaij spalt. vnnd Irruns halber. mit demselbigen. durch etliche vnnsere Rathe. Hanndlung vorzunemen. vnnd zu letzt dieselbige. mit guettem wissen vnnd Willen. vnnserer vornemen Reichs Retthe souile deren Jetzo gegenwertis etc. auch gemelts Steffann Loitzenn vor Jnnen selbst. vnnd obgedachtenn. seine Bruedere. Vettern. vnnd Mituerwanndten. jnn Chrafft dauen erlangtenn beuelchs etc. vf volgennde masse vnnd mittel. zuschliessenn vnnd zuuoln ziehenn. beuelhenn. Zum anfang soll die obberurte vorige begnadung. jnn auch obgesatztem Dato. genntzlich hiemit aufgehabenn. Crafftloss. vnnd vernichtigt sein vnnd dieselb vnns Kønnig Friderichenn oder vnnserm Beuelch haber. gegen vberanntworttung vnnd Annembung. diser vorschreibung vonn den Loitzenn jn originali vngesaumbt gefolgt vnnd zuegestelt werdenn.

Darnach sollenn vnnd Wollen vnns gemelte Loitzenn. zeit solcher annemung. vnnd Uberreichung. Sechtzigk Tausenndt thaller wertt. am feinem Silber vnnd Tallern. doch das souil. als an Silber geliffert. Jede Marck Lottig Colnischenn gewichts. dauon Funffzehenn Lott. vnnd drey Quintlein fein Silber haltte. die Marck auch nicht hoher halte. Als Neun taller. vnnd einen halbenn. gerechnet vnnd Angeschlagenn werde. zu Stettin Liffern. vnnd zuewegenn lassenn. Welche Suma wir drey Jar

lanng. dat Ersste Jar. nach dato dits brieffs ann zurechnen. zu vnnserm bestenn. doch das wir dafur zuuor ehe solches enndtfhangenn gennigsamen furstanndt. durch Ehrn Johann Haimarch. denn Statthaltern. vnnd Moritz. Alle-Ranntzauen. oder anndere jnn Holstein. vnnd jm heilligenn Reiche gesessenne beglaubte Personnen. Leistennn. vnnd Jerlich dauen. vor Jedes hundert thaller. Sechs taller zu Rennthe erlegenn lassenn. vmbgefordert behaltenn. vnnd gebrauchenn mugen. Nach aussgangk aber. der Negst bestimbtenn dreyenn Jar. als Nemblich. auf denn tag Michaelis wann man schreibenn wirt. Funfftzehennhundert Sechs vnnd Sechtzigk etc. Soll die obbestimbte Suma. mit Sechtzig Tausenndt ganngbarer guetter thaller. nebenn obbestimbten Jrenn hindterstelligenn Renndtenn widderumb auch zw Lubegk. one Allenn hindern vnnd schadenn erlegt. vnnd betzalt werdenn. Hinwider So habenn Wir Kønnig Friderich etc. auss sonndern gnadenn. So wir zw gemeltenn Loitzen tragenn. Eine geselschafft. mit denn selbigenn. Sambt vnnd besonndern. Sibenn Jar lanng. das Ersste vonn denn Negstenn Ostern. des volgennden vier und sechtziggistenn Jars ann Zerechnen. geschlossenn vnnd aufgericht. Thun auch solches hiemit Chrafft dits briefs. also das wir Friderich Konnig etc. Sollenn vnnd Wellenn die negst bestimbtenn Jar vber. Schweuell. souil mit Zweien guettenn[1]) schiffenn auss zubringenn. Auss Jsslanndt Nortwertts vff vnnser darlage anchers zuhollenn. Vnnd Souil zugeschehenn Leuttern zlassenn verordnen. Vnnd dann souill geleuttert wirdt. der Loitzenn dar zue verordnetenn. Jegenn geburliche Recognition zuwegenn. vnnd liffern lassenn. Welche dann Solchenn enndtpfanngenenn geleuttertenn Schweuel. vonn hierab. auf vnnser vnnd Jrer der Loitzenn. gleiche gefhar. fracht. furlon. vnnd Allenn Anndern. Notwehndigenn Vncosstenn. fernner an die Ortte. da vermeindt. das der Schweuel am Nutzlichistenn ver-

1) Verðr víst að lesa svo, þótt fyrsti stafrinn líkist mest s-i.

kaufft. Schiffenn vnnd verschickenn. vnnd dann zwgemeinem Vnnserm. vnnd Jrem muz. vnnd bestenn. getreulich ist. So sie konnenn Distrahiren. vnnd verkauffenn. Dauon auch Jedes Jar vnngeuerlich vmb Mituastenn vfrichtige Rechnung Alhier thun sollenn. Vonn dem dann was vonn Solchem verkaufftem geleuttertenn Schweuel eingelest uirdt. Zeit der Rechnung. alssbaldt aller kosstenn. schadenn. vnnd dar lage. So wir Konnig Friderich etc. vf die vs fur Waschunng. Leutterung. fracht vnnd Anndere notdurfft desselbigenn Schweuels gewanndt. doch zur billichkait anngeschlagenn. (Jnn dem dann. was denn Schweuel selbst. auch Thran. sozur Leutterung gebraucht. vnnd jnn Jsslanndt gekaufft wordenn betrifft. die selbig nit hoher. als sie betzallet. zw Rechnung gebracht. jnn anndere Weege aber. auch zur billigkeit anngeschlagen werden sollenn) vors Ersst abgezogenn. vnnd vnns Friderich etc. zukommen. jnn gleichem dann. mit dem. was die Loitzenn. an fracht. furlon. oder sonnst. Annderer Notdurfft derselbigenn gesellschafft vorstreckt. auch beschehenn solle. Vnnd darnach das vbrige. jnn zway thaill. vonn einannder gesatzet vnnd der ein taille. vnns Køning Friderich etc. der Annder thaill aber denn Loitzenn etc. volgenn vnnd gelassen werdenn soll. Doch was an Schuldenn jn solch erkaufftem Schweuel nachstenndig. die nit genutzlich eingebracht. vnnd auch an vnuerkaufftem Schweuel. beim beschluss Jeglicher Rechnung nachgebliben sollenn aussgesatzt vnnd vonn denn Loitzenn bey der Anndern negstenn konfftig eingebracht. Vnnd baiderseits in dem Allem. kein vnnderschleiff oder geuerde gebraucht werdenn. Innsonnderheit Sollenn vnnd wellenn die Loitzenn. sich in diser gannzen geselschafft. Also gegen vnns Kønnig Friderich etc. haltenn. das Wir Jrenn vnnd thenigen trewen willenn. Jm Werck zubefinden. Sonnst auch jn allem vnnser vnnd der Reiche besstes wissenn. Schadenn. vnnd Nachteil hochstes vermugens abwheren etc. Dargegenn Wir sie. Als die Vnnsern auch geburlich schutzenn. vnnd vertrettenn willen. Der vonn

denn Loitzenn vorm dato diez gemachten Schweuel schuldt. jn Jslanndt halber. jst auch bedingt. das die selbigenn an Schweuel eingefordert. vnnd derselbig Schweuel. jnn die geselschafft. wie obgesetzt. mit gebraht. vnnd Jnnen dem Loitzenn. wie Anndere obgedachte. Kostenn. in der Rechnung vorabgezogenn. vnnd betzalt werdenn soll. Vnnd nach ausganng. obbestimbter Sibenn Jar. soll die gesellschafft mit denn Loitzenn erloschen sein. Vnnd Jr enndte haben. Zum Beschluss habenn die Loitzenn auch versprochenn. vnnd thun solches hiemit. das sie souil Schweuels. als wir denn selbigenn vonn dem. So yetzo. oder kunfftig. vor der gesellschafft. auch geleittert wirdt. liffern lassenn. Annemen. Vnnd Vnns zum besstenn jn dem kauff. wie sie Jren eigenen ohne geuerde verhanndlen. auch verkauffenn wellenn. Zw dessenn dienssts erstattung wir dann dennselbigenn vonn Jeder Thonnen oder drey Koppenhagischenn Cenntnern Schweuels etc. souil sie dauon verkauffenn. zwenn taller wellenn zallenn. vnnd enndtrichtenn lassenn. Vnnd soll diser Letzte Punct. der gesellschafft mit annhenngig sein.

Hiemit dann voriger missuerstanndt baiderseitts genntzlich getodett hingelegt unnd vernichtigt sein. vnnd bleibenn. Vnns auch oder gemelten Loitzenn. etc. voriger begnadung halb kein vorderung. zuspruch. oder gerechtigkait. einem saill. gegenn denn Anndern vbrig. oder vorbehaltenn. Sonndern Alles ganntz vnnd gar niddergelegt. vnnd erloschenn sein soll. Zw dessenn mehrer erklerung dann. denn Loitzen auch. der Schweuel. so biss daheer jm Arrest. zw Hamborg. vonn vnns anngehaltenn. erledigt. vnnd zum besstenn gefolgt werdenn soll. Welches alles vnnd Jedes. Souil vnns dessenn betrifft. gelobenn Wir Koning Friderich etc. vor vnns vnnser Erbenn vnnd Nachkommen. bey guettem glaubenn. aufrichtig vnnd woll zuhaltenn sinnd. Jch Steffann Loitz. gelobe vor mich. meine Bruedere. Veltere. vnnd mitverwanndten. Crafft habennden gewaldts. was vnns sambt oder besonnders. Auss obgemelten Auch betrifft. ge-

treulich vnnd woll zuhaltenn. bey vnnsern Ehren vnnd guetten glauben. ohne geuerde. Zw merer Vrkundt: seinndt diser Brief Zwenn eines Lautts aufgericht vnnd mit vnnser Køning Friderichs etc. Auch gemelts Steffann Loitzenn. desselbigenn Bruedern. Hannsen Loitzen. vor sich vnnd voller macht. der abwesennden Bruedern. vnnd vettern etc. der Anndern Loitzenn eigenen hennden vnnderschribenn. Vnnd mit vnnser Aller. auch Nebenn Vnns Køning Friderichs etc. vnnserer Reichs Rethe. So jetzo zw gegen warenn. der Gestrenngen vnnd Ernuessten. Ehrn Johann Friess auff Hesselager. Cantzler. Ehrn Manngus[1]) Guldenstern auf Sternholm. Ritter. Byrgy Throlle auf Lilliæ. Petter Bilde. auf Schwannholm. Herloff Troll auf Herloffsholm. vnnd Franntz Brockennhausenn vff Branngstrup Secreț vnnd jnnsigln beuessigt.

Actum Koppennhagen am tag Michahellis. denn Neun vnnd zweintziggistenn Septembris. der Mindern Zall. Im dreyundsechtziggistenn Jare.

Friderich. Hans Loytz der elter.

---

134. 6. október 1563. á Steinum.

KAUPBRÉF fyrir 10 hundr. i Ey i Mýrdal.

AM. Apogr. 4740 „Ex orig. Hlidarend. Innsiglen er[u] øll fra brefenu nema eitt ölæselegt, sem synest ad vera Þorsteins Þoroddzsonar". (AM.).

Þath giorum vier Vigfus Jonsson. Þorsteinn Þoroddsson. Þorlakur Einarsson. Amunde Arnason. Þorarenn Jonsson. godum monnum kunnegt med þessu voru opnu brefi at þa lidit var frä hingatburd vors herra Jesu Christi M d. lx og iij. vi dag Octobris mänadar. ä Steinum vnder Eyafiollum vorum vier hia og saaum og heyrdum a ord og handaband þessara manna Palls Vigfussonar. laugmannz. og Gudmundar Þorsteinssonar. at

---

1) Svo.

greindur Gudmundur feck og selldi adur greindum Pali laugmanni x. hundrud j jordunne Ey j Myrdal. er liggur j Sölheima kirkiu sokn. til æfinligrar Eignar og frials for[r]ædis. vndann sier og sinum Erfingium. enn vnder adur greindann Pal og hanns erfingia. med rekum og skögum og aullu þuj hann vard eigande Bæde til sios og landz. Hier j mot gaf adur greindur laugmann .v. kyr gilldar. iij. asaudar kugilldi .c. j kauplum .c. j smiorum .c j vadmalum og smiore .c. j katle og strocki. medkiendist greindur Gudmundur at hann hefde fulla peninga Borit upp fyrir þenna jardar part. so sier vel ahnægde.[1]) þuj gaf hann aadur greindann Pal laugmann aullungis kuittann og akiærulausann fyrer sier og sinum erfingium vm greindt jardarverd. Og til sannenda hier vm festum vier vor jnsigle fyrer þetta jardarkaupsbref og kuittanarbref. Skrifat j sama stad deigi og are sem fyr seigiʀ.

---

**135.** **7. október 1563.** **í Skriðu.**

JARÐASKIPTABRÉF, og er skipt hálfu Svínavatni og hálfum Kárastöðum við Dálksstöðum.

AM. 253, 4to., bls. 107—9, bréfabók síra Sveins Símonarsonar ca. 1600—1625. — Nýleg uppskrift í þjóðskjalasafni, komin frá Svínavatni 1906 (= *b*).

Kaup Breff
fyrir Svijnavatni. Kärastødum og Tungunese.

Kiennest eg Þorarinn Philippusson og giore kunnugt øllum og einum sierhuerium sem þetta Bref sia edur heyra lesed. sakir minnar betri nytsemdar. vel forþeinkttur vid rädna vmrädgan. jayrdi og fullnadar samþycki minna frænda. sealfkrafa. frelsis viliugur. viela og vndirhyggiulaust hefe med handsolum sellt og afhendt. og nu j kraptti þessa nærveranda Brefs. sel og afhendi heidurlegum manni mijnum modurbrodur Pali

1) Svo.

Jonssyne jordina halfa er heitir Svijnavatn aa Äsum fyrir xlc. og halfa jordina Tungunes. er liggur j Svijnavatns kirkiusokn fyrir xc. med ollum þeim hlutum og hlunnendum. votnum og veidestødum. vthøgum og afriettum. taudum og eingium. husum og hybylum. gøgnum og giædum er [greindri jordu[1]) fylger[2]) og fylgt hefur ad fornu og nyu og aullu fiemætu sem finnast kynne j iordu og ä. og einginn finst eigandi ad aullu til enn onguo fra skildu hueriu nafni heiter eda nefnast kann og ec var fremst eigandi ad j arf epttir fodur minn Philippum Þorarinsson. vndann mier og mijnum erfingium. enn vndir Päl Jonsson og hans erfingia. Er ä Svijnavatne alkirkiu skyld. fylger henne ein jord. su er Kaarastadir heiter.[3]) stendur hun til lausnar fyrir xvjc. Eru þesse landamerki ä Svijnavatne. fyrir nordann Svijnavatnsbæ rædur Gardur sa þar gengur vpp vr vatninu. ä millum Solheima og Svijnavatns Bæiar og þadann riettsyne[4]) austur ä midiann Asahals og vestur j midt Svijnavatn. Enn fyrir sunnann rædur Jlla kiellda j reidgotuna sudur med Mulanum og suo j Gard þann sem gengur fyrir sunnan Svarthamar. Rædur þa fyrir nordan affall þad sem gengur[5]) vr Bløndu vpp i Gard þann sem geingur fyrir sunnan Tungunes. A Tungunes allann Hestavijga[6]) holma og halfan Blending og halfan Laxastreing. Eru þessi jtok sem Svijnavatn a j annara manna lønd Gielldfiarrekstur allann ä Saudadal. selfor fram ä Sliettardal og elldivid sem þarfar.[7]) Manadarteig j Storadalsjord.[8]) Dalur ä fiarrekstur j Mulann vpp a mänud ä veturinn j stadinn. ønguar jtølur fleiri eiga adrar jarder j Svijnavatnsiørd. og eckj helldur j Tungunes. Hier j mot selldj gallt og afhentti vnder hinu fyrra skilyrdi adurgreindur Paull Jonsson mier jordina alla Dalckstadi er liggur ä Svalbardz strønd fyrir xlc. allt eptter þvi sem hans Bref þar vm giørt og mier vtgefid äuijsar og þar til xc j[9])

1) [greindum jørdum *b*. 2) fylgia *b*. 3) heita *b*. 4) -sýnis. *b*. 5) upp, b. v. *b*. 6) Hestavigs *b*. 7) þarf *b*. 8) -jørdu *b*. 9) b. v. *b*.

øllum peningum og ad þeim xcum greiddum Gef og giøre ec greindur Þorarinn Philippusson fyrrsagdan Päl Jonsson hans erfingia og eptterkomendur. kuitta. vidskilda og alþingis [1]) akiærulausa fyrir mier mijnum erfingium og eptterkomendum j þann mäta ad huorcki eg. mijnir erfingiar nie[2]) epttirkomendur skulu optnefndann Päl Jonsson hans erfingia nie eptterkomendur omaka yfa nie äsaka. til þinga nie mannfunda vm sama iardarverd. Enn suo opt þad skiedur. þa skal sama äsokun daud og mackttarlaus suo ad einginn yfirdomare skal þar neina mackt ä moti þessu Brefi og giorningi hafa til ad seigia. dæma eda vrskurda. Enn þo nockur kunni suo favijs ad vera ad hier j mot dirfist ad segia dæma eda vrskurda. þa lyse eg fyrir[3]) sem eptter og eptter sem fyrir[3]) somu doma eda vrskurdi onyta. berliga[4]) ranga og ä möte løgum giørda. Enn þo mic eda þa þess hafa vnder stadid skyllduga strax än allra motmæla apttur ad leggia greindum Pali eda þeim socktter kunna verda kostnad halfu aukinn sem þeim er til rangs mäls verda yfder. hier ä mot skal mier og ongum hialpa nockur setningur. løg. riettarbætur nie priuilegium frelse nie vtdrattur þess eg vil mic hier med og afneitad hafa og afneita mier fyrr[sagdra ij halflendna[5]) hier eptter sem þær hefdi aldrei mijnar verid. Enn tilseige þrättsogdum Päle suo sem hefdi hann þær erftt og ätt ad vpphafe. Enn kunne þad suo[6]) skie sem Gud forbiode ad somu halflendur ønnur eda bädar gangi af med løgum þa skal nefndur Pall eda hans erfingiar eiga strax apttur gang ohindradann afhendingarlaust ad Dalkstodum. og ef nockrer vilia fyrir standa sieu slijku seker sem þeir er standa fyrir dæmdum arfi. Skal þetta allt stadt[7]) stødugt og [æfinlega obrigdult.[8]) Hefi ec vpp a tru og æru vti eidstad lofad ad halldast skuli vm alldur og æfi. voru vitnismenn ad øllum fyrrskrifudum giørningi. vottordum og vidløg-

1) altingis *b*. 2) b. v. *b*. 3) fyrri *b*. 4) bréflega(!) *b*. 5) [sagdar 2 halflendur b. 6) ad, b. v. *b*. 7) *b*; stads *a*. 8) [óbrygdilegt æfinlega *b*.

um heidarligir Sigfus Gudmundsson. Einar Sigurdsson prestar. Jon Magnusson minn modurfader. Magnus Jonsson minn modurbroder Jon Tindzson huerier vndirskrifudu [og jnsigludu[1]) med mier sama bref huert giørt og skrifad var j Skriduhuerfi j Skridu hinn vij dag vtj October manudi ärum eptter Gudz burd M. D. lxiij.

Þorarinn Filippusson. Sigfus Gudmundsson.
Einar Sigurdsson. Jon Magnusson.
Magnus Jonsson.

[Þetta hér ad framan og ofan skrifad bréf ad vera rétt og rigtuglega coperad eptir originalnum, hver a pergamenti skrifadur var med fimm oskertum hangandi Innsiglum testera undir skrifadir er saman lausu ad Bessastødum d. 15. Jan. Anno 1691.
Olafur Pétursson. Magnús Vigfússon m. e. h.[2])

---

**136.** 8. október 1563. **í Skriðu.**

MAGNÚS sýslumaðr Jónsson vitnar, að skipt hafi hálfu Svínavatni og hálfu Tungunesi fyrir Yztu-Vík og milligjöf.

Uppskrift Dr. Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar (gerð ca. 1893) eftir sjálfu frumritinu á skinni, m. h. Magnúsar sjálfs, og var það þá í vörzlum Dr. Jóns, hvar sem það er nú niðr komið; var þá innsiglið dottið frá. Þessi uppskrift er nú lögð með Svínavatnsskjölum. — AM. 253, 4to., bls. 109—10, bréfabók síra Sveins Símonarsonar ca. 1600—25. — Nýleg uppskrift í þjóðskjalasafni, komin frá Svínavatni 1906 (= *b*).

Bref fyrer halfu Svijnavatni.

Þad giøre eg Magnus Jonsson godum monnum kunnugt ad eg med kiennist med[3]) þessu mijnu opnu briefi ad jeg hefi sellt j vmbodi Pieturs Philuppussonar med hans jaayrdi og samþycki þan[n] tijma ec hafdi hans vmbod med handsolum jordina halfa Suinavatn firir

---

1) [sl. *b*. 2) [*b*. Sjá önnur fleiri vottorð aftan við bréf 8. okt. 1563. 3) *i*, *b*.

xlc. og halft Tungunes fyrir tiu hundrut[1]) Pali brodur mijnum. Hier j mot gallt og gaf Pall Jonsson iordina alla yste[2]) Vijk fyrir xxxc. liggur greind jord j Laufásþingum og þar til xxc j iordum. vndirbatt Pietur sig med handsolum ad greida nefndum Pale þessi handsol nær eda huar hann yrdi af honum þar vm[3]) til krafdur. Samþycktti Jon Magnusson fader minn allann fyrrskrifadan giorning. Lysti Pall Jonsson [þessu kaupi[4]) aa næsta[5]) Helgastada [þingi morgum godum monnum hiaverandi.[6]) Og til sanninda hier vm heingi eg mitt jnsigli nedan fyrir þetta bref hvort skrifad var j Skridu j Skriduhuerfi hinn attunda dag vti octobermanudi arum epter Gudz burd m. d. lx iij.

Magnus Jonsson.

Ofan skrifad rétt coperad vera eptir originalnum á pergament skrifudum. med hángandi Innsigli, votta undir skrifadir ad Bessastødum dag 15da Januari[j] 1691.

Olafur Pétursson. Magnus Vigfússon m. e. h.

Upplesid fyrir réttinum á Svínavatnsþingi þann 27da Aprilis Anno 1741. Testerar

Bjarni Halldórsson.

Upplesid fyrir manntalsþings rétti á Svínavatni þann 29da Aprilis Anno 1744. Testerar

Grímur Grímsson.

Ad þetta framan og ofan skrifad sie rétt coperad eptir sinum eigin original, vitna ad Svínavatni dag [30da anno[7]) 1766.

Sveinn Pétursson. Egill Thorarinsson.

Ad framan og ofanskrifud afskrift sé aldeilis samhljóða bréfi því sem eptir var skrifad eptir sem lesid vard fyrir rotnunar sakir, vitna

Jón Pétursson prófastur    Sigurdur Árnason hreppstjóri.[8])

1) frumr., xc hin. 2) Istu *b*. 3) sl. *b*. 4) [þessi kaup, frumr. 5) næstu 253. 6) [vantar í b. 7) [Svo. 8) Allar þessar vottanir að eins í *b*, og eiga allar, nema sú fyrsta, jafnframt við bréf 7. okt. 1563.

137. 19. október 1563. í Vatnsfirði.

ÞÓRÐR BJARNASON kvittar síra Jón Þorleifsson, „bróður sinn“, um meðferð peninga og umboð fyrir sína hönd.

AM. Apogr. 4747, m. h. Árna Magnússonar „Ex original. membr. frä Mula i Kollafirdi. innsigled er burt slited.“

Þat giori eg Þordur Biarnason godum monnum kunnigtt med þessu minu opnu brefi at eg hefi kvittan gefit brodur minn Sira Jon Þorleifsson um mina peninga [med]ferd er hann hafdi umbod yfer. kvika og dauda. fasta og lausa. Svo og hefi eg fulla peninga upborid sem mier vel likar og anæger. og þvi giori eg og gef adurgreindan mann olldungis kvittan og akærulausan fyrer mier og ollum minum orfum og eptterkomendum um adurgreinda peninga medferd og mitt umbod hefur matt snertta edur til koma. Og til meiri audsyningar hier um sett[1]) eg mitt insigli fyrir þetta kvittunarbref skrifatt i Vassfirdi i Jsafirdi þan xixda dag Octobris manadar arum efter gudz burd Mc d lx og iij.

---

138. 24. október 1563. á Ökrum.

KAUPMÁLABRÉF Sigurðar Jónssonar og Guðnýjar Jónsdóttur.

AM. Apogr. 205, frumritað transscriptum frá 6. mai 1703 „fra Svalbardi ä Svalbardzstrønd.“ Þar með fylgir uppskrift gerð fyrir Árna Magnússon.

Þad giørum vier Thomas Eijrijksson prestur. Tume Þorgrijmsson. Eiulfur Arngrijmzson. Grijmur Einarsson. Steingrijmur Jonsson. Biarni Jonsson og Þorkiell Olafsson prestur. godum monnum viturligt Arum efftter guds burd M. D. lx og iij är a stærre Økrum j Skagafirde sunnudaginn næstann fyrir Simonsmesso vm veturinn. vorum vier j hia. säum og heirdum ä. ad so felldur kaupmali og gifftingar föru framm millum Sigurdar Jonssonar og Gudnyar Jonsdottur. at greindur

1) Svo.

Sigurdur taldi sier so fellda peninga til kaups vid greinda Gudnyv. halfft annad hundrad hundrada. þessum jørdum til greindum: jordina Sualbard fyrir llc. Tungu fyrir xxc. Breidabolstad fyrir xxc og lxc j lausagotze. Enn hier j möt gaf Jon Grijmsson dottur sinne Gudnyu lxc. var þar til skilinn jørdinn Brecka j Suaruadardal fyrir xlc og þar til xxc j sijlfre og ødrum godum peningum. gaf nefndur Sigurdur adur sagdre Gudnyu fordungsgiof vr firr søgdum peningum med jäirdi og samþicki fødur sijns. sem bref þar vm giort vtuijsadi. skilldi Jon Grijmsson þad til. ad þad skilldi vera xlc vpi jørdina Sualbard. suo og lofadi firrskrifadur Sigurdur med fullnadar handsølum at øll jørdinn Sualbard skilldi vera Eign Gudnyar Jonsdottur ef hun lifdi honum leingur. fyrir sinn mala. skilldi erfingiar Sigurdar þa lausn ä eiga þeim xlc sem hann gaf nefndri Gudnyu j sijna fiordungsgiof ef þeim so lijkadi fyrir xlc jørd þa sem henni edur hennar suarsmanni lijkadi vid ad taka. Enn ef hann lifdi henni leingur. suo ad þau ætti ecki skilgetinn born sijn j milli. þa schilldi þrattschrifadur Sigurdur eignast sialfur offt nefnda jørd Sualbard. enn suara Erfingium offt schrifadrar Gudnyar sinne mala jord. edur annare jafngodre xlc jordu. þa sem þeim vel lijkadi og xxc jordu fyrir þau xxc sem hun hafdi j lausagötze. hier med feste tijttschrifadur Sigurdur Gudnyu Jonsdotter sier til eiginnkonu j greindum stad og deigi effter riettum Bokarinnar ordum. ä þessum sama þeirra brudkaupsdeigi. vorum vier firrschrifader menn Brudkaupsvottar og festingarvottar. ad søgdum giørningi. Og til sanninda hier vm setium vær vor jnnsigli fyrir þetta bref: Skrifad j sama stad Deigi og Äre sem firr seiger.

Þetta ad vera Riktuga Copiu Effter sijnum Original vitna hier vnderskrifader menn. Ad Svalbarde a Svalbardstrønd Anno 1703 þann 6 Maj[i]

Gudmundur Gudmundsson m. e. h.    Arne Olafsson med e. h.

Hallur Oddsson m e h    Þorsteirn Eijrijksson handsal[ad]e.

139. fyrir 26. október 1563.

Testamentisbréf Daða Guðmundssonar í Snóksdal.

Frumrit óinnsiglað í þjóðskjalasafni (áðr í JS. 372, 4to.); þar með liggr og uppskrift m. h. Grunnavíkr-Jóns — Prentað í FJ. Hist. Eccl. Isl. III. bls. 232—43 með latínskri þýðingu og í BB. Sýsl. III. bls. 48—54. Greinatalan stendr í handritinu. — Handritið er auðsjáanlega frumrit. Það sýna klausur þær, sem inn í það eru hér ritaðar m. h. Eggerts Hannessonar um afgreiðslu gjafanna.

Iehsus.

Jn Nomine Domini Amen.

Saker þess ad mansins lifdagar erv med stoddvm endimorkvm og ekkert er visara enn Daudinn. Svo og kemr hann þa sidz varer. Þvi j gudz nafne amen Giore eg Dade Gudmundzson heil[l] ad vite enn nokut krankr j likama. suo fellda skipann og testamentum fyrir mier. J nafne faudr[1]) og sonar og anda heilags amen.

1. J fyrstu gef eg mig og mina synduga sal allzmegtugum gude j valld og hans velsignudu modr[1]) bidiandi audmiukliga af aullu hiarta allzmegtugan gud ad hann veite mier aumum og Syndugum sina nad og myskunnseme fyrir min otelianlig afbrot og misgiorder ok syndsamligt framferdi sem ek hefe allt hier til minum liufa lausnara og skapara faudr[1]) og syne og heilaugvm anda j mote brotid. Amen.

2. Hier med kys eg minum moldligum likama legstad j kirkiune eda ad kirkiune j Snogsdal. huer ad helgud er einum godum gudz astvin sancte Stefanum ad hann huile þar suo leinge og þar til ad allzmegtugr gud med sinne margfalldre nad og myskunnseme lifgar hann j almenneligre vpprisu.

3. Skipa ek kirkivne j Snogzdal x kyr og xxx asaudar j sina jnstædu. medtok eg hennar vegna xvc j kuikum peningum og daudum auke. henar ordnamentvm sem hun atte jnnan sig. Nu skipa ek henne .ijc. j gelldum saudum og aunnr ijc j nautum. Hest fyrir eitt .c. Vil

1) Svo.

eg þetta gialldizt reidugliga heim j Snogzdal ad næstum fardogum epter mig af geingin. eru þetta vc j gelldum peningum med einum heste oc xv malnytu quijllde. Sitt ordnamentum vil ek hun hafe sem eg hefe med tekid og þad framar sem ec hefe vid bætt sem synazt ma j hennar registrum. Enn þad litid sem eg hefi latid giora ad kirkiune ad hun er betre enn hun kom mier j hendr þad gef ec gude oc hinum heilaga Stefanvm og alltt huad eg hefi til hennar lagtt j bokum messuklædum og kaleik og allt anad þad henne ma til pryde heidrs og sæmdar vera. Enn husabot a stadnum gef ec og skil vnder minn riettan erfingia huern hellzt ad gud vill vera lata.

4. A kirkian half lond iij. halfan Hordabol. Gilsbakka oc SnogsDal ok þar til a hun halfar eyar vc ad dyrleika. Gaf Biarne heitinn Eigllson[1]) henne. huers sal gud gledie. nokra peninga sem er half jordin Vifilsdalr enn fremre. hefi ec bref biskups Augmundar heitins Palssonar. huers herramanz sal ad allzmegtugr gud hafe til sinna nada þeigid. fyrir henne. Þui vil eg miner erfingiar eignizt hana.

5. Kirkivne aa Saudaferle skipa ek .iiij. malnytu quijllde og xx j sina jnstædu þui ec medkenunzt ad ec hefi vppborid af Orme bonda Sturlasyne xij quijllde kirkivnar vegna enn eg hefi lofad ad suara audrum xij quijlldum fyrir jordina Erfdstadi[2]) sem bref þar vm giort vt visar og jnne helldr. Hefr hann afuent mier .iij. jarder er suo heita Hlidartun. Kross og Hamrar og aungva peninga adra hefe eg med henne tekid þvi þar er miog litid ordnamentum jnnan kirkiu.

6. Kirkian a Eyre j Bitrv a hia mier x quijllde. þar heima a hun litid ordnamentum.

7. Vegna kirkivnar j Sidumula hefi ec medtekid x quijllde og einn hundradz hest enn aungua Dauda peninga vtan þad litid ordnamentum sem henne til kemr og þar mun vel synazt. Villda ec giarnan ad allar fyr

1) Þannig; Eyjólfsson, Hist. Eccl. 2) Svo.

skrifadar kirkivr feinge sina peninga vel og reidugliga epter minn Dag.

8. Gudrunu minne Einarsdottr hef eg gefid fiordungagiof vr hundrad hundrada suo framt sem hun lifer mig ok j hana vil eg hun fae iiijc jord og xx þa sem henne vel likar og þar med vj quijllde.

9. Hier med bid ec audmiukliga mina erfingia oc þeirra vmbodzmenn ad þeir giallde reidugliga allar minar skullder og vitafie epter þui sem andligt laugmal og veralldligt giorer rad fyrir.

10. Hier med bifala eg Gudrunu minne EinarsDottr til frialzligrar medferdar jordina Snogsdal ef hun lifer mig j næstu iij ar med aullum þeim peningum kuikum og daudum sem þar til heyra og eg giore ecki rad fyrir. sem er smior ok hey. kyr ok ær. vxa og gelldinga oc xx kapla og þar til vil eg hun fae alla kirkiunar jnstædu og hier med[1]) skal hun hafa med Snogsdal þessar jarder sem suo heita: fyrst: Hamraendar. Skord. Halfr Vifilsdalr. Ok xc j Hole. Hamar og Bugdustader ok Hordubol. Og þau quillde aull sem med fyrskrifudum jordum standa og jardarportvm. Hier med gef ec henne allan abata a fyrskrifudum peningum.

11. Hier til gef eg henne til fullrar eignar halft anad skip vid Hella og alla hlute a þeim sem mier til koma. Og þar til skal hun hafa alla hlute af attahringnum j Drituik þa sem mier til koma vtan einn ok skal Eya Jonsdotter eignazt hann.

12. Somuleidis skal fyrnefnd Gudrun min eignazt skip a Aunduerdarnese þad sem Gamle er fyrer og alla hlute af þui þa mier til koma. Enn attahringurinn forne sem geingr j Drittvik og teinahringurin store skulu fylgia Snogsdal. hefe ec feingit henni adr kross ok linda ok nokkr spensl[2]) edur huad anad þad ec hefe henne feingid og hün vænizt minne heimilld ad skal hun frialsliga eignazt fram yfer þa peninga sem ek hefe lied og gefid j þessare minne testamentum giord.

1) mier, hdr. 2) spenls, hdr.

13. Hier med aa eg xc. j Saurbæar fiorv og þar gef ek avnnr .vc. Snogsdals kirkiu. enn aunnr Saudafellz kirkiu.

14. Biarna brodr minum Gudmundzsyni gef eg jordina Hrodnyarstade j Laxardal og þau quijllde sem þar med erv. Suo og gef ec honum jordina Dunkrbakka j Snogsdals kirkiusoknn med somu skilordi og þau quijllde sem þar med erv oc hier til gef ec honum vj vætter smiors og iij vætter skreidar j Snogsdal og ij naut gaumul. Somuleidis gef ek honum alla hlute af skipe þui sem Sigurdr Jonsson er fyrir þa sem mier til koma.

15. Hier med skipa eg ad gefizt fatækum heim j Snogsdal iij vætter smiors og .iij. vætter fiska. vxahud og kyr. ij voder vadmals og þar til vj kapla. Og þar skipa ec Gamaliel Einarssyni af einn og hann kuittr vmm þad sem ec atte ad honum meira. [Þetta er greitt.[1])

16. Hier med skipa eg ad gefizt fatækum eitt .c. a Saudaferle. Og anad j Hofnn. þridia j Sidumvla. fiorda a Eyre. [Þetta er greitt.[1])

17. Petr Sueinbiarnarson skal vera kuittr vmm þad sem ec aa hia honum oc þar til skal hann eignazt þann kapal sem ec hefe lied honum. [Þetta greiddi hann sialfr.[1])

18. Olafi[2]) sem verid hefr a Mioabole skal eignazt kapal og modr hans þann sem hun hefr farid med. [Þetta greiddi hann sialfr.[1])

19. Gudrunu HalfdanarDottr kuinnu Jacobs. þau skulu eignazt þa ku og as[a]udar quillde sem hia þeim er. [Þetta greiddi hann sialfr.[1])

20. Jon j Hlidartune skal vera kuittr vm landskyllldina enn suara vj quijlldum gelldum minum erfingium.[3])

21. Jon a Hordubole skal hafa kuitta sina landskylld.

22. Nikulas a Bakka skal vera kuittr vm þann kapal sem hann miste fyrir mier.

23. Vermundr Jonsson skal vera kuittr vm þær xij ær sem hann miste fyrir mier.

1) [bætt við m. h. Eggerts Hannessonar. 2) Svo í hdr. 3) Þessi grein er yfirstrikuð í hdr.

24. Jon Oddzson og Gudrun ArnaDotter. þeim gef eg ku og kapal.

25. Odde minum Bauduarssyni gef eg kapal.

26. Olafr j Selardal vera kuittr vmm sina landskylld.

27. Þorde a Hamre gef ek kuitta sina landskylld.

28. Jon Palsson a Mioabole skal vera kuittr vm sina landskylld. [stendr landskylld.[1])

29. Þorsteine Grimssyne a Skarde gef eg kuitta sina landskylld. [stendr landskylld.[1])

30. Petre a Gilialande gef ec vpp sina landskylld oc þar til eitt quillde sem hann hefr til leigu.

31. Olafe Arasyne gef eg vpp sina landskylld og eitt quijllde af þeim sem hann hefr til leigu.

32. Arnnbirne frænda Narfasyne gef ec þær iiij ær sem hia honum erv oc þar til kapal.

33. Gudrunu KristeforusDottr a Hole gef ec hundradz hest oc þar til qu nema hun vilie helldr asaudar quijllde.

34. Hallgerdė a Harrastodum gef ec quillde sem hia hennar manne er.[2])

35. Sveine Jonssyni heim j SnogsDal gef ec hundradzhest oc konu hans Þuride gef ec ku.

36. Jtem xx alner huerre vinnukonu heim j Snogsdal.

37. Gudmunde Jonssyni sem geymer fie mitt j Snogsdal gef ėc kuigu þa sem hia honum er.

38. Sveine Magnussyne gef ec tuæuetran kapal og anan tuæuetran Jone Laugusyni.

39. Olafe Einarssyni vetrgamlan.

40. Pal Þogeirsson gef ek kuittann vm sina landskylld.

41. Gudlaugu BauduarsDottr gef ec þreuetra kuigu.

42. Hier med gef ek stulku Arna a Melum j Hrutafirde er ber naffn Þorunar minnar heitinnar .ij. q[uijlldi] hia Arna bonda Gislasyni og .ij. q[uijlldi] a Balkastodum og iij ær feck ek henne j vor ed var þar til skipa ek henni iij ær svo hun eigi vc.

1) [bætt við með sömu hendi sem fyrr. 2) dregið er yfir þessa grein í hdr.

43. Annare stulku er heiter Þorunn Dotter Gudrunar GudmundarDottr gef ec .vc. hia Gudrunu minne Einarsdottr.

44. Pilte Sveins a Kyrunnarstodum er heitinn er epter Einare minum gef ek ij quijllde af þeim viij sem hann hefr til leigu oc þar til ij gelldfiar hundrud. anad j saudum anad j nautum og hest. erv þad vc.

45. Stu[l]ku Brandz bonda Einarssonar er heiter Þorunn gef ec iiij quijllde er ek a j byggingu hia Þorualldi bonda Einarssyni og hid fymta a Oddastodum hia Asgrime.

46. Pillte Arna bonda Oddzsonar er heiter Einar gef ec .vc. og skal hann taka j þau .iij. malnytu q[uijlldi]. er ec a hia Steindore bonda Finssyni og hid fiorda a Þuera hia Orme og et fymta j Seluelle hia Þorolfe.

47. Biarna bonda Sumarlidasyni gef ek smiortunnu j Sidumula og kuittan vm þad quijllde sem ec atti hia honum oc þar til skipa ec honum hest.

48. Sveine Jonssyne a Kirnastodum gef ek kvittan vm sina landskylld.

49. Sera Freisteine Grimssyni gef ek adra smiortunnu j Sidumula.

50. Orme bonda Sturlasyni gef ec smiortunnu j Hofnn ok kuinnu hans Þorbiorgu gamallt naut og þad vil ec gialldizt j Hofnn.

51. Aunnu minne Biarnardottr gef ek jordina Hofnn j Huamssueit og jordina Kirnastade iiijc og xx. Teig xc. Hollt xvjc. iiij quijllde oc xx þar til med fyr skrifudum jordum. Og þar til viijc j hestum oc fridum peningum ok aunr viijc j daudum peningum þarfligum. reiknazt þetta hundrad hundrada. Skal hun þessa peninga eignazt til frials forrædis.

52. Halbiorgu mine Biarnadottr systr hennar gef ec anad hundrad hundrada. atta tige .c. j jordum og iiij q[uijllde] og .xx. viijc. j hestum og fridum peningum og aunr viijc j daudum peningum þarfligum. Skal hun eignazt j fyr skrifad hundrad hundrada jordina Harrastadi a Fellsstrond iiijc og xx j Stadarfells kirkiu soknn

og jordina Breidabolsstad j somu kirkiu soknn oc jordina Hellu xvjc og Hafstadi xvjc j somu kirkivsoknn oc reiknazt þetta atta tige .c. j jordum.

53. Einare minum Einarssyni sem er j Haufnn skipa ec j sin þionustulaun iij malnytu quijllde og hundrad j fridum peningum og friduirtum. einn hest hefr hann vt tek[it].

54. Gudrunu minne Palsdottr skipa ek j sin þionustulaun iiij malnytu quijllde med þeim viij am edur x sem hun atte þa hun kom til min vr Selardal oc þar til skipa ec henne gelldfiar hundrad.

55. Grime og Þorbiorgu j Sidumula skipa ec j sin þionustulaun iij malnytu quijllde. gelldfiar hundrad ok hundrad j Daudum peningum þarfligum. Suo og skal þad ecki til reikningsskapar koma vid þau sem eg hefe haft fyrir þeirra bornum.

56. Þuride Einarsdottr gelld ek og skipa j sin þionustulaun iiij malnytu qiijllde og eitt .c. j godum peningum þarfligum þeim sem henne likar vel.

57. Haullu Jonsdottr a Saudaferle vil ec vt greidiz þau ij asaudar quijllde og ij kyr sem hun a hia mier og hestr sa sem vngr er og vel er reitt.

58. Skula syni hennar gef ec vc j godum peningum med þui sem hann erfde epter sinn faudr, nu gef ec honum þar til aunnr vc. Skulu þau vera j malnytu. iij gelldfiar hundrud og hestr suo hann eigi xc.

59. Stulku a Saudaferle Sigride Þorlaksdotter vil ec vt gialldizt þau vc sem hun a hia mier.

60. Þordi Halldorssyni brodrsyne minum gef eg halfa Tungu j Hördudal .xijc. ad dyrleika og þar med viij q[uijllde] og jordina Vik j Trekyllisvik .xijc. ad dyrleika og þar med iij quijllde]' ok þar til gef ec honum ijc j busgagne sæng fyrir eitt .c. gelltt naut fyrir .jc. og kapal.

61. Gudmundi Halldorssyni brodr hans gef ek jordina Nordtungu j Þuerarhlid vc og xx. þar med gef ec Sigride Halldorsdottr[1]) Hafafell oc þar med vj q[uijllde].

62. Jngibiorgu [Halldors[2]) dottr systr hennar gef eg jordina Kallbak nordr. a Bolum[3]) xijc ad dyrleika og þar med .v. q[uijllde].
63. Finne frænda Halldanarsyne gef ec Eyre j Bitru oc þann forna attahring sem þar er. A kirkian þar xxx asauda og þar med .v. kyr. Enn alltt anad sem þar er afgangs af fridum peningum og ofridum þad vil ek ad allt færizt heim j Snogzdal.
64. Jone frænda Olafssyni gef ec jordina Solheima j Laxardal og þar med vj quijllde.
65. Modr hans Jngegerdi systr minne gef ec Hornnstade og þar med vj quijllde.

finis.

---

**140. 26. október 1563. í Snóksdal.**

TYLFTARDÓMR, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, dæmir Hannes Björnsson erfingja Daða Guðmundssonar, en Eggert Hannessyni umboð hans, meðan hann er í ómegð.

AM. Apogr. 4746, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali. 13 innsigle hafa fyrrum under dominum vered. Nu eru 5 epter. Bref þetta feck eg epter Magnus Magnusson ä Eyre i Seidisfirde, enn gaf þad Þorde Hannessyne. 1708.“ (AM.).

Domur um umbod yfer peningum Hannes Biørnssonar. og fylgia hier med fleire domar[4]) sem hlioda uppä peninga Dada. og suo copia af þvi kongs brefi sem hliodar uppä þä vc dale sem peningar Dada voru med leyster.[5])

---

1) Jónsdóttur(!), Hist. Eccl. 2) [gat á frumritinu; Jóns(!) Hist. Eccl. 3) Hist. Eccl.; hdr.: bo ... (máð af) = Bölum. 4) „Þetta hefur vered bunded i sama bagga, hia Eggert lögmanne“ (AM.). 5) Þetta segir Árni, að hafi staðið utan á dóm inum „með hendi Eggerts Hannessonar lögmanns.“ Sjálfr ritar Árni að fyrirsögn: „Domur um umbod Hannesar Biørnssonar.“

Ihesus.

Øllum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Petur Einarsson. Brandur Einarsson. Steindor Finsson. mins herra kongsins liensmenn og Eidsvarar. Oddur Tumasson. Tyrfingur Halldorsson. svarnir løgriettumenn. Biarni Oddzson. Jon Olafsson. Biarne Sumarlidason. Arnor Helgason. Jon Steindorsson. Olafur Þorleifsson. Þorleifur Biarnason kvediu Gudz ok vora. kunnigt giørande. at þa lidit var fra hingadburd vors liufa lausnara Jhesu Christi M. d. lx iij är. a þridiudæginn næstan fyrir Simonsmesso og Jude um veturinn j Snogsdal j Breidafiardardølum. vorum vier j dom nefnder af vel bornum manni Eggert Hannessyne løgmanni fyrir nordan ok vestan ä Jslandi. til ad skoda ok ransaka ok fullnadar doms adkvædi a ad leggia epter løgum og vorre skynseme hver ad vera skyllde løgligr ummbodzmadur ok svarande fyrir øllum þeim godzum ok Gørdum. lausafiam ok fastaeignum. gripum ok gangandi fie sem ätt hafdi Dade heitinn Gudmundzson. hvers säl ad Gud nädi. hveria peninga ad greindr Eggert løgmann kalladi sijnum Brodursyne Hannese Biørnssyne sem þa var j omagavist. til fullrar eignar og erfda fallid hafa eptir sinn modurfødur fyr sagdan Dada Gudmundzson. eptir þvi sem avijsar j annari erfd þar svo seigir. ad dotturson tekur arf med ødrum þeim sem honum standa jafnframme ef þeir eru til. Beiddizt ok krafdi adr greindr løgmann uppa Gudz vegna ok laganna optsinnis uppa margar reijsur ad þeir skyllde ef þeir væri þar nockrer sem ad riettilegar þættust tilkomner fyr sagdra gotza þar nu svari fyrir hallda. ok sig þar um i liose läta. hvad allir nei fyrir søgdu. svo vel hans skilgetinn bröder Biarni Gudmundzson sem aller adrer ok eigi vizu vier anad sannara et cetera.

Nu saker þess ad greindur løgmann hafdi oss ädur til nefnt ok svo nu krafdi upp a laganna vegna dom ä ad leggia hver ad hafa skylldi vernd og ummbod vegna Hannesar Biørnssonar ä fyr søgdum gotzum. Skodudum vier hans ætthring upp a bädar sijdur. kom þar

fyrst j dom fyrir oss ad tvær hans systr[1]) skilgetnar og samfedra væri nu næzt til arfs epter hann og være nu badar j ömagavist ok yngre enn hann. ok þar fyrir urdu vær Bokinne ad hallda. ok kunnum þeim ecki umbodit ad dæma yfer fyrsøgdum gotzum.

J annare grein kom fram fyrir oss ad til være fødurmödur[1]) skilfeinginn sem var Gudrun husfreya Biornsdotter hin elldre. hveria vier vizum miøg alldrada kvinnu ok nu lijtt færa vera. ok eigi helldr hafa borgun nie vørzlur fyrir fyrskrifudum gotzum ok fyrir þann skulld. kunnu vær og ecki helldr henne þetta ummbod ad dæma.

J þridiu grein kom j döm fyrir oss. at til være modurmoder skilfeingin fyrgreinds Hannesar Biornssonar. sem var Gudrun husfreya Einarsdotter. hver ad ok var jøfn ad alldre vid Gudrunu Biørnsdottur. hveriar ad hafa fiortan vetur um sextugt. hver ad oss virtizt og[1]) eigi svo fær vera. nie svo fiemune og borgun til hafa. sem søgdu gotze og umbodi hæfer og tilheyrer. Og þar fyrir kunnum vier i aungvann handa mäta hvørugre þessare kvinnu ummbod ad dæma.

J fiordu grein kom og framm j dom fyrir oss. ad til være fødurbroder greindz Hannesar Biørnssonar. samfedra og skilgetinn sem var fyrnefndr Eggert Hannesson løgmann hvern ad vier vizum nu bædi vera heilann og[1]) hraustan ok sijnu fie ok annara rädanda. hier med umbodum og[1]) ødrum valldstiornum ok landzins Rietti styranda. svo og[1]) næri lægi vørzlur. fyrirsion og[1]) fiemune hafa fyrir fyr søgdum gotzum ok peningum þo eigi være svo fullt edur vel sem verdugt være eda vera skyllde. þä fundu vær þo eigi annan i þetta sinne sem oss þætte þar betur til fallinn. j fulla naudsyn fyrer flestra hluta saker og þess annars ad vær vissum Eggert løgmann næst standa til arfa epter Hannes ef þeir være ecki til sem adur eru talder. Ok þvi fyrir allar þessar Greiner og[1]) bokarinnar avijsan ok epter þeim

1) Svo.

vitzmunum sem Gud hefur oss hier uppa gefid. þa var þad vor settur domur ok samþycktr med fullu doms adkvædi. og älycktarordi. ad tijttnefndr Eggert Hannesson logmann skyllde mega frij ok frialsliga i setiazt ä vegna fyrgreindz Hannesar Biornssonar og ad sier taka og avøxtu af eignazt af þessum gotzum ok peningum. hvar hellst ad þau læge og lagasvare fyrir ad hallda fyrir allar þær äkiærur sem honum være møgulegt jnnann landz svare fyrir ad hallda ad öforkreinktum vors nädugazta ok høybornazta herra kongsins ok krünunnar ʀiette ok hverra annara sem med løgum mættu äkiæra þar til ad afgeingi med riettu. og örofnu løgmali. og[1]) allar løgligar Giafer ok riettar skullder af ad greida. þær sem menn leiddu sig til med løgligum vitnum og svørdum eidum edur med skialligum jnnsigludum brefum þo eigi være þær i Testamentisgiørdinne äkvæddar. þar til ad løggiafer reiknazt. Enn allt þad þa være afgangs. skylldi hann lata skynsama menn sex edur tolf virda og vardiera og[1]) vita vid hveriu hann tæke. epter þvi sem løg giora rad fyrir. svo j Snoksdal sem ä ødrum Büum og[1]) leigustødum. Og[1]) eige fyrre neina äbyrgd ä ad taka hvorke gotzum nie gørdum. lauafiam nie fastaeignum utan rädstafa fyrir øllu þad bezta hann kynne og formætte med tilstyrking Jons Bonda Halldorssonar. til næstra fardaga edur alþingis ef ecki kiæmi ønnur skyckan edur same ä millum høfudzmannsins ok þeirra fyrir alþing. Enn sü kløgun ok äkiæra sem vors nadugasta herra kongsins fovite velburdigr mann Pall Stijgsson hefr ä fyrsøgdum gotzum skyllde standa til alþingis epter þvi brefi sem hann liet bijrta fyrir oss j Snoksdal. utan fyrre kynne annar same ok sättmali a ad komast. edur giorazt med herra fovitanum ok greindum løgmanni. hvad allzmegtugr Gud milldeliga gefi. Enn þar herra fovitinn baud j sijnu brefe, ad hans umbodzmadur Andres Hofmann skyllde upp skrifa alla peninga j Snoksdal og ødrum Büum.

1) Svo.

virtizt oss ecki þørf til vera nie svo løgmal til standa. fyrer þa eina grein ad vier vissum Dada alldre j þau mäl fallid hafa. ad hann hefdi alla sijna peninga mätt forbriota. þar fyrir virtist oss hans fie ecki þurfa upp ad skrifa sem annan utlægan eyrer. þvi at vier høfum optliga af honum og ødrum skynsømum monnum heyrt. ad hann hefdi kvittaner fyrir øllum sijnum mälum. Þess og annars. ad greindur Eggert løgmann og optnefndur Jon bondi Halldorsson lofudu þvi under sinn eidstaf medur fullnadar handabandi vit Andres Hofmann ad þeir skylldu hvørki hafa nie läta hafa til oheimilldar edur underdrattzsemi ad sijnum vilia umm allt þad þeir mættu ad giora og af vita fra Snogsdal nie ødrum Büum neitt annad enn þad þyrtu[1]) til gardanna utvega reida og til ferda. og ødru folki þyrte til framfæris ad leggia. til þess ad þeir fynde fovitann. eda þad leingsta til næsta Øxarärþings et cetera.

Sømuleidis skodudum vær ok alitum hveria magt og afl ad hafa skylldi su veiting sem optnefndr Dade heitinn Gudmundzson hafdi veitt Gudrunu husfreyu Einarsdottr[1]) sinne ecktakvinnu ä Gardinum Snoksdal og ødrum þeim jørdum ok peningum sem j Testamentum giørdinne eru akvædder ad hun skyllde hafa j næstu þriu är. eptir hann afgeinginn hvar ad vær kunnum ecki svo løgmäl til ad finna. utan þa Grein. þar ä vijkur ad seinaste vilie mannsins skule frials vera. Þvi dæmdum vier ad þad skyllde svo standa sem allt annad til næsta Øxarärþings ok þad leingr sem ecki kiæme ønnur løgligre skijkkan[1]) uppa. þo svo ad greindr løgmann giæfe þar sitt samþycke til. og Gudrun husfreyia Einarsdotter og hennar adstudningsmenn sette þar fulla Borgun fyrir sem hana villdu þar til styrkia og greindan løgmann þar þa vid skilinn. nema svo kynne ad skie. ad giølld kynne ad hlaupa uppa þesse gotz. þä skylldi þad svo takast j Snoksdal svo leingi sem þar til hrycke sem annars stadar ef med þyrfte.

1) Svo.

Geingu vier fyrnefnder domsmenn aller þar þä j fyrsøgdum stad ok dag til fullnadar handabands vit opt nefndan løgmann Eggert Hannesson. og handfestum hønum þar upp a vor sanninde under vorn eid ad vier i þad sama sinne eigi annad sannara vissum enn vier hefdum til dæmt i þetta sinne. Og þennan dom hefdum vær dæmt epter løgum og vorre samvisku. enn fyrir aungra muna saker nie vilnun vid nockunn mann edur motstødu framar enn riettur til stendur. Og þar fyrir samþyckti hann þennann vorn dom med oss. ok setti sitt jnsigle med vorum jnsiglum fyrir þetta domsbref hvert ad giørt ok skrifat var j fyrsøgdum stad are ok deige sem fyr seiger.

---

**141. 31. október 1563. í Kaupmannahöfn.**

STEFÁN Lojtz heitir umboðsmönnum konungs 60000 dala, að höldnum skilmálum, er greinir í samningi við konung 29. september sama ár.

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönland, 38 c., frumris á pappír með eiginhandarundirskriftum en eigi innsiglum. Utan á bréfinu stendr með samtíðahendi: diss jst der beyabschiedt soll mich widder zuruck gebracht werdenn. (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to.).

Zuwissenn Nachdeme. durch verordnung der Ko. Mt. etc. zu Dennemarckenn etc. Vnnsers Allergenedigister herrn. Herr Johann Friesz zu Heslagger Canntzler. Jochim Beck Renntmeister etc. vnnd Hieronimuss Thenner Doctor etc. mit dem Ernuesstenn Steffann Loitzenn. zw verrichtung der gebrechenn vnnd Missverstanndts. So sich auss voriger Køninglichen begnadung denn Jsslenndischenn Schwebell betreffenndt. So denn Leitztenn[1]) am dato denn Acht und zweintziggistenn tag Junj des ein vnnd sechtziggistenn Jars negstuerschinnen. verlehenn. geursacht. hanndlung angestelt. dieselbe endt-

---

1) ɔ: Loitzenn.

lich auch durch verleihung des Almectigenn. zu wegen gerathenn. Vnnd mit ermeltes Loitzenn. Der da nicht allein vor sich. Sonndern auch von Anndern seinenn Bruedern. Vettern. vnnd mituerwanndten. darzue befehlicht. erschinnen. guettem Willenn. zum Ennde vnnd beschluss gebracht. Wie das die Schrifftliche verfassung. derenn Zwo. am datum Lauttend. etc. (Actum Koppennhagen. Am tag Michaellis denn Vier[1]) und zweinziggistenn Sepptembris. der Mindern Zall. jm Dreyundsechtziggistenn Jare) Aufgerichtet. dauon die Eine. so gedachtem Steffann Loitzenn gelassen. Vonn vnns obgemelten Køninglichenn Canntzler. vnd verordent. etc. Vnnd die annder Hinwidder. so alhier jnn der Cantzley blibenn. Vom Loitzenn vnnderschribenn vnnd gegen einannder vbergebenn. fernner ausswеissenn. vnnd mit sich brinngen. Des zw notdurfft. derselbigenn Hanndlung. dann fernner verabschiedet. baider seitts. auch Atsouiel Jedenn theill dauon betrifft. zu beschaff etc. Crafft dies. bewillige. vnnd anngenomen. Das die Ko. Mt. etc. zw Dennemarcken etc. Vnnser genedigister herr. sich befleissigenn solle. burgschafft. vermuge der Principall verfassunng. furderlich. zuwegenn zubringen. Derenn vorschreibung. Alsdann. Wann die Erlanngt. bey eigenner Botschafft. nach Stettin geschicket. vnnd gegen vbergebung derselbenn. Sechtzig Tausenndt thaller. an Silber. oder Tallernn. Vermuge der verfassung. vonn den Loitzenn geliffert. vnnd von der Køninglichenn Potschafft enndtphanngen. vnnd biss anhero gegenn Koppennhagen gebracht werdenn solle.

Danebenn zw gleich auch obgesetzte verglichenne schrifftliche Principal verfassunng vf Pergamen Zweymall eines Lautts. Jrem Buchstabenn nach. Jngrossirt. Vnnd mit hochgedachten Ko. Mt. etc. Hanndt. vnnderschribenn. Auch neben Jrer Køningl. Mt. Secret. der Jetzo gegennwirdiger Reichs Rette. Jnngesigeln befesstige. denn Loitzen zuegestelt vnnd gelassenn. Vnnd die

---

1) Svo.

Annder dargegenn vonn Steffann vnnd Hannsenn Loitzen gebruedern baidenn. auch vnnderschribenn. vnnd besigelt. Nebenn obgedachter voriger begnadung. denn Schweuel Auch annlanngendt so Strittig gewesenn. jnn Originalibus. vonn dem Koninglichenn geschickten. uider anngenomen. Vnnd neben dem Silber. oder Tallern an hero zu Ruck. gebracht werdenn soll. Alles bey guettem glaubenn vnnd Sonnder geferde. Zw mehrer Vrkunndt sinndt diser Abschiedt Zwenn. eines Lautts Aufgerichtet. Vnnd vonn Vnns obgenannten Koninglichen Rettenn auch Steffann Loitzenn vnnderschribenn. Vnnd Jedem theill dauon einer gelassen.

Geschehenn zw Koppennhagen. denn Lotztenn tag Octobris Anno etc. Jm dreyundsechtziggistenn.

Johan Friis tiil Hesselager

Jachim Beck tiill Førsløff m. pr.

Hieronymus Thenner Dr. m. pr.

Steffenn Loitz m. pr.

---

142. 4. nóvember 1563. í Kjalardal.

HREPPSTJÓRNARDÓMR um ómagaframfæri.

Lbs. 67, 4to., bl. 22—3 m. h. sira Jóns Erlendssonar i Villingaholti ca. 1640. — Uppskrift i þjóðskjalasafni (áðr Lbs. 119, 4to.) m. h. síra Torfa Snæbjarnarsonar á Kirkjubóli 1624—9 (miklu lakari) = *b*.

Hreppstiora domur.

Øllum monnum sem þetta Bref sia edur heyra senda [Sigurdur Jonsson. Jon Gudmundsson. Halluardur Gunnsteinsson. Jon Nikulasson og Jon Grijmsson[1]) k. G. og sijna kunnigt giørandi ad þä lidit var fra Gudz burd m. d. lx og iij är [þridia dag Novembris mänadar j Kialardal ä þingstad riettum[2]) ä vorum tijundarskipttis fundi vorum vier til kuadder og krafder af hreppsmonnum j Skilmannahrepp ad skoda og rannsaka og med

1) [Guøndur Jonsson. Sigurdur Jonsson. Hallvardur Gunnsteinsson(!) *b*. 2) [vorum vier j dom nefnder af(!) *b*.

skynsemd hreppstiornardoms atkuædi ä ad leggia eptter løgligri skipan huersu fara skylldi vm þann omaga er Arnbiorg Gudmundsdotter heiter og oss virtist ölløgliga ä komin vera greindann hrepp. Var þessi omagi løgbodinn Gudmundi Hallsyne i sama stad og dag og syslumadurinn krafinn og bedinn ad þinga sama stefnudag. Jtem stendur suo j vorri Landzlagabok j frammfærslubælcki. j fyrstu grein huer madur ä fram ad færa fødur sinn og modur. og suo born sijn. J annari grein. þa skal hann allt til leggia en þau sieu færd med þui tillagi þeim ä hendur er þa ero arfi næster. Jtem skal hann enn taca omaga suo marga sem hann ä forlagseyri til. Jtem omagar skulu fara fram i ætter. Jtem .v. menn þa er þikia best til fallner skal nefna til þess ad hafa stiorn og forsia fyrir þui er hreppinn vardar. Jtem þa menn skal suo ala er þar ero hreppsmenn og øngvann eiga frænda þann er forlaxeyri a til ad færa hann framm suo ad menn viti ella færa til frænda. Jtem skal moder færa omaga sijna ä hendur frændum þeim arfi ero næster og forlagseyri eiga til. Enn vier vitum øngua nær skylldari enn Hall Olafsson ættleiddann. og Gudmund Hallson skilgetinn med þeim fleirum sem þeim standa jafnframt er forlaxeyri hafi fyrir greindann omaga. Þui fyrir þessar greiner og adrar þær hier ad hnijga [og] til luta. og j løgmälenu standa. þad fremsta eptter løgmäle og oss ber løgliga skipan ä ad leggia. Þui ad heilax Anda näd til vor kalladri skipudum vier fyrrnefnder hreppstiornarmenn med fullu hreppstiornardoms atkuædi tijtt greindan ömaga Arnbiørgu Gudmundardottur med øllu af nefndum Skilmannahrepp. og ongva skylldu þar til eiga manneldis nie tijunda ad suo komnu. og modurena skyllduga jafnframt hreppsmanna tilstyrck ad flytia fyrrsagdann omaga ä nanustu og nälægustu frændur þa forlaxeyri hafa til og þeim ä hendur fela. og annast edur af sier ad rydia med riettu løgmäle optskrifadann omaga.

Og til sannenda hier vm setium vier vor jnsigli hreppstiornarmenn fyrir þetta hreppstiornardoms og løgligr-

ar skipunar bref. skrifad j sama stad og är. deigi sijdar enn fyrr seiger.

---

143. 6. nóvember 1563. í Láhólmi.

KONUNGR leggr fyrir Hamborgarmenn að fá Stefáni Löjtz í hendr brennistein þann, er þeir hafi haldið fyrir honum að boði sínu.

Ríkisskjalasafn Dana, Ausländ. Reg. 52, 227 (uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to.).

An die Stadt Hamburgk.
Laholm den .vi. Nouembris.

Nach dem wir vns mit Steffan Loitzen des Schweffels halber. so bisanher jn euer Statt auff unsern beuehl Jm angehalten. verglichenn. Als begern wir gnedigst Jhr wollet denselbigenn Schweffell. wan Jhr hiemit ersucht. gemeltem Loitzen. oder Seinem Anwalt wider ausantwortten. vnd volgen lassen. etc.

---

144. 11. nóvember 1563. á Indriðastöðum.

DÓMR um tilkall Bergsveins Runólfssonar til Fiskilækjar skýtr því til þess þings, er kongs umboðsmaðr ákveði.

Lbs. 1974, 4to., dómasyrpa Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, bls. 95—7, skrifuð ca. 1608. — Uppskrift eftir Vatnshornssyrpunni í AM. Apogr. 4749. — AM. 211c, 4to., bls. 91—4, skr. 1700, einnig eftir Vatnshornsyrpunñi.

Domvʀ vm Fiskelæk.

Þat Giorum vier Einar Eiriksson. Hallur Olafsson. Einar Gislason. svarner laugriettumenn. Þorsteinn Siguatzson. Augmundur Hallzson og Jon Jonsson. Godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi ad þa er lidit var fra Gudz Burd M d lx og iij ar aa manudæginn næstann fyrir Simonis messo[1]) A Hegstaudum j Borg-

1) þ. e. 25. okt.

arfirdi aa þingstad Riettum. vorum vier j dom nefndir af Þordi Gudmundzsyne er þa hafdi mins herra kongsins syslu og vmbod j Þuerarþijngi fyrer sunnan Huitaa. til ad skoda og Ransaka og fullnadardom aa ad leggia þad mal sem Bersueirn Runolfsson klagadi til Sijra Skapta Loptzsonar og systkina hans. ad hann hielldi jordinne Fiskilæk. sem liggur j Melasueit. fyrir sier. huoria jaurd hann ʀeiknadi sier til erfda fallid hafa. Epter sijna modur Gudrunu Þorleifsdottur. Eptir þeim vitnisʙurdi sem hann bar þar framm med jnnsiglum þriggia skilrijkra manna suo hliodandi ad þessi greind jord Fiskilækur var gefin og golldin Gudrunu Þorleifsdottur j sijna heimanfylgiu. þa hun giptist Runolfi Hauskulldzsyni. Suo og kom þar framm lysing sagdrar Gudrunar. ad hun hefdi huorki gefid nie golldit syni sinum Þorleifi þessa optskrifada jord Fiskilæk. hafdi syslumanninn[1]) Þordur Gudmundzson eptir bodi og skipan histiorans[1]) herra Pals Stigssonar stefnt og kallad j þann sama stad og dag Sira Skapta til andsuara vid Bersuein vm sagt mal. Suo var þar lesin fyrir oss skra af hendi Sijra Skapta. j huorri hann medkiennist at hann hefdi stefndur verit et cetera. Jtem hafdi Bersueinn opt adur klagad og vp[p] aa talad aa þessa jord. Nu af þui ad suo stendur j vorri landzlaga bok. Syslumenn mega giora stundarstefnu til sijn andsuaramonnum þeirra manna sem laugligt mal hafa aa hendur þeim og suo vitnum þeirra. og giora þeim Riett sem mishalldinu er et cetera. Jtem sialfur skal huor sina sauk sækia frials madur og fulltijda. enn ef hann hefur eigi kunnattu til edur menning. þa sæki kongs vmbodzmadur honum til handa et cetera. Jtem Riettar Bot Eiriks kongs. Huorvetne þar sem sakar aberi stefnir manni vndir Riett prof. til syslumannz og kemur hann eigi forfallalaust. þa sekist hann halfri mork. Skulu þær stefnur vera Eptir leidarleingd. suo stefndur hafi noga stund at koma ad aullum Gaugnum og vitnum.

1) Svo.

og profui syslumadur jnnuirduliga þad mal. huort sem koma annar eda Badir. og giori Riett þeirra j millum. Sama er og þess mannz sauk sem syslumadur stefnir til sijn fyrir laug ad hann vill giora Riett audrum monnum af honum ef hann kemur eigi naudsynialaust. Jtem vm jarda brigdi og garda ad þad kiærist fyrir laugmanni edur fyrir syslumønnum og giori þeir þar Riett af huort sem [eru] lærdir eda leikmenn. R. B. H. K. Suo og fyrirbiodum vier ad nockur kalli sijn mal vndan laugligum Riettara til þess ad draga malid fyrir hinum og fijra hann suo sijnum Riettindum. vtan þad sie j kongs naueru. Þui at aullu suo prouudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier fyrr nefndir menn med fullu doms atquædi. Sijra Skapta laugliga fyrir kalladann. Af þvi oss virtist hann noga timaleingd hafa. og sekann halfri mork j stefnufall. Enn þar fyrir at oss var okunnigt vm hans skiol edur skilriki. þar fyrir dæmdum vier þetta þeirra mal og aull þeirra gaugn sem þeir hafa fyrir Greindri jordu. huer vm sig. aa þad þing. stad edur dag sem kongs vmbodzmadurinn þeim til segdi.[1]) fyrir fardaga. Enn ef Greindur sira Skapti vill þa ecki koma og skytur sier vndan laugmali vid þennann fatæka mann þa dæmdum vier greindum Bersueini þessa þrattnefnda jord Fiskilæk til halldz og Eignar. suo micid sem honum hefur til Erfda fallit epter sijna modur og Brædur og ecki hefur med laugum vndan honum geingit.

Samþyckti med oss þennann vorn dom adur nefndur kongs vmbodzmadur og setti sitt jnnsigli med vorum fyrrgreindra manna jnsiglum fyrir þetta Domsbref Skrijfad aa Jndridastaudum j Skoradal Marteinsmesso dag vm veturinn aa sama Ari sem fyrr seigir.

---

**145.** **16. december 1563.** **í Skálholti.**

KAUPBRÉF fyrir hálfu Geldingaholti.

Bréfabók Brynjólfs byskups, AM. 274, fol., nr. 100. — Lbs.

1) sagdi, hdr.

1083, 4to., bls. 241—3 (uppskrift). Er bréfið i bréfabókinni i transscripto Odds skólameistara Eyjólfssonar og þriggja annarra gerðu í Skálholti 21. okt. 1662, og höfðu þeir bréfið fyrir sér „in originali."

Kaupbref Gisla Sveinssonar fyrer halfu Gelldingaholte .xcm. af Magnusi Jönssyni fyrer xijc j lausafe.

Þad giørum vid Þördur prestur Jönsson og Helgi Markusson gödum mønnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. vid medkennunst j Midfelli j Hrunamannahrepp umm veturinn. midvikudaginn j Jmbriviku ä jölafostu[1]) Anno domini 1563. vorum vid j hia. säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. af eirni älfu Gisla bonda Sveinssonar. enn af annari Magnusar Jönssonar ad søkum þess ad greindur Magnus Jönsson. og hans kvinna Gudrun Jönsdötter voru bædi gømul og stird. og þurfftu biargar vid. enn høfdu þö eigi fe utan halflendu jørd xc ad dyrleika heitandis Gelldingaholt. liggiandi j Eystrahrepp j Steinsholts kyrkiusokn. hvør halflendu jørd ad var mäli greindrar Gudrunar. Þau høfdu og bodid sīnum nanustum vid sier ad taka og greindann jardarpart med sier ad gefa. enn feingu ecki. þvi faldist þad og skildist under þessu þeirra handabandi. ad ädurnefndur Magnus. med jäyrdi og samþycki sinnar kvinnu Gudrunar. seldi fyrrgreindum Gisla bönda Sveinssyni þessa ädurgreinda hälfa jørd Gelldingaholt med øllum þeim gøgnum og giædum sem greindri hälfri jørdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nju. og þau urdu framast eigandi ad. undann ser og sinum erfingium og effterkomendum. enn under Gisla bönda Sveinsson og hanns erfingia. til æfinligrar eignar og friäls forrædis. Enn her j möt gaf tīttnefndur Gisli böndi Sveinsson offt nefndum hiönum Magnuse og Gudrunu xijc ad upphæd so ordin. vj mälnytu kugilldi. iiijc j frīdum peningum og ijc þar til j þarfligum peningum. sem Magnusi vel likadi ad taka: Her med skylldi Gïsli

---

1) þ. e. 15. dec.

bondi Sveinsson hallda sinu kaupi til laga. enn Magnus svara lagariptingum. For þessi allur giordningur framm so sem skrifad stendur. Og til sanninda hier umm setti þessi tittnefndur Magnus Jönsson sitt jnsigli med ockrum fyrrnefndra manna insiglum fyrer þetta bref. Skrifad j Skalholti j Biskupstungum. ä sama äri enn deigi sidar enn fyr seigir.

---

**146. 17. december 1563. Í Múla.**

ÓLAFR byskup Hjaltason lýsir jörðina Tjörn í Aðaldal að réttu eign Hólakirkju og bannar að dæma um þá jörð, fyrr en réttum svaramönnum kirkjunnar er til sagt.

AM. fasc. LV, 16 (nú í þjóðskjalasafni), frumrit á skinni með heilu innsigli; er úr skjalasafni Hólastóls („sk"). — AM. Apogr. 3457.

Tiorn j Adaldal 1563.[1])

Eg Olafur Hialltason vnder guds þolinmædi biskup aa Holum og superintendins[2]) Hola biskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessv minu opnv brefi at sæker þess at sira Jllugi kvnngiorer mier at iordin Tiorn sie vid sig aa talin. þa ma þat ecki med rettu vera. þvi þott biskup Jon heitin milldrar minningar hefdi sellt sira Jone heitnum Olafssyne nefnda iord þa ma þat kaup ecki halldast. þvi Hola kirkia fieck aldreigi þa iord sem fyrir uar gefin. og alldreigi for hun vr kirkivnar reikningsskap j biskups Jons tid. og suo kom hun mier j hendur med audrum domkirkiunar iordum. og alldreigi fieck sira Jon at medtaka Tiorn. uard eg viis af sira Jone at þa eg reid mina visitacionem. at hann hafdi giortt sama vid biskupin epter þeirra iardakaup þvi hann aa taldi þaa vid mic. at hann hefdi ecki fullt vpp borit fyrir þat silfur. sem hann hafdi af Vestfiordum og fieck biskup Jone. og gefit var fyrir þa iord sem fyrir Tiorn uar lofvd at þeirra kaupi. þvi hann sagdist

1) Utan á bréfinu með hinni venjulgu Hólabréfa hendi frá 17. öld. 2) Svo.

hafa haft Bot med kugilldum til afgiallds en hun hefde verit fyr af sier tekin enn hann hefdi fullt upp borit. Og sæker þess at biskup Jon sendi mic aa Vestfiordu. med honum sira Jone. og eg uissi huern styrk hann ueitti honum. og mier er kvnnigt þat malefni. þa vil eg sialfur svara laugum fyrir Tiorn. ef hun er aaklaugvd. þvi þat er alldri klar klaugun. þat kann skie hann hafi ecki fyrir silfrid fvllt vpp borid. og helld ec hann þat ecki Eiga at domkirkiunne. hun hefur ærid nog vti latid. og fyrirbyd eg at dæma vm þa iord Tiorn fyr en kirkivnar rettum suaramonnum er at lavgum til sagt. Og til sannenda hier vm set ec mitt incigli fyrir þetta bref skrifat aa Mula j Adalreykiadal. þann 17 dag decembris. aarvm epter guds burd. M. lx og iij.

---

**147. 28. december 1563. í Skálholti.**

BRÉF Gísla byskups Jónssonar um prestsþjónustu lausafólks í verstöðum.

AM. 234, 4to., bls. 288—9, skrifað fyrir Odd byskup ca. 1620, án efa eftir bréfabók Gísla byskups. — Prentað í FJ. Hist. Eccl. Isl. III, bls. 324—5 (á íslenzku og latínu).

Bref til prestanna wid siosijduna wmm Lausafolck. sem fer ad Sionumm.

Eg Gijsle Jonsson o[verdugur] s[uperintendens] S[kalholltssticktis] heijlsa ydur ollumm Gudz ords þienurum sem Curam Animarum hafa hier i weijdestodum ut med siösijdu sem er ä Eirarbacka. Þorlakzhofnn. i Selwog. Herdijsarwijk og i Grindavijk kiærliga med Gud og hans son Christum. Wited ad mier er bædi sagtt og svo er mier kunnigtt ordid huersu ad marghattad werfolck sæker epter. fær og tekur sijna þionustu af ydur huer i sinne werstaudu Enn hittast misjafntt a sig heima i sijnumm sveitum. Sumer rietter papistar og sumer afgudadyrckarar. Sumer fuullifismenn med höruskap og opinnberum skiækiuskap og med morgumm audrum ochristiligum vanefnum riett ä mote

Guds orde og godra manna sidsemdumm og Christinna manna hattumm. Þui fyrirbyd eg ydur ollum saman mijns embættis vegnna ad þier þionustid ongvann mann huorcke lausamann nie lausakvinnur utann þier faed sannann vitnizburd med svoddann folcke ad þad sie i ongvumm forarganligumm lifnade huer i sinne sveijt eda nockre ohlydne vid sitt yfervalld bæde andligtt og weralldligtt. Enn huad þier annars giored hier utj þa abyrgist sialfer hueria oþock sem þier fä kunnid af Gude og ydrum yferbodumm. Og til sanninda hier wmm þrycke eg mitt jnnsigle ä þetta Bref skrifad i Skalholltti þann fiorda dag jöla Anno 1563.

---

148. 1563. í Bakkárholti

**TYLFTARDÓMR**, kvaddr af Páli hirðstjóra, um óhróðr borinn Páli lögmanni Vigfússyni af síra Stefáni Ólafssyni, dæmir lögmanni tylftareið, sem hann vann þá þegar, og er síra Stefán þá gekkst við því að hafa gert þetta í hefndarskyni við lögmann og að tilkvöddum enn tólf dómsmönnum, var landsvist síra Stefáns og líf dæmt til kongsins náðar.

Dómabók í 4to. í þjóðskjalasafni, bls. 147—51 (áðr í eigu Árna landfógeta Thorsteinsonar), og er þetta skrifað ca. 1620—30 (= *a*), — Lbs. 789, 4to., bls. 144—8, skr. ca. 1620—30. — ÍB. 125 A 4to., bl. 48—9, skr. ca. 1650. — ÍB. 125 B, 4to., nr. 207, skr. ca. 1650. — Steph. 56, 4to., bls. 130—6, skr. ca. 1680. — Ágrip dóms þessa er í ÍB. 113, 8vo., bl. 239—40, skr. 1678, með ártali 1562. — Hér er alla leið fylgt *a*, 789 og 125 A og allviða höfð hliðsjón af Lbs. 720, 8vo., skr. ca. 1600, og JS. 343, 8vo., skr. ca. 1650. — Dómrinn er ýmislega styttr í öllum uppskriftunum, nema *a*. Sbr. Safn til sögu Íslands I, bls. 86.

Domur wmm orickte[1]) er Pall Wigfvsson Logmann ward fyrir aff[2]) wolldumm þenrra Sijra Ellends Þordarsonar og S[ira] Steffanz Olafssonar. [vt neffndur af Hofudzmanninum Pali Stijgssyni.[3])

---

1) ordrykte 789, 125 B. 2) b.v. eftir 789. 3) [b. v. eftir 125 A.

Aullumm [godumm[1]) monnum[2]) sem þetta bref sia edur heyra. senda[3]) Biorn Þorleifsson. Snæbiorn Halldorsson. Jon Thomasson.[4]) Eyolfur[5]) Magnusson. Jon Brandsson. Gijsli Sueinsson. Magnus Jonsson. Jon Eireksson. Wigfvz Jonsson. Magnus Peturzson. Henrich Vilkinsson[6]) og Oddur Oddzson.[7]) suarner logriettumenn quediu guds og sijna.[8]) kunnigt giorandi. þä lidit war frä hingadburd worz herra Jesu Christi M d lx og iij[9]) är ä Backarhollti j Auluesi[10]) ä þriggia hreppa þijnge.[11]) vorum vier j döm nefndir af heidurlegumm herra[12]) Päli Stiigssyni. hirdstiora og hofudzmanni yfir allt Jsland.[13]) ad skoda og rannsaka og med skinsemi fullt dömz atkuæde ä ad leggia wmm þad orickti[14]) er Logmadurinn Pall Vigfvsson hafdi fyrir ordit. af wolldumm þeirra Sijra Ellendz Þordarsonar og Sijra Steffans Olafssonar. huert ed sama ordryckti [war komid[15]) wijdast umm Jsland. bædi fyrir [jslenska og vtlenska.[16])

Kom þar framm Bref af hendi fyrrnefndz Sijra Ellendz Þordarsonar huort ed sama Breff hann afhenti [sialfur[17]) adur nefndumm hofudzmanni Pali Stiigssyne.[18]) huad[18]) suo inne hiellt ä millumm annara orda ad fyrr greindur Sijra Steffan Olafsson hefdi[19]) sied ad adurnefndur Päll Wigfvsson hefdi ridit a spiötskapt Eyiolfs[20]) heitinz Kollgrimssonar. ad honum oforuarandess.[21]) Gud hanz säl [medteked hafe.[22]) og þad

1) sl. öll, nema *a*. 2) [125 B. 3) sendum vier 125 B. 4) Tumasson 789, 125 A. 5) 789; Eiolfur *a*, 125 A; Einar 125 B. 6) 125 A, 789; Vikingsson *a*; Vilhialmsson 125 B. 7) 789, 125 A; Jonsson *a*, 125 B. 8) v(ora) 125 B. 9) 789; 1563, *a*, 125 B, 56; 1562, 125 A, 113. 10) Øluese 789; Oluese 125 AB. 11) 789, 125 AB; þijngstad a. 12) manni 125. 13) Dagsetning er í engri uppskriftanna. 14) ordrykte 789, 125 A. 15) [ad komid er 125 A. 16) [789; jnnlendskum og vtlendskum 125 A; vtlendskumm og jslendskumm (jnnlendskum 125 B) *a*, 125 B. 17) [b. v. 789. 18) [honum sialfur adurnefndur hofudzmann Pall Stiigsson(!) 125 A. 19) huort 125 A. 20) 125 AB; hafdi *a*. 21) 789; Eigiolfz 125 B; Eiolfs *a*, 125 A. 22) -andi 125 B. 23) [nadi 125 A; 125 B sleppir málsgreininni.

sama spiot hafe geinged jnn j hanz kuid. og þar hefdi greindur Eyolfur[1]) bana af feinged. Somuleidess sagdi tijttnefndur Steffän ad greindur Eyolfur[1]) hefdi lyst þui fyrir sier ad optnefndur Pall Wigfvsson være hanz banamadur.

War Steffhan Olafsson þar fyrir oss greinda domzmenn kalladur. somuleidess af nefndumm hofudzmanni ad spurdur. huort hann medkendest. ad hann hefdi þetta bref skrifad. Enn hann sagdi þar ja wid. ad hann hefdi þad bref bædi skrifad og jnciglad med sinne eiginn hendi. Beiddest Päll Logmadur wndannfæriss umm greint orickte.[2]) huad oss wirtist eptir worri skinsemi honum full naudsyn til wera. Þui j gudz nafni amen. dæmdumm wier fyrr[3]) nefndir dömzmenn Paali[4]) Løgmanni loglegan[5]) tilftareijd. suo latandi. ad Eyolfur[6]) Kollgrimssson hefdi ecki feinged sinn bana af[7]) uerkumm Pälz nie wilia. huørke leinilega nie opinnberlega. wiliandi edur ouiliandi. huorn [hinn[8]) sama[9]) eijd [Pall Wigfvsson[10]) Løgmann[11]) sör [þar strax[12]) ä þijnginu. fyrir optnefndumm høfudzmanni [Päli St[igssyni][13]) ollumm äheyrundumm. eptir uorumm dömi. Sonnudu þenann eijd med fyrr[14]) nefndumm herra[15]) Logmanni[16]) [Päli Wigfvssyne.[17])

Snæbiorn Halldörsson. Olafur Halldörsson.
Jon Thomasson. Eiolfur Magnusson.
Arne Jonsson. Jon Biornsson.

Heinrech Wilkingsson.[18]) suarner[19]) Logriettumenn.
Jtem[16]) Sijra Simon[20]) Jonsson. [sem war capellan herra Gissurs. godrar minningar. huors säl gud nädi.[17])
Sijra Steffan Snorrason. [og Sijra[21]) Gudmundur

1) 789; Eigolfur 125 B; Eiolfur *a*, 125 A. 2) ordrykti 789, 125 AB. 3) sl. 789. 4) 789, 125 AB; Pauli *a*. 4) sl. 789, 125 A. 6) 789; Eiolfur, hin. 7) hanss, b. v. 789. 8) b. v. 789, 125 A. 9) [sl. 125 B. 10) [adur nefndur 125 B. 11) sl. 789, 125 A. 12) [hier nu samstundis 125 B. 13) [b. v. 125 A. 14) opt 125 B. 15) sl. 125 B. 16) b. v. 125 B. 17) [sl. 125 B. 18) Vilkinsson 343; Wilhialmsson 125 B. 19) sl. 125 B. 20) Sueirn(!) 343, 125 B. 21) [b. v. 125 B.

Halluardsson.[1] sem[2]) lysti þar ä þijngenu. ad[3]) hann hefdi spurt Eiolf Kollgrijmsson ad huorninn hann hefdi feingid þennann äuerka. enn fyrr nefndur Eiolfur hefdi lyst þui fyrir sier. ad þui wære werr. ad hann sialfur hefdi weitt sier þennann auerka. Wijssa eg fyrr nefndur Gudmundur. hann aunguar lysingar hafa adrar enn þessar. för eg ecki frä honum firr enn þad hann war bædi mällauz og [vitlaus edur[4]) witlijtell. og þetta heyrdi mig[5]) strax þa[6]) tala Jon Magnusson. er[7]) þessi ord sannadi med[8]) eijdi. og sör nu[6]) med firr nefndumm Päli Wigfvssyne[9]) løgmanni.[10])

Nu eptir þennann eijd unninn beiddi og krafdi Päll løgmann[11]) hofudzmanninn Päl Stiigsson ad giora sier riett af Steffhani Olafssyne fyrir þennann rögburd.[13])[1] Þöttust wier fyrr nefndir dömzmenn ecki oss einhlijter[13]) løgmälsins wegna yfer þetta mäl ad taka. þui beiddumm[14]) wier optnefndann herra og hofudzmann Päl Stiigsson ad nefna adra xij logriettumenn med oss. huoria eptirskrifada menn hann til nefndi med oss.

J firstu Orm Jonzson. Þorgrijm Oddsson.
Pal Eyolfsson. Arna Jonsson.
Olaf[15]) Eyolfsson.[16]) Jon Gijslason.
Andres Magnusson. Jon Biornsson.
Pal Jonsson. Gudmund[17]) Sueinbiarnarson.
Ffiolsuinn Helgason. og Þörer Sueinsson.

J firstu spurdum wier fyrr skrifadir dömzmenn Steffan Olafsson ad j huorre meiningu hann hefdi skrifad greint rögzbref. þar hann war huorke weriandi nie sækiandi þessa mälz. og eij helldur med logmäli þar til krafdur. Lysti hann þui þä og medkiendest þar fyrir oss oll-

1) *a*, 343; Halldorsson 125 B. 2) [huor ad 125 B. 3) b. v. 125 B. 343. 4) [b. v. 125 B, 343. 5) [*a*, 343; eg 125 B. 6) b. v. 125 B, 343. 7) 125 B, 343; og(!) *a*. 8) 125 B, 343; eg(!) *a* 9) sl. 125 B, 343. 10) b. v. 125 B, 343. — Allan kaflann um tylftareiðinn frá: Sonnudu o. s. frv. vantar í 789, 125 B. 720. 11) -madur 125 A. 12) rogs burd 125 A. 13) eijnhlijta 125 B; Einhemmt 125 A. 14) biodum(!) 789, 125 B. 15) Arnni(!) 125 A. 16) 789; Eiolfsson a o. fl. 17) 789 o. fl.; Gudmundur *a*.

umm. ad hann hefdi rided til Hlijdarenda. og tijttnefndur Päll Wigfvsson Logmadur hefdi äuarpad sig þeim ordumm. er sier hefdi ecki lijkad. og fyrir þau sømu ord sagdest hann þetta rogzbref skrifat hafa. Komu þau somu ord þar framm ä þijngenu. [og uirtest oss[1]) Pall logmadur hafa þau sømu ord talad fyrir retta vmmuondun.[2]) eptir sinni skilldu. Wissumm vier eij betur adur skrifader domzmenn. Enn Steffhan Olafsson hefdi haft fullann wilia til ad räda med sijnumm rögburdi Päli løgmanni banaräd. Þui ad heilagz anda näd til kalladre. dæmdumm wier med fullu dömz atkuædi þetta fullt og allt banaräd eptir þeirri grein sem logbokinn jnnihelldur [Mannh. 2 c[apitula].[3]) Ef madur wegur logmann[4]) fyrer rietta logsogn. Þui dæmdumm wier Päli Løgmanni lxc j banaräd [og bætur[5]) af Steffhane Olafssyne. J annari grein stendur og[6]) suo skrifad[6]) j worri landslagabok. Eff madur ræger mann wid kong. Biskup edur jarl. edur syslumann. suari slijku fyrer sem sä ætti er rægdur war ef hann wæri þess sannur.[7]) J þridiu grein stendur og suo skrifad j Mannh. [10.[3]) Ef madur lyser eij wijgi logliga. þa[8]) sie hann mordingi riettur. Wirtist oss suo. ef tijttnefndur Päll Løgmadur hefdi walldur wered af wijgi Eyolfs[9]) Kollgrimssonar. wiliandi edur ouiliandi. ad honum hefdi lijka wel bored ad lysa þui wijgi. Enn hefdi hann þui eij ad logumm lyst. þä mundi hann sä madur. sem log giora räd fyrir. Þui wissumm wier eij betur enn suo. ad greindur Steffhan Olafsson wæri slijkri søk sekur. sem Päll logmadur. ef hann hefdi wered sannur ad sok. Jtem[10]) j fiordu grein stendur og suo skrifad j Mannh. 11.[11]) ad þad sieu räd. Ef madur mæler þeim ordumm. edur giører þad nockud. ad hann sie lijfi sijnu ad fijrr. edur nockri

1) [huad oss virtist 789, 125 A. 2) vmmverandan(!) 789. 3) [b. v. utanmáls i *a* og 125 A. 4) 720, 125 A; mann *a*; 125 B, 343, 789 styttir hér, og allt niðrlag dómsins. 5) [b. v. 789, 720, 125 A. 6) b. v. 789. 7) Mannh. 26, utanmáls i 125 A. 8) 789, 720, 125 A; sä *a*. 9) 789, 720; Eiolfz *a*, 125 A. 10) b. v. 789 11) b. v. *a* og 125 A utanmáls.

skomm ad nær. ef þad wæri giort sem hann mællti. suo ad[1]) hann willdi ad[1]) þad kiæmi framm. kunnum wier eij annat ad fornema[2]) wmm þennann rögburd. er Steffhan Olafsson hafdi [upp[3]) ä[4]) þrattnefndumm Päli logmanni[5]) Wigfussyni.[6]) Enn Steffhann hefdi fullann wilia til haft ad Pall løgmann[7]) hefdi fenged fullkomlegann skada. a[8]) sialfumm sier. sijnum gossum. londumm og lausumm aurum. þui fyrer þessar greinir og þær[9]) fleiri sem j uorum landslogum ad þessu mäli hnijga. dæmdumm wier Steffhan Olafsson. hanz landzuist og lijf til kongsinz nädar[10]) j huorn mata kongleg Mapestet will lata hondla uid hann. fyrir þennann hanz optnefndann ohæfilegann giorning. þui wier kunnum eij umm hanz Eiginn personu ad dæma refsingarinnar wegna [fyrir þä grein[11]) hann skilldi heita prestur.

Samþyckti þennann döm med oss optnefndur herra[12]) hofudzmann[13]) [Päll Stiigsson.[14])

---

**149.** **1563.**

**23. janúar 1567.** **á Lundi.**

SKÁNEY veðlögð síra Ásgeiri Hákonarsyni.

AM. Apogr. 4185 „Ex orig. Halldoru Erlendzdottur j Bolstadarhlid." „5 jnnsigle hanga vid brefed. eitt er burtu."

Þat medkiennunzt vid brædur Mattheus Lassason og Eirekur Lassason med þessu ockru opnu brefi at vid haufumm ockar jardarparta j Skäney sett j borgann fyrer þä peninga kvika og dauda sem sijra Asgeir Hakonarson hefur ockur bygtt og länat j nockur forliden är. fyrer ockra fulla þørf og naudsyn. arum et cetera. M.d.lx.iii. skal hann svo mikid j þessare ockari jørd eignast sem hans peningar verdi[r] væri ef vid høfdum[15])

1) b. v. 125 A. 2) fornæma 789. 3) sl. 789, 720. 4) [sl. 125 A. 5) b. v. 125 A. 6) sl. 125 A, en bætir við: thil thalad. 7) b. v. 789, 125 A. 8) af 789. 9) adrar 789. 10) nada 789, 720, 125 A. 11) [þui 789, 720, 125 A. 12) sl. 789, 720, 125 A. 13) b. v. 789, 720, 125 A. 14) [sl. 789. 15) Svo.

ecke slika peninga hønum eda hans ummbodsmanne ut at giallda. sem vid haufum adur utteked þa hann villde þä hafa edur ut af ockur heimta läta under riettan Reikningskap vid ockur. þar med haufum vid optliga lofad adurskrifudum Sijra Asgeiri at han skyllde eiga kost ä at kaupa jardarparta ockar j Skaney fyrstur med jaufnu verdi sem adrer bydu vid. þa at vid villdum lata landid falt vera med fullum handsaulum þetta giorandi. under vitnisburd margra dugandi manna sem vid og hann presturenn haufum til kallad þessum mønnum hiä verande Teite Arnasyne. Ylife Biarnarsyne. Ber[g]-þore Jacobssyne. Jone Þorsteinssyne. Sumarlida Stefanssyne. Þorvalldi Arnasyne. Magnuse Snorrasyne og fleirum ødrum. Svo og haufumm vid hvørke lofad nie vediat nockurum manne þessa ockra jardarparta fyrr enn Sijra Asgeire. Og til sannenda hier umm setium vid Mattheus og Eirekur ockar insigle med fyrrgreindra manna jnsciglum fyrir þetta vedbref skrifad x. kalendas Februarij mänadar ä Lunde j Sydre Reikiadal. arumm [og cetera[1]) M. d. lx vij.

---

**150. 1563.**

BRÉF Gísla byskups Jónssonar um bygging stóljarða í Grindavík.

AM. 234, 4to., bls. 289—90, skrifað fyrir Odd byskup ca. 1620, án efa eftir bréfabók Gísla byskups.

Bref wmm Bygginng ä jordumm i Grijndawijk 1563.

Eg Gijsle Jonsson Superintendens Skalhollttz Sticktis heijlsa ydur ollumm dandizmonnum sem bua og buid hafa a þeim Skalhollts jordumm sem liggia i Grijndavijk kiærliga i Gude og hans signada syne Jesu Christo.

Wita skulu þier ad sokumm þess adh þann frome og velburduge mann hofudsmannenn Pall Stigsson hefur afsagtt med ollu ad lata stadarinns jarder i Grijndavijk

1) [Svo.

leingur byggia sem nu vmm stunder skied hefur helldur sagtt þad med ollu nu til og þeim dandissmonnum sem domkirckiunnar vmmbod hefdu og sokumm þess ad eg komst ecki sialfur i Grindavijk nu i sijdst þa hef eg bijfalad mijnumm fullmeckttugumm Radsmanne sijra Þorde Jonssyne þessar Grindavijkur jarder ad byggia eptter þui sem ad fornnu hefur werid sem er med somu landgilldi og verid hefur. þo med soddan skilmala sem nu fylger. Ad i fyrstu wil eg ad stadurinn i Skalholltti eigi halftt skip vid þann sem byr ä Jarnngerdastodum. Þorkotlustodumm og Hraune. Skal stadurinn þessumm skipumm uppkoma ad halfu leyte af þeim stadar Rekum sem liggia fyrir Grijndavijk. Jtem þau Bænhuskugilldi sem ad eru a Hraune. Þorkotlustaudumm og Höpe þa skipa eg ad þau snuest i leigukugilldi. Jtem byd eg mijnumm fyrrgreindumm Radsmanne ad hann tilskilic i sinne jardabyggingu ad huer leigulide vaktti þann Reka sem fyrir sierhuers lande liggur epter þui sem laug seigia og hafe ecke mejra af enn so sem leigulida ber eptter logmale. Jtem byd eg Radzmannenum ad fyrirbioda Leigulidunumm ad skamptta sier nockur trie sialfer af af Rekunumm til stadarjardanna utann þad sem til verdur lagtt af sialfumm Radzmannenumm og naudsyn krefur.

Hier med vil jeg hann tilskilia ad þeir sieu i allre hlydne vid haufudsmannenn sem þeim mauguligtt er wors nadugasta herra kongs wegna svo og lijka ad þeir syne alla hlydne audvellde og undergefni Skalholltz domkirckiu formonnum svo sem ad gomlu hefur werid og þeir hafa adur giortt. Jtem hefe eg fullt vmmbod gefid mijnumm firrgreinndumm Radsmanne ad byggia Krysewijk fyrst sira Birne ef hann vill med þeirre landskilld sem hann kann af stad ad koma og med þeim leigukugilldumm sem þar kunna til ad setiast svo og med þeim skilmäla vmm rekann og allt annad sem adur stendur vmm Grijndavijk. Skil eg hier til Nyabæ ad hann byggist og svo sem Radzmadurinn kann af stad ad koma. Jtem Herdijsarvijk skal hann byggia eptter

þeim ollum skilmäla sem adur er sagtt vmm Grijndavijk bæde halftt skip Reka og annad utann hann skilie þar til iiij leigukugillde og landgilldi sem honumm þyker moguligtt Einkanliga byd eg honum ad skilia þad til ad þeir sieu aller hlyduger i Guds orde.

Og til sanninnda hier vmm et cetera.

---

151. 1563.

BRÉF Páls hirðstjóra Stígssonar um tíundir og um greiðslu gjaftolls til byskups, svo sem áðr hefði verið.

Lbs. 101, 4to., bls. 14, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca 1720—30.

Enn eitt Bref Päls Stijgssonar um tijunder og Profasta giaftolla. Anno 1563.

Jeg Pall Stijgsson kongl. Mayst befalningsmann yfer allt Jsland byd ollum andligum og veralldligum. ad þier gialldid og greidid ydar tijunder. øllum og sierhvørium. sem þier vitid sierhvøria tijund ä ad taka. effter þvi sem løg og ricttur hefur vidgeingist hier i landi effter gamallri tijd. ef þier vilid ecki j meire skada koma.

Jtem hefi eg bifalad øllum. sem i þeim syslum bua er Herra Gisle Jonsson hefur brief fyrer feingid. ad þier þann veniuliga profasta giaftoll honum og hans umbodzmonnum. so sem þier hafid ädur giefid þeim profstum. sem voru i fyrre Byskupa tijd.

Og til sanninda hier um. þrycke eg mijnu Signete hier fyrir nedan et cetera.

---

152. [1563].

MINNISGREIN um bygging Haukadals og Laugar.

AM. 234, 4to., bls. 288, skrifað fyrir Odd byskup ca. 1620.

Wmm Bygging a Haukadal.

Jtem hefur Hiedinn Jonsson til leigu med Haukadal tuær kyr og þriu asaudar kugilldi. Jtem þriar kyr med

Laug. Jtem er stadurinn leijgdur fyrir tuo hundrud med fimm aurumm til fatækra. Jtem Laug leigd fyrir x aura.

Skriffad epter Brefabok h[erra] Gijsla.

---

153. [um 1563].

JÓNI SIGURÐSSYNI dæmdar þrjár merkr i fullrétti, en konungi fjórar, að unnum fjáreiði, fyrir áburð Özurar Björnssonar um ranga tíund (ágrip).

AM. 211c, 4to., bls. 197—8, skr. ca. 1700.

Innehalld Torfa döms.

Aussur Biørusson talade og klagade til Jons Sigurdssonar. þad hann hefde giørt ränga tyund fie sijnu. J fyrstu vyrdtest þeim Jön løglega fyrer kalladann. Jtem stendur so: Mal huort er madur mæler vid annann mann sem horfer til hneixla. Jtem Eff madur mæler okuædisord vid mann edur konu sem þesse sekt liggur vid. þa skal fullriette vpp vera effter sex manna döme. vmm þann sem vid er mællt. Virdest oss þetta eij minna enn fiølmæle edur fullriettis ord. þuj j gudz nafne Amen. dæmdum vier Jön skylldugan ad vinna fiar eijd. huorn hann þar samstundis sör. Sijdann dæmdum vier honum iij merkur j fullriette enn konge fiörar merkur. Samþ[ykkti].

---

154. [1563—4].

REIKNINGAR Eggerts lögmanns Hannessonar um dánarbú Daða Guðmundssonar í Snóksdal, 1563—4.

AM. 267, 4to., frumrit á pappír. „Magnusar Magnussonar ä Eyri i Seidisfirde. True eg eg meige þad eiga, þvi Magnus talar ei um þad i brefinu 1703. enn reiknar upp allt annad er hann sendi. Jmo eg ä þad nu epter giøf Sira Halldors Palssonar 1705. Þesse fyrsta sidann og allt þad sem er med þeirre sømu hendi, er med eigin hendi Eggerts Hannessonar, contuli cum indubis

autographo illius.“ (AM.) En m. h. Magnúsar sýslumanns Jónssonar í Miðhlíð er þetta: „Þetta Kuer Er gamalltt sem aa maa sia aa godum gripum.“ (Þessar athugasemdir eru á 3. bl. frumritisins sem að réttu lagi er 1. bl., og er hér skakkt innfest).

Jehsus.

Reikningr Dada heitinz.

Anno Domini m. d. lx og iij ar voru suo morg quilldi aa leigustodum j Borgarfirdi gilld og ogilld þau er att hafdi Dadi heitinn Gudmundsson huers sal ad gud nadi sem hier eppter seiger jnprimis.

Jtem med halfumm Kadalstodum iiij kyr og ij asaudar quilldi. landskylld epter halfa jordena quilldi. l[ukt] j landskylld kyr anno 64.

Jtem med Lundum iij kyr og iij asaudar quilldi. landskylld quilldi. anno 64 l[ukt] j landskylld ku.

Jtem med Veggiumm v kyr og iiij asaudar quilldi. landskylld quilldi. anno 64 lugt j landskylld vj ær. og fiargeymsla fyrir adra x aura.

Jtem med Steinum iiij kyr og iij asaudar quilldi. landskylld quilldi. anno 64 lugtt j landskylld kyr.

Jtem med Helgavattne iiij kyr og iiij asaudar quilldi. landskylld quilldi. anno 64 lugt j landskylld vj ær.

Jtem med Frodastodumm hia Amunda v kyr og v asaudar quilldi. landskylld quilldi. anno 64 lugt j landskylld kyr.

[Jtem enn hia Sueine Sæmundssyni ibidem eitt quilldi.[1])

Jtem med Sueinatungu v kyr og v asaudar quilldi og kappal og er hann leigdr xx alnum. landskylld quilldi. Anno 64 lugt j landskylld iij ær og gellder x aurar.

Jtem med Signyarstodumm 2½ kyr og iij asaudar quilldi landskylld quilldi og gelldfiar x aurar. Anno 64 lugt j landskylld kyr og iiij sauder tuæuetrer.

Jtem med Brusholltte iij kyr og iij asaudar quilldi. landskylld quilldi.

Jtem med halfre Nortungu hia Sygurdi ij kyr og ij asaudar quilldi og kapal. landskylld.

1) [Útstr. í frumr.

Jtem med halfumm Videlæk. vj. quilldi. landskylld.

Jtem med halfre Geirshlid er von aa 6½ quilldi. landskylld eingin ad vore og er 2½ quilldi dautt hier og stendr ecki þar fyrer.

[Jtem med halfumm Skalpastodumm er Jon Halldorsson aa iij er Dadi atta og onnur iij er Jon aa sialfur.[1])

Jtem med Stafholltzveggiumm hia Þoruardi ij quilldi.

Jtem hia Sygurdi j Arnarhollte 2½ quilldi.

Jtem eitt quilldi hia Gisla a Bruarreyk[i]umm.

Jtem iiij quilldi hia Jone Halldorssyni aa Brecku.

Jtem eitt quilldi hia Gisla aa Glitstodumm.

Jtem iij quilldi hia sera Salomone.

Jtem 1½ quilldi hia Eyiolfi aa Gudnabacka.

Jtem 2½ quilldi hia Einare Juarssyni.

Jtem eitt quilldi hia Sæmundi Sueinssyni enn þad er hia syne hanz.

Jtem 1½ quilldi hia Þoralla aa Hafafelli.

Jtem iij quilldi hia Olafi aa Samstodumm.

Jtem eitt quilldi hia Magnuse Sygurdssyni aa Haukagile.

Jtem .v. quilldi hia Jone j Flotztungu.

Jtem 1½ quilldi hia Olafi Gudmundssyni j Ase.

Summa xvij quilldi og ll.

[Jtem radstafar Sygurdr Arason fyrir vij quilldum ad framm tolldu enn til virdingar. og hann þeim gilldumm vt ad suara.

Jtem radstafar Gudmundr Ormsson fyrir xij quilldum og standa vj af þeim med Skogumm og ij hia honum sialfumm og ij j Eyskihollte og ij aa litla Skardi.

Jtem stendur gelldr saudr j Skogumm.

Jtem hefr Gudmundr Ormsson j sinne vardueislu xviij quilldi ad framm tolldu enn til virdingar xv og aa hann þeim gilldumm vt ad suara.[2])

Þessar jarder liggia j Bitru og bondinn Dadi heitinn Gudmundzson atte jn primi[s].

1) [Útstr. í frumr. 2) Það, sem hér stendr að framan, er á 3. og 4. blað handritsins, og tekr þá við 1. og 2. blað, því að skakkt hefir verið bundið inn. — Frá [ er útstr. í frumr.

Jtem med Skridens enne .v. quilldi. jord iiij^c og xx. landskylld attatigi alner.

Jtem med Huitahlid .iiij. quilldi. jord xij^c. landskylld x aurar.

Jtem med Tungu .vij. quilldi jord iiij^c og xx. landskylld quilldi.

Jtem med Þorodzstodum .v. quilldi. jord .xvj^c landskylld attatigi alner.

Jtem med Vididalza er liggr j Steingrimsfirde j Stadar kirkiu soknn .vij. quilldi. jord xxx^c. landskylld quilldi.

Þessar jarder liggia a Selstrond j Kalladarnes kirkiu soknn jnn primis.

Jtem med Bæ viij quilldi. jord iiij^c og xx. landskylld quilldi.

Jtem med Hafnarholma vj quilldi med einu Krosshus quilldi og eignazt fatæker leigr[1]) af þui. jor[d] iiij^c og xx landskylld quilldi.

Þessar jarder liggia j Trekyllisvik j Arnes kirkiu soknn sem bondanum Dada til kom jn primis.

Jtem med Melum .v. quilldi. jord iiij^c og xx landskylld vij agilldi j busgagne.

Jtem med Nordrfirde iij quilldi. jord viij^c. landskylld x aurar j busgagne.

Jtem med Krossnesse .vj. quilldi. jord iiij^c og xx landskylld vij agilldi j busgagne.

Jtem eru þar og ij ær hia Jone smid j byggingu ibidem.

Jtem med Selianese iij quilldi. jord viij^c. landskylld attatige alner j busgagne.

Jtem stendr þar xx fiordunga sar j uardueislu ibidem.

Jtem er batur nordr aa Kalldbak.

Þessar jarder liggia j Hrutafirdi jnn primis.

Jtem med halfre Hesseyre.

Jtem med Laxar Dal vij quilldi ad tolu enn 6½ til virdingar. landskylld lxxx alner. jord xvj^c.

[Jtem med Ospaxstodum.[2])

1) Svo. 2) [útstrikað.

Jtem med Bæum vj kyr og v asaudar quilldi alltt gilltt. jord viij^c og xl. [land[1])skylld 2½^c.

Jtem iiij quilldi j Skalholtzvik hia Jone Bardarsyni.

Jtem .v. quilldi a Þambarvollum hia Biarna Olleifssyni og gamall kapall og eignast herra Marteirn þar af iiij quilldi.

Jtem einn hestr a Brungile og hefur Jon Halldorsson hanz[2]) medtekid.

Jtem .v. quilldi j Grof hia Arna.

Jtem eitt quilldi a Þorpum hia Jone Bergssyni.[3])

Hofn.

Anno Domini M. d. lx. iij ar voru suo margar jarder og quilldi aa leigustodum j Hafnar vmbodi j Huamssueit og Medalfelssstrond gilld og ogilld þau er att hafdi Dade heittinn Gudmundzson huers sal gud nade sem hier epter seiger jn primis.

Anna.[4]) Jtem Hofnn sialf er xxx^c.

Anna. Jtem med Kyrunarstodum viij quilldi. jord iiij^c og xx. landskylld quilldi.

Anna. Jtem med Teigi 5½. quilldi. jord xij^c. landskylld x aurar.

Anna. Jtem med Hollte vj. quilldi. jord xvj^c. landskylld attatige alner.

Hall.[5]) Jtem med Hafstodum 4½ quilldi. jord xvj^c. landskylld attatige alner.

Hall. Jtem med Breidabolstað viij quilldi. jord iiij^c og xx landskylld hundrad.

Hall. Jtem med Hellu vj. quilldi. jord xvj^c. landskylld attatige alner.

Hall. Jtem med Harastodum viij quilldi. jord xx^c. landskylld hundrad.

---

1) [tviskrifað. 2) Svo. 3) Hér endar 2. blað og tekr við 5. blað. 4) Þetta táknar Önnu Bjarnardóttur, dótturdóttur Daða, sbr. 51. gr. í testamenti hans, en þar eru henni ánafnaðar þessar jarðir. 5) Þetta táknar Hallbjörgu dótturdóttur Daða, sbr. 52. gr. í testamenti hans.

Jtem hefur Pietur Einarsson med tekid ij quilldi aa Dogurdaraa og hia Hauardi j Fagradal.[1])

Jtem eitt quilldi hia Jone smid j Daugurdarnese.

Jtem iiij quilldi j Kaulldukinn og ij ær betr og aa eg þar af iiij ær.

Jtem eitt quilldi a Skardzstödum hia Þorbirne ero fyrir vj ær og þar af lifa iiij ær gilldar.

Jtem ij kyr aa Hooli hia Vilhialme.

Jtem eitt quilldi aa Akre hia Jone Þorsteinssyni og er Sueirn aa Kyrunnarstodumm þar fyrir j borgun.

Jtem vij quilldi j Holum hia Lopti Palssyni og er j burtt.

Jtem eitt quijlldi er hia Steine Þorsteinssyni ibidem og var virtt fyrir xv aura.

Jtem j quilldi a Leysingiastodum hia Jone Þordsyni og er þad daudar vj ær.

Jtem eitt quilldi j HuitaDal hia [Orme Peturssyni.[2])

Jtem eitt quilldi j Bessatungu hia Augmundi Þordarsyni. G.[3]) Pallsdottur.

Jtem eitt quilldi hia Gudmundi a Huali er þad afnamz kyr vonckud xvi vetra gomul quidslitin.

Jtem ij quilldi hia Magnuse Sigurdzsyni j HuamsDal. G.[3]) Palsdottur.

Jtem eitt quilldi hia Hauardi Pallssyni.

Jtem hia Sueine .iij. kugilldi sem ero ij kyr og j asaudar kugilldi. og ero þau ad auki þeirra viij sem hann hefr med jordunne og suo þess sem er aa Akre.

Jtem hia Pietre Einarssyni ku og vj ær er voru adr j byggingu hia Hauardi og j Dogurdarnese.

Jtem hia Loppti j Holum iiij kyr og daudar vj ær. voro þessar kyr virttar allar iiij fyrir ij^c og xlv alner betur.

Jtem hia Jone Þorsteinsyni j Holumm ij kyr og vj ær og er þar fyrir j borgann Sueirn aa Kyrunarstodumm.

---

1) Það, sem nú fer á eftir, stendr á bl. 5v, og er allt útstrikað. Yfir þessari bls. stendr „64“ þ. e. anno 1564. 2) [fyrst skrifað: „Jone Þorsteinssyni“, en það dregið út. 3) Ógreinilegt, en mun vera Guðrún, sbr. síðar.

Jtem hia Magnusi j Huamzdal xij ær.[1])

15 Jehsus 64.
J Sidumula.

Anno Domini 1564 medtok Einar Gislason aa laugardæginn j fardogumm þessa eppter skrifada peninga af Eggertt Hannessyni sem hier greiner jnn primis ornamentumm kirkiunnar j Sidumula.

Jtem alfær messoklædi og þar ad auki hokull. og ij alltaresklædi. jtem kros med vnderstodum. yfer altare j brik. Jtem glodarker. Jtem iij koparstikur littlar.[2]) Jtem v kluckur smar og storar og ero ij an kalfa. Jtem litill silfur kaleikur og er nockud brockud[3]) patinann. Jtem annar kaleikur med piatur og er allur aflagadr. Jtem messobok syng[i]andi af vetrartima. og vantar aa vpphafid. Jtem onnr messobok af sumartima. Jtem Davidssaltare. og þar til ix skrædubækur adrar. Jtem alfærar metaskalar med v metumm. Jtem jarnkallzbrot. Jtem fangalitil bokakista og lagr bokaforme og ero fra fialernar aptan fyrer.

Jtem aa og kirkian þar x quilldi og hundra[d]shest og var Einare þetta j hendr gillt og greitt med odrum peningum. Jtem var kirkian giord fyrir xc.

Jtem þetta eppterskrifad medtok Einar Gislason jnnann gatta j Sidumula jnn primis.

Jtem lij trog ad tolu liett og god enn ad virdingu fyrir i½c.

Jtem v strocka nefnur fanytar virtar fyrir xl alner.

Jtem wppgiordar kerolld vond og god xxxviij ad tolu enn ad virding med viij miolkurfotumm liettumm og godumm fyrir c og xx alner betur.

Jtem [stor ker sma og stor[3]) xvj ad tolu. enn til virdingar vjc med liettumm og godumm.

Jtem v kistur ad tolu liettar og neytar. enn ad virdingu fyrir c.

---

1) Hér endar það útstrikaða og tekr við 6. blað. 2) litlattlar, hdr. 3) Svo.

Jtem x triediskar. viij skerbord. viij skaler. xiij spæner. Þetta alltt vontt og gott. Þetta alltt virtt fyrir xx alner.

Jtem vij tinkonnr[1]) smar og storar. enn aa vog ij fiordungar og flestar odelldar og med ollu obrottnar og eingin virding aa af þui þetta var eigi klartt.

Jtem iij triestaup. iij skyrgrindr. iiij siunefnur.

Jtem til smidiu belger sterker. slegga.[1]) aflholkur. ij blistrur. lod. stedie og skeifnabor. kolskara.

Jtem iij borddukar fangalitler af striga.

Jtem einer vllkambar og koppaflote.

Jtem xvj grenebord þysk og vij þysk eikebord og þar til vij fornar jslendskar fialer fanytar.

Jtem iij lasar med tueimr lycklumm.

Jtem ppundare og ein vidarsog jslendsk.

Jtem lest tunna tom laslaus.

Jtem torfskere og palreka. vij hrifur og iiij vallarklarar. iij varrekur og iij orff og iij klyfberarar[1]) med reidskapp og aa vij hesta bandreipp.

Jtem v liaspikur og iij klappbryne. eirn torfliar. eirn nafar.

Jtem aa iij hesta torfkroka og þrenner klafar og ein hripp.[2])

Þetta alltt lasid. Jtem einn ketell virtur fyrir xx alner og annar fangaminne vppgefin med aullu og enn þridie med sama hætte med skipe aa Akranesi.

Jtem eirn ferdalaupur.

Jtem þetta eppterskrifad j sængurklædumm. Jtem iiij sængur af dune med sterckumm verumm og iiij hægindumm liettumm og godumm og iiij jslendsk aklædi og tuennar samfastar huiluvoder og ein sessa. ein slitin linlok. var þetta virtt fyrir iijc.[3])

Jtem ij forn notaslitur og slitre af streing.

Jtem ein hud reycktt og rokud og aa vog ij fiordungar.

Jtem pansare og jarnhattur og eirn tialldas og ij sulr.[1])

Jtem iij malfadmar med todu og xl nauta klafar.

Jtem oþæfd vod xxiiij alner.

1) Svo. 2) þ. e. hrip. 3) Hér endar blað 6 og hefst 12. blað, því að enn er rangt bundið inn frumritið.

Jtem wppa husa virding vte og jnne jnn primis Badstofann med alfærum palli og þrimur skorum og algiordumm beck. bordi og bordstolumm og gongunum framm ad frammstofunne. var virtt fyrir ixc.

Jtem fornastofann. burid og gongin framm ad anddyrum var virtt fyrir iiij.c.

Jtem skalin med ondene og sa allur lausavidur er til stofunar atte ad fara var virtt fyrir vjc.

Jtem elldaskalinn og skemann þar hia virtt fyrir iijc.

Jtem kustofann vppi med hlodukoppi og smidiukofa. var virtt fyrir ijc.

Jtem fiarhusid og lambhusid med hlodukoppi var virtt fyrir ijc.

Jtem gelldneytafiosid med hlodunne var virtt fyrir ijc.

Jtem þetta eppter skrifad medtok Einar Gislason j quickumm peningumm.

Jn primis j gelldum nautumm.

Jtem eitt naut ix vetra gamalltt.

Jtem ij naut viij vetra gomul.

Jtem ij naut vij vetra gomul.

Jtem iiij naut vj vetra gomul.[1])

Jtem iij naut v vetra gomul.

Jtem ij naut fiogra vetra gomul.

Jtem ij naut veturgomul.

Jtem eitt naut tuæuett.

Summa xxiii½c og xl alner betur

Jtem xvc til virdingar j hestumm og kopplumm vngum og gommlumm liettum og godum med þeim einum sem kirkian aa.

Jtem var virtt og gilltt giortt xvij quilldi j kumm.

Jtem j asaud xvi quilldi gilld.

Jtem gamler sauder lix.

Summa xxiijc og xlv alner betr.

Jtem þrieuetrer sauder iiij.

Jtem tuæuetrer sauder xxvj.

Jtem veturgammler lxxxvj sauder.

Jtem smior sem voru j Sidumula virtist oss og þeirre

1) „og eitt fiogra vetra", er hér strikað út.

konu sem þau hafde saman drepid xxxij vætter og hafdi Eggertt sialfur vernd yfer þeim og var þetta j fiorum kistumm og tueimur saumm. Þar af lanada eg Einare Gislasyni vij vætter smiorz.

Jtem vt tekid j landskylld j Sidumula vmbodi j þetta ar.

Jtem af halfumm Kadalstodumm kyr.

Jtem af Lundum ku.

Jtem af Vegg[i]umm iij ær og lx sauda geymsla fyrir x aura.

Jtem af Helgavattne vj ær.

Jtem af Frodastodum kyr.

Jtem af Sueinatungu iij ær og tuæuett naut og veturg[amlan] s[aud]. Þetta fyrir x aura og hier til annar veturg[amall] s[audur] j kappal leigu.

Jtem af Signyarstodum kyr og iiij s[auder] tuæuetrer.

Jtem af Brushollte quilldi. af Videlæk halfumm og af halfre Nortungu hefr eingin landskylld feingist. hier af hefur eg vtgolldid Olafi Helgasyni iiij quilldi j þionustulaun

Jtem Grime ij quilldi og þad ed þridia sem hann tok þar heima j Sidumula j þionustulaun.

Jtem golldid Sygurdi vinnumanne j kaup iiij saudi tuæuetra.

Jtem Halli og Jone tuæuetra nautid og v[etur] g[amlan][1]) s[aud] j þeirra kaup.

Jtem Ppali v[etur]g[amlan] s[aud] j kaup.

Jtem til Nortungu eitt quilldi vegna kirkiunar.

Jtem Arngrime quilldi.

Jtem enn medtok Olafur Helgason adr enn Einare var afgreitt v saudi gamla og vj þrievetra og viij tuæuetra alla fyrir iij$^{c}$. Jtem fiogra vetra gamalltt naut fyrir c. Jtem hross med folalldi fyrir c. og þar til hest fyrir c.

Jtem Grime sem var j Sidumula iij saudi gamla og þria tuæuetra fyrir c. Jtem sæng fyrir x aura.

Jtem voru þesser menn j virdingu j Sidumula. sera Salamon Gudmundsson. Halldor Einarsson. Gudmundr

1) tvískrifað í hdr.

Halldorsson. Gudne Þormodsson. Þorleifr Jonsson. Olafur Helgason og adrer goder menn fleire þeir er til logdu eppter sinne skynseme.[1])

J Hofn Anno Jehsus 64.

Anno Domini 1564 medtok Pietur Einarsson aa fostudægin eppter fardagaviku þessa eppter skrifada peninga af Eggertt Hannessyni sem hier greiner jnn pprimis.

Jtem sprukel er tekur vj tunnur.

Jtem ij ker er tekur iii½ tunnu.

Jtem enn ij ker er tekur iij tunnur huortt.

Jtem enn v ker er tekur ii½ tunnu huertt.

Jtem xvij smakerolld mathelld og þar til vj gomul.

Jtem v fotur sterckar.

Jtem ij dryck[i]araskar.

Jtem xiiij trog nyg.[2]) og atta þar til mathelld.

Jtem enn xj trog forn.

Jtem ij strockar nyer.

Jtem viij diskar og viij skierdiskar og viij bordskaler og þriu byrdu skrifle og lar fangalitill og þar til enn ij larskrifle.

Jtem tvenner torkrokar[2]) faneyter.

Jtem ein hripp og onnr halfhripp.

Jtem einer klafar.

Jtem torfliar og torfskere.

Jtem ein fäneyt oxe.

Jtem pundare og[3]) reisla.

Jtem smiorjarn.

Jtem til smidiu forner belger. stedie og stedia brot.

Jtem tong og hamar. aflholkur og blistrur og eirn skeifna bor og jarnslegg[i]a. ij liar nyer. eitt bryne og vxahud er vegur ij fiordunga.

Jtem tuenn selskinnsreipp sterck og suo ein bandreipp.

Jtem iij klyfberar alfærer.

Jtem iij orf og iiij hrifur og ein varreka.

---

1) Hér eftir er út strikað: „Jtem var j Sidumula smior j iiij kistum og tueimur saum og var", sem er komið áðr. Þar með þrýtr 13. blað og tekr við 7. blað. 2) Svo. 3) tvískrifað.

Jtem iiij vallarklarar.
Jtem heykrokur og litill stigi.
Jtem not fangalitil.
Jtem ein tinkanna er vegur xiiij merkur.
Jtem alfær vefstadur med eikarskeid.
Jtem iiij hillufialer.
Jtem v eikibord liett og god.
Jtem ij breidar hillufialer j selenu.
Jtem ij kialtrie forn.
Jtem viij fialer liettar og godar.
Jtem ij langer asar.
Jtem viij grenerapta gilldi.
Jtem ij bok[1]) j hesthusenu.
Jtem ij skyrgrindr og iij siur.
Jtem iij sængr og iij huiluvoder og iij hægindi og aklædi.
Jtem eirn stockur j kirkiunne.
Jtem suo micid j fridum peningumm xi½ asaudar quilldi.
Jtem ix kyr.
Jtem ij vxar. annar viij vetra enn annar vj vetra.
Jtem xx saude gamla.
Jtem xx saudi veturgamla.
Jtem vii½c j hestumm og hrossumm med vngumm og gomlumm.
Jtem virding aa husumm j Hofn jn primis.
Jtem kirkian fyrir iij hundrud.
Jtem badstofann med tueimur ppollum og skorumm. burid og med gongunumm framm ad ondene fyrir viijc.
Jtem skalinn og skalaburid med onden[n]e fyrir vjc.
Jtem stofan med klifanum[1]) fyrir vc.
Jtem skemmann med elldhusenu og smidiuhusenu fyrir iijc.
Jtem ij kuneytafios med tueimur hlodumm hurdumm og dyragiættumm og hesthuskofa fyrir vc.
Jtem gelldneytafios med hlodukofa fyrir c.

1) Svo.

Jtem fiarhus og lambhus med tueimur hlodum og dyra vmmbuningi og jotu umbuningi j fiarhusenu fyrir ijc.

Jtem hefur þetta ar golldist j þad v½c sem fellur j landskylld af þeim vij jordum sem liggia vnder Hofn fodr fiargeymsla og vefnadr og nockrer veturg[amler] s[auder] og eitt asaudar quilldi og annad quilldi aa Kyrunnarstodumm. ero sauderner komner j toluna til annara veturgamla sauda sem voru j fodrum j vetur. enn eitt quilldid galltt eg erfingum Einars heitinz j hanz þionustulaun. enn annad quilldid galltt eg Sueine Jonssyni j smidunarkaup.

Jtem hier til galltt eg erfingiumm Einars heitinz j hanz þionustulaun ij fimmtann aura kappla fyrir i½c. hier til aa eg ad greida j haust hanz erfingumm i½c j gelldumm saudumm af þeim gelldingi sem mier var afuentur og aa Sue[i]rn aa Kyrunnarstodumm ad taka þar af x aura.

Jtem hier til greidda eg þrimr vinnekonnum j Hofn j sin þionustulaun iij saude gellda fyrir x aura.

Jtem enn gallt eg Gudrunu Palsdottur vppi þær x ær sem hun atti hia Dada og j hennar þionustulaun eina ku j Hofn adra j Bessatungu og xij ær j Holum[1]) og ketel fyrir lxxx alner og þar til ij saudi gellda fyrir xl alner.

Jtem þaa þetta fyrrskrifad var greitt þaa medtok eg Eggertt Hannesson j mina vardueislu xlv gamla saudi ad tolu enn til virdingar ixc.

Jtem xij saudi þreuetra fyrir ijc med þeim ij sem vera skylldu aa Ackre.

Jtem xxxv tuæuetrer fyrir iiij½c.

Jtem j Hofn xvij sauder veturgamler og aa Ballaraa iiij og ij j Dogurdarnese og eirn j Teigi. ero þeir allz xxiiij fyrir ijc.

Jtem mark aa þessum gelldingi er bladstyftt framann ed vinstra enn huatt ed hægra. Hier af hefur eg

1) fyrst skrifað „Huamzdal“, en síðan dregið út.

golldid Sueine ij saudi gammla og erfingum Einarz Einarssonar iiij saudi gamla sem fyrr er skrifad.

Jtem smior j Hofn sem eg Eggertt medtok sialfur j mina vardueislu jn primis j eirne kistu xij vætter. jtem j norskumm stocki vij vætter. Jtem j odrum stocki ii½ vætt. Jtem eina tunnu smiorz er eg lanada Pietre Einarssyni og onnr[1]) er hann vændist ad Dadi hefdi gefit Jngeridi og lofadi borgunn aa ef Hannes heimte þaa hann væri fulltida.

Voru þesser virdingarmenn j Hofn Sera Ppietur Arnason. Halldor Einarsson. Oddur Tummasson. Biarne Oddsson. Eirekur Gudmundsson. Are Kollsson.

Anno Domini 1564 voru suo morg quilldi med jordum og annarsstadar ad tolu og til virdingar vm vorid þa Eggert Hannesson medtok sem hier seiger. Jn primis.

Jtem med Erfstodum[1]) vij. quilldi ad tolu. enn til virdingar v½. jord xijc. landskylld hundrad.

Jtem med Þorolfsstodum viij. quilldi ad tolu enn til virdingar vi½. jord xvjc. landskylld vij agillde.

Jtem med Hlidartüne vij. quilldi ad tolu enn til virdingar vj. jord xvjc. landskylld jc.

Jtem med Suarbhole xj quilldi ad tolu enn til virdingar ix½. jord iiijc og xx. landskylld xl alner annars hundradz.

Jtem med Süalbarda vj quiilldi ad tolu enn til virdingar v. jord xvjc. landskylld vij aagillde.

Þessar jarder liggia j HaukaDal
Anno Domini 1564.[2])

Jtem med Skarde ix quijllde ad tolu enn til virdingar viij [og attatige alner betr.[3]) jord xxc. landskylld vij agillde.

Jtem med Krosse .vj. quilldi ad tolu enn til virdin[g]ar v. er hvn kirkiveignn. jord xvjc landskylld tigetige alner.

---

1) Svo. 2) á á öllu því, sem eftir er af skrá þessari, er önnur hönd en Eggerts, nema þar, sem annars verðr getið. 3) [útstrikað.

Jtem med Gilialandi .vj. quijllldi ad tolu aull gilld. jord xijc. landskylld attatige alner.

Jtem med Mioabole vj quiilldi ad tolu aull gilld.[1]) jord xijc. landskylld attatige alner.

Jtem Haumrum vij quiilldi ad tolu aull gilld. jord xijc. landskylld jc.

Þessar jarder liggia j Laxar Dal
Anno Domini 1564.

Jtem med Lækiarskoge vij quiilldi ad tolu enn til virdingar vj. jord iiijc og xx. landskylld quiilldi og v avrar.

Jtem med Þorbergsstodum x quiilldi ok hestr ad tolu. enn til virdingar viij [og xl alner betr.[2]) jord iiijc og xx. landskylld quiilldi.

Jtem med Hrutzstodum vj quiilldi ad tolu enn til virdingar halft et fymta.[3]) jord xijc. landskylld atta tige alner.

Jtem med Kambsnese. v. quiilldi ad tolu aull gilld. jord iiijc og xx. landskylld quiilldi.

Jtem med Homrum vj quiilldi ad tolu og hestr enn til virdingar v. quiilldi. jord xvjc. landskylld quiilldi.

Jtem med Smillahole ij stoku quiilldi bæde gilld.

Jtem a Hornnstodum [hia Jone Sigurdssyni[4]) quiilldi ok standa ecki fyrir parid.[5])

[Jtem hia Marteine aa Vassenda vj stoku quiillde.[2])

Jtem hia Marteine a Vasshorne vj stoku quiilldi.

Jtem hia sera Gunnare iij quiilldi ad tolu enn til virdingar ij.

Jtem hia Halluarde j Bæum iij quiilldi ad tolu.

Jtem hia Arna j Bæum eitt quiilldi.

Jtem hia Biarna Sumarlidasyni sialfum eitt stoku quiilldi.

---

1) „landskylld lxxx alner" skrifað hér inn með hendi Eggerts Hannessonar, en því er ofaukið. 2) [útstrikað. 3) Svo. 4) [b. v. með hendi Eggerts. 5) Þetta orð með hendi Eggerts; „nema xl alner" hefir upphaflega staðið, en Eggert hefir strikað það út.

hochstgedachter Ko$^{e}$: Mtt$^{e}$: vnd vnns valnzogen welchere vertrege von mir vnnd meinen Bruderen versigelt vnnd vnterschrieben werden sollenn. Vnd aber mein Bruder ausserhalb lanndes Alse habe Jch denn einenn Contract versigelett vnd vnterschriebenn Denn selben Bredttrucken zugestalet vnnd den andernn bei mir behalten. Denselbenn soll der Bruder inn seiner ankunfft vnderschreiben versigelenn vnd der Ko$^{e}$: Mtt$^{e}$: bei eigener botschafft zum forderlichsten zuschicken vnnd die andere darjegen entfangenn lassenn. Ob nun wall gedachter Breedtruck vnser erste verschreibung vff den Schweuel handell wider gefurdert vnnd haben wellenn. habe Jch doch densellben in abwesennde des Bruderenn volgenn zulassenn bedenckendt gehabdtt. Doch keiner anderenn vrsach haber sondern alleinn weil der Bruder Steffenn so bald er ankummett den newen Contract vnterschreiben vnd versigeln vnd auch wechschickenn soll. vnd etwa (das der Almechtig abwende) inn der seche oder sonsten ein schade darzu queme. hetten wir alsedan jar keinen beweiss oder schein vff den handel. derwegen Jch Jhn hir behalten Jdoch sobaldt die newen vertrage in Jhre krafft gangen vonn dem Brudern Steffen versigelen vnd ein Jdere an Jhrenn ortt. kommen solle soliche alte versicherung oder verschreibung ohn alle mittel der Ko$^{n}$: Mtt$^{n}$: zugeschiket vnnd geliebert werdet. Vnnd ist also gedachte verschreibung von vns allerseits alse Mir. Brodtrucken vnd Melchern versigelen vnnd bei mir zu getrewen handen verbliebenn. vnd keiner anderen gestaldt behalten. Alles ohn argelust vnnd geferde. Zu vrkundt habe Jch diese schrifft mitt eigenen handenn vnterschriebenn. Vnd mit meinem angebornen pitschafft wissentlich beuestigett. Datum Altenn Stettinn denn 11 tagk des Monats Aprilis Anno etc. im 1564.

(L. s.) Hans Loytz der elter.

---

172. 18. apríl 1564. í Skriðu.

JÓN MAGNÚSSON samþykkir gerning Jóns, sonar síns og konu hans um jarðaskipan.

AM. Apogr. 4477 m. h. Árna Magnússonar „Ex orig. Ur Hustru Þrudar brefum fra Pali løgmanni sendum 1723. enn sendum til baka 1724. Collata accurate satis. Jnnsigle Jons Magnussonar og vottanna hänga enn nu vid brefid."

Þat giorum vid Jon Tindsson og Biarni Biornsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. at arum eptir gudz burd M d lxiiij. i Skridu i Reykiadal. þridiudaginn næstan epter Tiburti og Waleriani. vorum vid hiä. saum og heyrdum ä. at Heidarligur mann Jon bondi Magnusson samþyckti og stadfesti med handsølum vid Jon bonda Jonsson. sinn son.[1]) Þann kaupskap og giorning. sem adurnefndur Jon Jonsson hafdi giort vid sina eiginkonu Helgu Gisladottur um iardirnar Vindheima. Þorsteinstadi. Anastadi og Merkigard. svo og um iardirnar halfa Gardzvik og Longuhlid. epter þvi sem þad bref vottar. er um þessi iardakaup giort er. Var fyrrnefndur Jon Magnusson erfingi adurnefndz Jons Jonssonar. þa þessi giorningr for framm. og til sanninda hier um setti fyrgreindr Jon Magnusson sitt innsigli med vorum fyrrnefndra manna innsiglum fyrir þetta bref. er skrifat var i sama stad deigi og ari sem fyrr seigir.

---

173. 30. apríl 1564. á Grenjaðarstöðum.

VITNISBURÐR um land Fljótsbakka.

AM. Fasc. LV, 18, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir.

Suo felldan uitnisburd ber eg Þorgils Kolbeinsson ad ec hefi uerid i Helgastadahrepp upp a lx ar og hefi eg alldri annad heyrt eignad[2]) enn þad ad jordinn Fliotzbacki ætti allt land oc skog ut j Suarthamra[3]) oc suo

1) „postea løgmann" (AM.). 2) Svo. 3) má og lesa: Suarthamar.

austur a Fliotzheidi upp a hina hæstu brun og suo attunda part j Þingey og moder min Sigridur Þorkelsdotter sagdi mier ad þa er fader hennar Þorkell Jngimundarson atti Fliotzbacka og bio þar sagdi hun ad hun hefdi haft setur og selfaur fra Fliotzbacka a Samkomugerdi er stendur fyrir utan Krossuadzgotur oc þar sagdist hun hans smala og fenad geymt hafa og þad sagdi hun ad sinn fader hefdi halldit greint land. skog og selfaur eign iardarinnar Fliotzbacka oc aunguan sagdist hun uitad hafa er atalid hefdi oc uar hun hier i sueit allan sinn alldur nær lxxxx ara og þetta heyrdi eg hana seigia morgum monnum hia uerandi og alldri hefi ec annad heyrt halldit sidan ec kunne ad skynia fyrr enn nu fyrir fiorum arum sidan Pall Jonsson hafdi feingit greinda jord Fliotzbacka Steinunne Jonsdotter.[1]) og hier efter þessum uittnisburdi uil ec sueria ef þurfa þikier. Og til sanninda hier um set ec mitt inncigli fyrir þetta uittnisbürdarbref huert ed skrifad uar a Greniadarstodum i Adalreykiadal xxx dag aprilis manadar þa lidit var fra gudz burd M. d. lx oc iiij. ar.

---

174. Vorið 1564.

VIRÐING búpenings Daða Guðmundssonar í Síðumúla.

Lbs. 115, 4to. bls. 347 m. h. séra Jóns Halldórssonar í Hitardal ca. 1730.

Þessir peningar voru Anno 1564 um vored i Sijdumula epter Dada Gudmundsson i Snoksdal.
gielldnaut niju vetra gamallt .1.
atta vetra gømul .2.
siø vetra gømul .2.
sex vetra gømul .4.
fimm vetra gømul .3.
fiøgra vetra gømul .2.
Tvævetra .1.

1) Svo.

veturgømul .2.
(Þaug løgd verdaurum xxiijc LL al.)[1])
Jtem gellder sauder.
gamler sauder .59.
þrevetrer .6.
Tvævetrir .26.
veturgamlir .86.
(ad verdaurum xxiijc LL al.)[1])

Jtem i hestum. køplum ungum og gømlum. liettum og godum med þeim einum hundradz hesti. sem kyrkian i Sijdumula ä. til virdingar xvc.

(Summa þessara frijdu giellldfiarpeninga Lxijc. Lxxx al.).[1])

---

**175.** 13. maí 1564. **á Bessastöðum.**

SKIPADÓMR, (Hlutadómr, Undirgiftadómr, Útróðrardómur) kvaddr af Páli hirðstjóra Stigssyni. (Sbr. alþingisbók 1570, XVI; 1571, I, og 1573, XXI).

AM. 161. 4to. bls. 297—9, skinnbók m. h. síra Gríms Skúlasonar, skr. 1565 (lögbók Páls Stigssonar), og henni mjög samhljóða uppskrift er í Thott 2102, 4to., bls. 450—4, frá 1568, einnig m. h. síra Gríms Skúlasonar í Huna. — AM. 238. 4to., bls. 103—5, Bessastaðabók, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum ca. 1570. — ÍB. 309, 8vo., bl. 75—7, m. h. Ara Magnússonar í Ögri ca. 1620. — Gl. kgl. Saml. 1159, fol. bls. 654—7, skr. ca. 1640. Margar yngri uppskriftir eru til af dómi þessum. — Prentaðr í Lovsaml. f. Island I, 82—4. — Alþingisbækur Íslands I., bls. 193—6.

Domur um skipti a skipum sem dæmdur var Anno 1564.[2]

---

1) Þessum setningum mun síra Jón hafa skotið inn. 2) 238; Hlutadomur dæmdur a Bessastodum 309: Skipadomur 1159. Í Thott. 2102 er yfirskrift utanmáls „Vtrodrardomur". En fyrirsögnin er þessi: „Þennann dom liet dæma Paall Stigsson godrar minningar fouite yfer Jsland. og seiger j fyrstu vm vndergioft og formanskaup aa aullum skipum. Suo og vm Skipleigur og vm Skiphluti og allz hattad fiskifang. vtan vertijdar og jnnan. Jtem vm Miol og Syru et cetera".

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra senda Ormur Jonsson. Þordur Gudmundsson. Einar Eireksson. Fiolsuinnr Helgason. Þorer Sueinsson. Arne Jonsson. Hallr Olafsson. Þorolfr Eyolfsson. [Pall Eyolfsson.[1]) Olafr Eyiolfsson.[2]) Jon Biornsson og Gudmundr Sueinbiarnarson[3]) Quediu Gudz og sina. kunnigt giorande ad þa lidit var frä Gudz burd M. d. lx. og iij. är.[4]) a Bessastødum aa Kongsnese.[5]) laugardaginn næstann epter vppstigningardag vm vorid. vorum vier til kallader og j dom nefnder af heidurligum Herra og Hofudsmanni Paale Stigssyne konglig maiestatz bifalningsmanne yfer [allt Jsland[6]) til ad skoda og rannsaka og fullnadardoms adkvæde aa ad leggia almugans vegna [er oss þotte naudsyn[7]) til draga vppaa laganna vegna sem ad er vm þad fiskefang sem Gud giefur aa huers manz skip. fyrir saukum þess ad honum leizt med fleirum audrum eigi samiafnt verda. vm þa skipleigu sem vanaligt hefer verit ad golldizt hefer af þoske huad vier stroffum ecke. Enn vm þann ologligann vana sem þeir hafa j veniu dreigit. ad þeir hafa ecki golldit skipleigu af neinu þui fiskefange sem Gud hefer giefid aa skipit. Eirnin og suo af þui sem þeir epter hafa [aflat. og afast[8]) er vid skipit.

Nu af þui suo ad vier skodudum og[9] grundudum med sialfum oss ad skipeigandinn være ecke halldinn j vtan med þui mote ad hann hefde likauel skipleigu af þui aullu matfiske sem Gud giefur aa skipit. sem ad er ad til greindum ysum. steinbijtum. flidrum. kaurfum. keilum. kolum. vpsum. lysum. skautum. hatauskum. hakaullum. hamerum. hafum og aullum fliotanda drattum. huort þeir ero vid skip edur epter. og þeir mega med logum eiga. og likauel trie og huale.

Suo og j annare grein vorum vier tilkallader huad þeir voru vanhalldner j skiptum og kaupskap sem suo[10])

1q [sl. 309, 1159. 2) sl. 1159. 3) Nöfn dómsmanna hin sömu, en í annari röð í 2102. 4) sl. 2102. 5) aa, b. v. 238. 6) [aullu Jslandi 238, 2102. 7) [og naudsyn þotti 2102. 8. [og afast 2102; aflast 161. 9) ad b. v. 238, 2102. 10) þeim 238.

giæfi. x. aura vnder sexæring. iiij. ærgillde vnder .viij. æring. v. agillde[1]) vnder .x. æring. vj. ærgillde vnder .xij. æring.

Nu fyrer saukum þess ad vier stroffum ecke þenna þeirra giorning allt hingad til. suo og þau formanz kaup sem þeir hafa medtekid med huorutueggiu forlikun.

Nu ad aullu suo profudu og fyrir oss komnu þa dæmdum vier fyr nefnder domsmenn med fullu doms athkuæde. ij. hlute af aullu þui fiskefange sem fyrskrifad stendr bædi vtan vertidar og innann. lika og[2]) suo af þorske vtan vertidar. Enn vm vertijd halldizt skipleiga af þorske sem ad fornu. Eirnin og suo ad nidurleggizt. xx. alner af hueriu skipe af vndergioft og formanzkaupe vtan formenn fae menn til skips. þa sie vnder þeirra skilmala sem er tileinkad. v. ærgilldi vnder .xij. æring. iiij ærgillde vnder x. æring. iij ærgillde vnder. viij. æring. xl. alner .vj. æring. So falla .xx. alner af hueriu formanzkaupe. og suo vndergioft huort þad er smatt edr stort. þa dæmdum vier þennann ovana af med aullu. og j aunguann mata meira gialldazt enn suo sem fyr skrifad stendr. suo og lizt oss ad gialldazt skule. xl. fiskar af aullum þeirra hlutum sem aa skipinu roa fyrir hueria mioltunnu sem logd er med skipinu. enn .xx. fiskar fyrir hueria syrutunnu. ef þeir vilia miol og syru med skipinu hafa elligar misse[3]). þo suo ad med huerium. viij. æringe leggizt ecke meir enn mioltunna og .ij. tunnur syru. og med xij. æringi. i½ tunna miols. og .iij. tunnur syru. Enn med minne skipum epter þui sem tala rennr til med sliku giallde. sem fyr seiger. Og halldizt vertijd framm til tueggia postula messo. enn skipeigande og þeirra heimamenn hafi lodarkaup frij til fardaga. Enn huer leigumadur annar gialldi lodarkaup epter þui sem þeir kunna ad forlikazt vid þann sem aa iordu byr.

Enn huer þennann dom dirfizt ad riufa. þa er hann sekur .iiij. morckum vid kong hvort hann er vngr edr

1) ærgilldi 2102. 2) sl. 238. 3) missa 2102.

gamall. Rikr edur fatækr med þuilikre[1]) grein. ad logmadur med logriettunne siae hier adrar logmætar greiner a mote. þa vilium vier giarnan þiggia og heyra hans forbetran. Enn ef hun finzt ecke af honum. þa skal þennann vorn dom ecke riufa vtan vor Heygbornazte Herra kongrinn med bestu manna rade.

Samþyckte þennan vorn dom [med oss[2]) adr greindr hofudzmann og sette sitt jnnsigle med vorum fyrgreindra domsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbref huert [ad skrifad var aa Bessastaudum aa Kongsnese a sama[3]) deigi og are sem fyr seiger.

---

176. 16. maí 1564. í Esserom.

KONUNGR tjáir Jóakim Beck, að Stefán Löitz hafi komizt á snoðir um tilraun Hans Nielsens í brennisteinssölu og leggur samþykki sitt á tilraun þessa.

Rikisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. VIII, 21b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Jochim Beck fick kon. mtts. breff ........

Zedell wdj forschreffne breff.

Sameledis giffue wij teg tiill kiende. att Stephan Løitze haffuer oss tiillschreffuit oc formelder. att handt skall were kommen wdj forfarring. att wor kiøpmandt Hans Nilsen skall haffue ladett seg formercke. thedt handt widsthe dyrer att kunde selge oc affhende wor suoffuell endt Löitze. som er xxx daller for tønnen oc ther for ere tiill fredtz. att hannom authordis ½c lester att sellge. dog hans rettighedt ther vdj wforkrenckedtt. oc wij forfarre. att forschreffne Hans Nilsen skall staa wdj handell mett en fremmede kiøpmandt om nogedt suouell. som szamme kiøpmandt skall wille kiøbe. oc forschreffne kiøpmandt skall were begerendis

1) suoddan 2102. 2) [b. v. 238, 2102. 3) [ed skrifat uar j sama stad 238.

att mue bekomme ij thynner eller iiij aff samme suouell for en proba att forfarre. om then er dueligtt. effther som thu thenne legløghedt ydermere aff forschreffne Hans Nilsen haffuer att forfarre. tha ere wij tiillfredtz. att thu lader anthuorde forschreffne Hans Nilsen ij ter suouell. huilcke handt effther hans foregiffuende mening kandt brugge. huar effther thu teg kandt wiide att rette etc. Datum vt in litteris [Esserom 16. maij 1564].

---

**177.** 23. maí 1564. **að Hólum.**

KAUPMÁLABRÉF síra Sveins Bárðarsonar og Ingunnar Guðmundsdóttur.

AM. Apogr. 3953, m. h. Jóns Magnússonar að Sólheimum „Ex originali“ „a pergament“.

Jn momine domini amen. lystest ok stadfestezt suo felldur kaupmaale aa brudkaupsdeigi aa sialfa huitasunno[1]) aa Holum j Hialltadal: aarum epter Gudz burd. M. d. lx og iiij°. a millum heidarligra manna Sira Sueins Bardarsonar af eirne alfuo. Enn Jngunnar Gudmundardottur af annare. ath suo fyrir skildu ad Gudmundur prestur Skijdason. af hende greindz sira Sueins i borgan gieck oc honum taldi xxx^c at til skildum xij malnytu kugilldum og þar til onnur xij^c. i ollum godum þarfligum peningum. Jtem lofade biskup Olafur þessum sijnum fyrrgreindum Capellan Sueine. at styrkia hann wm x^c i þarfligum hlutum. hier i mot lofade Gudmundur bonde Einarsson sinne dottur nefndri Jngunne v^c xx. i gilldum þridiungapeningum. med þeim litla modurarfue sem hun aatte hia honum. kiore nefndur Gudmundur sijna dottur maalakonu. Enn tijttnefndur sira Sueinn gaf henne i tilgiof fiordung wr sijnu fie. suo ath maali hennar være xij^c og xx.

War forsagnarvottur allz þessa giorningz Biskup Olafur Hialltason. Enn festingar og kaupuottar woru. Þor-

1) þ. e. 21. maí.

steinn Hallsson og Jon Biornsson prestar. Pall Grijmsson. Einar Þorarensson. Erlendur Ionsson. Þorarenn Einarsson leikmenn. huerier ath settu sijn innsigli fyrir þetta kaupmaalabref huert ed giortt var sama stad. ij. dogum sijdar enn fyrr seiger.

---

178. í fardögum 1564.

AFHENDING Hofteigs, þegar síra Þórður Jónsson tók við, en síra Bárðr Ormsson skilaði af sér.

Lbs. 268, 4to., bl. 141, skr. 1601.

Hofteigur.

Anno domini M°. d°. lx°. iiij°.

Suo mykla penijnnga medtok sijra Þordur vmm vorid j Hofteige. Jonzmesso baptiste enn sijra Bardur Orms[s]on afhennte.

iiij. asaudar kugilld gilld. iiij. kyr gilldar. hross med veturgommlum gott hunndrad. þrevetur hrosskapall. þar ä ofann sem honum lijkade fyrir hunndrad.

j ofrijdu jnnann stokz ij hundrud vel virtt.

Jtem kirkiunnar eignn. ij messuklæde alfær og ad auk eirnn hokull. eirnn kalekur vondur lijtill med silfur. ij korporalia ij alltaris[1]) steinar. ij alltarisklæde med fordukumm oc ij bruunvm. iiij dukumm j kirkiunne vppe af þeim ij glitadir. formmadukar enn .v. skrudakista med xxx bækur. eitt glodarker .ij. merke. onnur lijtil kista. glodarker. gomul sænng nockud med hæginde oc huijl[u]vodum.

---

179. í fardögum 1564.

AFHENDING Hjaltastaða, er síra Oddr Ólafsson skilaði af sér, en síra Bárðr Ormsson tók við.

Lbs. 268, 4to., bl. 144, skr. 1601.

1) alltararis, hdr.

Hialltastadur.

Anno domini 1564.

Suo felldir femuner frijder vtgreiddir ä Hiallt[a]stad af sijra Odde Olafsyne sijra Barde Oormsyne j henndur.

Jn prijmis fimm kyr. ein iiij vetra. ij v vetra. ij ix vetra lejst matzmonnum gilldar vera allar. Jtem j asaudarkugillde. ij naut veturgomul. tarfur oc kuijga .oc iiij saudir veturgamlir fyrir hid siounda kugillded. Jtem hrosskapall giordur x aurum.

Jnnann stokz iiij storkerolld .j syruhellt af þeim nær xxx skiolur enn hin þridiu minne oc gomul. fimta j jordu forgamallt oc feyd. sterkur ketill a þridiu skiolu.

Jnnann kirkiu ij haucklar sæmiligir. serkurinn annar vel sterkur. hofudlijn. stol[a] oc handlijn. enn annar serkur miog veykur oc slitinn. stolur oc hofudlijn oc handlijn hialpligt. þridiu messufot sem vpp [var] giefid. Jtem kalekur braakadur j botnninn. Jtem gott alltaaraklæde oc suo brunin.

et cetera.

---

**180.** | **30. maí 1564.** | **í Ljáskógum.**
**2. apríl 1568.** | **í Ljáskógum.**
**30. maí 1574.** | **í Ljáskógum.**

SKIPTABRÉF eftir Lopt Guðlaugsson.

AM. Apogr. 4755, m. h. Hans Beckers „Ex apographo vetusto.“

Skipta Brief epter Lopt Gudlaugsson.

Jn nomine Domini Amen:

Voru þesse fieskipte epter Lopt heitinn Gudlaugsson. huers sal gud nade. j Liaskogum i Laxardalshrepp. i Hiardarhollts kirkiusokn. aa þridiudæginn i fardagaviku vnım vorid. þa lidit var fra gudz burd 1564 är.

Jtem i fyrstu af reiknader vmmbodzpeningar þeir sem voru i hans vardueislu.

Voru fyrst af reiknader peningar Benedictz brödur hanńs. sem var jordinn Vordufell ä Skögarstrond. jord-

inn Gestader og Kluka i Steingrimsfirde. i Tungu kirkiusokn. og þar med .x. malnytu kugillde.

Jtem peningar utreiknader þeir sem hann medtök epter sin brödur Gunnstein heitinn. Voru þat xxc i gardinum Eyre ä Skögarstrond. jordinn Heidarbær og Tindur. sem liggia i Steingrimsfirde i Tungu kirkiu sokn. þar til .v. malnytu kugillde og eitt hundrat i fridum peningum. og iijc. i daudum peningum.

Jtem peningar hans barnna. sem hann atte med sinne fyrre kuinnu. var þetta þeirra modurarfur. Reiknadizt þar til jordinn Liarskögar xlc. hveria hann reiknade ä sijnum sijdustu døgumm til eignar sijnum ellsta syne Arnore Loptssyne. og gaf honum þau xiijc. sem honum hafde til erfda fallid epter sinn son Finn heitinn Lopttzson. Enn. vjc. og xx. og þar til .lxxx. alner var oskipt med ij pilltunum oc ij stulkunum. verdur þad þä i huernn stad atta hundrut oc lxxxxx alner betur. oc virdtizt oss pilltarner eiga lausnn ä þui sem stulkunum bar ad sinum parte i jordunne fyrir fulla verdaura i godum peningum. Skiptizt i malnytu hvorumm pilltanna i sinn modurarf. oc i þridia stad tueimur stulknanna .iij. malnytu kugillde. oc þar til .lxxx. alner i huorn stad. Reiknadizt þeim til eignar. iiijc. i sinn mödurarf i frijdum peningumm. Skiptizt hvorum pilltanna þar ur hundrat og þar til xx alner. enn huorre stulknanna .xij. aurar. j kauplum ijc. ä allra byte. lxxx. alner huorum pillte oc. xl. alner huorre stulku. J daudum peningumm þarfligumm halft ed fiorda hundrad ã allra byte. Skiptizt þar vr hvorum pilltanna. hundrat oc þar til .xx. alner. enn xij aurar huorre stulcku. Jtem xc i silfre aa allra byte. Eiga pilltarner þar iijc. og þar til .xl. alner. Enn stulckurnar hundrat oc .lxxx. alner. verdur þetta at vpphæd med jardarportunum i þeirra modurarf i huern stad xviijc og xx alner meir. huers þeirra. enn stulckurnar .ixc. og x alner meir huor þeirra.

Jtem i fiorda stad voru virter oc reiknader peningar Sigridar Þorarinsdottur sem var hannz eiginnkuinna. i hennar heimannfylgiu jordinn Vtbleik-

stader.[1]) i Midfirde. og þar med vj malnytu kugilldi og þar til .xvjc. i silfre oc einn hestur i hennar kiorgiof. eitt naut fiogra vetra gamallt. Jtem i hennar tilgiof. sem þeirra skilgetinn bornn skylldu eignazt. epter þui sem fyrir var skilid ä festingardeige. voru wtvirdt oc afgolldinn xxc. sem voru .v. malnytu kugillde. og. vc. i fridum peningumm .iiijc. i smiore. lxxx. alner i slatre oc ij vætter fiska fyrir hundrad. oc vc i daudum peningum.

Jtem var Gudrunu Þorualldzdottur vtgoldinn vc i þad sem hann hafde henne anafnad med erfing[i]anna samþycki oc tillæge. Var þad i malnytu ij kyr oc hin þridia gømul fyrir halft ed þridia kugillde. vi. ær gelldar oc ij sauder ij vetrer fyrir hundrat. Hundrat i gaumlum saudum gelldumm oc þar til. x. aura i fornu smä busgagne.

Jtem afreiknudum ollum smäskulldum. sem hann sialfur hafde raad fyrir giort. voru þesser peningar hannz skilgetinna barna. i sinn fodurarf oc erfdaskipte.

Hlaut Augmundur Loptson jordina Klungurbrecku ä Skögarstrønd. fyrir xvjc. oc þar med halft ed fimta malnytu kugillde.

Jon Loptson hlaut jordina Þyrilsvelle i Steingrimsfirde fyrir. xvic. og þar med halft ed fimmta malnytu kugillde.

Arnor Loptson hlaut jordina Suannzhöl i Biarnarfirde fyrir xvic. oc þar med halft ed fimta malnytu kugillde.

Gudrun oc Anna Loptzdotter. jordina Hröa i Steingrimsfirde fyrir xvic oc þar med halft ed nijunda malnytukugillde.

Þuridur oc Gudny Loptsdotter. dætur Sigridar. jordina Leite aa Skogarstrond xvic. og þar til halft ed nijunda malnytukugillde.

Jtem i fridum peningum gelldum iijc huer pilltanna. halft annad hver stulka.

---

1) Svo.

Jtem hlaut huer pilltur .iiij. vætter smiors. Enn .ij. vætter huer stulkann. xv. alner i slatre huer pilltur og huorar ij stulckur .xij. merkur skinnz. huer pilltur oc huorar ij stulckur. Hundrad i busgagne og odrum þarfligum hlautum[1]) oc þar til .v. aura huerium pillti. oc huorum ij stulckum.

Jtem i kauplum .x. aura huerium pillte. enn fim aura huerre stulcku.

Jtem ad vpphæd i huers byte. pilltanna i sinn fodurarf xxc. oc .viijc. betur i ollum þessum frammtoldum[1]) peningum framtoldum.[1]) enn huer stulkann xiiijc.

Voru þesser menn til skipta og virdinga kallader:

Sera Pietur Einarsson.
Sera Pietur Arnason.
Eirekur bonde Gudmundzson.
Teitur Eirieksson.
Jon Þordarson.
Hauskulldur Jonsson.

Og til sanninda hier umm setium vier fyrrnefnder menn vor jnnsigle fyrir þetta skiptabref. huert ed skrifad var i Liarskogum i Laxardal i Hiardarholltz kirkiu sokn. annann dag Aprilis manadar .iiij. arum sidar enn fyrr seiger.

Þad giorum vid Þorarinn Einarsson. [godum monnum kunnigtt og Helge Halldorsson.[2]) med þessu ockru opnu brefe. ad vid hofum heyrt. sied oc yferlesid suo latande bref. ord epter ord. med heilum oc öskauddudumm hangande jnnsiglum. sem hier fyrir ofann skrifad stendur. Og til sanninda hier vm þryckiumm vid ockar jnsiglum vpp a þetta vitnisburdarbref. huert ed skrifad var i Liärskögumm þann xxx. dag Maij. arum epter hingadburd vors herra Jesu Christi M.D.Lxx og iiij. ar.

---

181. **1. júní 1564. á Gunnsteinsstöðum.**
**24. december 1565. að Stóruborg.**

JARÐASKIPTABRÉF.

1) Svo. 2) [Svo.

AM. Apogr. 4756 „Ex originali Sira Þorleifs Arnasonar ä Kalfafelle. Eitt innsigle hanger vid brefed, annad er burtu.“

Ollum godum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendum vid[1]) Erlindur Jonsson oc Magnus Gunnsteinsson suarner laugriettumenn. kuediu Gudz og syna.[1]) kunnigt giorandi þa lidid var fra Gudz burdi m. d: lxiiij. ä Gunnsteinstodum j Langadal. dyradag vmm vorid. vorum vier j hia. saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. af einni alfu Einars bonda Sygurdzsonar. Enn af annari Helgu Einarsdottur ad suo fyrir skildu. þad ädur nefnd Helga Einarsdotter medkiendizt fyrir ockur ad hun hefdi sellt fyrskrifudum Einari Sygurdzsyni jordina Finnstadi er liggur aa Skagastraund j Hofs kirkiu soknn med aullum þeim gognum og giædum. sem greindri jordu fylger og fylgt hefur. ad fornu og nyiu og hun vard fremst eigandi ad vndan sier og sijnum erfingium. Enn vnder Einar og hans erfingia. Saumuleidis medkiendizt og optnefndur Einar. ad hann hefdi þar i moti giefid tijttnefndri Helgu jordina Tinda. er liggur ä AAsum j Suïnavatz kirkiu sokn med aullum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fylger ad fornu og nyiu. og hann vard fremst eigandi ad. undan sier og sijnum Erfingium. Enn vnder Helgu og hennar logliga Erfingia. þar med stadfestu þau þa enn ad nyu med handsaulum. ad þessi adur skrifadur kaupskapur skylldi af beggia þeirra hendi obrygdiligur standa. Skylldi og huort vmm sig Einar oc Helga hallda til laga þeirre jordu er keypta hafdi. Enn þad þeirra suara lagariptingum er sellt hafdi ä huorum jordumm vmm sig. Og til sanninda hier vmm. setium vid fyrskrifader menn ockur jncigli fyrir nedan þetta medkienningarbref huert skrifad var ä Storuborg j Vijdidal Affangadaginn fyrir jol vm veturinn äri sijdar enn fyr seiger.

---

1) Svo.

182. 12. júní 1564. á Brúarþingi.

HALLDÓR BARTHOLOMEUSSON selr Eiríki Árnasyni áklögun vígssakar utanlands.

AM. Apogr. 4753 „Ex originali."

Þad giorum vid Gudbrandur Oddzson. Jon Þorsteinsson. gödum maunnum kunegt med þessu ockru opnu brefi at vid vorum þar j hia saum og heyrdum ä. at Halldor Bartholomeusson gaf Errek[1]) Arnasyni alla þa aklaugun. er han matti eiga vegna sinna skilgetinna barna. Riettra erfingia. aa þvi vodaverki. er Brandur Halldzson[1]) fyrir vard utanlandz j Danmerkur Riki. af hveriu verki hann dauda hlaut. skylldi Errekur[1]) Arnason alla søk og sokn eiga aa þui maale. þeir kvitter hann kvitta gefur. og svo up borid fiemune sem mier vel aanægir. fyrir fyrr skrifad efni. setium vid fyrskrifader menn ockar insigle fyrir þetta giorningsbref. skrifad aa Bruarþingi j Austfiordum. tolfta dag Junij manadar. Anno Domini 1564.

---

183. 13. júní 20. október 1564. á Sveinsstöðum. á Guðrúnarstöðum.

SJÖTTARDÓMR, kvaddr af Þormóði bónda Arasyni, er þá hafði umboð konungs í Húnavatnsþingi, dæmir ógilt kaup Guðmundar Gíslasonar og Bríetar Brandsdóttur, um 10 hundr. í Marðarnúpi.

Bps. Hol. fasc. II, 7, frumrit á skinni. 6 innsiglaför, nú ekkert innsigli. — AM. Apogr. 3949, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali" „ä kalfskinn", sem 6 innsigli höfðu verið fyrir, en 3 voru dottin frá.

Þath giorum vier Einar Sygurdzson. Erlendur Jonsson. Jon Gudmundsson. Magnus Gunnsteinsson suarner logriettumenn. Fusi Olafsson og Gijsli Brandzson. godum monnum uiturligt med þessu voru opnu brefi ad

---

1) Svo.

aarum epter Gudz burd M. d. lx. iiij. þridiudaginn næsta fyrir Botolfsmessu aa Sueinstaudum i Vatnsdal. aa þingstad riettum. vorum vier i dom nefnder af heidarligum dandimanni Þormodi bonda Arasyne er þaa hafdi kongsins syslu og vmbod i Hunauatnzþingi ad skoda og rannsaka og fullt doms atkuædi aa ad leggia vm þa aakiæru er Jon Biornsson klagadi til Gudmundar Gijslasonar vegna sinnar kuinnu Brietar Brandzdottur wm þann kaupskap er þau haufdu sijn a milli haft greindur Gudmundur og Briet huad skedi adur enn nefndur Jon fieck Brietar til eignarkuinnu. huer ed suo var gior þeirra aa milli ad Briet skylldi giefa Gudmundi Gijslasyne fimm hundrud i iordina[1]) Mardarnupi i Uatnzdal med Eyrnyu Sygurdardottur ar vm kring til frammfæriss. enn aunnur fimm hundrud i greindri jordu Mardarnupi skylldi Briet sellt hafa Gudmundi fyrir lausagotz enn eij aakuedner giallddagar nær wt skylldu greidazt þau fimm c og eij i huerium peningum þad skylldi vera þui Gudmundur sagdist eiga skilid ad giallda vt fyrir þau fimm hundrud i Mardarnupi þaa honum uæri hægt vm. laugdu þessir adurgreinder menn Gudmundur og Jon sig þar til laga med handsolum huor uid annann suo vier saum og heyrdum aa. þui dæmdum vier vnderlagid logligt. og greindan Gudmund Gijslason riettiliga fyrirkalladann. kom Gudmundur þar framm fyrir oss med sitt kaupbref jnnsiglalaust huad inne hiellt vm adurnefndann kaupskap Gudmundar og Brietar vm optnefnd xc j Mardarnupi. lysti Gudmundur þui fyrir oss ad hann hefdi bodit Joni Bior[n]ssyni peninga þa sem fyrir fimm hundrud j Mardarnupi skylldu koma. sagdist Jon ecki hafa vitad ad Gudmundur hefdi latid meta og uirda þä peninga epter logum. J annari grein sagdi Jon ad Briet sijn kuinna hefdi bannad sier ad taka vt nockra peninga af Gudmundi fyrir greindan Mardarnups part fyrri enn riettur lagauegur geingi aa þennann kaupskap. kom þar framm fyr-

1) Svo.

ir oss lysing Brietar ad hun hefdi lyst adur enn hun keypti uid Gudmund tijttnefndu kaupi. ad þennann kaupskap giordi hun af sinne hræslu[1]) og otta þeim er hun hafdi af Eyrnyu og af þui vitleysi oc ædi er Gudmundur Gijslason hefdi henni sagt af Eyrnyu. og Briet hefdi ecki med aullu sijnu sinne verid i þad sinni. i þann tijma hun giordi þennann kaupskap saker greindz ordryktiss. huad Brietu og audrum godum monnum virdtist ecki suo seirna reynast vmm ædi aa þrattnefndri Eyrnyu. suo og medkiendist greindur syslumann ath Briet hefdi þessari saumu lysing fyrir sier lyst aa Gunnsteinstaudum i Langadal oc fyrir fleirum audrum godum monnum. virtist oss þessi saugn Brietar verda samhlioda þeim kaupskap er hun hafdi vid Gudmund haft. ad hun mundi ecki i sijnu fullu og aullu vanaligu sinne verid hafa fyrir þa grein er hun atti ecki skilid nie skildi sialf til j huerium peningum hun skylldi fyrir fimm hundrud i Mardarnupi fä af Gudmundi oc eij helldur nær þad skylldi utgialldazt. stendur suo skrifad i løgbokinne vm þa skulld ecki er aakuedin nær gialldast skal skuli gialldazt ad næstum fardogum. Enn oss uirtist Gudmundur þad afseigia þa grein ad hallda i þui er hann bar sialfur fram ad hann hefdi att ad giallda fyrr greindan part þa honum uæri hægt. vissu vier ecki suo hattadann kaupskap i løgbokinne standa. stendur suo skrifad i løgbokinne ad vielakaup skuli ad viettugi hafa og einginn skuli audrum arfsuik giora. Þui oss virtist þetta vielakaup vera oc nærri ganga arfsuikum vit erfingia Brietar sem hennar syner sialfer vm talad hafa. Þui i gudz nafni amen ad suo profudu oc fyrir oss komnu dæmdu uier med fullu doms atkuædi tijttnefnda Brietu skyllda ad uinna eid med tueimur skilrijkum uitnum ad hun hefdi greindan kaupskap giort uid Gudmund Gijslason af hræslu og otta. fyrir greindum syslumanni edur hans vmbodzmann þa hann til setti tijma og ad þeim eidi vnnvmm dæmdum

1) Svo.

vier optnefndan kaupskap vm xc i Mardarnupi aa milli Gudmundar oc Brietar onytann ologgligann[1]) og ecki epter logum giordan hafa uerid. Suo og dæmdum uier med fullu doms atkuædi Gudmundi Gijslasyni fulla fulgu med Eyrnyu fyrir þad ärid er hann annadist greinda Eyrnyu vegna Brietar epter þui sem skynsommum monnum uirdist greindur Gudmundur uel af haldinn.

Samþyckti þennann dom med oss greindur syslumann oc setti sitt innsigli med uorum jnnsiglum fyrir þenna dom er skrifadur uar a Gudrunarstaudum i Uatnzdal faustudaginn fyrstann i vetri aa sama äri og fyrr seiger.

---

**184.** **14. júní 1564.** **í Skriðu.**

VITNISBURÐR um viðtal og skipti þeirra Magnúsar Jónssonar og Vigfúsar Þorsteinssonar á Helgastaðaþingi.

AM. Apogr. 4758. „Ex orig. fra Jone Jonssyne a Gunnsteinsstødum.“ (AM.).

Vier epterskrifader menn Siara Einar Sigurdsson. Þorarin Philipusson. Jon Tindsson. Oddur Halldorsson. Biarne Biornsson. Þorlakur Jonsson. giorum ollum monnum kunigt med þessu voru opnu brefi arum epter Guds burd. m. d. lxiiij. midvikudaginn næstan epter huitasuno[2]) vm vorid a Helgastodum i Reykiadal a almeniligu hieradsþingi. vorum vier vidstadder ad Magnus Jonsson baud Fusa Þorsteinssyni syslumanni ad giora eina declararcio og vpplysing allra sinna orda þeirra sem hann hefdi talad a næsta Helgastadaþingi huorar meiningar og vnderstodu hann hefdi þau talad. Somuleidis baud hann honum (þar næst) ad suara logum fyrir sin ord og athafner sem hann hefdi talad eda giort i þad sinn huort sem þad snyrti hann edur adra menn. Og beiddist af honum at hann lieti þar þa strax i liosi

1) Svo. 2) þ. e. 24. maí.

þa vitnisburdi sem hann hefdi þar upp a tekid ef nockrir væri. Elligar sagdi hann ad Fusi mundi þess mals alldre vppreisn eiga. og eij sidar meir heyrast eiga þui hann sagdi sier bagt hier vitnum at ad koma j odrum sueitum. enn nu væri margir vid stadder sem heyrt og sied hefdi huat hann talad edr giort hefdi. Enn hann fyrirbaud Fusa vnder hæstu stridu laganna. epter þann dag nockurn dom þar yfer ad seigia edr seigia lata sier til motkastz edur hindrunar edr afellis. þui hann sagdist lysa sig ef annars væri oforriettadan og eigi logsogtan: þui hann sagdist skiota sino mali þad hann snyrti og Kolbein Arngrimson vm jordina Grænavatn. vndan hans Dome og Logsogn til næsta Oxararþings fyrir Egertt Hansson Logmann og undir hans vtnefnd. þui hann sagdist þar þa vera skylldu. ad forfallalausu. edur hans fullmegtugur svaramadur. þar epter baud hann fyrir sig log og dom. sina menn. gods og peninga fyrr og sidar. Lysti sig þar med og allt huat hellst honum tilheyrdi. kuikt og daudt. fritt og ofritt. ad ongu vndan teknu i vernd og biskierming sins nadugasta herra kongsins. fyrir Fusa. ollum hans adstodumonnum. ollum odrum vti fra. Suo og sagdi hann sig i alla hlydni og logliga lijdskylldu. þeirre sem honum bæri ad syna Gudi og monnum. Og at hans odrum brefum vtlesnum baud Magnus Fusa. ad eiga vnder logum. a næsta Oxarärþingi huat huor þeirra mætti til annars tala. og rietti hondina ad Fusa.. enn hann gaf þad suar. at hann skylldi vera a alþingi. J annat sinn bad Magnus Fusa ad giefa þui suar sem hann beiddist. at eiga vnder logum a næsta Oxararþingi. þa sagdi Fusi hann skylldi a alþingi vera þo þad giordi hann eigi vpp a hans vegna. og ecki fieck Magnus af honum annad suar. varo hier vidstadder. sau og vppa heyrdu Sygurdur Jonsson. Illugi Gudmundsson. Olafur Arnason. Oddur Jonsson. prestar. Magnus Biornnson. Hallsteirn Eirexson og nær. xxx. annara manna. Og til sanninda hier vm setium vier fyrgreinder menn uor jnsigli fyrir þetta bref sem skrifad var j Skridu i Reykiadal midvikudaginn næstan fyrir Viti et

Modesti þann fiortanda dag Junij a hino sama are sem ad fyr seigir.

---

185. 17. júní 1564. að Ljósavatni.

FRAMFÆRSLUDÓMR.

AM. Apogr. 4767, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali so ad kalla. þö er ecki nema eitt gat ä brotenu nedan, og þar i reim, vid hveria hvert innsigle hafi nockurn tima komed, eda eigi, er övist. Enn þad [er] vïst, ad alldri hafa fleiri innsigli enn þetta eina (ef þö so er) þar under komid. Skriften ä þessu pergamentsbrefi er annars, audsyniliga, þessarrar tidar."

Þat giorum vier Oddur Asmundzson. Þordur Pietursson. Sigurdur Jngialldzson. Steirn Magnusson. Ellendur Þorkelsson. Jon Magnusson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at þa er lidit var fra hingadburd Jhesu Christi m. d. lx. og iiij. ar aa Liosavatni i Bardardal. laugardaginn næstan fyrir Jonsmesso baptisti.[1]) vorum vier til doms nefnder af Vigfusa bonda Þorsteinssyni er þa hafdi syslu i Þingeyarþingi. til at skoda og rannsaka. hier med fullnadardoms atkvædi aa at leggia. hvar Asmundur Þorvarsson[1]) skilldi[1]) sina framfærlsu[1]) hafa. er þa var þar þrotinn. Komu þar fram fyrir oss goder menn er þ[at] baru og sogdu at Arnfinnur bondi i Austfiordum væri audrum og þridia at skylldugleika vid adurnefndan Asmund Þorvardsson. og væri þar audrumeiginn Þuridur Langsdotter moder Arnfins bonda. en audrumeiginn væri Jnngibiorg Langsdotter. Solveg. og Asmundur. og so sogdu þessir ærligir menn. at fyrrgreindur Arnfinnur Jonsson ætti fullann forlagseyrir fyrir sig og sina omaga. so og þennann mann epter þvi vor landzlaga riettur aavisar. og fyrir þa grein at sa skylldazt til at framfæra þann er framfærlstunnar[1]) þarf og fie hefur til. Enn vier vissum nu aungvann hans frænda þann annann er fie og vordzlu og forlagseyrir hefdi til at annast og fram-

---

1) Svo.

færslu veita þessum optnefndum Asmundi Þorvardzsyni enn þrattnefndan Arnfinn bonda Jonsson. þvi i gudz nafni amen. og aullu suo profudu mali og fyrir oss komnu. þa dæmdum vier fyrr nefnder domsmenn med fullu doms atkvædi tittnefndan Asmund Þorvardzson uppaa fie Arnfins Jonssonar til lauglegx framfæris. og hann skylldugann med honum at taka. og lauglegtt framfæri at veita. utan at þrattnefndur Arnfinnur Jonsson viti eda siai honum annat lauglegra framfæri epter laugum. og hann vinni eid at sinu fie. at hann hafi ecki so mikin forlagseyri edur fie. at hann meigi þennann omaga og sinn frænda at laugum annast og medtaka. þa dæmdum vier og hann skylldugann epter laganna avisan. at laugfæra hann fra sier og til þeirra hans frænda sem fie og forlagseyrir hafa til hann at annast epter laugum.

Samþyckti þennann vorn dom med oss fyrskrifadur valldzmadur Vigfus bondi Þorsteinsson og setti sitt incigli med vorum inciglum fyrir þetta domsbref skrifad i sama stad. dag og ari sem fyr seiger.

---

186. 18. júní 1564. á Hjalla.

VITNISBURÐR um landamerki Brúar efri i Grímsnesi.

AM. 59, 8vo., bls. 111—12, uppskrift gerð fyrir Odd byskup Einarsson ca. 1605.

Vtskript af Briefum vmm landamerke a mille Bruanna j Grijmsnese.

So felldann vittnisburd berum vid Helge Jonsson og Søluør Petursdötter ad vid hofum bued a Efre Bru j Grijmsnese. annad vppa xx ar. enn annad v. är (þar med atte fader minn Petur Sueinsson þessa adur greinda jord j xxx är) ad vid heyrdum alldrei tuijmæle a leika. ad Efre Bru ætte ecke sköginn a Giabacka. millum gia og gatna. og være kollud Bruartorfa. Og þennann skog nytkudu vid a medan vid biuggum þar. og alldrei var þar nein akløgun ä af nockurs hende. Enn j heima lande

voru halldin landamerke j nordrætt j Molldäs enn störa. og j þann læk sem er fyrir nordan stapann. Enn j landnordursætt j halfann Hestzdal. Lyste Clemens heitinn Jonsson þui, er þar bio j xx ar fyrir ockur. ad þad sel sem giørtt er a drifttinne nordur. være rett j landamerkium. Enn af nordara driftar endanum j Þrasaborger. Enn sudur fra Bru ofan j Markargil og sionhending j lækinn fyrir nedan Liosafoss og burtt vr adurgreindu Markargile sionhending vppi Burfellsfiall. So og j austurætt. halfann Burfellsdal. og sionhending af sama dal j Þrasaborger. Eru vid nu lx ara gømul. Skrifad a Hialla j Ølvese. sunnudaginn næstann fyrer Jonsmessu Baptistæ. vmm sumarid þa er lidid var fra Gudz burd m. v$^{c}$. lx og iiij. Og til sanninda hier vmm þryckium vid ockar jnnsigle fyrer þetta vittnisburdarbrief.

---

**187. 26. júní 1564. á Hvanneyri.**

KAUPBRÉF fyrir Súlunesi ytra í Melasveit.

AM. Apogr. 4771 „Ex transscripto 8. Maii 1578."

Þad giorum vier Þordur Gudmundzson. Einar Eiricksson. Þorsteinn Sighvatzson. og Ketil[l] Jonsson. godum monnum kunnigt. med þessu voru opnu brefi. þä lidit var fra gudz burd 1564. ä sunnudagin næstan fyrir Peturs messo og Pals.[1]) ä Melum j Melasveit vorum vier j hiä. säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. af eirne alfu Þidrikz Jonssonar. enn af annare alfu Henrekz Gerkens Hannessonar. faldist þad under þeirra handabandi. ad adurnefndur Þidrik selldi fyrr greindum Henrek halfa jørdina ytra Sülanes[2]) sem liggur j Mela kirkiu sokn. med ollum þeim gognum og giædum sem greindre halfre jørdu hafdi fylgt at fornu og nyu. undan sier og sinum erfingium. Enn under hann og hanz erfingia. Saumuleidis med kendist sagdur Þidrik ad hann hefdi medtekit og uppborit j greint jard-

1) þ. e. 25. júní. 2) Svo.

ar verd iiij kyr. ij äsaudar kugillde. c j gelldum nautum. tiu aura vod. tiu aura j þarflegum peningum. Þui gaf nu oftnefndur Þidric adur greindan Henrek med fullnadar handabande aulldungis kvittann og äkiærulausann fyrir sier og sinum Erfingium um greint jardarverd. Lofade Henrek at hallda jørdina til laga enn Þidrick skyllde svara lagariftingum. Og til sanninda hier um festum vier fyrrnefnder menn vor jnnsigli fyrir þetta vitnisburdarbref skrifad ä Hvanneyri j Borgarfirdi ä sama äre. deige sidar en fyrr seiger.

---

188. 30. júní 1564. á Öxarárþingi.

STÓRI DÓMR um frændsemi- og sifjaspell, hórdóm og frillulífi.

AM. 161, 4to., bls. 290—4, skinnbók, lögbók Páls höfuðsmanns Stigssonar, og er þetta skrifað 1564—5 (og er því sama sem frumrit) m. h. síra Gríms Skúlasonar í Hruna. — Thott. 2102, 4to., bls. 436—44, einnig m. h. síra Gríms Skúlasonar 1568. — AM. 238, 4to., bl. 101—3, Bessastaðabók, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar á Kalastöðum ca. 1570. — Dómr þessi er til í mesta grúa uppskrifta, svo sem ÍB. 60, 8vo., Gl. kgl. Saml. 3274 A, 4to., Advocates Library í Edínaborg 21. 2. 2 (FM. 9), og danskar þýðingar í Adv. Libr. 1 c. Gl. kgl. Saml. 1159, 1160, 1161, fol., Thott. 2102 4to. — Prentað að Hólum 1743. JS. Lovsaml. I. bls. 84—9 (sjá og prentstaði þar). — Sbr enn fremr staðfesting konungs á dómi þessum 13. apríl 1565. — Um dóm þenna ritaði Guðmundr málfræðingr Andrésson ritgerð, Discursus oppositivus, og er hún til í geysimörgum uppskriftum utan lands og innan, sem skrár safna bera vitni um.

Domur um hordoma frændsemis spioll og mægda og um frijllulifi. Anno 1564.[1])

Vjer Arne Gijslason. Þorlakr Einarsson. Gunnar Gijslason. Halldor Einarsson. Snæbiorn Halldorsson. Biorn Þorleifsson. Jon Olafsson. Brandr Einarsson. Þordr Gudmundsson. Gijsle Sueinsson. Hallr Olafsson. Þoruardr Biornsson. Þorer Sueinsson. Þorsteinn Oddzson. Gud-

1) 238. Alþingisdomur vm hordoms saker sifiaspell og frillu-l[ife] 2102.

mundr Jonsson. Einar Gijslason. Einar Palsson. Jon Sigurdzson. Magnus Kietilsson. Petur Þorleifsson. Magnus Jonsson. Arne Jonsson. Magnus Jonsson. og[1]) Oddr Tumasson. Giorum aullum og sierhuerium kunnigt þeim sem þetta bref birtizt. lesa edr heyra lesit. ad arum epter Gudz burd M. D. lx. og fiogr. faustudaginn næstann firir visitationem[2]) Marie. þann. xxx. dag Junij. a fimta are Rijkis þess[3]) hø[g]bornazta. stormektugazta. vijdfrægazta første og herra konungs Fridriks annars þess nafns med Gudz nad kongi til Danmerckr og Noregs vors allra kiærazta og nadugazta Herra. aa almenniligu Auxaraarþinge[4]) vorum vier tilnefnder af erligum og velburdugum monnum Päle Vigfussyni laugmanni fyrir sunnann og austann aa Jslande. og Eggert Hannessyne fyrir nordan og vestan aa Jslande. fulla grein aa ad giora sem standa skylldi vm alldr og æfe fyrir allt folck aa Jslande. alna og oborna. karlmenn og konr[5]) fra þeim deigi huersu miclar [fiesekter og här refsingar[6]) vera skylldi aa frændseme og [mægda spellum.[7]) hordomum og frillulife. sem ad i vorum Jslendzkum logum eigi var suo fulluliga ne skilmerckiliga aamalgat edr til einkat. medur þui þann heidurligi. velburduge og hattaktadi hofudzmann Pall Stigsson konglig maiestetz[8]) bijfalningsmann yfer allt Jsland hafdi hier doms aa bedizt af logmonnunum. og þotte hier suo storlig þorf og naudsyn aa vera saker þeirrar[9]) ohæfu og fordæduskapar sem suo margann hender opt og osialldann. är epter är mest saker hegningarleysis. sem Gud forbetri. et cetera. þa hofum vier þessa grein aa giort ad þær. xuij. personur karlmanna og kuenna ad frændseme og mægdum sem til[10]) ero greindar j þeim gomlu kirkiu logum sem verid hafa hier j landit[11]) ad fornu skulu falla til obotamala og hafa fyrirgiort lifinu. karlmenn høgguizt. enn konr[5]) dreckizt. þeirra fie fast og

---

1q b. v. 238, 2102. 2) visitatio 2102. 3) b. v. 2102. 4) 2102; Oxarärþinge 161. 5) Svo. 6) [Refsingar og haar fieseckter 2102. 7) mægdar spiollum 2102. 8) maiestatis 2102. 9) þeirra 161, 2102. 10) 238; eigi 161, 2102. 11) landi 2102.

laust standa til vors nadugazta herra kongsins nada hueria vægd og myskunn sem hans veglig nad fyrir Gudz skylld og vorn audmiukann bænarstad. saker fatæktar landzins. vill hier aa giora. suo halfer þeirra peningar mættu falla vnder hans nad og krununa. enn halft til fatækra nanustu erfingia. epter þui sem vottar riettarbot virduligs herra Magnusar kongs Hakonarsonar vm aull obotamal. vtan landrad og drottins suik vid kong.

Þær personur sem furnare[1] ero ad mægdum enn fyr ero taldar j greindum logum. og þar stodu ecki tilgreindar sem ero

kona modrbrodurs[2]) og faudrbrodurs.[2])
brodrdottr[3]) konu manz.
og systrdottur konu manz.

og adrar personur iafnskylldar og mægdar. suo j karllegg sem kuenna. þa setium vier þar aa. ix. marcka sekt aa hvoru vm sig. og j refsing .ix. vandarhøgg huort vm sig sem brotligt verdr. og syslumenn skyllduga heima j sueitum þessa refsing aa ad [lata leggia.[4]) Enn kunne þesser menn j annad sinn brotliger ad verda og falla j saumu sauk sin aa millum edr med[5]) audrum iafn nänum personum. þa sieu þau sek .xiij. morckum huort vm sig og misse hudina fyrer valldzmanni. kunne þesser menn j þridia sinn brotliger ad verda j sama misferle. hafe fyrirgiort fie og fride epter slikre myskunn sem kongr vill a giora sem fyr seiger.

Hveruetna[6]) þar sem syskina baurn kunna sin ã mille brotlig ad verda. þa sieu þau sek halfre fimtu morck refsingarlaust sem fyr hefer verit. og skiliezt ad vpp þadann. Enn ef þau verda brotlig j annad sinn gialldi konungi .ix merkur. huort sem hann edur hon verda brotlig sin aa mille edr vid adra iafnskyllda. Verdi þau brotlig j þridia sinn med sama hætte. fare bæde vtlæg sams ärs sem þau fyrst vid komazt til kongsins näda. än nockra fiegiallda.

1) firnare 2102. 2) Svo 161, 2102. 3) -dotter 2102. 4) [leggia lata 2102. 5) 238; sl. 161, 2102. 6) Huetuetna 2102.

Ef þeir verda brotliger sem ero manne firr[1]) enn systrungr ad frændseme edr mægdum giallde kongi .iii½. mork. j fyrsta sinn. Verdi þau brotlig j annad sinn giallde konge .vij. merckur. Enn ef þau hafa ecke fie til hafe refsing tuo vandarhogg fyrir hueria mork sem ogolldinn er ad næstum fardøgum. vtan þau fae borgunarmann fyrir sig. Kunne þau j þridia sinn brotlig ad verda sin aa mille edr vid adra iafnskyllda. þa fare strax vtlæg af þeim fiordunge j næstu þriu är. vtan sa vilie meire myskunn aa giora sem kongs valld hefr j hendi [epter atuikum.[2])

Verdi þrimenningr brotligr sin aa millum huort helldur sem er ad frændseme edr mægdum vere sek þrim maurckum j fyrsta sinne og skilie epter logliga aminning. Kunne þau j annad sinn brotlig ad verda epter sitt fyrra bætt brot. þa sekizt huort vm sig .vj. morckum. og fare annad huort vr hieradinu. Enn ef þau verda fundinn j þessum misferlum j þridia sinn. giallde .ıx. merckr[3]) huort sem suo hefer brotid og fare annad af fiordunginum. huort sem syslumanne[4]) med dänemanna[5] rade virdizt hentugra ad fara skule. enn kunne þau ad falla j fiorda sinne. þa vere sek huort vm sig .xiij. morckum vid kongdominn og misse hudina. Enn ef fyrskrifader menn hafa ecki fie til. þaa fäe refsing epter markatale af vandarhøggum sem fyr er sagt.

Þær personur sem brotligar verda j þridia og fiorda ættlegg huort sem er ad frændseme edr mægdum. þa skulu þau skilia og giallde konge .xij. aura huort fyrir sig. og fyrirbioda saman ad giptazt vtan medur kongs leyfe. Verde þau brotlig j annad sinn giallde konge .iij. merckr huort vm sig. Enn ef þau briota j þridia sinn j sama misferle. giallde kongi .vj. merckr huort vm sig. Enn ef þau briota j fiorda sinn misse hudina huorutueggiu og giallde aunguar fiesekter.

Þær personur sem logliga ero eiginngiptar og kunna j einfolldum hordome brotlig ad verda. giallde kongi

1) firre 2102. 2) [b. v. 238, 2102. 3) morckum 2102. 4) syslumadur(!) 2102. 5) dandis manna 2102.

.vj. merckr j fyrsta sinn huort vm sig. Enn ef giptr madr tekr gipta konu edur gipt kona giptann mann sekizt huort vm sig .xij. morckum. Enn huort þeirra sem eigi hafa fie til ad giallda ad næstum fardogum. fae .ij. vandar hogg fyrir hueria morck ogolldna. nema sa vilie meire myskunn aa giora sem kongs valld hefer j hendi. Ef þau fallazt j annad sinn j sama misferle[1]) sin aa mille edur vid adra. annad huort einfallt edr tuefallt. suare slikum fiesektum halfu auknum huort vm sig. og misse hudina. Enn huort sem eigi hefer fie til misse hudina og hafe ad auke adra likamliga refsing sem .xij. menn dæma. Enn ef annadhuort þessara manna kunna brotlig med sama hætte j þridia sinn ad verda. huort helldur þad er j einfolldum edur tuefolldum hordome. og sannprofazt med opinberum verckum edr laugligum skilrikum vitnum. edr þeirra sialfra viliannligre og lostugre oneyddre medkienning og vidgaungu. þa skulu karlmenn missa sitt hofud enn konurnar dreckizt epter konglig maiestetz[2]) recessis hliodan. vtan sialfr kongr vilie meire myskunn aa giora. Enn allt godz og eigner hins sakada falle til logligra erfingia fyrir saker fatæktar landzins.

Þeir menn sem gieta barn j frillulijfe giallde .xuiij. alner huort vm sig aa fyrstu barneign. Enn .vj. aura aa annare barneign. Ad þridiu barneign .xij. aura huort vm sig. ad fiordu barneign .iij. merckr huort vm sig og fare af fordunginum. Kunne þau j fimta sinn brotlig ad verda sin j mille ad fimta barne. misse hudina edr eigizt. Skal prestrinn til[3]) skylldur vppä sins embættis vegna og suo syslumadurinn vpp a sins valldz vegna slika menn hardliga aa ad minna ad þau af late þuilikum oheyreligum lifnadi og life med aungu mote j slikum opinnberum hneykslunum. Þeir menn sem liggia j opinberum frillulifnade og ecke vilia af lata epter sins soknarprestz þriar kristeligar[4]) aaminningar. þa sieu þeir seker aa hueriu äre slikre sekt sem fyr seiger vid

1) sakferli 238. 2) maiestatis 2102. 3) 161, 2102. 4) sl. 238.

huert barn. Vilie hon edur hann aa fimta äre eige af lata. þa misse hudina og sieu þrysuar aminter[1]) adur af prestinum aa hueriu äre epter þui sem ordinantian auijsar.

Dæmdum vier med fullu doms atkuæde alla þessa vora skickan og setninga j forsia og vmbod vors nadugazta herra kongsins og Danmerckr rikis rads þad af ad taka og vid ad auka sem hans heygmecktug nad med radinu þætte oss hans kongligrar nadar vndersatum innbyggiurum og almugafolcki. best. henta j þessu fatæka lande. Treystande ad hans konglig nad mune sig vid oss myskunnsamliga audsyna j aullum vorum þreyngiande og aaliggiande naudsynium.

Samþyckte þennann vorn dom med oss greindr bifalningsmann Pall Stigsson og bader logmennirner og settu sin jnsigle med vorum fyrgreindra doms[2]) manna jnnsiglum fyrir bref sem skrifad var j sama stad tueimr døgum sidar enn fyrr seiger.

ÍB. 60, 8vo., bls. 405, 4to., skr. 1604, hefir þetta aftan við Stóradóm:

J þessum stóra domj stendur so wm þa menn sem falla j þridia sinn j opinberann hordom: ad þeir skuli aflifast. wtann kongur wilie meirj myskun ä giora. Og firir þessi ord woru þeir Grimur Jonsson og Einar Jonsson (huorier so hofdo fallit) dæmdir til kongsinz naada ä alþingi nu wm sumarit Anno ....[3]) Einar andadist wr krankleika wtann landz. Enn Grimur nadadist. so hann er nu Logriettomadur ordinn Anno 1604.

Advocates Library Edinb. 21, 3, 4. (FM. 13, 4to.). Uppskrift frá ca. 1760 af Discursus oppositivus Gudmundar Andéssonar; þar aftan við stendr þessi klausa:

„Hvort þad mune satt ad Gunnar sal. Gislason hafe aldrei vel samþickur orded Stora Doms Gaungu. og þeim flestum hafe orded ä glæpur nema honum?“

---

1) amint 2102. 2) b. v. 238. 3) Eyða fyrir ártalinu.

189. 30. júní 1564. á Þingvelli.

HJÚSKAPARLEYFI síra Þorleifs Björnssonar og Ragnhildar Jónsdóttur.

AM. Fasc. LV, 20, frumrit á pappír frá síra Árna Jónssyni; 3 innsigli úr lakki drepin undir faldinn. — AM. Apogr. 1253. — AM. Fasc. LVI, 15, transscr. eða vidisse frá 2. júlí 1568 (með röngu ártali 1566). — AM. Apogr. 1255.

Sijra Þolleifur.[1])

Jeg Paall Stijgsson Kongl. Maiest. bifalningsmann yfer allt Jsland giori ollum viturligtt med þessu mijnu opnu brefi: Eg medkennunst ad fyrir mig hefur komit Sijra Þolleifur Biornsson og kunngiortt mier klaarliga huerssu hättad væri vm sitt og þeirrar kuinnu efni sem j morg forlidin är hefur honum þionad. heitandis[2]) Ragnnhilldur Jonsdotter. var þessi kona fyrst gefinn bædi af hennar faudur og modur j valld fyrr nefndz Sijra Þolleifs. þo med suoddann motj. ad hann skylldi ætijd j sijna daga vid hana hallda suo sem vid[3]) sijna[4]) eckttakonu og suo lika hionaband med hana binda. þa þad j landinu stadfest væri ad prestmenn sig giptta mættu. enn nockrum ärum forlidnum vard þessi kona brotlig vid þann mann sem ad var þriminingur Sijra Þolleifs. hefur suo stadit sijdan ad þau hafa huorckj mätt gipttast til samans eigi helldur viliad skilia þo til hafi verid lagtt helldur saman blijfa og þar ollu til kosta þui þau mættu hellst fyrir þui ad þau hofdu og hafa born til samans[5]) ätt. Þui j Gudz nafni amen og fyrir þessara heidarligra Manna bæna stad og samþycke Herra Eggertz logmans og Herra Gisla Jonssonar Superintendens Skalholltzstickttis þa hefi eg leyftt og til latid mijns Nädugasta Kongl. Maiest. herra vegna þessum fyrr nefndum personum Sijra Þolleife og Ragnnhilld[6]) sitt hionaband ad binda til erligs lifnadar og christiligs sidferdis sier suo ad hialpa. sijn-

———

[1]) Utan á bréfinu m. gamalli h. [2]) -andc LVI, 15. [3]) sl. LVI, 15. [4]) sinn(!) LVI, 15. [5]) saman LVI, 15. [6]) Ragnhillde LVI. 15.

um bornum og odrum samchristnum naungum. Þui fyrirbyd eg ollum og sierhuerium huad hellst ad vera kunnu fyrr nefnda menn hier vpp ä ad hindra edur[1]) j nockurnn mäta forfang ad giora. Oc til sanninda hier vmm þryck[2]) ec mitt signiet med fyrr nefndra herramanna jnsiglum vpp ä þetta bref. Skrifat aa Þinguelli Laugardaginn næstann fyrir visitatio Marie. Anno [et cetera.[3]) 1564.[4])

(L. S.) (L. S.) (L. S.)

---

190. 1. júlí 1564. á alþingi.

TYIFTARDÓMR, kvaddr af Páli lögmanni Vigfússyni, dæmir ónýtt kaup þeirra hjóna Arnfinns Jónssonar og Ragnhildar Ketilsdóttur, um jarðir hennar, Kirkjuból í Norðfirði og Eyrarteig í Skriðdal, og skulu þær falla í erfð bræðrum hennar, Magnúsi og Indriða Ketilssonum.

Dómabók í þjóðskjalasafni í 4to., (bls. 313—15) frá erfingjum Árna landfógeta Thorsteinsonar, kölluð M (hér = a), og er þetta skrifað ca. 1680. — Lbs. 654, 4to., II, 14, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Lbs. 788, 4to., bl. 104 b, brot framan af dóminum, skr. ca. 1640. — Lbs. 812, 4to., bl. 84—5, skr. 1660. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 138 b—9 a m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666. — Mörg ágrip eru til af dómi þessum í ýmsum dómabókum, oft með röngu ártali á ýmsa vegu, og eru þau öll ónýt. Heilu uppskriftirnar hafa ýmist ártal dómsins 1563 eða 1564. Mun ártalið 1564 vera hið rétta. Ef ártal hans væri 1563, yrði dagsetning 3. júlí, og er það sjaldséð á alþingisdómum. Þá voru menn oftast farnir að ríða af þingi. Sbr. Dipl. Isl. XI, nr. 550.

Dömur vmm þad. kona mä eij selia Bönda sijnum jarder sijnar. Dæmt aff Päli Løgmanne.

Øllum[5]) mønnum sem þetta Bref siä edur heyra. senda Magnus Jönsson. Pall Eiolfsson. Þorgrijmur Oddsson. Jon Gijslason. Magnus Petursson. Henrich Vil-

1) sl. LVI, 15. 2) þrycke LVI, 15. 3) [umm, uppi yfir í LVI, 15. 4) Þushund vc lx. sex, LVI, 15; en þá (29. júní 1656) var Páll Stígsson dauðr. 5) þeim godum 65, 812.

kinsson.[1]) Eiolfur Magnusson. Eigill Einarsson. Jon Arnörsson.[2]) Päll Jönsson. Skiegge Gudmundsson og Jön Biornsson k[vediu] G[uds] og sijna kunnugt giorandi [ad Anno[3]) 1564[4]) vorum vier i döm nefnder aff heijdurligum manne[5]) Päle Vigfussyne L[øg]manne fyrir s[unnan] og a[ustan] a Jslandi. a almennelegu Øxararþijnge. laugardaginn næstann epter[6]) Peturz messo og Pälz. til ad skoda og ransaka [og] fullnadardömz atkuædi ä ad leggia vmm þä kløgun er Magnus Kietilsson klagadi til Arnfinnz Jönssonar. vmm þann arff er honum hafdi falled. og hannz Brödur Jndrida[7]) epter systur sijna Ragnhilldi Kietilsdottur. sem voru tuær ixc[8]) jarder. suo heitandi Kyrkiuböl j Nordfirdi i Skorastadar kyrkiusökn. og Eyrarteigur i Skridudal i Mulastadar kyrkiusökn. huøriar jarder Arnfinnur hafdi keipt ad greindre Ragnhilldi konu sinne. og giefed henne fyrer x malnytu kugillde og viijc[9]) i gödum peningum. huad oss leist eij løglegt kaup vera. þui so avijsa vor landzløg. ad bonda kona skal räda eyrerskaupe ä xij mänudum huørium. nema Bondi hennar sendi hana i kaupstad [ad kaupa þeim[10]) til þarffinda. þä skulu halldast kaup hennar öføfsud.[11]) Enn[12]) jarder skal hun ønguar selia. þar fyrer dæmdum vier þetta þeirra kaup önytt. og ad øngvo halldandi. Jtem[13]) i annare grein stendur suo [j Bökinne.[14]) Eff misdaudi hiöna verdur. og lifer hann henne leingur. þa take arffar hennar heimanfilgiu hennar. Enn tilgiøf falle nidur. Voru þessar adurgreindar jarder heimannfilgia hennar. Þui ad suo pröfudu og fyrer oss komnu. dæmdum vier [fyrr nefnder domsmenn[15]) med fullu dömz at-

1) Vilhialmzson 812. 2) Arnarson 788. 3) [Anno Domini 812; þä lidid var frä hijngadburde vorz herra Jesu Christi 65. 4) 65, 812, 1945; 1563, *a*, 788. 5) herra 65, 812, 1945. 6) *a*; 65; fyrer 788, 812, 1945, sem er rangt. Það yrði 1564 sá 24. júní, en 26. júní 1563, og það er hvort tveggja áðr en alþingi hófst. 7) Amunda 812, 1945. 8) niju 788, 812, 1945. 9) vii½c 788, 812, 1945. 10) honum 812, 1945. 11) [b. v. 65, 812, 1945; et cetera a. 12) nema 65, 1945. 13) Suo og 65, 812, 1945. 14) [b. v. 65, 812, 1945. 15) [b. v. 65.

kuædi Magnus Kietilsson og hannz Brödur Jndrida[1]) meiga ad sier taka riettelega greindar jarder. og þær þeirra eign vera og vered haffa sijdann þeim arffurinn fiell. Og þa skillduga afftur ad leggia. sem þeim hallda. eff þeir vilia ecke meira straffe aff løgmälinu[2]) mæta. Samþickte þennan vorn döm adurgreindur løgmann et cetera.

---

191. 1. júlí 1564. á Þingvelli.

VITNISBURÐR um lýsing gamals bréfs um fiskitolla úr Bolungarvík til Vatnsfjarðarkirkju (með athugasemdum Árna Magnússonar um bréfið, eins og það var þá, en nú er það ekki til).

AM. Apogr. 1050 „Ex originali Sæmundar Magnüssonar a Holi i Bolungarvik“ m. h. Árna Magnússonar. Árni lýsir innsiglum.

Þatlr medkiennust wier Egiert Hannesson laugmann fyrir nordan og westan aa Jslandi Þorlaakur Eijnarsson. Brandr Einarsson. Oddr Tummasson og Eijnar Paalsson fyrir aullum monnum þeim sem þetta wort bref siaa edr heyra atlı wier haufum sied og yfvir lesid eijtt gamallt bref med heijlum og oskauddum hangandi innsiglum. Suo laatanda atlı þeiʀ sem fyrir greint bref eru skrifadir seigiazt wera meijr enn lx. wetra gamler menn og þeiʀ hafi alldrei witad aa sinne æfui atlı nauckur fiskitollur hafui werid golldinn thil Watzfiardarkirkiu af nauckrum iordum j Bolungarwiik nema[3]) af meijri Hlijd. Stenndr og suo skrifad j fyʀ-

1) Svo hér öll, sem rétt er. 2) logmanne(!) 812. 3) Þetta ord nema, hefur, ad visu svo vered skrifad j fyrstu, sidann hefur þad vered raderad, og giørt h. ur n. Ur tveimur fyrstu leggiunum a m. ll ur þeim sidsta leggnum og a. dr. svo þad skylldi vera helldr. þar ad auk hefur vered sett eigi framan vid þetta helldr. svo þar sem stod nema skylldi nu standa eigi helldr. Sidann hefur einhver ä ny raderad burt þetta eigi, Jtem leggena a helldr og þau følsku aukastriken, so þar stendur nu aptur nema, eins og þar ä ad standa, en sier þö rasuram og reliqvias prioris imposturæ. (AM.).

nefndu briefi ath alldreij hafui tollur werid golldinn til Vatzfiardarkirkiu af annaRi[1]) iordu j Bolungarwijk nema[2]) wnndan Hlijd og ætti þo Hlijd tolllaust skip og alldreij hefdu þeiR hier heyrt tuijmæli aa leijka fyRi enn þar daatum war skrifad MCDlxix. Og thil sanninda hier um setium wier fyRnefndir menn wor innsigli fyrir þetta witnisburdarbref er skrifat war aa Þinguelli laugardaginn næstann eftir Pietursmessu og Paals arum eftir gudz burd M. D. lx. iiij.

---

192. 1. júlí 1564. á Öxarárþingi.

SÁTTARGERÐ Torfa Sigfússonar og Árna Gíslasonar.

AM. Apogr. 4773, m. h. Hans Beckers „Ex originali Hlidarend." Árni segir til 7 innsigla.

Sattargiordarbref Torfa Sigfussonar og Arna Gislasonar.[3])

Var þessi skilmäli ä millum Arna Gijslasonar oc Torfa Sigfussonar laugardaginn næsta epter Pieturs-

---

1) annaRi. Þetta ord er nu krassad i brefinu, þad synest fyrst ad hafa vered skrifad annaRi sidann hefur þad falsaria manu vered corrigerad, og sem synest, ur a. giørt n. ur n e. uppi ifir n, er burt skafid og þar blettur epter. a. þad sidara hefur og vered krassad i, kannske til ad smida ur þvi l. R. helldur sier, og i ultimum. enn uppi yfir R. er sidan sett strik. (so: R.) synest falsarenn hafi ætlad ad giøra neiRi. Sidann hefur einnhver, ur þessu forfalskada orde aptur giørt annaRi. og so stendr þad nu synelega. hefur hann gleymt ad skafa ut — yfir. R. (AM.). 2) ur þessu nema hefur falsarinn giort helldr, eins og fyrr er sagt. Og med þvi hier var eckert bil mille wijk nema þä hefur hann hier sett eigi uppi yfir linunni og bodad þad so inn milli ordanna. Sidann er þesse impostura ä ny utskafin, ut Supra, bædi eigi, og apices h. ll. d. Enn sier þo gløgt hvernig þad hefur vered falsad, hefur og gleymst ad skafa j burtu notam milli ordanna sem atti ad boda eigi inn. Si stendr nu ä ny nema j stadinn fyrir þetta falska eigi helldr so sem þar hefur j fyrstu staded. Þad er auddæmt, ad sami falsari hefur ätt vid þetta bref sem vid brefed sialft (hvers extract þetta er) daterad 1470. j transscripto Olafs biskups og annarra anno 1564. (AM.). 3) „Þetta stendur utan ä brefinu, ritad med hendi Arna Gislasonar" (AM.).

messo og Päls ärum epter Gudz burd Md lxiiij. ä almenniligu Øxarärþingi ath fyrir medalgongu herra Egiertz Hannessonar laugmannz. Þorlaks bonda Einarssonar og Halldors bonda Einarssonar. ad Torfui skylldi giallda og greida Arna Gijslasyni .lxc. ad tilskildum xx malnytu kugilldum og .xxc. j gielldum peningum og hestum. skipum og audrum godum gripum epter þui sem þeim sialfum uel semdi sijn ä millum greindum Arna og Torfua. og þar til skylldi Torfui giallda Arna .xxc. i reidu gialldi .iij. dali j hundrad. skylldu greind .xc.[1]) malnytu kugilldi gialldazt ad næstum fardogum og þar til .xc. af þeim. xxc. sem fyrr greiner i gielldum peningi og audrum þarfligum peningum. Enn aunnur x malnytu kugildi skylldu gialldazt að audrum fardaugum. Enn þau sem þa gyllduzt ecki skylldu standa med leiguburdi hiaa greindum Torfua. og þar til skylldu þa ad greindum audrum fordogum gialldazt. xc. j audrum peningum epter þui sem fyrr seiger: skulu þessir peningar gialldazt ä Höli j Bolungaruijk Arna Gijslasyni j haund edur hans ummbodzmanni. Skylldi reidu gialldit greidazt og ad næstum fardogum j fyrrgreindum stad Arna j hond edur seinazt ä alþingi. Hier med skildi Arni Gijslason til. ad optnefndur Torfi skylldi uera honum til gagns og goda þadann j fra. og hans uarnadi og hann alldreij þadan j fra hugmöda. og ad þessu aullu tilskildu haulldnu og fyrgreindum peningum golldnum gaf fyrrnefndur Arni Gijslason Torfua Sigfusson aullungiss kuittann og äkiærulausan vmm allt þad Arni þottist meiga klaga thil Sigfus Brummmanzsonar og hans erfuingia oc fyrrgreindz Torfua allt þad Arna bar med laugum kuitt ad giefa. og hann ætti og mætti sialfur sauk og sokn ä eiga. Hier med skylldu þessir tijttnefndir menn Torfui og Arni alsattum satter. sem fyrrskrifad stendur. Var herra Egiert laugmann forsagnarmann fyrir þessum giorningi og sattargiord. huer med handsaulum uar giord greindra manna j millum Arna

1) Svo.

og Torfa af þeim sialfum thil. þessum monnum hiä uer-aundum Þorlaki Einarssyni. Halldori Einarssyni. Einari Gijslasyni. Tyrfingi Halldorssyni. Erlindi Jonssyni. Þorsteini Gudmundzsyni. og Gunnlaugi Kodranssyni. huerier sijn innsigli settu med fyrrnefndz herra Egiertz laugmannz jnnsigli fyrir þetta bref. er skrifad uar j sama stad deigi og äri sem fyrr seiger.

---

193. 2. júlí 1564. á Þingvelli.

KVITTUN andvirðis Svanga í Skorradal.

AM. Fasc. LV, 19, frumrit á skinni frá Magnúsi í Bæðratungu; 4 innsiglaför, en engin innsigli. Á lausum miða ritar Árni: „Skriften ä þessu brefi er fornlegre, enn árstaled seiger." — AM. Apogr. 4769.

Þat gijorum uær Þorolfur Eyiolfson. Andres Magnusson. Ion Olafson. Helgi Dagstigson godum monnum kunnigt med þessu minu[1]) opnu brefi þa lidit var fra hingatburd uors herra Ihesu Christi M uc lx og iiij a Þinguelli svnnudaginn næstan epter Petursmesso og Pals vorum uær i hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna Olafs Eyiolfssonar enn af annari Ragnhildar Ketilsdottur. skildizt þat og faldizt unnder þessv þeirra handabande. at adur greind Ragnhilldur gaf adur greindan Olaf Eyiolfson aulldungiss kvittan og akærulausan fyrir sier og sinum erfingium og epterkomendum um þat iardarpars[1]) uerd og skogar er hun hafdi sellt honum huer er uar Svangur[1]) i Skoradal. Oc til sanninda hier vmm setium vier adurgreinder menn vor insigli fyrir þetta kuittunarbref skrifat i sama stad og dag sem firr seiier.[1])

---

194. 1564. á alþingi.

ALÞINGISSAMÞYKKT um tekjur presta utan prestssetra af kirknaeignum.

1) Svo.

Ny kgl. Saml. 1847, 4to., A 41v m. h. sira Guðbrands Jónssonar i Vatnsfirði 1669.

Samþykt ä Alþinge 1564.
Ad prestar hafe siautta part leijgna og landskullda kirkiu eijgnar. þar sem prestarner gieta ei setid etc.

---

**195.** **13. júlí 1564.** **á Þaravöllum.**
VITNISBURÐR um ítök Súluness ytra og Mela.

AM. Apogr. 4775, uppskrift staðfest í Skálholti 17. nóv. 1711 af Árna Magnússyni, Þorleifi Arasyni, Gísla Bjarnasyni og Þorgilsi Sigurðssyni, eftir transscripto gerðu á kálfskinn 8. maí 1578 í Svignaskarði af Guðmundi Ormssyni, Gunnari Jónssyni og Jóni Magnússyni.

Þad giore ec Valgardur Olafsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad ec var j Melasweitt [vppa j[1]) xx ar. og ec bio nockur är ä jnnra Sulunes[e]. hiellt þaa ytra Sulunes aatolulaust j Melastadar jord beit ollum peninge. bæde vetur og sumar. enn stadurin hiellt halfum reka aa Sulueyri þeim triam sem voro. vi½. alnum og þadan af leingrum. enn þau minne voro eignadest jardeigandi. heyrdi ec alldre tuimæli aa þessum eignar jtokum leika. aa medan ec var j Melaþingum. og hier epter maa ec sueria ef þorf giorist. Og til sanninda hier vm fest[e] ec mitt jnsigle fyrir þetta mitt vitnisburdarbref skrifad ä Þarravollum[2]) þann xiij dag Jülius manadar arum 1564.

---

**196.** **[ca. 13. júlí] 1564.**
VITNISBURÐR um ítök Súluness ytra og Mela.

AM. Apogr. 4774, uppskrift staðfest í Skálholti 17. nóv. 1711 af Árna Magnússyni, Þorleifi Arasyni, Gísla Bjarnasyni og Þorgilsi

1) [Svo. 2) „Þaraveller er hiäleiga frä Jnnrahölme, liggur ä mille Jnnrahölms og Gierdis, þö nær Gierde", stendr á lausum miða.

Sigurðssyni, gerð eftir transscripta á kálfskinni, skrifuðu á Svignaskarði 8. maí 1578 og vottuðu af Guðmundi Ormssyni, Gunnari Jónssyni og Jóni Magnússyni.

Þad giore eg Hrolfur Magnusson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi at ec var heimelisfastur j Melasweit j xl aar. hiellt þä ytra Sulunes ätolulaust j Melastadar jord beit ollum peninge bædi vætur[1]) oc sumar. Enn staduren hiellt halfum reka ä Sulueyri þeim triam sem voro vi½ alnum og þadan af leingrum. Enn þau minne voro eignadist jardeigande. heyrda ec alldre tuimæle ä þessum eignar jtaukum leika ä medan ec var j Melaþingum. og hier epter mä ec sweria ef þorf giorist. Og til sanninda hier vm fest[e] ec mitt jnnsigli fyrir þetta mit[t] vitnisburdarbref skrifad ä Sulunese arum epter gudz burd. 1564.

---

197. 15. júlí 1564. á Bessastöðum.

PÁLL STÍGSSON veitir með ráði Gísla byskups Jónssonar Jóni presti Loptssyni Vatnsfjörð og officialisdæmi yfir Vestfjörðum.

Ny kgl. Saml. 1847, 4to., D 50—3 m. h. síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði 1669.

Sera Jons Loptssonar collatz paa Vatzfiord 1564.

Jeg Päll Stijgsson konglig maiestets befalningsmann jfer allt Jsland giori øllum viturlegt med þessu mijnu opnu breffi. ad eptir þvi konglig maiestet. minn allra nädugasti herra. hefur bifalad mier allt krünunnar götz og liene hier a Jslande vpp a hanz konglig maiestets vegna üt i allt forsvar ad hafa til konglig maiestets gagns og göda. svo og eigi sijdur hefur hann mier alvarliga bifalad allt stigtanna götz. og so ønnur andleg liene og beneficia hier ä lande til yfersionar ad hafa. og hier til sitt konglig maiestets opid bref hingad til landssinz sendt til stadfestingar i svoddann mäta. ad

1) Svo.

hver andleg beneficium edur lene. sem hier eru upp ä Jsland. sem guds ords þienarar plagast med ad forlienast edur med ad vpp halldast. þä skulu þeir forlienast af hanns konglig maiestets bifalningsmanne hier ä lande þeim. sem nu er. edur þeim. sem epter komande verdur. og af honum vpp ä fyrnefnd beneficium collationem bref ad medtaka. þö j svo mäta. ad þeir gudz ordz þienarar hverier ad fyrskrifud beneficium skulu hafa. skulu ädur jnnilegana og grandvarlegana af superintendentinum. hver ut i sijnu stikti examinerast og jferheyrder vera. og sidann epter christelegri skikkan og konglig maiestets ordinantiu ad ordinerast. hvort þeir eru dugleigir til slijkz embættis edur eigi.

Nu epter þvi ad eg hefe af þeim vellærda manne herra Gisla Jonssyni superintendente jfer Skalholltz stickte fornumed og j sannleika friett ad stör brestur er vppä gudz ordz þienara ä Vestfiordum meir enn annarstadar (þess verr). og være miog nytsamlegt. fyrer neydar saker. þängad ad senda og setia eirn þann. sem jfirsiön kinne ad hafa jfer fyrsøgdumm gudz ordz þienurumm. svo ad þad hid sanna gudz ord mætte hafa rettiligann frammgang. þar fyrir hef eg med fyrnefndz vellærda mannz rade og samþycke utvaled og tilkallad og ordinerad heidurlega personu siera Jon Loptsson þar ad vera fullmecktugann officialis og jfirsionarmann. sem fyrskrifad stendur. Enn fyrir þad ad honum ber fyrir slijka hans stora ahyggiu og arfide erligana ad vpphalldast ut j sijnu embætte og kallan. þä hef eg nu epter fyrnefndre konglig maiestets. mijnz nadugasta herra. fullre mackt og bifalning unt og forlient. og nu med þessu mijnu opnu brefi. med räde og samþycke firnefnds herra Gijsla Jonssonar superintendens Skälholltz sticktis. vnne og forliene fyrnefndri heidarligri personu sira Jone Loptssyni eitt krununnar og Skälholltz domkyrkiu beneficium. hvert ad nefnist Vatzfiørdur. er liggur ä Vestfiordum. til ad nyta. bruka og bihalda kvijtt og frij ut i sijna lijfstijd. til eins erligs vppheldis ut i sinne riettre kallan og embætte sem

er gudz ordz þionustugierd. Skal hann og sama beneficium bihalda sem eirn riettur beneficiator med allri sinni renntu og rieligheit. götz og garda til landz og siofar. til fiallz og fioru. eckert undann tekid i nockurn mata. vtann þad sem ut j firrnefndu hannz lande til fiallz edur fioru kunne ad finnast nockur malmur edur metalli. brennesteirn edur alun. silfur edur gullberg. edur nockud annad. annadhvort hvalztennur og vildara. hvoria(!) ad konglig maiestet skal alleina tilheyra fyrir utann toll edur annann kostnad. Skal og fyrrnefndur sera Jon Loptsson eige afvenda nockrumm af fyrgreindu stadarinnz gotze edur eign. og ecki helldur hilla ad fra kirkiunne sie dreiged fyrir utann konglig maiestets vilia. helldur skal hann fulla mackt og bifalning til hafa med jslenzkum løgum aptur ad klaga og kalla hvad sem fra fyrnefndu krununnar beneficio er med rangindumm fra komid. Skal hann og vera skilldugur til ad halda stadinn j godre hefd og bygging. svo og stadarinnz jarder ad lata byggiast og forbetrast. Skal hann vera konglig maiestet til Danmerkur og Noregs vndergefinn og vnderdanig og konglig maiestets befalningsmanne hier vpp a Jslande heyrugur. hlydugur og filgaktugur ut j þeim hlutumm, sem ecki eru gudz orde til forhindrunar edur foraurgunar. Somuleidiss skal hann og vera superintendentz vt i Skalholltz stickte. þeim sem nu er edur eptirkomande verdur. af konglig maiestet riettiliga tilsettur. heyrugur. hlydugur og filgaktugur utj þuj sem þeirre christiligre religionis vid bijdur. gudz ord riettilegana ad kienna og sacramentanna riettilegt brukan epter konglig maiestets ordinanziu bijfalning vmm christilegar ceremoniur og skickanir utj þeirri christilegu kirkiu. enn allar gamlar papiskar ceremoniur nidur ad leggia. so ad þad sanna gudz ord meigi hafa eirn alvarlegann og sannann frammgäng til gudz æru og brodurligs kiærleika. Skal og fyrnefndur sira Jon Loptsson goda adsion hafa jfer Jsafirdi. Bardastrond og Strandasyslumm. ad þad hid rietta. sanna gudz ord riettiliga til

stadar koma mætti.[1]) og ad vera eirn fullmecktugur biskupsins officialis ut j fyrnefndumm syslum og fiordungi. og þa epter sijnu embætte ad straffa. sem þad vilia motstanda. Enn hvorer. sem honum vilia ecki hlyda. og hardliga i mot standa. þa skal hann fulla mackt til hafa þa fyrir konglig maiestets befalningsmann hier jfer Jslande ad kalla. og so af honum straffast sem einumm riettumm gudz ordz motstandara ber ad straffast. fyrer biodande þar fyrir upp a fyrnefnds konglig maiestet mijnz naduga kongs herra vegna. aullumm. sierhvorium. lærdumm og leijkumm. hvorer hellst sem ad þeir eru edur verda kunna. sem fyrnefndan sira Jon Loptsson j nockurn mata vilia forfäng giora edur fyrir ad sitia til nockrar hindrunar. hvort heldur þad er upp a stadarinnz edur hanz embættiss vegna. sem firr er sagt. svo framt sem þeir vilia ecki fa straff sem konglig maiestet ohlydugir vndersatar. og þeir gudz æru vilia forhindra. hier meige þier aller vita ad rietta ydur epter.

Og til meire vitnisburdar og betre forvørunar. ad allt þetta fyrskrifada skal obrigdanliga med mackt halldast. hefur fyrrnefndur vellærdi mann herra Gijsli Jonsson superintendens jfer Skalholltz stijckte samþyckt þetta firrskrifada. og so hef eg kiærlega vmmbedid hann ad innzigla med mier þetta mitt collationis breff.

Datum vpp a konglig maiestets gard Bessastade þann 15. dag Julij Anno Domini 1564.

Undir mitt Signete.

---

**198. 15. júlí 1564. á Bessastöðum.**

PÁLL STÍGSSON samþykkir árlangt umboð Eggerts Hannessonar á eignum Daða Guðmundssonar, en skýtr að öðru leyti til úrskurðar konungs kröfum þeim, er konungr kunni að eiga til þeirra.

Lbs. 72, 4to., bls. 634—5, m. h. sira Jóns Halldórssonar ca. 1720—30. „skrifad effter originalnum.“

1) b. v.; vantar í hdr.

Høfudsmannsinns Päls Stijgssonar lofun um gots Dada Gudmundssonar Anno 1564.

Jeg Povell Stigssen kongl. Majst Befalningsmand offver Jsland kiendis och giøre viterligt for alle med thette mitt obne Breff. at for migh haffver kommit paa kongl. Mayst. vegne heiderligh och velvijs mand Eggert Hanssøn Laugmand for norden og vesten paa Jslandt. och baaditt migh paa kongl. Mayst. vegne at forliigiss med migh hviss Thilltale kongl. Mayst. min naadigste herre maatte haffve thill Dade Bonde Gudmundssons godts (hviss siel gud naade) eṇd iegh haffver thenne sagh indsatt for kongl. Mayst. min naadigste herre thill sligh svar och naade. som hans kongl. Mayst. vill ther thill giffve. Thess i mellem haffver iegh paa kongl. Majst. goode behagh lof thill giffvet. at forne Eggert Hanssøn maa thette aar med frij uden sagh haffve fornefnte Dade Gudmundssens goodts medferdis effter thet umbod. som hannem er thil dømt. thiill sligh svar och naade. som kongl. Majst. vill ther thill giffve. och naar forne heybemelte kongl. Mayst. svar hijdt thill landet igen kommendis vorder. skall forne Eggert Hanssøn forplicht vere paa thenne sagh laugh eller forligelse at svare. effter som kongl. Mayst. min naadigte herre ther om giørendis vorder. Thiill vidnisbyrdh ther om er mit signeth her under tryckt. Datum paa kongl. Majst. gaard Bessestadt 15 Julii Anno 1564.

(L. S.)

---

199. 24. júlí 1564. að Hólum.

KAUPBRÉF fyrir hálfum Stafnshól í Deildardal.

AM. Fasc. LIV, 29, skrá á skinni frá ca. 1564. — AM. Apogr. 298.

Þat giorum vid sira Þorsteinn Hallsson Holastadar radzmann. Jon Sæmundsson, prestar. godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi. ad arum epter guds burd. m d lx og iiii. xxa og fiorda dag Iulij manadar j

biskupsbadstofunni aa Holum j Hialltadal uorum vid j hia saum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna af eirne alfu Biarna Stullasonar. af annare Sigridar Sigurdardottur med fullkomligu jayrdi og samþycki hennar herra og husbonda biskups Olafs Hialltasonar. at suo fyrir skilldu. at nefndur Biarne Stullason selldi greindri Sigridi Sigurdardottur iordina halfann Stafnshol j Deilldardal er liggur j Hofstada kirkiu sokn fyrir xiic. med ollum þeim gognum og giædum. eignum og jtokum. hlutum og hlunnindum sem greindri iordu halfri fylger og fylgt hefur at fornv og nyu. og Biarni Stullason uard fremst eigandi at. undan sier og sinum erfing[i]um. enn vnder adur greinda Sigride og hennar erfing[i]a. hier j mot skylldi Sigridur giallda Bia[r]na Stullasyne .xc. j iordu. þa henne bærist j hendur. og honum uel likadi. Enn Sigridur skylldi honum þangat til huert ar greida malnytu .x. aura j landskylld. Og til saninda hier vm set ec Biarne Stullason mitt incigli med fyr greindra presta inciglum fyrir nedan þetta kaupbref. huert ed skrifat uar j sama stad og dag sem fyr seiger.

---

200. 26. júlí 1564. að Hóli.

VITNISBURÐR um landamerki Hóls og Hlíðar í Bolungarvík og um fisktolla til Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apogr. 1045 „Fra Sæmundi Magnussyne a Holi i Bolungarvik“ (AM.), m. h. Árna Magnússonar.

Svo felldan vitnisburd ber eg Jon Hauskulldsson ad eg er nu siautigi ära gamall madur. og hefi eg leingstum vistfastur verid j Bolungarvik um mïna daga. hefi eg alldrei annad heyrt um mïna daga en su ä sem rennur j mille Höls og Hlïdar j Bolungarvik hafi runnid fyrir ofan Buder og svo ut og framm j Fornärös ad fornu fari. Sagdizt minn fadir Hauskulldur hafa þar og alldrei heyrt tvimæli ä leika um sina daga og var hann lxxx. vetra gamall madr. Svo og sagdi minn fader mier ad hann hefdi leingstum verid hia Husfru

Solveigu Biornsdottur. Sagdi hann mier ad svo hefdi þa golldid verid ad til Vatzfiardar hefde ecki golldizt adrer tollar ur Bolungarvik enn fra skierinu Þiodolfi og til Fornäröss. hefi eg og vitad j aullum fyrrnefndum tima ad ädurnefnder budarmenn og vermenn hafa sialldan edur alldrei annarstadar torf stungid og ristid til sinna buda enn j kringum þær i þeirra leyfi sem rädamenn hafa verid ä Höli. Og til sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta brief er skrifad var a Höli j Bolungarvik sietta dag og xx Julii. ärum epter gudz burd M. D. lx. iiij.

Fyrirfarande witnisburdur er ordriett skrifadur epter kalfskinnsbrefe med underhangande heilu og læsiligu jnnsigli Jons Hoskulldssonar. þad vottum vier er saman läsum ad Skalhollte þan 16. Decembris Anno 1707.

Magnus Markusson.
Snorre Jönsson.
Þördur Þördarson.

---

201. 26. júlí 1564. að Hóli.

VITNISBURÐR um landamerki Hóls og Hlíðar í Bolungarvík.

AM. Aopgr. 1048 „Epter originalbrefi fra Sæmundi Magnussyne ä Hole i Bolungarvik“ m. h. Þórðar Þórðarsonar.

Suofelldan vitnisburd ber eg Olafur Þordarson. ad eg hefui nu siau uetur vm sextijgi. hefui eg uistfastur uerid j Bolungaruijk og Skälavijk sextan aar og xx. hefi eg alldreij annad heyrt enn su aa sem rennur j milli Höls og Hlijdar j Bolungarvijk hafui runnid ad fornu fari fyrir ofann Buder og svo þar ut epter og ofann j Fornaarös. hefui eg þar alldreij heyrt tuijmæli aa leika. og svo sagdi minn fadir mier. ad þar hefdi eckj tuijmæli aa leikid aa allri sinne æfui. og var hann half attrædur ath alldri. svo og hefui ec uitad budarmenn j fyrrgreindum øllum tijma sialldann edur alldrei annar-

stadar torf stinga edur rista til sinna buda enn j kringvm þær þar fyrer ofann þær sialfuar. suo oc uissi ec fyrir full sannindi ad greind ä j milli Höls og Hlijdar fiell j fyrgreindann farueg fyrir ofan Buder og suo fram j Fornaarös nu fyrer xiiij. aarum vm sumarit vm Jacobsmessu. suo oc fiell þessi sama aa j þrattnefndan fornann farueg nu vmm veturinn fyrir þremur aarum. Og til sanninda hier vm set ec mitt jnnsigli fyrer þetta bref er skrifath var ä Höli j Bolungarvijk. sietta og xx. dag Julii. arum epter Gudz burd. M. D. lxiiij.

---

Þetta fyrer framan og ofan skrifad bref er ordriett ritad epter Originalnum sem er ä kalfskinni med underhangande heilu og læseligu Jnnsigli Olafs Þördarsonar. Til sannendamerkis setium vier underskrifader vor nøfn hier ad nedan med eigin hondum j Skälhollte þann 6. Decembris anno Christi 1710.

Þördur Þördarson.
Þorgils Sigurdsson
Grimur Magnusson
Magnus Einarsson.

---

202. 26. júlí 1564. að Hóli.

VITNISBURÐR um landamerki Hóls og Hlíðar í Bolungarvík og fiskitolla til Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apogr. 1049 „Epter originalbrefi fra Sæmundi Magnussyni a Höle i Bolungarvik“ (AM.).

Suofelldan vitnisburd ber ec Sueirn Jonsson ad ec er nu nær lx aara gamall og hefui ec uistfastur uerid j Bolungarvijk sextan är og xx. hefui ec alldreij heyrt tuijmæli ä þvi leika ad su ä sem rennur j milli Höls og Hlijdar j Bolungarvijk hafui ad fornu fari fallid fyrer ofann Buder þar ut epter oc suo framm j Fornaarös og suo hefui ec heyrt af mier elldri monnum suo og vissi ec fyrir full sannindi ad ädurgreind ä fiell j þennann fyrr greindann fornan farueg nu fyrer xiiij

aarum nu um sumarit umm Jäcobsmessu. suo og fiell þessi þrattnefnd ä j sinn optnefndann fornan farueg nu fyrir þrimur ärum vmm veturinn. Suo og hefi ec vitad Budarmenn j fyrgreindum aullum tijma sialldann eda alldreij annars stadar torf stinga latid edur rista til sinna buda enn j kringum þær og hefur suo verid hermt ad þeir hafui þad giort j þeirra leyfui sem ä Höli hafa rädamenn verid suo og var minn fader nær siotugur madur ad alldri og hafdi uppalist j Uatnzfiardarþingum oc uar þar alla sijna daga og lysti hann þvi optliga fyrir mier svo hefdi verid halldit fyrer sier ad Uatnzfiardarkirkiu hefdu alldreij verid reiknadir fiskitollar leingra enn fra skierinu Þiodolfi og ad Fornarös. suo og sagdi mier þad sama Gijsli heijtinn Gudmundsson og var hann gamall madur og slijkt hid sama sagdi mier hans fader ad halldid hefdi verid fyrer sier um greinda tolla. og til sanninda hier umm set eg mitt jnnsigli fyrir þetta vitnisburdar bref er skrifad var ä Höli j Bolungarvijk sietta og xx dag julij arum epter Gudz burd M. d lxiiij.

Þetta fyrir framan og ofanskrifad bref er ordriett ritad epter Originalnum sem er ä kälfskinni med underhangande heilu og læsilegu jnnsigle Sveins Jonssonar. Til sannendamerkis setium vier underskrifader vor nøfn hier ad nedan med eigin høndum j Skälhollte þann 6. Decembris. Anno Christi 1710.

Þördur Þördarson.
Þorgils Sigurdsson.
Grimur Magnusson
Magnus Einarsson.

---

203. 1. ágúst 1564. í Garpsdal.

VITNISBURÐR um landamerki Hóls og Hlíðar i Bolungarvík.

AM. Apogr. 1046 „fra Sæmundi Magnussyne a Holi i Bolungarvik“ m. ħ. Árna Magnússonar.

Svofelldan vitnisburd ber eg Tyrfingur Halldorsson ad eg var ä Höli i Bolungarvïk. iij är rädzmadur vegna Þorleifs heitins Pälssonar laugmannz. tok eg alla tolla hans vegna af aullum hans monnum i Bolungarvïk sem biuggu ä hans iordum. og svo þeirra heimamonnum og svo husmonnum vid Budir. Fann þar einginn madr ad svo eg af vissi edur umvandadi ad þad væri eigi mïns husbonda eign. Svo og hefi eg alldrei heyrt tvimæli ä því leika ad su ä sem nu rennur j milli Höls og Hlïdarhlïdar[1]) hafi ad fornu fari fallid fyrir ofan Buder og svo þar ut eptir og svo ofan j Fornäros. Svo og vissi eg j fyrgreindum tima ad Budarmenn haufdu alldrei annarstadar torftak enn þar i kring um sinar budir i minu leyfi. Og til sanninda hier [um] set eg mitt innsigli fyrir þetta vitnisburdarbrief er skrifad var i Garpzdal i Gilsfirdi þridiudaginn fyrir Olafsmessu ärum eptir gudz burd M. D. lx. og iiij.

Fyrerfarandi vitnisburdur er ordriett skrifadur epter gømlu kalfskinns brefe. nu Jnnsiglislausu. þad vottum vier er saman läsum ad Skalhollte d. 16. Decembris. Anno 1707.

Magnus Markusson.
Snorre Jönsson.
Þördur Þördarson.

---

**204. 6. ágúst 1564. að Hólum.**

SIGRÍÐR SIGURÐARDÓTTIR fær Hólakirkju hálfan Stafnshól i Deildardal.

AM. Fasc. LIV, 29, skrá á skinni frá ca. 1564. — AM. Apogr. 298.

Þat giorum uier Þorstein prestur Hallsson Holastadar radzmann. Jon Jonsson sama stadar kyrkiuprestur. Jon Sæmundsson. Godum monnum kunnigt med þessu uorv opnu brefi at arum epter gudz burd. m d lx og iiij. a Holum j Hialltadal vj dag augusti manadar. uorum

1) Svo.

uier j hia saum og heyrdum aa ord og handaband herra Olafs Hialltasonar Superintendentis Hola biskupsdæmis. einne alfu. enn hans kuinnv Sigridar Sigurdardottur af annare. at suo fyrir skilldu. epter rade heidarligx herra og haufudzmannz Pals Stijgssonar. gallt hun kirkiune fyrir þa xc iord sem hun atti at giallda og epter stod af iardaruerdinu fyr giordu og kaupbrefit þar um uottar. xiic j iordunne Stafnsholi. Med ollum þeim gognum og giædum. eignum og jtokum. hlutum og hlunnindum. sem greindri iordu fylger og fylgt hefur at fornv og nyu. og hun uard fremst eigandi at. og kaupbrefit jnne helldur. Ok til sanninda hier um setium uier fyr skrifader menn uor jnsigli fyrir þetta giorningsbref huert er skrifat uar j sama stad ar og dag. sem fyr seigir.

---

205. **19. ágúst 1564. á Grenjaðarstöðum.**

SAMNINGR um skuld Hóladómkirkju við Ljósavatnskirkju.

AM. Apogr. 112 „Ex orig. sira Olafs Stefanssonar". Lýsir Árni innsiglunum, einkum síra Ólafs Árnasonar, er og sé fyrir bréfi frá 10. ág. 1560 og öðru frá 5. dec. 1568. Jbskj. AM. Þing. 17.

Um Liosavatz kirkiu skulld hia Hola domkirkiu.

Eg Olafur Hialltason under Gudz þolenmæde biskup ä Hölum og superintendens allz Höla biskupsdæmis giori gödum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi þa lidit var fra Iesu Christi fæding M. D. lx. og iiij ár aa Grundarvelle j Eyjafirdi þann xij. dag Augusti mänadar var eg til samtals vid Magnus Biørnsson er þä hiellt Liosavatn j Bardardal. um peninga kirkiunnar þar þä sem dæmder høfdu vered ä Helgastadaþingi hvern döm eg hefi siälfur yfersied. og hann svo inne hiellt ad Höla kirkia skylldi Liösavatz kirkiu leggia og giallda xxc. og vij. svo sem sa dömur utvisar. þä hefi eg med handsolum svodan sama giort vid Magnus Biørnson sem hier epter skrifad stendur. J fyrstu lofa

eg ad giallda Liosavattz kirkiu og Magnuse Biornssyne j hond iij kugilldi. messoklæde fyrir iijc. xij. fiordunga smiors og ij vætter fiska. og þar til skal Magnus meiga taka þä hann vill ä domkirkiunnar rekum vid til þriggia ca. enn hann skylldi svara þeim þingapresti sem eg skipa til Liosavatz fædu þridia hvern helgann dag þann sem nu er boden og Ordinantian innehelldur ad halldast skuli j svodan mata ad prestur sitie ad kirkiunne j hvert þad sinn .ij. nætur ef hann svo vill. enn ei skal Magnus presti þurfa ad svara meira kosti enn nu er sagt utann hann vilie betur giøra. og ei skal hann biskupsgistingu svara ä medan eg hef og helld Höla dömkirkiu. utan hann fai ädur og kirkian alla fyrrgreinda peninga þä svare sa epter løgum biskupi og presti sem gardinn helldur. og þessu øllu hollnu lofadi Magnus ad klaga ei Hola domkirkiu um þa peninga sem epter stendur hia Hola kirkiu af Liösavatz kirkiu peningum. svo leingi sem eg hefdi Hola domkirkiu fiar forrædi. enn aungva kvittun giordi Magnus a um grendrar kirkiu peninga. voru þesser vottar ad þessum ockrum giorningi til kallader Sigurdur Jonsson og Olafur Arnason prestar. Og til sanninda hier um set eg mitt incigli med þeirra inciglum fyrir þetta bref er giort var ä Greniadarstad j Adalʀeykiadal vij nöttum sidar enn fyrr seigier.

---

**206. 23. ágúst 1564. á Brúarlandi.**

VITNISBURÐR um gjöf Hrauns í Unadal.

AM. 199, 4to., bls. 132, uppskrift gerð fyrir Jón lögmann Jónsson um 1604.

Suo felldann vitnisburd ber eg Olafur Jonsson ad eg var vid staddur a Hofi a Hofdastraund þar j kirkiunne. ad Margriet Erlendzdotter gaf dottur sinne Jngibiorgu Palsdottur med handsolum jordina Hraun j Wnudal[1])

---

1) Svo.

j sijnar loggiafer. med samþycke Pals Grijmssonar og hans sonar[1]) Biarna og Jons. Og til sanninda hier vmm set eg mitt jncigle fyrir þetta mitt vitnisburdarbref. huortt skrifad var a Bruarlandi j Deijlldardal. næstann dag fyrer Bartholomeus Messo Anno M. D. Lx og iiij är.

---

207. 29. ágúst 1564. í Brimum.

SKIPHERRAR og kaupmenn, er verzla að Búðum á Snæfellsnesi, skrifa borgmeisturum og ráði Brima og beiðast meðalgöngu þeirra við Danakonung, til þess að afstýra því, að Hamborgarkaupmenn gangi á rétt þeirra til verzlunar að Búðum.

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. II, 15. — Ríkisskjalasafnið í Brimum, uppskrift 1933 frá H. Christ, aðstoðarmanni þar. — Bréfið finnst og í rskjs. Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. 15, 26.

Hochgelerde Ehrbahre. und Wolwyse. grothgunstige gebedende Heren. Negst erbedinge unser gehorsahmen bereittwilligenn deinste. geven I. Erb. W. wy. mit bedrovedem gemohte. klagende deinstlick tho erkennenn. Wowoll wy vor velenn Iahrenn. (:unser nehringe mit dar waginge lyvess unde gohdess. thom bestenn nha tho settende :) entlick dorch gnedige anwysinge dess Almechtigenn eine Haven in Isslandt. mit nhamen Bodenstede. thom ersten angedrapenn unde up gefunden. ock folgendess desulven. up vorgahnde gnedigste verloffnisse der Kon. Maytt. unsess Gnedigsten Herenn. unnde dersulven verordentenn Vogdenn darsulvest. negest guthwilliger verrichtinge des gebohrlikenn Tollenss. jahrlikess besegeldt. unde mit allerley deinstlikenn wahrenn notturfftiglick vorsorget. So datt unsess underdenigstenn verhapendess. de Hogstgedachte Kon. Maytt. unnde dersulvigenn Bevehlhebbere unde underdahne sick derwegen unser (: Godt loff :) inn nichtem tho-

1) Svo.

beklagen hebbenn werdenn. Wy ock desulvige nhu mehr. aver de vehrtich Iahr. ahne Iemandess Insper unde verhinderinge. also trouwlick gebruckett unde besegeldt.

Dat doch dessenn allenn unangesehenn. dissess Iahress etlike Borger van Hamborch. alse Schipper Iurgen Borcherss. sambt synenn Koepluden. sick tho unss in bemelte Havenn. mit ohreme Schepe unde guhderen. dedtlick gedrungenn unde unss mit unser wahre. de wy mit grother beschweringe. in dissenn duhrenn Iahrenn. up unde dahr gebracht. fast tho achterenn gesettet.

Alless in meinung. unss ock der einigen Have. deren se sick doch vor disser tydt nyehmahlss an genhamen. gelick den anderen Havenn inn Isslandt. (: darin se vor unde nha. tho nichtt geringer disser guhdenn Statt beschweringe. unde affbroke gemeyner nehringe sick gedrungenn :) dedtliken thoendtsettenn.

Dewyle averst solcke vorhinderinge und affstrickinge unser nehringe. nicht alleine der nhaberlikenn verwanthenisse sundern ock der Christliken leve. dehme Rechtenn unde aller billicheidt thowedderenn. Unnde wy der mehrgedachtenn Havenn unss beth darher nicht geutert. unss ock desulve dorch der Hogstgemelter Kon: Maytt: Bevelhebber nicht up gesecht wurdenn.

Wyllen tho der Kon: Maytt: wy unss underdenigst vertrosten. desulvige werdenn gnedigst geruhen. unss wedder Iurgenn Borcherss unde syner verwandtenn dedtlike handelinge. nicht weiniger by bavenberohreder Havenn thoverbiddenn. alse he verschenenn Iahress. van einer anderen Have. de Kummerwage genohmett. (: daruth he etlike unse mede Borger gelyker gestaldt thodrengen sick underfangenn :) van ohrer Kon: Maytt: ernstlick affgewysett wurdenn.

Ist demenha unse deinstlike bede I. Ehrb. W. sick gunstiglick nicht beschwerenn willenn. unss by Hogstgedachter Kon: Maytt: vorbitlick thoverschrivenn. darmede wy verdan. by mehrberohrder Havenn. ahne einige der Hamborger beeindrenginge umme de billike ge-

bohr. beth so lange ihre Kon: Maytt: solcke Havenn. vor sick sulvest besegelen tholahtenn. nicht enschlatenn. gnedigst gelahtenn. unde fredlick blivenn mogenn. Solckess gereckett nicht alleine. de wy unser gelegenheidt nha. solcker Schipfahrtt unss ernehrenn mohtenn sunder ock gemeiner Stadt unde Borgerschop. so vann denn Hamborgerenn der order. (: wo gemeldt :) fast verdrungenn. thom bestenn. Unde wy sindt id umme de Kon: Maytt: in aller underdehnicheidt. ock I. Ehrb. W. in schuldigem gehoram uterstess vormogendess thoverdehnenn gantzwillich Datum Bremenn. denn 28. Augusti Anno 1564.

I. Erb. W.

gehorsahme und bereitwillige Borgere
Samptlike Schipper unde Koeplude
der Haven Bodenstede in Isslandt

An den Rath tho Bremenn.

---

208. 1. september 1564. á Eyri.

VITNISBURÐR um landamerki Hóls og Hlíðar í Bolungarvík og um fisktolla Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apor. 1047 „fra Sæmundi Magnussyni a Holi i Bolungarvik“ m. h. Árna Magnussonar.

Svofelldan vitnisburd ber eg Jnndridi Jonsson ad eg hefi heyrt ad Hölsä hafi runnid ad fornu fari fyrir ofan Budir og svo framm j Fornärös. Saumuleidiss og um tollana hefi eg heyrt ad Vatzfiardarkirkia ætti toll fra skierinu Þiodolfi og ad Fornärös. enn ei leingra. lystu þessu fyrir mier Olafur heitinn Gudmundzson og Einar heitinn Þorleifsson og svo fleiri adrir gamlir menn og skilvïser sem þa voru ä daugum er eg var ungur madur. og hefi eg nu sex vetur um sextugt. og alldrei burt ur Jsafirdi farid til vistarferla. Og til sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta bref er skrifad var ä Eyri j Skutilsfirdi faustudaginn næsta eptir Decollatio Johannis baptiste. arum eptir gudz burd M. D. lx. iiij.

Fyrerfarande vitnisburdur er ordriett skrifadur epter kalfskinns brefe. med underhangande heilu og læsiligu Jnnsigle Jndrida Jonssonar. Þad vottum vier er saman läsum ad Skälhollte þann 16. Decembris Anno 1707.

Magnus Markusson.
Snorre Jönsson.
Þördur Þördarson.

---

209. 2. setpember 1564. í Brimum.

BORGMEISTARAR og ráð i Brimum beiðast þess af konungi, að skipherrar og kaupmenn í Brimum fái að njóta réttar sins til verzlunar að Búðum fyrir Hamborgarkaupmönnum (ágrip).

Frumrit i ríkisskjalasafni Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. II, 15.

---

**210. 13. september 1564. á Friðriksborg.**

KONUNGR veitir Brimamönnum höfn að Búðum til verzlunar.

**Ríkisskjalasafn Dana, Ausländ. Registr. 52, 458—9. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar i JS. 372, 4to., bls. 597—8.**

Ahnn die Stadt Brehmen.
Friderichsb[erg] 13. t. Septemb. A° 64.

Wir haben ewer schreibenn vnderm dato den 2. diss Monats heutt empfangen. vnd Inhaltz vorlesen lassen. vermerken daraus. wess Ihr euch etzlichen vnuorsehentlichen beschwerungen halben. so ewern schieffen vnd Kauffleudten die vnser landt Jsslanndt besuchen. In der hafen Bodenstede genhant. vonn Schiffer Georgen Borchorst vnnd anderenn seinen mitvorwanten begegent sein sollenn. beklagen thut. Nur wir vnnss dan gutter massen woll erynneren. dass wir denen von Hamburgk. vnser Landt Jsslandt zubesuchen. hiebeuor fast

gentzlich verbotten. vrsachet vns diese geschichten. jegen das jennige. so wieder vnser verordnung von denselbigen furgenohmen. geburlichs einsehen zu haben. Wollen derwegen die Verordnung zu thuen wissen. das Jr euch wie wir vns vorsehen. des orts von denselbigen keines tedtlichen vberfals mehr zubefharen haben sollet. Wir gonnen euch auch. das Jhr gemeldte hafen Bodenstede fort ahn. wie bis daher. ohne Jemandts hinderung besuchen muget. so lange. das wir nach besser erkundigter gelegenheit desfals ein anderss vorordener werden. das werden sich auch die ewern daselbst. Jhrem erbieten zu folge. mit der erlegung des Zollens vnd anderer gebur vnuorweisslich erzeigenn. Vnd wolten euch diess zu gnedigsten Anntwordt hinuieder nicht verhalten. Seind euch mitt gnaden bewogen.

---

211. 13. september 1564. á Friðriksborg.

KONUNGR tjáir Dr. Hinck efni næsta bréfs á undan.

Ríkisskjalasafn Dana, Ausländ. Registr. 52, 459—60. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 599—600.

Ahnn Doctor Hinck.

Friderichsburg. 13. Septemb. A° 64.

Ewer vorbitlich schreiben vor etzliche Burger zu Brehmen so nach vnsern Lande Isslandth handeln. vnd sich Jhnen vor etzlichen von Hamburgk jnn der hafen Bodenstede beschehenen eintrags. beschweret. vnnd abschaffung gesucht. haben wir neben eines Radts daselbst derwegen auch ahn vns ergannguer vorschrifft heutt dato entpfangen. vnd gnedigst vorstanden. Vnd weill wir denen von Hamburgk. gemeldts vnser Land Isslandt hiebeuor. fast gentzlich verbotten. dem zu jegen dan solcher eindranck wieder faren sein mus. vns zu verordenung. das sich ermeldte vonn Brehmen dergleichen vberfals hinfurder nicht zubefharen habenn solten. gnedigst erbotten. auch zugelassen. das dieselbige. bis das wir vnns allerley gelegenheit besser erkundiget

auff geburliche erzeigung. Jhrem erbieten nach wie biss daher besuchenn vnd gebrauchen muegen. Alles Jnnhalts vnsers ahn den Radt daselbst wieder ergangenen Antwordt schreibens. Welches Jhr vngezweifelt vonn Jhnen selbst werdet zustehen erlangen. Kondten dissmals weiter jnn diesen sachen nichts einreumen.

Seindt euch zu gnaden geneigt.

---

212. 15. september 1564. á Möðruvöllum.
17. december 1564. í Auðbrekku.
22. mars 1565. á Möðruvöllum.

KAUPBRÉF fyrir Hólum í Öxnadal.

AM. Apogr. 4762 „Ex orig. fra Joni Jonssyne ä Gunnsteinsstødum.“

Þat giorum vær Þorgeir Gunnarson. Ola[f]ur Tomasson. prestar. Gijsle Arnason. Brandur Sueinsson. Jon Jonsson. Jon Gitzurarson og Biarne Sueinsson. leikmenn godum monnum kunnigt. med þesso voru opnu brefi. at ärum epter Gudz burd M d lx. iiij. ä Modruuollum j Horgardal fostudaginn næstan epter krossmesso vmm haustid vorum vær hia. saum og heyrdum aa ord og handaband Sera Biarnar Gijslasonar og Asgrims Einarssonar: at sua fyrir skildu at nefndur Asgrimur sellde sogdum Sera Birne jordena Hola j Øxnadal j Backa kirkiu sokn til fullrar eignar med ollum þeim gognum og giædum sem þeirri jordu fylgier og fylgt hefur at fornu og nyiu og aadur nefndur Asgrimur vard fremst eigandi at. Hier j moti gaf fyrr nefndur Sera Biorn aadur sogdum Asgrime. xij maalnytu kugillde. iiijc. j gielldum nautum. og. iiijc. j gielldum saudum. og. vc. j einhuerium audrum þarfligum peningum. Skylldu nautin og sauderner vt greidast at næstum epterkomande fardogum. enn kugilldin skyllde opt nefndur Sera Biorn hafa um næstu .iij. är af Asgrime til fullrar leigu. Enn vcin þau hinu ofridu og sua leigurnar af kugilldunum skyllde þratt nefndur Sera Biorn greida kongs vmbodz-

manni vegna adurnefndz Asgrims. uppi þat sakafie sem tijtt nefndur Asgrimur hafdi ordit kongsvalldino skylldugur. Enn ef jorden Holar genge af Sera Birne med logum. þa skylldi þrattnefndur Sera Biorn eignast þridiung j jordunne Arnbiargarbrecku þann sem Halfdan Eijnarson helldur vegna sinnar kuinno Þrudar Ormsdottur. þuiat Asgrimur sagde at sa jardarpartur hefdi verid giefinn fyrir jordina Hola. enn þat sem sa jardarpartur er dyrare enn Holar skylldi opt nefndur Sera Biorn greida tijdt nefndum Asgrime j godum þarfligum peningum. Lofadi þratt nefndur Sera Biorn at hallda jordunne Holum til laga.

Suo og vorum vær hia j Audbrecku j Horgardal sunnudaginn næstan fyrir Tomasmesso fyrir jol aa sama aare. sem fyrr seigier. saum og heyrdum aa at Halldora Gudmundardotter Eiginnkuinna adurgreindz Asgrims sambyckti med handsaulum vid opt nefndan Sera Biorn. og sua sinn mann tijdt nefndan Asgrim allan fyrr greindan kaupskap og giorning.

Og til sanninda hier vm setium vær fyr nefnder kaupvottar vor jncigle fyrir þetta bref er skrifat var ä Modruvöllum j Horgardal. fimtudaginn næstan fyrir Mariumessu Annuntiationis. i. are sydar enn fyrr seigier.

---

213. 25. september 1564. að Bakkárholti.

SJÖTTARDÓMR presta og leikmanna dæmir Skálholtsdómkirkju rekann á Skeiði.

Bps. Skalh. Fasc. VI, 27, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru nú 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 252.

Domur Arnors vm Rekann aa Skeidi.

Ollum monnum þeim sem þetta Bref sia edur heyra. senda Jon Biarnarson. Biorn Olafsson. Einar Olafsson. Prestar Skalholltz sticktis. Jon Thomasson. Jon Vigfusson og Þorgrimur Oddson suarner logriettumenn. kuediu Gudz og sina kunnigt giorandi at aarum epter Gudz burd M. D lx og iiij. A Backarhollti j Auluesi vmm haustid

aa þingstad Riettum Manudaginn næstann fyrir Michaels Messu vorum vier til skodunar og doms nefnder af Erligum Dandis sueine Niels Olafssyni er þa hafdi fullmecktugt kongsins vmbod yfer þrimur fiordungum aa Jslandi vm þa klaugun og aakiæru sem Sijra Þordur Jonsson er þa var Raadzmadur j Skalhollti klagadi til Arnors Eyiolfssonar at hann hefdi laugliga at sier tecid Domkirkiunnar reka aa Skeidi. huer nefndur reki at honum hafdi verit optsinnes bannadur og fyrirbodinn. Suo og laugfestur. Enn Arnor brukadi hann samt og aadur. Jtem var þessi nefndur Arnor aa þessu fyrr greindu þingi stefndur Almennilega þar strax. þui dæmdum vier hann riettilega fyrir kalladan epter laugligri stefnu. Kom þar framm j fyrstu fyrir oss af Raadzmannsins hendi vitnisburdar Bref Abota Halldors aa Helgafelli med heilu og oskauddu hans hanganda jnnsigle huert vt var gefit fyrir fimm og .l. aarum.[1]) huert Bref suo jnne hiellt at Abotinn lysti þui at hann hefdi verit Raadzmadur j Skalhollti j þriar reisur og vitad þar til meir enn vppaa .l. aar. og eigi annars heyrt edur vitad helldur enn suo at rekinn aa Skeidi hefdi verit hafdur og halldinn Skalholltz Domkirkiu eign aataululaust j allann maata. Jtem kom þar og framm j dominn fyrir oss .vj. presta domur jnnsigladur med festur þessu vitnisburdar Brefi. huern dom at Biskup Augmund godrar minningar hafdi ganga latid. j huerium domi at jnne stod vitnesburdur tueggia skiluijsra manna. huerier at verit haufdu annar heimamadur Þoruardz heitins Ellendzsonar logmanns huers saal at Gud mun naadat hafa. Annar hans landseti og buit aa Hraune j Hialla kirkiu sokn. Þesser menn baaru suo. At Þoruardur laugmann hefdi eigi viliad helldur bannad at hafa edur hafa lata med fyrr sagdann Reka aa Skeide og bannadi sinum monnum þar af at hafa vtan þad eina sem Skaalholltz Raadzmadur villdi þeim leyfa.[2]) Jtem j þridia maata kom þar framm Bref Herra Ellendz Þoruardssonar med heilu

1) frá 23. apr. 1509. Dipl. Isl. VIII, nr. 232. 2) frá 8. nóv. 1532. Dipl. Isl. IX, nr. 524.

þar til hundrad j ollum peningum. Og þo med þessu forordi. ad Magnus Jonsson skylldi bioda i mino fullu og logligu ummbodi (medur þvi at eg er siukur og vanfær til ferda sem minum sveitarmonnum er kunnigtt) minum modurbrodur Siera Magnusi Eyiolfssyne þessa halflendu Skiallandafoss at leysa fyrstum fyrer jafnt verd og nu bydist af ødrum. og ef hann villdi sig þa ej strax til kiosa jørdina at kaupa þa er Magnus hefdi honum bodit. þa skylldi sami Magnus Jonsson eignast somu jørd Skiallandafoss hälfan med øllum sinum gognum og giædum. sem henni hefur fylgt at fornu og nyo og eg vard fremst eigandi at. undan mier og minum erfingium hann þad af giora sem hann villdi. Hefur hann mier nu lukt. greitt og golldit enn eg vidtekid þessum xjc. svo mier likar og vel änægir. medur þvi at Siara Magnus kiøre sig ei til at leysa þessa halfa jord til sin fystur. þvi gief og giore eg greindur Þordur Jørundzson fyrnefndan Magnus Jonsson kvittann og äkiærulausan fyrer mier og ollum minum Erfingium og epterkomendum umm greint jardarverd svo jeg edur þeir skulu hier alldre mega med riettu upp ä tala. Enn þo tali. þä lyse eg dautt og magttarlaust til æuenligrar tidar. Voru vitnismenn alls þessa Giornings þessir menn. Biarne Jonsson. Erlingur Einarsson. Pall Jonsson. Gvondur Þorvalldsson og Þorarin Eysteinsson. hvorer menn at settu sin jnsigli med mino fyrer þetta bref hvortt skrifad var j Ogri j Jsafirdi þann þrettanda dag Maij. þa lidit var fra frelsarans fæding M. d. lxvj.

---

291.

**19. ágúst 1565. í Glaumbæ.**
**30. nóv. 1565. á Hafgrímsstöðum.**
**24. dec. 1604. á Steinsstöðum.**

FESTINGARBRÉF Gottskálks Magnússonar og Guðrúnar Gottskálksdóttur.

AM. Apogr. 4134, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex transscripto“ „ä pappir“.

Þeim godum monnum sem þetta brief siä edur heyra sendum vier Olafur Thumasson. Thumi Þorgrimsson. Magnus Jonsson. Grimur Einarsson. Oddur Philpusson [kuediu gudz og vora kunnigt giorandi[1]) at arum eptir gudz burd 1565 hinn 19 dag AAgusti j Glaumbæ j Skagafirdi woru vier hiä. säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. af eirnri alfu [Goskalsks[2]) Magnussonar en af anare [Gudrun Gottskalsksdotter.[2]) falldizt og skildist þad wnder þessum þeirra handsolum. at fyrnefndur Gottskalk Magnusson festi adursagda Gudrunu [Gottskalksdottur[2]) sier til Eignarkuinu epter Riettum landzins løgum. og samþycki beggia þeirra. so og med jäordi og samþycki fødur og modur optsagdrar Gudrunar. talldi Goskalk Magnusson sier til kaups vid þrattnefnda Gudrunu half t anat hundrad hundrada. war þar j fyrstu jordin Reykier j Skagafirdi og Steinstader bader fyrir tietie c. Hoolar j Lagsardaal.[2]) fyrir xx^c^. og þar til lx^c^ j lausagossi. hier j mot gaf Sera Gottskalk Jonsson dottur sijni Gudrunu attatige c. var þar til skilin jordin half Wijk j Skagafirdi. fyrir fioretie c og xx^c^ j frijdum peningum og ofridum og xx^c^ j silfri. Gaf optsagdur Gottskalk Magnusson greindri Gudrunu j sijnar løggiafer þriatie c jord hier jnan syslu. en ef hun eij til wæri og lijfdi Gudrun honum leingur þä skylldi þad vera jordin Steinstader. Enn j tilgiof skylldi hann heni gefa xv^c^ j einhuerium godum peningum. hier med skilldi Sera Gottskalk Jonsson þad til vegna dottur sijnar. at ef so kyni til at falla ad tijttskrifud Gudrun lijfdi leingur en Gottskalk Magnusson þaa skylldi hun eignast jordina Reyki. enn hans erfingiar af hennar mäla jordina halfa Vijk. og þar til þriatie c j lausagotzi. Skilldi Sera Gottskalk sier atta c j tillag halft malnytu þaa hann þættizt vid þurfa. af mäla Gudrunar. So og skilldi Sijgridur Grimsdotter moder Gottskalsks[3]) Magnussonar sier atta c af syni sijnum med slikum hætti. Samþyckti þenna allan adursagdan giorning Magnus

1) [þ. v.; vantar í Apogr. 2) [Svo. 3) Svo.

Bior[n]sson og Sijgridur Grimsdotter. huer ed var fader og moder Gottskalsks[1]) Magnussonar. Og til saninda hier vm sctium vier fyrnefnder menn wor jncigli fyrer þetta giorningsbref huert skrifat var a Hafgrimstodum j Tungusueit þann sijdasta dag Nouembris manadar ä sama aari og fyr seiger.

Þat giorum vid Thomas prestur Þorsteinsson og Arc Sijgurdzson godum monnum kunnigt med þessu ockar opnu brefi at vid hofum sied og yferlesid so latandi bref ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifat stendur med fiorum heilum oskoddudum hangandi jnciglum. Og til saninda hier vm sctiu vid ockar jncigli fyrir þetta bref er skrifat var ä Steinstodum j Tungusueit þann 24 dag Decembris Anno 1604.

---

**292.** **6. september 1565. í Helsingjaborg.**

BRÉF Friðriks konungs annars til Elísabetar Englandsdrottningar, meðal annars um íslenzk efni, er Símon kaupmaðr Surbeck muni greina frá.

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönl., Supplem. II, 2, nr. 12, uppskrift m. h. Gríms Thorkelíns „Ex Autogr. chartac. Bib. Cotton. Nero B. III. p. 149.“

Friedcricus II Dei gratia Danor[um] Noruuegorum Vandalorum Gottorumqve Rex Dux Slesuici Holsatiæ Stormariæ ac Dithmariæ. Comes in Oldenb[urg] et Delmenhorst Serenissimæ Principi Dominæ Elizabethæ Angliæ Franciæ et Hyberniæ Reginæ etc. Sorori et consanguineæ charissimæ Salutem et omnis foelicitatis incrementum Dum vere exacto legatus ad. S. vestram noster Albertus Knopperus ad nos reuertisset. literasque S. vestræ attulisset. cæteraque. quæ ab eadem isti ad legationis suæ capita responsa essent. significasset. gratulati nobis sumus de constanti S. Vestræ. quæ ex iis lucebant. erga nos beneuolentia et fide. Quæ quidem non ut seruemus tantum. sed et augeamus pro virili

---

1) Svo.

confidet S. vestra dilgenter nos. vbi vsus erit connixuros. Paucula quædam restabare videbantur. nempe nauigationis piscationisque Islandicæ apud nos quoque septennio a S. vestra Subditis licentia petenda. vectigaliumque ex more antiquo persoluendorum modus. deinde nauigatio etiam per Sinus Noruegicos sine permissu nostro in Rutheniam contra foederum verba a S. vestræ subditis haud ita dudum suscepta atque huiuscemodi alia. quæ minus plane prot[1]) foederibus consentaneum apparebat. composita essent.

De licentia nauigationis. piscationisque Islandicæ petenda. cæterisque retulit nobis memoratus Orator noster S. vestram respondisse quid quid foederum formulis contineretur. hactenusque intermissum esset S. vestram ex æquo bonoque vt in posterum id fieret. apud suos curaturam. Quod quidem nobis eo tempore satisfecit. Quanquam tamen eos. qui et licentiam prædictam S. vestræ subditorum nomine petant apud nos. impetrentque. cæteraque quæ ad huc definita minus sunt nobiscum transiant componantque exspectaturi sumus.

Intelleximus item S. vestræ etiam subditos de rebus in Islandia et præter morem per nostros nouatis queri solitos. ad ea vero mercator subditusque noster. qui S. vestræ has reddet Simon Surbeck res illic locorum nostras procurare solitus respondebit. Quod si id S. V. minus satis facturum est: pollicemur. vbi memoratis supra de causis S. Vestra quosdam e suis ad nos miserit. iisdem. de querelis etiam talibus tractationem permissuros. Postremum est quod a S. vestra pro mutua necessitudine jam petimus amanter ut in consueto hactenus erga nos amore studioque sicuti plane non dubitamus perseueret. Deinde mercatori etiam huic cæterisque subditis nostris. in coemendis exportandisque necessariis mercibus fauorem. quem decere existimabit. exhiberi inbeat. Et vicissim a nobis exspectet omne genus officii. quod a Rege consanguineo foederumque obseruantissimo ex-

1) Svo.

spectari præstarique debet. S. Vestram Deus Optimus Max. diu seruet florentem et incolumem. Helsingburgo postridie Nonas Septembris Anno 1565

Fridericus Rex

L. S.

---

293. 8. september 1565. í Brimum.

BORGMEISTARAR í Brimum beiðast af konungi til handa Brimakaupmönnum verzlunar í Keflavík og Grindavík, er þeir hafi áður haft, gegn fullu gjaldi (ágrip).

Frumrit í ríkisskjalasafni Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. II, 15.

---

294. 12. sept. 1565. á Grenjaðarstöðum.
18. september 1565.

ÓLAFR byskup Hjaltason gerir um ágreining Nikulásar Þorsteinssonar og síra Halldórs Benediktssonar um reikningsskap Munkaþverárklaustrs og kirkju.

AM. Fasc. LV, 27, frumrit á skinni, 4 innsigli (1. bráknað) og 2 innsiglaför auð.

Eg Olafur Hialltason biskup a Holum oc superintendens allz Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt þeim sem þetta mitt bref sia edur heyra ad þa lidit uar fra holl[d]gan Ihesu Christi M d lx og u ar a enum xij deigi Septembris a Greniadarstodum i Adalreykiadal at epter uors nadugasta herra kongsins hofudzmannsins yfer allt Island Pals Stigssonar radi oc skickan oc suo epter minne skylldu kallada ec fyrir mic i fyrr greindan stad oc dag sira Halldor Benedictzson oc Nichulas bonda Þorsteinsson til skodunar. suara oc andsuara um þa agreining sem uar a milli greindra manna Nichular bonda oc sira Halldors um reikningskap oc peninga misser sem nefndur Nichulas þottizt uanhalldinn a uegna Mukaþuerarklausturs af sira Hall-

dori oc eg beiddunzt þa i minne riettre uisitatione at hia uerandi syslumannenum Uigfusi bonda Þorsteinssyni riettz reikningskapar Mukaþuerar kirkiu oc klausturs af nefndum sira Halldori huad hann hefdi Nichulasi golldit klaustursins oc kirkiunnar ‚uegna oc suo beiddunzt ec af Nichulasi huad hann hefdi medtekit skylldi hann oc framm seigia. J fyrstu medkenndist sira Halldor at hann hefdi lofad at suara suo mycklum peningum Mukaþuerar kirkiu sem Grimur heitinn Þorleifsson atti ad suara fyrir nordan Ioculsaa nefndri kirkiu enn fyrir uestann Ioculsaa þottist hann eigi eiga at suara meira enn hefdi medtekit epter Grim fra fallinn. Reiknadi sira Halldor at hann ætti ad suara fyrir nordan Ioculsaa lx og ix kugilldum. þar til med Ærlæk xiiij malnytukugilldum oc ij äm betur enn fyrir uestan Ioculsaa at Uodluheidi malnytukugilldum lx og viij oc ij am at med reiknudum x kugilldum a Illugastodum. enn fyrir uestan Uodluheidi med klaustursiordum malnytukugilldum lxxxx oc iij. þar til ij ær. Summa þessara malnytukugillda epter þui sem sira Halldor medkennist at hann eigi at suara er tuo hundrut oc fimm med gilldum oc ogilldum. enn Niculas bondi reiknadi og medkenndizt at hann hefdi medtekit fyrir nordan Ioculsä med gilldum oc ogilldum malnytukugilldi lxxx oc i½ enn fyrir uestan ana at Uodluheidi lx kugilldi. þar til i Eyiafirdi med iordum lxxxx oc fiogur kugilldi og þar til v ær. er þa summa þeirra malnytukugillda sem Nichulas hefur medtekit med ogilldum og gilldum eitt hundrat ellifutiger oc sex oc þar til tuær ær. vantar þar þa upp a viij malnytukugilldi oc iij ær betur og reiknar Nichulas ad þau hafi nu stadit ij sumur hia sira Halldori heimilldarlaus og leigulaus. hier til reiknar Nichulas at a fyrsta sumri og hausti þa hann hiellt klaustrid hafi landsetarner heim skilat ogilldum kugilldum at tolu xij enn ad audru sumri oc hausti v. uerda þau þa xuij ad tolu oc ero reiknud med þeim hundrat ellifutiger oc vi kugilldum sem Nichulas hafdi medtekid. Þui reiknar Nichulas ad sig uanti þau xuij malnytukugilldi. seigist

hann hafa latid uirda þau þa þeim uar heim skilad og hafi uerid uirt fyrir viij hundrut oc ef þau viij hundrut skulu uera fyrir atta malnytukugilldi þa uantar hann ei meir þar uppa enn niu malnytu kugilldi huort sem sira Halldor a þui ad suara eda ei enn ef þau viij hundrut skulu koma fyrir þa adra peninga sem Halldor atti ad suara þa uantar xxu kugilldi med þeim viij kugilldum sem fyrr greiner oc iiij ær betur. hier til reiknast ad uanti fra Ærlæk tuæuett naut oc ueturamallt naut. stedia. pundara og maldagabok.[1]) Jtem fra Illugastodum kirkiu kluckur. bækur. skruda. kaleik. tiolld um alla kirkiuna. ueturgamla saudi u og kapal einn. Jtem fra Huamme [kirkiu og[2]) kluckur. Jtem fra Storahamre underuidu ur skalanum. syrlar ij huor um sig xuiij alner. bitarner viij alner og nockrer stafer. Jtem heiman fra stadnum huder iij. tinfot ij sleda tuo. fyrir hrornan klaustursins oc stadarins a medan sira Halldor hafdi halldit halft þrettanda hundrat enn fyrir kirkiu spiell vij hundrut. hier til fyrir kirkiu spell oc klausturs og stadar spell sem ordit hafdi a medan Grimur hiellt og sira Halldor atti at suara og borga Grims uegna uar reiknad xui hundrut. eru þessi oll kirkiu. klausturs og stadar spiell saman reiknud og uerdur þad xxxu½c. medkendizt Nichulas at hann hefdi þar fyrir medtekid xx½c. stendur þa efter þar af xu hundrut. Reiknar sira Halldor at þau v agilldi sem uantar a Ærlæk i nautum þau hafi hann golldit i nautum þar uppa. enn Nichulas reiknar þad fyrir stadar spiell i þeim xx hundrudum sem hann hefur medtekit oc ef þad er sem Halldor uill þa uantar fyrir stadarspell i staddinn u agilldum meira enn fyrr seiger. aunguan þennan reikningskap biuisadi sira Halldor med uittnum edur suordum eidum suo sem sagt er at sa domur innehalldi sem þar hafi uerid um dæmdur. enn malnytukugilldi þau sem Halldor hafdi heima a klaustrinu afhent. og þar atti heimabued at uera. kom ei til reikningskapar

1) hdr. maldagagabok. 2) [Svo.

i þetta bref oc aunguer frider nei[1]) ofrider peningar sem þar heima uoru utan þad sem fyrir kirkiu og stadar spell hafdi uerid golldit. Oc til sannligrar umskodunnar[1]) oc uittnisburdar hier um þa kallada ec hier til med mier mina skiluisa kennemenn Sira Sigurd Ionsson. sira Illuga Gudmundsson og sira Jon Sigurdsson huerier at med mier og syslumanninum Uigfusi bonda settu sin inncigli med ockrum[1]) inciglum fyrer. þetta reikningskaparbref huert ed giort uar a sama stad og ari sex nottum sidar enn fyrr seiger.

---

295. 12. sept. 1565. á Grenjaðarstöðum.

**TVEIR** prestar transskribera Ljósavatnsmáldaga eftir Pétrsmáldagabók og vidímera Ljósavatnsmáldaga eftir bók Ólafs byskups Rögnvaldssonar.

AM. Apogr. 50 „Ex Transscripto fra Sr. Olafe Stefanssyne. Duo sigilla appendent" (AM.). — Jbskj. AM. Þing. 17 („habeo", AM.).

Þad giorum vid Jon Sigurdsson oc Olafur Arnason prestar godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ad uid hofum sied oc yferlesid Holadomkirkiu registrum sem biskup Jon[2]) hafdi giora latid ord epter ord oc suo gamallt sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Suo oc hofum vid yferlesid oc sied þad registrum Holakirkiu er biskup Olaf Rogualldsson liet giora a odru ari sins biskupsdoms þa datum skrifadist M. iiij$^{c}$. lx oc .j. suo inne halldandi ad Liosauattz kirkia atti þa .xxx$^{c}$. enn Holakirkia allt Liosauattn itolulaust oc innann kirkio sem þar skrifad stendur. oc til sanninda hier vmm setium vid ockar inncigli fyrir þetta bref giort a Greniadarstodum i Adalreykiadal .xij. dag Septembris manadar. anno domini M. d. lx. v.

---

1) Svo. 2) á að vera: Pétr.

296. 15. sept. 1565. á Grenjaðarstöðum.

VITNISBURÐR Ólafs byskups Hjaltasonar, að 3 máldagar fornir eigni Grenjaðarstöðum Húsabakka.

AM. Apogr. 126, bréfið sjálft m. h. Árna. Undirskriftir með eiginhöndum. „Original þessa brefs liede mier (ä Islande) Monsieur Sigurdur Einarsson (biskups). sende eg honum til baka originalenn, og ried honum ad läta hann koma tíl Greniadarstadar, hvad hann og sidan giørde, og liggur nu (1724) same originall þar medal kirkiunnar brefa“ (AM.). — Árni lýsir innsigli Ólafs byskups „þar i er eyrormurinn“ á krossi, sem Árni dregr upp.

Þad giore eg Olafur Hialltason biskup a Holum og Superintendens Holabiskups dæmis. godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad eg hefi sied og yfer lesid þria maldaga Hola domkirkiu. er sa hinn ellsti af þeim suo gamall ad datum skrifadist þa hann var giordur epter gudz burd. M. iij^c. og xviij. ar. Item annar. M. iij^c. og Lx. enn þridie .M. iiij^c. Lx. og. j. ar. huerier maldagar aller eitt hallda. þad ad kirkian a Greniadarstodum mille annara sinna itaka og endimarka eigi Husabacka. og til sanninda hier umm set eg mitt inncigli fyrer þetta vittnis burdar bref huert ed giort var a Greniadarstad j Adalreykiadal þann xv. dag Septembris manadar Anno ab incarnatione Christi M. d. Lx. v.

Þetta hier fyrer framan og ofan skrifad bref er ordriett ritad epter heilu og læseligu kalfskinns briefe. med underhangande heilu og læseligu innsigle Olafs biskups Hialltasonar. Hvert Originalbref vier underskrifader menn säum. og gaumgiæfelega hier vid saman bärum j Skälhollte j Biskupstungum. þann 1. dag Decembris mänadar. Anno Christi 1709.

Jon Halldorsson Profastur i Þverärþinge fyrer vestan Hvijtä og Soknarprestur til Hijtardalz kijrkiu.
Vigfus Johannsson Heyrare j Skälholltz Sköla.
Þõrdur Þördarson.
Ormur Dadason.

297. 21. september 1565. á Hálsi.

MÁLDAGI Hálskirkju í Fnjóskadal.

Eftir transscripto á pappír meðal Hálsskjala í þjóðskjalasafni, gerðu á Hóli í Kinn 12. júní 1608 af Gamla presti Ólafssyni, Jóni Þórarinssyni og Bjarna Þorkelssyni. — Fleiri gamlar uppskriftir eru af bréfi þessu meðal Hálsskjala.

Eg Olafur Hialltason vnder gudz þolinmædi overdugur superintendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi ad ec med morgum dandeprestum hefi yferlesid þriu registur og mäldaga Höladomkirkiu vm eigner og jtok Hälskirkiu j Fnioskadal. er hinn ellsti maldagi datum m. ccc. og xviij. är. annar med dätum M. ccc. lxxxx. og v. ar. hinn þridie maldagi M. cccc. lx og eitt är aller samhliodandi ad staduri̧nn a heimaland allt. Birningsstadi. Kambstadi. Sandhauga. Lambseldi vm allann Fnioskadal og øll torfa mille Þverär oc Hnioskär. Þijngmannalækiar og Marckdælar. Stadnum fylger reki a Fliotssandi. siettungr bædi hualreka og vidreka. fra Fliots öse og vestur til mids sands. siettungr vid Liosvetninga j Nattfaravijkum j millum Hvandala og Svijnär. teigr fylger j Kinn nordr vt fra Finstodum og Þyfeteigr innan garda. afrett a heidi üt. Halsmannatungur. Og til sanninda hier vm set ec mitt jnncigle fyrir þetta maldagabref giort a Halse j Fnioskadal j minne rettre visitatione a sialfa Mattheusmessu anno domini. M. d. lxv.

---

298. 22. september 1565. í Saurbæ.

KAUPMÁLABRÉF Magnúsar Jónssonar prúða og Ragnheiðar Eggertsdóttur.

Frumritið á skinni meðal frumbréfa Jóns Sigurðssonar Nr. 14; AM. Apogr. 1279 „Ex Orig. Ara Þorkelssonar“, sem er það frumrit bréfsins, sem enn er til. Í þetta frumrit hefir gleymzt að rita ártalið. En ártalið stendr í pappírsuppskriftum, sem stafa frá öðru frumriti, þar sem það hefir ekki vantað, svo sem í Bodl. Oxf. FM. 55, 4to., m. h. síra Guðbrands í Vatnsfirði (d. 1690) og í Steph. 27, 4to., bls. 239—41.

Kaupmaala Breff Magnusar Jonssonar og Ragneijdar Eggertzdottur 1565.[1])

Jn nomine Domini amen.

Birtizt. stadfestizt og yferlystizt suo felldur skilmali medur fullnadar laga skilordi j Saurbæ aa Raudasande. a Brullaupsdeigi þann annan og xx dag Septembris manadar arum epter hingadburd vors lausnara Jehsu Christi [M. d. lx. og .v.[2]) þessara heidarligra og velburdigra manna ä millum. af einne alfu Eggerttz Hannessonar laugmannz nordan og vestan ä Jslandi. a vegna sinnar dottr[3]) jonfru Ragneidar Eggertzdottr. enn annare alfu velburdigs mannz Magnusar Jonssonar.

J fyrstu þa talde Magnus Jonsson sier til kaups og kuonar mundar i motz vid greinda jo[n]fru Ragneide .iiijc. hundrada j lausafiam og fasta eignum ad tilgreindum suo heitandi jordum og med suo felldvm dyrleika.

J fyrstu Skridu fyrir nigetyger hundrud.

Vad fyrir vijc og .xx.

Jodisastadi[3]) fyrir .xvjc.

Bergstadi fyrir .xijc.

Kalfastrond fyrir .xijc.

Grænavatn fyrir .xxxc.

half Audbrecka .lc.

Og þar til adra peninga kuika og dauda. frida og ofrida suo ad væri full .iiijc. hundrada. vr huerivm fyrskrifudum peningum ad Magnus Jonsson gaf adr skrifadre jonfru Ragneide Eggerttzdottr sina fiordungsgiof. huer giof ad reiknazt hundrad hundrada. Skylldi þad vera .lxc. j jordum og lxc. j lausafiam. akuaddi og tilgreinde Eggertt laugmann sinnar dottr vegna j þessa fyr skrifada fiordungsgiof vr fasta eign Magnusar Jonzsonar.

fyrst Grænavatn .xxxc.

Jodisarstadi .xvjc.

Kalfastrond xijc.

skylldi þessar iij jarder reiknazt j þessa giof fyrir lxc.

1) Þessi fyrirsögn tekin eftir Steph. 27, 4to. 2) [„annus deest“ i frumritinu, segir AM.; 1565, Steph. 27 og Bodl. 55. 3) Svo.

Enn j aunnr[1]) .lxc. akuaddi Eggertt laugman sinnar dottr vegna vr lausafiam Magnusar Jonssonar j þessa giof .xx. malnytu quijllde og .xxc. i silfre. Oc þar til .xxc. i godum og þarfligum geingiligum peningum. Skilde Magnus Jonsson so til ad hann mætti þau .lxc. j fastaeign sem hann gaf Ragneidi Eggertzdottr fyrir nordan. aptr til sin leysa. og giallda henne aunnr .lxc. j fastaeign hier a Vestfiordum. ef honum kynne ad aflazt. Jatade Eggertt laugmann þeim skilmala vegna sinnar dottr et etera.

Og nu epter þetta þa adspurdi Eggertt laugmann fyrnefndann Magnus Jonsson. huort hann hefdi sína fiordungsgiof aungum fyrri gefid huorcki skylldum nie vandalausum edur neinum manni sina peninga vedsett. enn hann sagdizt þad ecki giort hafa et cetera.

Nu ad aullum þessum fyrskrifudum peningum framtaulldum og suo verandum. þa gaf opttnefndur Eggertt laugmann sinne dottr jonfru Ragneidi Eggerttzdottr. j heimanmund a motz vid opt nefndan og velburdigann mann Magnus Jonsson ijc hundrada j faustu og lausu.

fyrst ad tilgreindum gardinum Augri j Jsafirdi. fyrir .lc.

Kalfavik fyrir .xvjc.
Hiallar .xijc.
Borg .viijc.
Kleifar .vjc.
Botn j Mioafirde .xijc.
Haurshlid .xijc.
Skialldabiarnarvik .vjc.

er þetta allz eitt hundrad hundrada j jordum. Hier til gaf Eggert laugmann sinne dottr j fyrsagdan heimanmund lx malnytu quijllde.

xxc j smiorum.
xxc j gelldum peningum. nautum og Saudum.
xxc j godum geingiligum peningum.
er þetta þa allz ijc hundrada.

1) Svo.

Skilde Eggert Hannesson laugmann sina dottr Ragneide malakonu j gard Magnusar Jonssonar. Reiknadizt þa hennar mali med fyrskrifadri fiordungsgiof þeirre sem Magnus gaf henne iijc hundrada j hans gard et cetera.

Og epter alla þessa fyrskrifada skildaga. og peninga fram reiknada med vilianligu jayrdi og[1]) handabandi af huoru tveggiu hendi þa festi oppt nefndr Magnus Jonsson jonfru Ragnheide Eggertzdottr sier til eiginn kuinv med þeim festingarordum sem vor gaumul kirkivnnar laug þar vm vtvisa. og vier haufum heyrtt adra skilvisa menn sinar kuinnr[2]) festa.

Og ad suo allt j sanleika er sem fyrskrifad stendr þa festu vær epterskrifader menn.

Magnus Eyolfsson.
Sueinn Þorbiarnarson.
Jon Olafsson, prestar.
Einar Pallsson.
Ormr Ellingsson.
Biorn Konradzson

vor jnsigle firir þetta kaupmala bref huertt ad giort og skrifad var j sama stad og ä sama are vikv sidar enn fyr seiger.

---

299. 25. september 1565. í Görðum.

KAUPBRÉF fyrir 8 hundr. í Ási í Hálsasveit.

AM. Apogr. 4786, m. h. Þórðar Þórðarsonar „Ex originali fra Halldoru Þordardottur ä Saudafelle.“

Þat giaurum vier Jon p[restur] Einarsson. Erlendur Guðbrandzson. Jon Olafsson. godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi þridiudaginn næsta fyrir Michaelsmesso um haustid j Gordum a Akranesi. uorum uær j hiaa saum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna sira Asgeirs Hakonarsonar. Enn af ann-

1) Tvíritað. 2) Svo.

ari alfu Jons Gudmundzsonar. at suo fyrir skildu. at adurnefndur Jon Gudmundzson med handsaulum oc upplagi og fullnadar jayrde konu sinnar Gudrunar Gudmundardottur selldi og fieck fyʀgreindum sira Asgeiri atta hundrut j kaupahlutanum j stora Ase j Halsasveit er liggur j Gilsbacka kirkiusokn. med aullum þeim gaugnum oc giædum sem greindum jardarparte fylger oc fylgt hefur at fornu og nyiu. og adur nefnd Gudrun vard fremst eigandi at oc hun vard utleyst med af sins faudur gardi. undan sier og sinum erfingium. enn under sira Asgeir og hanns erfingia til æfinlegrar eignar oc frials forrædis j þau mid mork. garda edur gil sem adrar jarder eignazt j mote þessum jardarparte med aullu til skildu oc aungu frateknu kirkiueign eda kaupahluta til kemur med aullu þvi fe sem j greindum jardarparti finzt eda finnazt kann og ecki verda eigendur at [at] logum. Hier j mote hefur tittnefndur sira Asgeir golldit optnefndum Jone Gudmundzsyne .vj. malnytu kugillde. halfpart ær og kyr. xij. fiordunga smiors jc. og tuau gielldfiar hundrut. þreuett naut og .iiij. saudi gamla. hier med gaf þrattnefndur Jon Gudmundzson oc hans kvinna Gudrun adurnefndann sira Asgeir kvittann oc äkiærulausann um fyrrgreint jardarpartz verd. Skylldi fyrrnefndur Jon Gudmundsson oc hanns kvinna Gudrun svara lagariptingum ä þessum jardarparti enn sira Asgeir hallda til laga. Svo lysti Jon Gudmundsson fyrir oss. hann hefdi bodit til kaups þennann jardarpart fyrst þeim fedgum Gudmundi og Olafi. Og til sanninda hier um festum vier fyrrnefndir menn vor jnsigle fyre[1]) þetta jardakaups oc kvittanar bref. Skrifad j sama stad og dag sem fyrr seiger. arum eptir Gudz burd. M. d. lx. v.

---

**300. 6. október 1565. á Þorkelshóli.**

HÉRAÐSDÓMR dæmir gildan reikningsskap sira Bjarnar Jónssonar á Mel og Jón, son hans, löglega mega sækja skuldir eftir þeim reikningi.

1) Svo.

AM. 234, 4to., bls. 558—9, skr. ca. 1600.

Hieradzdömür vm reikning sera Biarnnar.

Ollum mønnum sem þetta brief siä edur heyra. sendum vier Sigurdur Þormodsson. Einar Sigurdsson. Samsön Jonsson. Kiartan Þorbiarnarson. Halfdan Einarsson. Juar Sigurdsson. Quediu Gudz og vora kunnigtt giørande. ad þa lidit var fra hijngad burde vors herra Jesu Christi 1565 är. a Þorkielshöle j Vijdudal. laugardagenn næstan eptter Michaelismessu vm haustid. a almenn[i]ligu hieradz þijnge. vorum vier j döm nefnder. af heidarligumm Manne Þorvallde Bonda Biørnssyne er þa hafde kongsinns syslu og vmbod. j Hüna vatz þijnge. til. ad skoda og rannsaka og fullnadar döm a leggia huertt afll og mact hafa skyllde. sa reikningur. sem var eptter sera Biornn heitenn Jonsson fra fallenn. og Jon Biornsson hafde þar medferdis. og hann sialfr beiddist döms ä. huernn fyrrgreindann reikning. skrifad hafde Sigurdur prestur Nichulasson. er þa var skrifare sera Bjarnar heitens Jonssonar J þann tijma. Var greindur reikningsskapur suo latande ä millum annara orda. ad Jngemunde Marteinssyne hefde sellt vered xx fiordungar smiørs. þad sama haust. sem sera Biorn heitenn fräfiell og af þui smiøre være eij betaladur. nema einn Jochims dalr.

J annare grein vændist Jon Biornsson þui. ad sa madr enn til lifde. er sama smiør hefde til lätid j ädur sagdann tijma. Jngemunde heitnum Marteinssyne. Nu saker þess. ad fyrrgreindur reikningskapur var þui øllu samhliöda. sem nockrum godum monnum var þar adur vmm kunnugtt. og suo hier vitnne vmm bäru j øllu þui er þeir skyniudu og til mundu. bæde vm kaupgialld vinnu folke. og suo adrar skullder sem eptter stödu ogolldnar hia sera Birnne heitnum Jonssyne. Sømuleides høfum vier eij annars heyrtt. nie helldur til vitad. þar dänumenn vtlendsker eda jnnlendsker hafa fra fallid. og stor gotz hafa eptter verid. ad þeirra erfingiar og eptter komendur. hafa þær skullder greitt. og adrar heimtt. sem þeirra reikningur hefur til sagtt og

vtvijsad. sem eptter hina fra føllnu hafa til verid. Þui løgmälid avijkur suo j fyrstu. Eptter gognum og vitnum skal huertt mal dæma. J annare grein vottar suo Magnus brief j einum stad. aull aunnur laga mäl skulu vnder þeim logum vera. sem þa geingu log j lande. Og þui j Gudz nafne Amen. ad suo profudu og fyrer oss komnu. og ad heilax anda nad. med oss til kalladre. J fyrstu dæmdum vier adur sagdann reikning sera Biarnnar heitins. myndugann og skiallegann j allann mäta. og fullt vitnne vera. Jafntt og Chyrographum sem ej näer jnnsiglle Og Jon Biørnsson þessa skulld. logliga sækia meiga. eptter greindum reikninge. erfingia Jngemundar heitens Marteinssonar. fyrst hun hafde ej bitolud verid vmbodzmonnum. barna sera Biarnar heitens Jonssonar. Samþyccktte þennann vornn döm ädr greindr valldzmann. og sette sitt jnnsiglle med vorum fyrrgreindra dömsmanna jnnsiglum fyrir þetta domsbrief. huertt ed skrifad var j sama stad og dag. sem fyrr seiger.

---

301. 9. október 1565. á Jörfa.

SÆTT Jóns Magnússonar og Sveins Bjarnarsonar.

AM. Apogr. 4777 „Ex orig. Sigurdar Þorgilssonar. innsiglen eru burtu“ (AM.).

Þad giorum vid Olafur prestur Olafsson oc Gudmundvr Þorleifsson godum monnum kunnigt med þessu ockrv opnu brefi ath þa lidit var fra gudz bvrd M. D. lx. oc .v. ar. a þridiudagin næstann fyrir Kalixtusmessu dag a Jorfa j Haukadal. saum vid oc heyrdvm aa ord og handaband þessara manna af einne alfu Sveins Biarnarsonar. enn af annare alfu Jons Magnussonar. faldizt þad og skildizt vnder þeirra handabandæ[1]) ad adur skrifadur Jon Magnusson gaf fyrskrifadann Svein Biarnarson olldvngis kvittann og akærulausann. vm þa

1) „ita est“ (AM.).

aklaugvn sem opt nefndur Jon Magnusson hafdi til jardarinnar halfs Jorfa. og svo um þa kw er Þorleifur heitenn Gamalielisson hafdi halft af Magnuse Biornsyne faudur titt nefnds Jons Magnussonar med oriett. ad svo fyrer skildu. ad opt nefndur Sveinn Biarnarson skyllde giallda Jone Magnussyne malnyte[1]) kugillde oc gelldfiar hundrat ath næstvmm fardavgum.[2]) og at þessu golldnu. gaf hvor annann avlldvnges kvittann og akærulausan fyrer sier oc sinum epterkomendvm. Og til sannennda hier vmm setium vier advr skrifader menn ockar jnnsigle fyrir þetta giorningsbref. hvert eth skrifat var a sama ari deigi sidar enn fyr seiger.[3])

---

302. 9. október 1565. í Brimum.

ÍSLANDSFARAR og kaupmenn í Brimum skrifa Dr. Jóakim Hinck, dómdekan í Brimum, og beiðast meðalgöngu hans við konung til siglingar á Búðir (ágrip).

Ríkisskjalasafn Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. II, 15.

---

303. 15. október 1565. í Saurbæ.

JARÐASKIPTABRÉF, og er Krossadal í Tálknafirði skipt við hálfa Glerárskóga í Hvammsfirði.

AM. Apogr. 4790 „Ex orig. Hlidarend." „Utan ä brefid hefur Eggert Hannesson teiknad: E. H." (AM.). Árni segir til innsigla.

Jhesus.

Þat giorum vier Einar Gijslason. Tyrfingur Halldorsson. Þorleifur Jonsson. Torfe Andresson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe ad arum epter

1) Svo. 2) „hiedan fra, ut til endans, er brefed skrifad med ødru bleki enn þad fyrerfaranda, og miklu følara, synest og ad hier sie utskafed eitthvad, sem adur hafi skrifad vered, og litur þetta ut, eins og brefed hier falsad være, þo mun þad ei vera. þvi hønden a þessu er hin sama, sem ä þvi fyrerfaranda" (AM.). 3) þ. e. 10. okt.

Gudz burd M. d lx v. þridiudæginn næstann epter Marjumessu[1]) visitacionis. ad äfanga fyrer framann Lund j Lundareyckiardal[1]) vorum vier j hiä. saum og heyrdum aa ord og handaband þessara manna. af einne alfu Eggertz Hannessonar laugmanns nordann og vestann a Jslande.. enn annare alfu Jons bonda Halldorssonar. er þa hafde laugligt vmbod Hannesar Biornssonar til ad kaupa þessum jordum vid Eggert laugmann. Þa j fyrstu sellde Jon bondi Halldorsson aadurgreindum Eggert ad nær verande. ä heyrande og samþyckiande [Hannese Biornssyne[2]) jordina halfa Krossadal. xvc. er liggur j Talknafirde j Laugardals kirkiu sokn med aullum þeim gognum og giædum sem greindre halfre jordu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu og bæde til siös og landz. allt til skilid enn eckirt fra. og hann vard fremst eigande ad epter laugum. vndann Hannesse Biornssyne og hannz Erfingium. enn vnder Eggert laugmann og hanz Erfingia. til æfinligrar eignar nada og nytsemda. Hier j mote gaf Eggert laugmann adur nefndum Jone a vegna Hannesar jordina halfa Glera skoga[3]) er liggia j Huamsfirde j Huams kirkiu sokn ad fornu. xvc ad dyrleika. vndann sier og sijnum Erfingium enn under Hannes Biornsson og hanz erfingia. med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre halfre jordu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. og hann vard fremst eigandi ad epter laugligu kaupe. Skylldu huorer vm sig hallda sijnum kaupe til laga. enn sa suara lagariptingum er ätt hafde ef af geinge med riettu og orofnu laugmale. Samþyckte allann þennann fyr skrifadann giorning ädur nefndur Hannes med fullnadar handabande. jaayrde og samþycki. oss fyrr greindum vottum ä heyrondum. Og til sanninda hier vm festum vær fyr skrifader menn vor jnsigle fyrir þetta kaupbref. huert ad skrifad var j Saurbæ a Raudasandi. þann xvda. dag Octobris manadar. ä sama Are sem fyr seiger.

---

1) Svo, þ. e. 3. júlí. 2) [er í svigum í Apogr. 3) Svo.

304. 18. október 1565. á Geitafelli.

VIRÐING Geitafells til dýrleika.

Lbs. 67, 4to., bl. 41—2, m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1650. — Lbs. 789, 4to., bls. 416—17, m. h. síra Torfa Jónssonar í Gaulverjabæ ca 1650. — Steph. 47, 4to., bl. 196 a—b, skr. ca. 1650 (ártal rangt „1545").

Bref vm virding ä iørdu. og ad hun sie suo dyr sem fie liggur j lande. Edur suo margt hundrad[1]) sem hun fleyter j[2]) ganganda fie.

Þad giorum vier [effterskrijfader menn[3]) Ellendur Þorgrijmsson. Jon Gijslason. Nichulas Þordarson. prestar. Jnar Sigurdsson. Päll Hallsson. Gijsle Sigurdsson.[4]) leikmenn. [godum monnum kunnigt. ad[5]) ä Geitafelle vm hausted fimtudagenn fyrstann j vetri Anno Domini m. d. lx. v.[6]) vorum vier til kallader ad skoda og logliga virding ä ad leggia ä fasta og lausa peninga.

J fyrstu var þar framm talid[7]) fyrir oss j frijdum peningum [jxc[8]) j mälnytu og koplum.

J ødru lage skodudum vier iørdina sialfa. landaeign[9]) og tødnuøll. med øllum sijnum giædum til fialls og fiøru. Syndist[10]) oss landit lijtid og bläsed miøg. enn tødurnar af sier gengnar. og[11]) eingiar ønguar. Og eptter þui ad løgmäl skipar ad telia skuli j haga. so ad menn hyggie ad eigi sie[12]) feitara þott[13]) færre sie. þa tøldum vær j landit eptter vorri skynsemi og vier hugdum ad [hialpast[14]) mundi[15]) med godri giætni j møguligu arferdi. J fyrstu xxx fiar rosked. og lømbinn af þeim äsand sem Gud vill ad friofgist. er þad þa ed siøtta hundradit. þar til eina ku og kapal. [ero[16]) þad þa[17]) viijc. Høfum vær þui so skipad. ad oss virdist iørdinn betur fleyta[18]) saudfie enn [ødrum peningum.[19]) Þotti

1) jc, 789. 2) af 789. 3) [b. v. 789. 4) Sigurdarson 789. 5) [b. v.; vantar í öll hdr. 6) 1565, 789; 1545, 47. 7) 789; leitt 67, 47. 8) [9 hundrud j frijdum peningum(!) 789. 9) landid 789. 10) Synist 789; Wirtest og syndest 47. 11) 47; enn 67, 789. 12) nytra edur 47. 13) 789; þo 47, 67. 14) hialpa 789. 15) [widhialpligt være 47. 16) cr 789. 17) [og ero nu komin 47. 18) 789, 47; flytia 67. 19) [47; adra peninga 67, 789.

oss hier til verda ad hialpa þau lijtil fiørugiædi sem iørdunne fylger[1]) til husa vpphelldis fyrir menn og peninga. ef iørdinn[2]) skal bygd vera.[3]) Þui giørdum[4]) vær þessa fyrrgreinda iørd Geitafell fyrer[5]) viijc. [til tijundar[6]) suo sem ad[7]) fie liggur j henne.

Og til sannenda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor jnsigli fyrir þetta virdingar[8]) Bref [huert ed[9]) skrifad [var j[9]) sama [stad.[9]) är og dag sem fyrr seiger.

---

305. 3. nóvember 1565. í Saurbæ.

KAUPBRÉF fyrir Vífilsmýrum í Önundarfirði.

AM. Apogr. 4784 „Ex originali membr." Árni segir til innsigla.

Jhesus.

Þat giorum vid Jon prestur Olafsson og Jlluge Petursson godum monnum kunnigt med þessu okkru opnu brefe. ad Aurnolfur Jonsson medkendizt fyrer okkr ad hann hefdi sellt Eggertt Hannessyne laugmanni jordina alla Vifelsmyra[r] er liggr j Aunnundarfirde j Holltz kirkiu sokn. xviijc. ad dyrleika vndan sier og sinum erfingium Enn vnder greindan Eggertt og hans erfingia med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre jordu fylger og fylltt hefur ad fornu og nyu bæde til sios og landz. og þar hefdi greindr Eggertt laugmann fulla og alla peninga sier fyrer greitt og golldit epter þui sem sier uel likade og þui giæfe hann opptnefndan Eggertt laugmann og hans erfingia olldungis kuitta og akiærulausa fyrir sier og aullum sinum erfingium og epterkomendum vm fyr skrifad jardar uerd og peninga utlat. Og til sanninda hier vm þa festu vid okkur jnsigle fyrir þetta vitnisburdarbref Skrifad j Saurbæ a Raudasande þann þridia dag Novembris manadar Anno Domini M. d. lx. v. ar.

---

1) fylgie 47. 2) þessi jørd 47. 3) werda 47. 4) giørum 789. 5) sl. 789. 6) [b. v. 47. 7) sl. 47. 8) 789; virdingu 67. 9) [sl. 789.

306. 13. nóvember 1565. á Þingeyrum.

SEX MENN transskribera sálugjafabréf Bjarnar Einarssonar 25. júlí 1405.

Áðr Bps. Fasc. XXIX, 9 (nú meðal Vatnsfjarðarskjala í þjóðskjalasafni), transskriptið á skinni; AM. Apogr. 974. Árni hefir ritað upp það, sem á innsiglunum hefir staðið.

Þath giorum vier Erlendur Þorgrimsson Styrkär Hallzson ok Biarni Arason prestar Sygurdur Þormödzson Þorarinn Gijslason og Jon Gudmundsson suarner laugriettumenn[1]) ad vier haufum sied og yferlesid suolätanda bref med heilu og oskauddu hanganda jnnsigli Biarnar Einarssonar ord epter ord sem hier fyrir stendur skrifad. Og til sanninda hier vmm setium vier fyrrnefnder menn vor jnnsigli fyrir þetta vtskriftar bref er skrifad var ä Þyngeyrum j Vatnzdal þridiudaginn næsta epter Marteinsmesso aarum epter Gudz burd .M. d. lx. og v.

---

307. 26. december 1565. 30. mars 1567. á Svalbarði.

KAUPBRÉF fyrir þriðjungi í Björnólfsstöðum í Langadal.

AM. Apogr. 360, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali" „ä kalfskinn", og sömu innsigli sem fyrir bréfi (26.) 28. dec. 1565.

Þad giorum vier Jon Ormsson. Jon Stefansson. Jngemundur Arnason. Jon Rafnsson godum monnum witurligt med þessu woru opno brefe at j Sigleuik aa Eyiafiardarstrond anan dag jola þa lidit var fra gudz burd M. d. lx og v ar vorum vier j hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna Sygurdar Jonssonar af eirne alfu enn Jons Filpussonar af annare at suo fyrir skildu at Jon Filpusson selldi Sygurde Jonssyni þridiung j iordinne Biornolfsstodum næsta Breidavadi

1) Svo; vantar: góðum mönnum kunnugt, eða eitthvað þvílíkt.

i Langadal vndan sier og sinum erfing[i]um enn vnder Sygurd og hans erfingia med ollum þeim gognum og giædum er greindum[1]) jardarpartj fylger og fylgt hefur at forno og nyu oc Jon var fremst eigandi at ordin. hier j mot atti fyrnefndur Sygurdur Jonsson [at] giefa suo mykla peninga. sem fie lææ[2]) j greindum[1]) jardarparti j ollum peningum. Og til sanenda hier vm setium vier fyrnefnder menn vor jnncigle fyrir þetta bref huert skrifat [var] a Sualbardi a Eyiafiardarstrond ä sunnodagin j paskaviko[3]) a odro are sidar enn fyr seiger.

---

**308. 28. december 1565. á Svalbarði.**

JARÐASKIPTABRÉF, og er Breiðavaði í Langadal skipt við Brekku í Svarfaðardal, með því fororði, er bréfið greinir.

AM. Apogr. 359, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ „a kalfskinn“. Jón segir til innsigla.

Þad giorum wier Jon Ormsson. Jon Stefansson. Jngemundur Arnason og Jon Rafnsson godum monnum witurligt med þes[s]u woru opnu briefe. at j Sigleuik ä Eyiafiardarstrond annann dag jola:[4]) þa lidit war fra gudz burd. M. D. lx. og. v. ar. vorum vier j hia saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna j fyrstu Sygurdar Jonssonar af eirnne alfu enn Jons Filpussonar af annare. at suo fyrer skildu at Jon Filpusson sellde Sygurde Jonssyne jordina alla Breidauad j Langadal er ligur(!) j Holltastada kirkiu sokn med ollum þeim gognum og giædum er greindre jordu fylger og fylgt hefur at forno og nyo og Jon var fremst eigande at ordin fyrir .lc. hier i mot gaf adur nefndur Sygurdur Jonsson jordina Brecku j Suarfadardal er liggur i Tiarnar kirkiusokn fyrir .xlc. med ollum þeim gognum og giædum er jordinne Brecku fylger og fylgt hefur at fornu

---

1) greingum, Apogr. 2) Svo. 3) Það getr varla annað verið en sjálfr páskadagrinn (30. mars 1567). 4) þ. e. 26. dec.

og nyu. og þar til ij kugillde. hundradshest og .ljc. j nautum. saudum. smiore edur vadmale. Enn þar jordin Breidavad var dyre(!) þa skyllde fyrnefndur Sygurdur eignast vc fyrir þad ef hann næde aptur nefndre jordu Breidauade af Arngrime Biornssyne er a hana var sestur. og ef þrattnefndur Sygurdur næde eigi aptur jordune med logum skillde huor eignast sitt. en adur sagdur Jon inna honum fyrir kostnad sinn suo hann uære vel af halldinn enn tittnefndur Sygurdur skyllde vmbod hafa yfer iordune Breidauade þangat til hann nædi henne med ollu. enn ei vtgreida fyr nefnda iord Brecku. edur þau vc enn hann hefde med logum aptur nad allre jordune Breidauade. sagde Jon til halfkirkiu skylldar a Breidauade en neitade odrum jtolum. lysti Jon þui at hann hefde optnefnda iord Breidauad huorke pantad ne vedsett vid nockurn mann fyr enn vid tittnefndann Sygurd Jonsson. skyllde sa hallda til laga er keypte enn hinn suara lagariptingum er sellde. Suo og skyllde huor abyrgiast vid skodun sina jord ef a kynne koma til þess afhentar være. Enn þrattnefndur Sygurdur skyllde fylleliga lagasokn eiga a Arngrime Biornzsyne fyrer ranga attekt a sagdri jordu Breidauade. Og til sannenda hier vm setium vier fyrnefnder menn vor innsigle fyrir þetta jardakaupsbref huert skrifat var a Sualbardi a Eyiafiardarstrond ij dogum sidar enn fyr seiger.

---

309. 1565. **á Æsustöðum.**

LÝSING Steins Örnólfssonar á skiptum þeirra bræðra, hans og Þorvarðs Örnólfssonar, einkum um Syðsta Gil i Langadal.

AM. Apogr. 4785 „Ex originali."

Suo felldann framburd og lysing ber eg Steirn Aurnölfsson atlı wid worum ij brædur Þoruardur Aurnölfssön og eg skilgietner syner faudur ockar Aurnölfs. og erfdu wid epter hann þessar jarder Wfagil xvjc. Smillaberg xvjc. Jllugastadi viijc. og Sydstagil i Längadal

iiijc og xx og þar til xiiijc j gödum penijngum og þarfligum.. leijd þä svo vm nockur är. at wid skiptum ecki þessum arfi. helldur lagda eg minn part jardanna j hans walld til medferdar. þvi eg þurfta þä ecki ä ath hallda þvi eg war wistfastur madur. enn hann bufastur. og hafdi fyrir mödur ockar. þvi hwn war fielaus. för eg þä nordur j sveiter til wista. sellde þä ädur sagdur Þoruardur brodur[1]) minn þessar jardir Wfagil og Jllugastadi. kom hann þä nordur i sueiter til mijn. og sagdi mier þetta. sagdi hann þä þetta mætti wera sinn hlutur erfdarinnar suo mikiet[1]) sem jarda dyrleikinn wæri aa þeim jaurdum sem hann sellt hefdi. bad hann mig þä ath leyfa sier at selia Smillaberg. þvi hann wæri þä enn fielaus ordinn sakier sinnar ömedar og mikiels fiesegta wtgialldz. Medkienne eg. at eg samþygti þä þessar hans jarda saulur. med þvi skilordi. ath eg skyllda eignast Sydstagil j Längadal. sem liggur i Holltastada kirkiusökn. og þvi jätadi hann. Suo og lofadi hann. at eg skyllda fulla peninga fyrer þad fä. sem hann hefdi meira i jaurdunum sellt enn sinn arfur hälfur wæri. war eg og ockar brædra elldri. Enn uppi þessa hans peninga lofun fieck hann mier iijc. i gödum peningum og einn hest gödann. lieda eg þä honum og mödur minne þessa jaurd Gil til aabwdar suo leingi sem eg þyrfdta ecki siälfur wid. enn hann lofadi eg skyllda fullnad j leiguna faa. för eg þä austur i sueiter. og war eg þar wel .xx. är. fretta eg þä fräfall þessa mijns fyrrnefnda brödurs Þoruardar og suo þad hann hefdi þessa jord Sydstagil sellt. för eg þä at austan sams ärs. og eg fretta þetta. og ä þvi sama äre bad eg Päl bönda Grimsson at brigda fyrer mig jaurdina Sydstagil i Längadal. og i annat sinn Jön bönda Skwlason cg optar hef eg þessa jord brigdt og brigda lätid. og ecki hefur þessi jord werit suo viij ärum leingur. at eg hafi ecki hana brigda lätid þadan af eg wissa at hwn war selld. og þessa jaurd hef eg alldri huorcki saulum sellt nie giaufum giefit

1) Svo.

neinum manni ä æfi minne fyrr enn eg sel hana nu Þorualldi Biornssyni. epter þvi sem bref þar vm giort wtwïsar. Og epter aullum þessum mijnum framburdi og lysijng wil eg sueria nær þorf giorer. Og til sannenda hier vm set eg mitt jnnsiglli fyrer þetta bref. hvert skrifad war ä Æsustaudum i Eyiafirdi ärum epter Gudz burd m. d. lx og fimm.

---

310. 1565.

BYGGING jarða Garðakirkju á Álptanesi.

AM. Apogr. 1859 „Ex apographo Gardensi" (AM.) frá 1701.

Copiur af skiølum Garda kyrkiu fyrer þad är 65[1])
Bygdar jarder og Hialeigur i Gørdum.

1. Gudmunde Hausastade fyrer malnytu kugillde. miøltunnu. manslän ad vertid. med jørdenne eitt kugillde.
2. Asbirne Selskard fyrer iij. vætter fiska. äskilinn kyrfödurs vallar slattur. med jordunne ij kugillde.
3. Hraunshollt byggt mäg Þorsteins fyrer fridar. xx. alner. äskilinn vallarslattur. og mannslän um vertid. med jørdunne eckert kugillde. madurinn heiter Jngemundur.
4. Wifilstader Jone Pälssyne fyrer malnytu kugillde og mannslän. med jørdunne ij kugillde.
5. Backe Jone Jonssyne fyrer iiij. vætter fiska. vallarslätt. mannslän. med jordunnj ij kugillde.
6. Dysiar. Jone Markussyne fyrer iij. vætter fiska. mannslän. vallarslätt. med jørdunne ij kugillde. Jtak j sølfafiøru stadarens einn dag.
7. Akurgierde Päle fyrer fiska til tals 1. hundrad. er þar med eitt kugillde.
8. Hamarskot bygt fyrer iij vætter fiska. vallarslätt. med jørdunne j kugillde.
9. Nyiabæ Gudmunde fyrer iij vætter fiska. vallarslätt. Röa ä skipenu heim um kring är. med jørdunne kugillde.

---

1) þ. e. 1565.

Hialeigur ij.

Pälshus byggd Heriolfe fyrer iij. vætter fiska. og vera fyrer skipe stadarens heima. og Röa ä þvi epter þvi sem sä skicka vill sem Räda ä stadnum. er þar med j kugillde.

Hlid byggd Hakone fyrer iij. vætter fiska. mannslän og formennska ä skilenn. er med hiäleigunne eitt kugillde. enn adur voru þar tvo.

---

311. 1565. í Saurbæ.

VIDIMUS af Bolungarvíkrbréfi 16. febr. 1449.

AM. Apogr. 977, eftir eftirriti m. h. Jóns Magnússonar eldra sýslumanns í Dalasýslu.

Þad medkennunst uid Sigurdur Ormsson og Ari Einarsson ad uid hofum sied og heyrtt yferlesid suo hliodandi bref med jnsiglum sem hier fyrir ofan er skrifad. og hier epter vilium uid sveria ef þurfa þiker. Og til sanninda hier um festum vid ockar jnsigle fyrir þetta transskriptarbref huert ad skifad uar aa Saurbæ aa Raudasandi arum epter Gudz burd 1565 aar.

---

312. 1565. í Saurbæ.

TRANSSKRIPTARBRÉF.

AM. Apogr. 975, uppskrift staðfest í Skálholti 21. dec. 1707 af Magnúsi Markússyni, Hafliða Bergsveinssyni og Þórði Þórðarsyni eftir frumtransskriptinu sjálfu.

[Hér koma þrír vitnisburðir um Bolungarvíkrtolla:
1. Þórðar Auðunarsonar og Knarrar Þórðarsonar 28. mars 1467.
2. Þórðar Auðunarsonar 28. mars 1469.
3. Jóns Alexíussonar 13. febr. 1469].

Þat medkennuzt vid Sigurdr Ormsson ok Are Einarsson ad vid hofum sied ok yferlesid suo latande vitnisburdarbref med heilum ok oskoddum hangande jnsiglum ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad er. ok hier

epter vilium vid sueria ef þurfa þiker. Ok til sanninda hier vm festum vid okkr jnsigle fyrir þetta transskriptarbref huertt ad skrifad var j Saurbæ a Raudasande arum epter gudz burd M°. D. lx ok v. ar.

---

313. 1565. í Skálholti.

REIKNINGR kvikfjár, afla og afgjalda Skálholtsstóls, og stóð þann reikning síra Þórðr ráðsmaðr Jónsson.

AM. 260, 4to., bl. 36—9.

Anno dominj 1565.

Suo micil vetrar vanholld ä stadnum oc ollum stadarbuunum fra Attadeigi til fardaga. Jnprimis iij kyr. Jtem asaudur c oc x. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre lxxiiij. Jtem fullroskner hestar xxxiiij. Jtem fullrosken hross xj. 4 þreuetur. ij tuæuetur. iiij veturgomul.

Suo micill frammgangr ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr lxxiiij. Jtem gomul naut xix. Jtem þrevetur iij. Jtem tuæuetur vij. Jtem asaudur iiijc oc xij ær. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iijc lx oc ix. Jtem fullroskner hestar lj. Jtem j þreuetur. Jtem ij tuæuetrer oc ij veturgamler. Jtem fullroskin hross xxvij. iij þreuetur. iij tuæuetur. Jtem j veturgamalt.

Suo micit heim tecid ä stadnum oc ollum stadarbuunum. Jnprimis kyr xiij. Jtem j naut tuæuett. j naut veturgamalt. Jtem asaudr xxix. Jtem gamler sauder xij. oc ueturgamler xij. Jtem fullroskner hestar ix. Jtem 2 þreuetrer. j tuæuetrer. Jtem j hross gamalt. tuo tuæuetur.

Suo micit vr fodrum j Floa oc ä Skeidum. Jnprimis kyr l oc iij. gomul naut vij. þreuetur naut xiiij. tuæuetur xviij. veturgomul naut xl. Jtem asaudur xl. oc iij. Jtem tuæuetrer sauder og elldre xxx oc j. Jtem veturgamler sauder xjtigi. Jtem fullroskner hestar viij. ij tuæuetrer. j veturgamall. Jtem fullroskin hross vij. j þreuett oc ij tuæuett.

Suo micid vr fodrum j Badum Hreppum. Jnprimis kyr xxx oc iij. Jtem gomul naut 4. Jtem þreuetur 4. Jtem

tuæuctur xx. Jtem veturgomul xx oc iij. Jtem asaudur xx oc j. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre viij. Jtem veturgamler sauder c xx oc v. Jtem fullroskin hross ij.

Suo micit vr fodrum j Biskupstungum. Jnprimis kyr xx oc iiij. Jtem gomul naut vj. Jtem þreuctur fiagr.[1]) Jtem tuæuetur xu. Jtem veturgomul naut xx. Jtem asaudr xxx oc vij. Jtem gamler sauder vij. Jtem veturgamler sauder lxx oc iij. Jtem fullroskner hestar 4. Jtem j veturgamall. Jtem 3 hross gomul. Jtem j þreuett.

Suo micid vr fodrum j Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal. Jnprimis kyr xxx oc vj. Jtem gomul naut ix. Jtem þreuctur xuiij. Jtem tuæuetur xxx oc v. Jtem veturgomul naut xxx oc iiij. Jtem asaudur xxx oc ix. Jtem tuæuctrer sauder oc elldre xx oc iiij. Jtem veturgamler xtigi oc v. Jtem iij hestar fullroskner oc j hross fullrosked.

Suo micid vr fodrum j Skammbeinstada vmbodi. Jnprimis kyr xuiij. Jtem gomul naut xiij. þreuetur vij. Jtem tuæuetur xuiij. Jtem veturgomul naut xx oc j. Jtem asaudur xl oc ix. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xj. Jtem veturgamler sauder c xx oc j. Jtem j hestur fullroskenn. oc j hross þreuett.

Summa kyr ä stadnum oc aullum stadarbuunum oc vr fodrum oc til luckt vr vmbodum med þui sem heim var tecid. Jnprimis kyr ijc oc x. Jtem gomul naut l oc viij. Jtem þreuetur l oc iij. Jtem tuæuetur xjtigi oc fiogr. Jtem veturgomul naut c oc xix. Jtem asaudr vc xjtigi. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iiijc xl oc ij. Jtem veturgamler sauder iiijc xtigi oc vj. Jtem fullroskner hestar lxx oc vj. Jtem þreuetrer iij. Jtem v tuæuetrer. oc iiij veturgamler. Jtem fullrosken hross xl oc j. Jtem þreuetur vj. Jtem vij tuæuetur. oc j veturgamalt.

Suo micit vti luckt burtu bygt oc til jarda sett. kyr l oc vij. Jtem j naut gamalt. Jtem j naut þreuett. Jtem tuæuetur xij. Jtem veturgomul naut vij. Jtem asaudur

1) Svo.

c oc iij. Jtem gellder sauder xxx og v. Jtem veturgamler xjtigi oc vj. Jtem fullroskner hestar vj. Jtem ij veturgamler. Jtem iij hross fullrosken. Jtem j hross veturgamalt.

Jtem haufum vier samiafnat frammganginum oc tilluektunum vid vtiluckirnar oc vid þad sem epter var vm sumarit til lifs oc bus oc til fialls. Jnprimis kyr vt sem jnn. Aasaudur fiorum færra vt sem jnn. Jtem gamler sauder oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul naut oc vng vt sem jnn. Jtem gamler hestar oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul hross og vng vt sem jnn.

Suo micit til lifs oc bus ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr c lxx oc ix. Jtem asaudur iiijc lxx oc viij. Jtem fullroskner hestar lxx oc v. Jtem j þreuctur. þrir tuæuetrer. oc ij veturgamler. Jtem fullroskin hross xxx oc viij. Jtem iiij þreuetur. Jtem viij tuæuetur. j veturgamalt.

Suo micit til fiallz ä stadnum oc ollum stadarbuum. Jnprimis gelldar kyr iij. gomul naut l oc vij. Jtem þreuetur l oc ij. Jtem tuæuetur xtigi oc ij. Jtem veturgomul naut c oc xij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iiijc oc vij. Jtem veturgamler iijc oc xjtiger. Jtem xx gellder oc j.

Suo micil sumar vanhaulld ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr v. oc gomul naut v. Jtem þreuetur iij. Jtem tuæuetur v.. oc veturgomul v. Jtem asaudr xxx oc j. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri l. Jtem veturgamler xx oc vij. Jtem ij hestar fullroskner. Jtem fullroskin hross iiij. Jtem j þreuett. oc j tuæuett.

Suo micit af fialli aa stadnum oc aullum stadarbuum. Jnprimis iij kyr. Jtem gomul naut af fialli 8 aa. Jtem þreuctur naut tueimur færra af fialli enn aa. Jtem tuæuetur naut x færri af fialli enn aa. Jtem veturgomul naut xiij færri af fialli enn aa. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xl oc j færri af fialli enn aa. Jtem veturgamler sauder lx oc iij færri af fialli enn aa. Jtem gelldær viij af fialli færri enn aa.

Suo micil haustaflogun aa stadnum oc ollum stadar--

buum. Jn primis kyr l oc vij. Jtem gomul naut xxx oc iij. Jtem þreuetur naut xj. Jtem tuæuetur iiij. Jtem veturgomul naut iiij. Jtem ij ær. Jtem gellder sauder c oc xl. Jtem veturgamler xij.

Suo micit til lifs oc fodurs aa stadnum oc ollum stadarbuum. Jnprimis kyr lx oc iiij. gomul naut x. Jtem v naut aa fiorda vetur. Jtem aa þridia vetur vij. Jtem aa annann vetur vj. Jtem aasaudur iiij$^{c}$ lx oc oc ij. Jtem gimbrar c xl oc vj. Jtem gellder sauder c xjtigi oc vj. Jtem veturgamler c viijtigi oc ij. Jtem fullʀoskner hestar 71. Jtem hestr ä fiorda vetur. Jtem fiorer aa þridia vetur. Jtem ij ä annann vetur. oc j ä fyrsta vetre. Jtem hʀoss fullʀosken xxx oc iiij. Jtem ä fiorda vetur 4. Jtem ä þridia vetur vij. Jtem ä an[n]an vetur j. oc ä fyrsta vetur j.

Suo micit j fodrum j Floa oc ä Skeidum. Jnprimis kyr xuiij. Jtem gomul naut j. Jtem vij naut ä fiorda vetur. Jtem xu ä þridia vetur. Jtem ä an[n]an vetur xxx. Jtem ä fyrsta vetur xx oc ij. Jtem lomb lxxx oc iiij.

Suo micit j fodrum j baadum Hreppum. Jnprimis kyr xx oc j. Jtem ä fiorda vetr ij. Jtem ä þridia vetur vij. Jtem ä an[n]an vetur xiij. Jtem ä fyrsta vetur xx oc viij. Jtem lomb lxx.

Suo micit j fodrum j Biskupstungum. kyr xuiij. Jtem j naut gamalt. Jtem ä fiorda vetur v. Jtem ä þridia vetur viij. Jtem ä annann vetur xu. Jtem ä fyrsta vetur xxx oc ij. Jtem lomb xxx oc iiij.

Suo micit j fodrum j Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal. Jnprimis kyr xiiij. Jtem xv naut ä fiorda vetur. Jtem ä þridia vetur xxviij. Jtem ä an[n]an vetur xx oc ix. Jtem ä fyrsta vetur xl oc v. Jtem lomb lx oc viij.

Suo micit j fodrum j Skammbeinstada vmbodi. Jnprimis kyr v. Jtem gomul naut vij. Jtem ä fiorda vetur ij. Jtem ä þridia vetur xv. ä an[n]an vetur xv. Jtem ä fyrsta vetur xx oc iiij. Jtem lomb xtigi oc ij.

Summa j fodrum ä stadnum oc ollum stadarbuum oc j aullum vmbodunum. Jnprimis kyr c oc xx. Jtem gomul naut xix. Jtem ä fiorda vetur xxx oc vj. Jtem a þridia

vetur lxxx. Jtem aa an[n]an vetur xtigi oc viij. Jtem ä fyrsta vetur c xxx oc j. Jtem lomb ijc xl oc viij.

Jtem haufum vier saman jafnat þui sem var til lifs oc bus vm sumarit oc til fialls vid þad sem var til lifs oc fodurs epter vm haustid at reiknudum ollum haustaflogum. Jnprimis kyr vt sem jnn. Jtem gomul naut oc vng vt sem jnn. Jtem asaudur vt sem jnn. Jtem gamler sauder oc vnger vt sem jnn. Jtem fullʀoskner hestar oc vnger vt sem jnn. Jtem fullʀoskin hross oc vng vt sem jnn.

Summa kirkiu kugildi j Floa oc ä Skeidum. Jnprimis xx oc ij. Jtem leigu kugildi cc lxx oc viij oc j halft.

Summa kirkiu kugildi j ʀaadum Hreppum ij. Jtem leigu kugildi c xl oc vij.

Summa kirkiu kugildi j Biskupstungum. Jtem xij kirkiu kugildi. Jtem leigu kugildi i½c oc j.

Summa kirkiu kugildi j Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal xij. Jtem leigu kugildi ijc xx oc vij oc j halft. Jtem stauku kugilldi. ij hia sijra Þordi Gislasyni. Jtem hia sijra Þordi Gudmundssyni ij kyr oc vj ær.

Summa kirkiu kugildi j Skammbeinstada vmbodi xiiij. Jtem leigu kugildi c xxx.

Summa kirkiu kugildi j Gryndavijk og Krysuvik med Herdisarvijk viij. Jtem leigu kugildi þar sama stadz xx oc ix.

Summa kirkiu kugildi j Heynes vmbodi vij. Jtem þar heima x suo ordin vj kyr oc 4 asaudar kugildi. Jtem leigu kugildi j vmbodinn xtigi oc j halft. er hier med ʀeiknud Eyri j Kios. Jngunnarstader. Þrandarstader oc Hrijsar j Bryniudal.

Anno dominj 1565 komu þessar jarder jnn j stadarins ʀeikningskap fyrir Nesiajardernar. sem liggia j Borgarfirdi oc ä Hualfiardarstrond. Summa leigu kugildi ä þessum jordum 94.

Summa summarum kirkiu kugildi j aullum stadarins vmbodum viij tigi oc vij.

Summa summarum kugildi ä stadnum oc ollum stadarbuunum oc j fodrum oc leigu kugildi j aullum vmm-

bodunum oc stauku kugildi hia odrum monnum xiij^c oc iij.

Summa summarum gomul naut oc vng iij^c xxx oc iiij.
Summa summarum gamler sauder oc vnger iij^c 78.
Summa summarum gamler hestar oc vnger 79.
Summa summarum gomul hross oc vng 47.
Summa laumb ij^c xl oc viij.

Suo micid vr vllu giort a stadnum oc ollum stadarbuum xxu½ vod. Jtem reiknuduzt vadmal vt sem jnn. Jtem lagdi Biskupinn til stadarins 25 voder.

Summa hlutar skreid [oc lands skylldar skreid[1]) epter skip oc menn j Grindauick. Herdisaruick. Selvoge. Þorlackshafn med EyrarBacka oc ArnarBæle. vj lester viij^c. oc xl fiskar. Jtem til stadarins j lester ix^c oc xl fiskar. Jtem Reiknadizt skreid suo vt sem jnn.

Suo micil smior heim komen c vætter xx oc iij. Reiknuduzt smior vt sem jnn.

Vetrar vanholld a stadnum oc aullum stadarbuum til attadags. Do eitt naut a þridia vetur. Jtem ær med gymbrum lxx. vnger sauder oc gamler xxiij.

Stod þennan reikningskap Erlig persona Sira Þordur Jonsson radzmann. Voru þesser reikningsmenn Herra Gisli Jonsson. Sira Biorn Olafson. Sira Einar Olafson. Gudbrandur.[2]) Gisli Sueinson. Magnus Jonson. Jtem lesari oc skrifari Sira Grimur Skulason.

---

314. [ca. 1565?].

LANDAMERKI kirkjujarða í Vatnsfirði.

Ny kgl. Saml. 1847, 4to. D, bls. 54 og bls. 59 (= b) skr. 1669, m. h. síra Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði.

Þesse eru landamerke mille Vatnzfiardar kirkiu jarda. epter skrife säluga sira Jons Loptssonar.

1. Giørfudalur ä land millumm Alfftagröfar är og Giørfudalzär.

1) [tvítekið. 2) Svo, þ. e. síðar byskup Þorláksson.

2. Vogar eiga siönhverfing vpp ä fiall jnn ad Lejte. og vpp og vt j landamerkia lagiena. üt j lækinn ä Breydumyre. vnglamba kelldur gagnvart framm epter fialle.

3. Svansvijk þar utann ad. og gagnvart framm epter bak vid fiallid framm j Torfenn. skilur þa Torfalækrinn. framann[1]) j Vatzhlijdarvatne. vr þuj ä hun ofann ad Svansvijkur vatne. og Reykiarfiadara.[2]) vr þuj og til siöar. enn üt frä ad fremsta Garde j Reykianese.

4. og 5. [Hälshus og Þufur.[3]) Kellda sem er fyrer framann Hälzhusa steck. skilur lønd ä[4]) mille Hälshusa og Þufna.

6. Hestur[4]) j Hestfialle er eirn standklackur eda klettur. sem kalladur er kerling vndann honum geingur [hladgardz mind[5]) ad sio ofann. kippkorn jnn frä Kolbeinseyre. þad eru landamerke mille Hests og Fötar.

[Landamerke mille Hestfiardar og Eijdis j Seydisfijrde Kafanef sem er skamt fyrir jnnann Svanagröfarlæk.

7. Sveinhüs.[3]) Siöfedmingur er[6]) landamercke Sveinhüsa og Hälshüsa.

Þetta ofannskrifad um landamerkin epter skrædu ritad.

Aftan við *b* er þetta ritað:

Gissur x. Marteirn viij. Gijsle xxxij.

Skrifad epter skrædubok. ä hvoria Sira Jon Loptsson sem hiellt Vatnzfiardarstad .31. är edur 32. þetta ritad hafde.

---

315. [ca. 1565].

FYRIRSÖGN að byggingarbréfi.

Lbs. 99, 4to., bls. 79—80, m. h. sira Jóns Halldórssonar 1712 eða nokkuru síðar.

Skilmäla form ad byggia jørd sijna.

Jeg N. N. son bygge þier N. N. son jørdina er liggur i N. kirkiu sökn. N. ad dyrleika. med hennar giædum og

1) framm, *b*. Reykiafiardarä, *b*. 3) [sl. *b*; 4) sl. b. 5) [Veggrusl edur ladgardz mindar, *b*. 6) ä ad skilia *b*.

riettu eignar landi. med N. kugijlldum og fullri landskulld. effter þijnu megni. minni villd og jardarinnar dyrleika til næstu fardaga. ad þessum tilstandandi umlidnum. med þvi möti. ad med bot husa. tuns og vel tækum kugijlldum vid skiliest. þa þier ber. buist vid skilum um forfallalausann eindaga ä leigum og landskylld. leigum ad Michaelsmessu. landskylld i fardøgum. Eirninn[1]) fyrir jørdina fædslu og fylgd fätækra. bodburdi. tijundum og rietti. siert mier hlydinn og handgeinginn. meter mig mest og mijnar skullder. siert mier i øllu megulïgu[2]) til gagns og geds. enn i øngvu til stygdar. audger þig hvørki nie nærer rängliga ellegar þijna. leitir þier helldur fulltings og rädz hia gudi og gödum mønnum. riettvijker mijnu og til skila halldir. veriest fyrer gudz myskun sierplægni. komir þier vel vid alla goda menn. Lofer þu þessu og endir. þa skalltu med handabandi af mier hafa heimilld fyrer äkvednu um tileinkadann tijma. Lofer þu þessu og endir ecki. þa önyter þu mijna heimilld. og öfrelsar þier allt ädursagt. giørir þig rækann. enn mitt a øllum tijmum riettnæmt. ad vitni þeirra sem ord mijn heyra.

Þetta form hafdi Sira Jon Lofftsson i Vatnzfijrdi. effter þvi sem herra Arne Oddsson Løgmadur skrifar med eigin hendi.

---

**316. [1565].**

**FORSÖGN** presta frá dögum Gísla byskups Jónssonar í Skálholti fyrir því að lýsa banni og forboði yfir þeim, sem vanrækja kirkjusókn.

Thottssafn 596, 8 vo., bl. 20—21, skinnbók, skr. eftir 1566.

Um þa menn sem vanrækia ad sækia kirkiu.[3])
Þat giore ec ........ Prestur ...... ouerdugur gudz

1) Svo; undir skilið: svara. 2) Svo = möguligu. 3) Hér er með rauðu skrifað neðanmáls: Nessit (ɔ: Nescit) regnare. qui nequit dissimulare. Sa kann ecki at stiorna sem ecki kann at stilla edur uægia.

ordz þienare a .... stad christnum maunnum kunnigt j þessu minu opnu brefe. sokum þess at þu ........son leggur fyrer þic. þa liotustu athofn liifs og salar vegna. sem finnast ma. at þu uanræker þina kirkiusokn. og hefur forsomad og fyrerlitid gudz heilügv ord og predikun j langa tiid. edur tima forlidenn. j moti Gudz bifalningu og skipan. bædi j gamla logmale og nyia. huer aull uor saluhialp og syndanna fyrirgefning er ut j folgin. og þad eilifa lifid. uottar hier upp ä volldugur drottenn Jesus Christus. j attunda capitula Johannis suo seigiandi. Huer hann er af gudi sa madur heyrer gudz ord. En huer þaa uill ecki heyra hann er ecki af gudi. Su er klausan þyngre. gef henne uagt suo þu vernder[1]) aptur aa sanan ueg. Seger og suo Jesus Christus. huer ydar heyrer hann heyrer mier. þad er suo at skilia. sem hans kennedomr. predicararner framflytia j sinu bifauludu embætti. þeir af gudi og ualldzstiornenne kallader og kiorner erv. þar þeir predika þad hann sialfur kent hefur. hvar et at hniga meir en. M.[2]) greina j gudlegum letrum. Og þui j Ihesu Christi nafne giore ec þier. ........ þriar loglegar aaminningar. fyrir Gud faudur. og hans dyrmæta son Jesum Christum. og krapt heilax anda. At þu yfer bæter og uerdugan auoxt giorer jdrunarennar jnnan. xiiii daga. vtan fyrr skie. vilie af heilagx anda jnnblæstre fyrir adur greinda svivirding og salutaupun. j þriosku þinne og þrafullum aurugg-leik framda. En vilir þu j samre vanræktt og villudome blifa. j greindu tilfelli þa segi ec þic j bann og forbod. þad frekast sem gudspiallet jnne helldr. og fleire adrar gudligar Ritningar. heilagra spamanna. propheta og postula vtskyra. sem annan villumann. suo og skyt ec þinne ohlydne og yfertrodzlu vnder ueralldliga valld-stiorn huerre vanvirdv edur vnder uarpe. þu uerdur hier fyrer skylldugur. enn ec afseigi mier allan uanda j greindum greinum. og þier a hendur. At uitne mins Almattigx[1]) yferbodara. og kristiligrar samkvndu. En

1) Svo. 2) þ. e. 1000.

þess bidium uer avll gudz hiord at þu ...... son hreppe[r] aptur huarf. og yferbot til gudz nadar. Og at sa jlife himneski fadiren[1]) uirdist hann aptur at leida a riettau lifsens ueg. fyrir sinn Almattugan elskulegan son Jesum Christum samt heilugum Anda. Amen. Og seigium hier upp a vora helgustu bæn. Fadir vor.

---

317. [1565].

UPPKAST að konungsbréfi (að því er virðist til Hamborgarráðs), er leyfir verzlun á Jslandi það sumar, vegna skulda, sem leyfisbeiðendr eigi þar.

Eftirrit í ríkisskjalasafni Dana, Island, Færö og Grönland, Supplem. II, 15.

Friderich.

Wir haben ewer widerschreiben denn 3 Martij datirt denn 19 desselbigen Monats empfangen vnnd daraus vermercke aus was vrsachenn Ir mit vnns der Isslendischen fahrt halber auf denn nechst von vnns beschehenenn fürschlag zu handelnn nicht bedacht. vnd aber gleichwol euch bey biss daher vngehinderter vnnd gebrauchter Schiffart dahinninn bleibenn zulassenn. oder aber zum wenigsten die einfurderung Irer daselbst ausstehende schulde. diesen sommer vber zugestatten gesucht. daruff wir euch den disinn antwort nicht verhaltenn mugenn. das wir euch oder keinem Menschenn. einiges freyenn altenn. oder vngehinderten gebrauchs der Sigilation in Isslandt auff andere wege. als was von vnns oder vnsernn vorfahren precario erhalten. gestendig seinn. dis auch bey diesser gelegenheit vnnser vnnd vnnsers Reichs Notturft nicht zulest. die haffen Iemandts ohne sondere Handlung oder vorbeding. besuchenn zulassen. derhalb wir dann auch itzo auf etzliche derselbigenn. mit etzlichen vnderschiedlichenn Personenn auf gewisse mass. vmb souil schleuniger abgehandelt vnnd geschlossen. haben auch andere leuthe

---

1) Svo.

ahn der handt. die sich dervbrigenn Haffen halber mit vns zu ferner Handlung einzulassen erbieten. Vnnd weit dan aus berurten eurn schreiben wol vermerckt. das den ewrn vmb die Isslendische Hantirung so gros zu thun nicht ist. lassen wies billich derhalb bey vorigem vnnserm derwegen an euch ergangenem schreiben aus Sora den 10 Januarij dieses itzlauffenden 65 Iahrs Datirt vorthan beruhen wiewol wir euch dannocht zu gnaden vnd der billicheit halber gönnen wollen. das ir oder die eurn. diesen Itzolaufenden Sommer vber. vmb einfurderung ihrer ausstehenden schult daselbst hineinn siegeln mugen doch das darundter keine newe handlung getrieben. beine weitere schult gemacht. auch an bezalung der schult. keine von vnns verbottene wahren angenohmen vel weiniger ausgefurt werdenn. bey verwirckung ernster Straff ahn leib. Schieff. vnnd gutter.

Dass Ir auch gebetten ob etwas kunfftiglich zu ewerer verunglimpfung bey vns angebracht. ewer entschuldigung dagegen einzunehmen achten wir nicht weniger. als von vnnsernn rechten beschehenn ahn sich selbs billich. vnnd wollen vns auf eur vnderthenigst gehorsam vnnd gutwilliger zeygung gegen euch wol allenthalb widerumb geburlich zuerhalten wissen seint euch mit gnaden vnd gutten gewigt Datum.[1])

(Á viðfestu blaði er grein sú, er hér fer á eftir, líklega úr bréfi frá hirðstjóra konungs á Íslandi og þá frá þessu ári og undirstaða að bréfinu næst á undan)

Om then ysslandske Handell.

Item først ath Kongl. Maiett scriver de Hamborgher till ath de forholle them nogher tiid ath seyle pa Yslandh efther swowæll saa ath Kongl. Maitt haffuer thet selff behoff thet ther kandh falle po nogher thii[d] ath kongl. Maitt haffuer forfareth ath thet formynsker sigh nogeth och hans Nade haffuer thet selff behoff thet ther nogher tiid kand falle her efther.

Item ath Kongl. Maitt will lade hwerth aar løbæ 2

1) Svo.

skiib til Yssland hwerth skiff po 100 lesther for wden kosth och fetale och henthe ther Swowell och føre then her ynd wdi Landeth och lade lwttherræ ther her saa kand hans Nade haffwa[1]) ther aff hwerth aar 5 eller 6000 mk. Lubs och saa kand hans Nade bestille en Købman aff de facker ther køber hans Node samme Swowell aff och giiffuer ther fore goth gwll eller de ware som hans Node selff beger.

Item her søndher po Ysslandh wdi en Haffn som kalles Posandh ath ther yngen skiiff løber wden Kongl. Mait. eth skiiff wdi slyghensken ath hans Nade will ther lade skibæ all hans egen skath och Renthe som faller ther søndher pa landeth och siiden føre same fysk wdi Engeland och ther kiøbe klede fore till Kongl. Maitts egeth behoff. doch skulle thette forkyndes de Hamborgher om Hosthen till fornæ so de wistæ ther om ath rethe them.

Item liggher ther och en Haffn som kalles Reff harth hos Snebesyøkell ther faller och then bestæ fisk och købmanskaff ther faller po Landeth thet kan Kongl. Maitt och lade forsøge met uthskiiff pa 100 Lesther och siiden ther aff och ind wdi Engelandh efther klede.

Item ath de ængelskæ ther søgher Yssland om aareth mothe giffwæ deres taald wdi Engælandh po Stolhouith eller hwar Kongl. Maitt thet en andensted ther wdi Engæland wille sethe them foræ. hwar Kongen aff Engeland thet ykæ will yndgaa ath de ænge[l]skæ tha motthe giffwæ deris Talld po Wespenøen som liggher op till Yssland po en wge sos nær ther som de engelskæ thet ykæ wille yndgaa da kand Kongl. Maitt lade eth skiib løbe wdaff Norge enthen fran Bergen bemandeth tha kand thet skiiff twynge de Engelskæ till ath legge deres taal wd som de nw wdi langh tiid yckæ wdgiffueth haffuæ.

---

318. 1565—6.

BREZKIR kaupmenn kæra hömlur á fiskkaupum þeirra

1) Svo..

og fiskveiði í Vestmannaeyjum og aðfarir Símonar Surbecks í þessu efni.

Cal. MSS. Lord Salisbury, Hatfield (No. 186. 72). Hist. MSS. Commission XIII. bls. 70—1. Samkvæmt eftirriti frá Dr. Jóni Stefánssyni í Lundúnum.

Fishing in Iselonde. Complaints of merchants. Complaints: Certeyn articles declaring the ancient libertie of the subiects of Englonde concerning the fysshinge in Iselonde.

First that tyme out of mynde our occupiers have bene yerlie occupied into Iselonde for the buying of Stockfysshe and for the quietlie takinge of green fysshe as codde and lyng. heretofore without licence asking. paying the Customes due. that is to say for every merchant man's shipp and goods that buildeth his bothe uppon the shore and traffics with Iselondemen 5 marks English money. and for every ship that goeth thither that carries no merchandise with him. but goeth only for the killing of fysshe. with his oune boats and mere paying for his Custome one angell nobell and one barrell of salte or else a barrell of beere and no more. And for this Custom payinge they might go into what harbouring they woulde. And as now within these 20 years wee have been kepte out of all the harbours of Iselande. not suffered to pitch bothes. nor lie for fysshinge. the islande of Westmoney onlie excepted. Within these 2 or 3 yeares wee have not been suffered to traffique in Westmoney. for Simon Surbeck and his factors there command the inhabitants not to sell them fysshe. Surbeck also. when his ships come in. will unmoor the English shippes in the harbour and take their room. putting our men in danger of drouning. In the 6th yeare of Queen Mary. having war with France and Scotland. two English shippes were moored in Westmoney harbour. when there came two Scottish shippes of warre who were permitted by Simon's factors to land and to lay three brass pieces against the English shippes which were taken and the men carried prisoners into

Scotland. the goods being worth £ 2500. They also had a house on land which Simon took. saying he had boughte it of the Scotsmen. There is also demanded of them now the tenth fysshe that they kill upon the seas there. contrary to all righte and conscience.[1])

---

319. [eftir 1565].

BROT úr dómi um testamentisgerð.

Steph. 62, 4to., bl. 96, skr. ca. 1650—60.

Grejn vr þeim Domi sem gieck vm Testamentizgiord P...... h[eitins] P......sonar.

Finnum vier j Gudz ordi soddan grein Gal. 3. Einginn onyter Testamentum mansinz nær þad er stadfest nie eykr þar vid nockru. Enn vor gomul landz log hlioda so vm slijk tilfelli. Skipan su er menn giora ä sijdustum dogum heiter Testamentum og er þad Birting oc vitnisburdur hugskotsinz og er so skipad af h[eilögum] fedrum oc Gudz logum. oc eigi sijdr af kongum oc keijsurum so vijdt sem christninn er. ad sijdasti vilie mansinz skal frialz vera og allz kostar geymandi. J sama mata setium vier þa skipun ä af Gudz alfu. med radi oc samþycki virdugligz herra Magnusar kongz Biskupanna oc annara hinna vitrustu manna. ad skickun su er menn giora fyrer sier ä sijdustum dogum nærverandi ijur edr iijur skilrijkum vottum og presti ef honum näer. skal standa hiedan af oc opinberliga halldast so sem logmäl. Jtem Ef Erfingiar fylla ej so skipun frammfarinz mannz. skal þeim fyrirbiodast af Biskupz alfu þær Eigner sier ad nyta. Jtem samþycktt a prestastefnu j Holastigti oc so a Alþingi Anno 1552. Testamenta skulu halldast so sem adur hefr verid. Jtem samþycktt Anno 1565 Testamenta skulu halldast þar sem ej virdist til arfsuika vid Erfingia.

---

1) Aftan á stendr: The Complaints of the merchants trading Islande.

320. 1565—1570. í Miðfelli.

DÓMR um hjúskaparatburði Páls Halldórssonar við Guðlaugu, dóttur Þórðar Einarssonar, og um brigð hans á þeim heitum.

JS. 149, 4to., bl. 193 b—194 a, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði ca. 1666—7. — Lbs. 788, 4to., bl. 50—1, skr. ca. 1640. — AM. 211 C 4to., bls. 180—1, skr. ca. 1700. — Lbs. 65, 4to., I, 42—3, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640 (sleppir dómsmönnum). — Lbs. 91, 4to., bl. 217, m. h. síra Hannesar Björnssonar ca. 1698 (sleppir dómsmönnum). — Lbs. 101, 4to., bls. 297, m. h. síra Jóns Halldórssonar ca. 1720 (eftr 91. 4to.). — Enn er uppskrift dómsins í AM. 109 B, 8vo. — Ártal þessa dóms vantar í allar uppskriftirnar, en dómrinn er frá árabilinu 1564.—1570. Gísli Sveinsson rak Árnessýslu fyrst 1564, og Erasmus Villadsson er enn óvígðr leikmaðr 22. febr. 1564. En vígðr hefir hann verið 1565, því að þá er Guðbrandr Þorláksson skólameistari í Skálholti og Erasmus farinn. Sbr. alþingisdóm 1. júlí 1562.

Domur umm Trwlofaner og kaup.[1])

Þad giorum vier Erasmus Villhattsson.[2]) Jon Biarnarson.[3]) Þordur Jonsson. prestar Skällhollts biskupsdæmis. Magnus Jonsson. Þörer Sveinsson. Magnus Petursson. logriettumenn. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe. ad vier vorum til skodunar og [älits kallader[4]) j Midfelle j Runamanna ʀepp midvikudagenn effter ymbruviku af Herra Gijsla Jonssyne S.[5]) S.S. og suo[6]) Gijsla Bonda Sveinssyne [kongs umbodsmanne j[7]) Arness syslu.[8]) Anno....[9]) hvornenn fara skyllde umm þad kaup edur þann underbwnijng sem Päll Halldorsson hafde giortt vid Þörd Einarsson og hans dottur til hiönabands stiettar. hafde þesse ädurnefndur Pall keifft þessa stwlku Gudlaugu Þördardotter og var lyst j heilagre[10]) kirkiu sem til[11]) bar effter[12]) logum. Enn ad [giordum þessum[13]) underbwnijnge

1) Anno 1 (eyða), b. b. 211. 2) Wilialmsson 788, 211. 3) Bjarnason 211. 4) kraffder 788; [og dóms nefndir og krafðir 211. 5) Superintendens 788. 6) b. v. 788. 7) yfir 211. 8) [sl. 788. 9) eyða fyrir ártali í 149; hin sl. öll: Anno. 10) christeligri 788, 211. 11) b. v. 65, 91, 101. 12) ad 788, 65, 91, 101, 211. 13) [65, 91, 101; þessum giordum 149, 788.

villde adurschriffadur[1]) Pall ecke[2]) festa þessa adurnefnda stulku[3]) Gudlaugu Þordardottur.[4]) enn gat [þo ecke[5]) nein logleg forfǫll til funded. hvarke hennar vegna nie sinna. nema sinn eigenn sialfs þverbrotenn vilia. Rannsokudum vier [adurschriffader menn[6]) og jnnelega effter leitudum vid þennan[7]) Päl hvad hann villde hellst hier til finna. ad hann villde bregda sijna lofun og handsǫl. enn hann sagdest ei meiga neitt þar[8]) til finna. nema hann hefde þar hvorke sinne.[9]) hug nie vilia til ad sier öneyddum og viliugum. þui kunnum vier ecke[10]) effter vorre samvisku þessa[11]) menn saman ad dæma edur hiönabanded[12]) med þeim binda. helldur dæmdum vier þau frij og skilenn hvortt vid annad þad sem hiönabanded snertter. Enn Päll slijku sekann vid kongsvallded[13]) og gifftingarmann sem logmäled og adrer Riettar dömar þar umm skyrlegast[14]) hallda. hvoria secktt og lijka rett vid gifftingarmann ad logrettumennenner dæmdu þennan fyrskrifadan Päl sekann 4 morkum vid kong enn gifftingarmanne fullrette effter þui sem dömur Eggertts logmanns wtvijsar. og ad þessum döme uppsogdum gaf Þordur Einarsson og hans syner Päl qvittann fyrer sier og ǫllum sijnum.[15]) skyllde Þördur meiga ad frialsu taka ad sier þä peninga er hann hafde Päle afhendt vegna sinnar döttur og allann þann ävoxt er þar mätte af verda. hvortt sem þad eru lomb edur annar ävoxtur.

[Samþickttu.[16])

---

321. 12. janúar 1566. á Hvanneyri.

KAUPBRÉF fyrir hálfu Hvítanesi í Skilmannahreppi.

1) b. v. 788. 2) 788; ei 149 o. fl. 3) b. v. 65. 4) b. v. 788, 211. 5) [788, 101, 91; þä ei 149, 211. 6) [b. v. 788, 211. 7) b. v. 788. 8) b. v. 788, 65, 211, 91, 101. 9) b. v. 788, 65, 211, 91, 101. 10) 91, 701, 211; ei 149, 788. 11) þvilijka 101, 788, 91, 211. 12) -band 788, 211. 13) 788 o. fl.; -valld 149. 14) b. v. 91, 101. 15) erfingjum, b. v. 211. 16) [Og til sanninda hier vm et cetera 91, og að nokkuru leyti 65, 101.

Jbsk. AM. Borgarf. 1. Staðfest uppskrift i Görðum á Akranesi 7. júlí 1704 af Gunnari Þorvarðssyni og Ögmundi Hávarðssyni.

Kaup Bref fyrer Hvijta Nese.

Þad giorum vier Asbiorn Brandsson. Juar Valgardsson. Þorarinn Geirmundsson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe Arum Effter Gudsburd MDLx og vj a 12 Deigi Januarj vorum vier j hia säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna ä Huanneyre i Borgarfirde. af Eirne Alfu Einars Eirekssonar Enn Skafta Jonssonar af annare faldist þad og skildist vnder þessu þeirra handabande at adur nefndur Skapti Jonsson sellde greindum Einari Eijrekssyne alla halfa Jordena Hvijtanes i Skilmannahrepp og Gardakirkiusokn xc. ad dyrleika med ollum þeim Gognum og giædum sem greindre halfre jordu fylger og fylgt hefur at fornu og nyu bæde til sios og lands fialls og fioru ad ollu þuj tilskijlldu. Enn onguu fra sem hann tök i xijc i mötz vid adra sijna brædur i skiptum vndann sier og sijnum Erffing[i]um. Enn vnder firrneffndann Einar Eijreksson og hannz Erfingia Hier med handsalade nyneffndur Skapti Jonsson optgreindum Einare Eijrekssyne allt þad fie sem þar findist j jordu og aa. og ecki yrde Eigendur ad. so og reka ef nockur yrde þann honum tilheyrde fra þeim deige sem þä var komid. Hier i mot gaf ädurskrifadur Ejnar Eijreksson margnefndum Skapta Jonssyne xijc j mälnitu og frijdum peningum halfft huort. og skilde gialldast ä þremur Efttirkomande ärum enum næstum sin iiijc a huoriu äre Tilgreind kyr og asaudar kugijllde ä huorju äre Lofade tijttnefndur Skapti Jonsson þrattnefndum Eijnare Eirekssynj ad suara lag[a]Rifftingum ä þessare fyrrgreindre jordu halffu Hvijtanese. En nyneffndur Eijnar Eireksson hallda til laga og til Sanninda hier vmm festum vær vortt innsigle fyrer þetta vort vitnisburdarbref skriffad ä HuannEyre i Borgarfijrde ä sama deige og äre sem fyrr seiger..

322. 16. janúar 1566. á Þingeyrum.

VITNISBURÐR um Eldjárnsstaði í Blöndudal.

AM. Fasc. LVI, 1, frumrit á skinni. Eitt innsiglisfar í faldi bréfsins, en ekkert innsigli nú. — AM. Apogr. 1054 „Ex originali Sæmundar Magnussonar ä Holi j Bolungarvik“ m. h. Styrs Þorvaldssonar.

Witnisburdur Bessa Oddssonar wmm Elldiarnstadi j Blaundudal.[1])

Jhesus.

Svofelldan vitnisburd ber ec Bessi Oddzson ad eg var vitstaddur vm vorit ä Elldiarnstaudum j Blaundudal. þä Ion bondi Magnusson faladi ad Tumasi Jonssyni jordina hälfva Elldiarnstadi. hverra fyrnefndra manna salir Gud fridad hafui. baud greindur Jon bondi Magnusson ädurnefndum Tumasi þä peninga fyrir adurnefnda jord sem Tumasi lijkadi. Svo og sagdi tijttnefndur Jon ad Tumas mætti sækia þa peninga til Svijnavatnz. Gaf Tumas þä þad suar. tijttnefndum Jone Magnussyni ad hann hefdi hugad sier ad selia þessa adurnefnda jord Elldiarnstadi einum enn ecki tveimur ef hann selldi hana. svo og sagdist Tumas þaa hafva suo alner til hialpar sier ad hann hefdi ecki þeirra peninga þaurf sem Jon þä baud honum og eij kiori Tumas sig til þeirra peninga helldur afsagdi hann þä. svo og lysti þrattnefndur Tumas þui þä fyrir mier og fyrir fleirum göd-um monnum sem þar voru þa ä Elldiarnstaudum ad Hallbera kona hans ætti tijttnefnda halfua jordina Elldiarnstadi og alldreij hefui ec verid vit annad þeirra samtal Jons Magnussonar og Tumasar Jonssonar vmm jordina Elldiarnstadi enn suo sem hier fyrr skrifad stendur og alldreij hefur ec lofad neinum vitnissburdi Jone heitnum Magnussyni vpp ä tijttnefnt og fyʀskrifad þeirra samtal Jons Magnussonar og Tumasar Jonssonar og aunguan vitnissburd hefur ec utgiefit neinum manni annann enn þennann vm tijttnefnt samtal Jons

---

1) Utan á frbr. með sömu hendi sem oft er utan á bréfum, er varða Árna Gislason.

og Tumasar vm Elldiarnstadi og alldreij hefui ec lofat nie leyft neinum manne ad laata grafa jnnsigli vnder mijnu nafni ad läta setia fyrir annan vitnissburd enn þennann. umm fyrskrifad efni og vmtal þeirra Jons Magnussonar og Tumasar Jonssonar vm Elldiarnstadi og hier epter vil ec sueria ef þurfa þikier. Og til sanninda hier vmm set ec mitt jnnsigli fyrir þetta vitnissburdarbref er skrifad var ä Þijngeyrum j Vatnzdal þann xvj dag Januarij. arum epter gudz burd M. d. lx vj.

---

323. 16. janúar 1566. á Þingeyrum.

STAÐFESTING á vitnisburði á næsta skjali á undan.

AM. Fasc. LVI, 2, frumrit á skinni, sem læst hefir verið saman við næsta bréf á undan (LVI, 1). Innsiglaför 5; innsigli ekkert. — AM. Apogr. 1055 „Ex orig. Sæmundar Magnussonar aa Holi j Bolungarvik“ m. h. Styrs Þorvaldssonar.

Suo felldann vitnissburd berum vier Jon Þordarson. Biarne Arason prestar. Brandur Fusason. Floent Eijriksson. og Biørn Jonsson ad vier vorum j hiä. säum og heyrdum ä ad Bessi Oddzson gaf Arna Gijslasyne vt þennann vitnissburd sem hier er medfestur þessum uorum vitnissburdi. Og til sanninda hier vmm setium vier vor jnnsigli fyrir þetta vitnissburdarbref er skrifad uar ä Þijngeyrum j Vatnzdal þann xvj dag Januarij ärum epter Gudz burd. M d. lx vj.

---

324. 18. janúar 1566. undir Ási.

KAUPBRÉF fyrir Ási í Fellum.

Bréfabók Brynjólfs byskups: AM. 274. fol., 124, og Landsbókasafn 1083, 4to., bls. 310—12, i transscripto Odds rektors Eyjólfssonar og 6 annarra, gerðu í Skálholti 27. okt. 1662, eftir frumriti.

Þad gørum vid Ormur Skeggiason [og] Jön Sigurdsson gödum mønnum vitanligt med þessu ockru opnu[1])

---

1) yfirstrikað.

brefe. ärum effter vors herra Jesu Christi fæding 1566 är. under Asi j Fliötsdalsheradi. føstudagin næstann fyrer Pälsmessu umm veturinn. vorum ver[1]) j hia. säum og heyrdum ä ord og handaband Eiriks bönda Sniölfssonar og Þuridar Þorleifsdöttur. hans kvinnu. ad so fyrer skildu ad hann selldi henni jørdina Äs er liggur j Fliötsdalsheradi j Austfiørdum til fullrar eignar. med øllum þeim gøgnum og gædum. rekum og hlynnindum. sem greindri jørdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyu. og hann vard fremst eigandi ad. med tilgreindre verstodu torfu tveggia hundrada eign kyrkiunnar sem henni fylgt hefur. reka og landi. Her j möti gaf Þuridur Þorleifsdotter fyrskrifudum Eiriki bönda Sniölfssyne sextän hundrut og tuttugu j jørdum. so heitøndum jørdina Seliahlijd fyrer xxc og xvjc j Eyvindarstødum og fiøgur ägillde betur. er liggia j Eyafirdi j Nupufells kyrkiu sökn. med þeim gøgnum og gædum sem greindum jørdum fylgt hefur ad førnu og nyu. og hun vard fremst eigandi af sinum fødur. Skildi ädurskrifadur Eirikur böndi Sniölfsson þad til. ad Oluf þeirra skilgetin dötter skylldi eignast jørdina Äs. ef hun lifdi sina mödur. utann hun siälf vilie fyrri vid hana af høndum läta. Lysti og optnefndur Eirikur böndi Sniolfsson. ad kyrkian under Ase ætte þessar jardir. Hafrafell. Kross og Fiallssel og xijc j fridum peningum og öfridum. Og til sanninda her umm og fulluligs merkis. setur þesse tittnefndur heidursmann Eirikur böndi Sniölfsson sitt jnsigle med ockrum jnsiglum fyrer þetta jardarkaups bref. Skrifad j sama stad. deigi og äre sem fyr seigir.

---

325. 26. janúar 1566. í Hvammi.

GJAFABRÉF fyrir Hellisholti.

AM. Fasc. LVI, 3, frumrit á skinni; 2 innsiglaför, en innsigli ekkert. — AM. Apogr. m. h. Árna Magnússonar eftir frumritinu.

---

1) Svo.

Giafabreff fyrir xx^c [i] Hellishollte Gudrijdar Jonsdottur.[1])

Þad giaurum uid Halldor Einarsson og Jon Olafsson Godum monnum kunnigt med þessu ockrv opnu Brefi ad arum epter gudz Burd. M. d. lx. vj. Palsmesso sialfa. vm ueturinn[2]) j Huamme j Dyrafirde. worum uid i hia saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna af einne alfu Jons Bonda Olafssonar enn annare alfv Gudridar Jonsdottur. faldizt þad og skildizt under þessu þeirra handabande. ad fyrrgreind Gudridur Jonsdotter. med Rade og samþycke sins skilgetins sonar. Jons Jonssonar gaf adur nefndum Jone Olafssyne jaurdina alla Hellishollt. xx^c. ad dyrleika. eR liggur j Skalholltzsueit[3]) j Hrunamannahrepp.[3]) med ollum þeim gaugnvmm og giædum sem greindri jordu fylger og fylgt hefer ad fornu og nyiv. og hun hefer fremzt eigande ad ordit ad laugum epter systur sina Jngebiorgu Ionsdottur. undan sier og sinum erfingium. enn under Jon Olafsson. og hans erfingia. Hier i mot lofadi fyR nefndur Jon Olafsson adur greindre Gudride æfinlegu frammfæri j suoddan mata. ad hun uære halldin sem godra manna geinge ä mille. med mat og dryck og faut. Enn kynne honum ad bregdazt nockut i jordunne. þa skyllde hann eignazt suo margt kugillde af hennar peningvm. sem hun hlaut epter sina systur Jngebiaurgu. epter þui sem godum monnum þætti hann uel sæmdur af. Og til meiri stadfestu og sanninda hier vm. festum vid fyr greinder menn ockur innsigle fyrir þetta profentu Bref. huert ad skrifat uar a sama are. Deigi sidar enn fyR seigir.

---

326. **20. febrúar 1566. á Grenjaðarstöðum.**

VITNISBURÐR um landamerki Öndóttsstaða í Reykjadal.

AM. Fasc. LVI, 4, frumrit á skinni, og er 1 innsigli fyrir. „Þetta er eiginhønd Sira Sigurdar Jonssonar ä Greniadarstad", segir Árni Magnússon á lausum miða. — AM. Apogr. 88.

---

1) Utan á bréfinu m. h. sira Torfa í Gaulverjabæ. 2) þ. e. 25. jan. 3) Svo.

Vitnisburdur vm landeign Lauga.[1])

Suo felldan uitnisburd ber ec Þorsteinn Jonsson ad ec hefi nær allann minn alldur uistfastur verit j Reykiadal og er ec nu lxx ara gamall og alldrei hefi ec annad heyrt haft nei[2]) halldit enn þad ad landamerke a mille Storu Lauga og Ondottzstada være þad ad jordinn storu Laugar ætti land allt ut fra sier jtolulaust j þann gard er geingur fyrir utan gilzbarmin þess gilz er geingur ofan ur fiallinu a mille Lauga og Ondottzstada og suo þadan j Gipugerdis[3]) tungard er geingur fyrer sunnan sialft gerdit og suo rettsynes ur þeim tungardz enda uestur j Reykiadalzaa. bio ec a Ondottzstodum nockur ar og uar mier alldrei su jord leingra sudur bygd enn j þann tungard sem girtur er um greint gerdi fyrir sunnan þad sialft og þad sagde Are heitinn Jonsson mier er þa uar logmadur og þa med eignar nafne hiellt Ondottzstadi og mier þa bygdi ad hann ætti ei leingra sudur enn j þann sydra tungardinn a Gipugerdi[4]) og epter þessum minum uitnisburdi lofade ec med handsolum ad sueria ef þurfa þætti eda domur mier þad dæmdi ad hia uerandi Sira Olafi Arnasyni og Hilldebrandi Þorsteinssyni. Og til sannenda hier umm set eg mitt jncigli med greindra manna jnciglum fyrir þetta mitt vitnisburdarbref skrifad a Greniadarstodum j Adalreykiadal mier hia uerandi þann xx$^{a}$ dag februari[j] anno domini M d lx og ui.

---

**327.** 28. febrúar 1566. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Birgi Trolle og félögum hans leyfi til siglingar á Búðir og Kumbaravog.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 323. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 667 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

---

1) Utan á bréfinu m. gamalli h. 2) Svo, frbr. 3) Svo, og er þó hálfkrassað ofan í fyrsta stafinn. Sbr. síðar í bréfinu. 4) Hér skýrlega svo.

Byrge Trolde mett hans mettredere fick breff at mue lade beseigle thuende haffner for Island vt sequitur.

Wij Frederich etc. Giøre alle witterligt. at wij af wor synderlig gunst och naade haffue wndt och nu mett thette wortt obne breff wnde och tillade. att oss elskelige Byrge Trolde. wor mand och raad. och hans metredere mue beseigle thuende haffner for wortt land Island vdj Snefeldznesssyssel. thend enne kaldis Buderstad. och thend anden Kombarewoge och ther mett wore wndersotte bruge theris kiøbmandskaff. handell och wandell. till saa lenge wij anderledis ther om tilsigendis worder. dog saa att forschreffne Byrge Trolde och hans mettredere skulle aarligen till gode rede giffue ther aff till oss och kronen huess affgifft ther aff bør att gange mett rette. Sammeledis skulle the forsørge wore wndersotte mett nottorfftige god tilføringe mett saadanne gode wforfalskede ware. som almuen ere nyttige och gaffnlige ther paa landitt till wnderholdinge och i andre maade. och samme ware for itt skielligt och billigt werd selge och affhende. Tisligiste skulle the bruge rett maal och wegt och i alle maade thennom saa forholde. att ingen klage kommer ther offuer. Datum Haffniæ 28 februarij aar 66.

---

328. 28. febrúar 1566. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Herman von Oldenseel, borgara í Lýbiku, leyfi til siglingar á Vopnafjörð.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 323 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 669 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Herman von Oldenseel. borger till Lubeck. fick wdj lige maade breff ad gratiam att mue beseigle en haffn vdj Ostfiord syssell i Wopnefiorden. østen wden for Ostfiord. som en Bremmer her till haffuer besøgt. Datum vt supra. [Datum Haffniæ 28 februarij aar 66].

---

329. 3. mars 1566. á Friðriksborg.

KONUNGR veitir Jochum Wichmandt, borgara í Hamborg, leyfi til siglingar á Hafnarfjörð.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 323 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni)..

Jochum Wichmandt. borger till Hamborg. fick breff at maa lade beseigle enn haffnn for Isslandt vt sequitur.

Wij Frederich etc. Giøre alle witterligt. at wij aff wor synderlig gunst och naade haffue vndt och tilladt och nu medt thette wortt obnne breff unde och tillade. at oss elskelige Jochum Wichmanndt. borger wdj wor stadt Hamborg. maa her effter lade beseigle en haffn for wort landt Islanndt wdj Guldbringsyssel. kaldis Haffnne fioerdt. och ther medt wore vndersaatte hanndle och wanndle och bruge hanns kiøbmandskab och wdføre hues ware ther falder. vnderthagit suoffuel. huilckit wij oss sielff wille forbeholdit haffue. til saa lennge wij annderledis ther om tilsiigenndes worder. dog saa att hanndt skall aarligenn til guode rede giffue ther aff til oss och kronenn. huis toldt och annden rettigheedt ther bør aff at gannge. Skal hanndt och forsørge wore vnndersaatte ther samestedtz medt nøttørfftige gode tilføringg. medt meel och andre goede och wforfalskede ware. som thennom nøttige ere. och thet selge och affhennde thennom for eth skielligtt weerdt. Skal hanndt och bruge rett wegt och maal och i alle maade sig saa forholde. at offuer hannom eller hanns fuldmegtige ingen klage komer. Cum inhibitione solita. Datum Frederichsborg thendt iij dag martij aar etc. mdlxvj.

---

330. 12. mars 1566. í Miklabæ.

HEITBRÉF Skagfirðinga.

AM. Fasc. LVI, 5, frumrit á skinni (nú í þjóðskjalasafni). Af 16 innsiglum eru nú 4 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 5877 „Heitdags-

bref communicatum á Mag. Biornone Thorlevio Episcopo Holensi 1701“ (AM.), og er sú uppskrift gerð eftir frumritinu, sem er úr skjalasafni Hólastóls. — Transscriptum á skinni í þjóðskjalasafninu í Reykjavík, gert á Mælifelli 27. febrúar 1731 af Magnúsi Arasyni, Jóni Bjarnasyni og Jóni Eggertssyni. Sýnist það vera m. h. síra Magnúsar Arasonar. Transscriptum þetta hékk í umgerð á vegg í Mælifellskirkju fram um 1880 eða lengur, en kom til þjóðskjalasafnsins frá Hofdölum í Skagafirði 21. október 1908; hafði verið léð frá Mælifelli þangað svo sem gagn í landamerkjamáli, og legið þar síðan. Í transscripto þessu eru allar endurnýjanir heitbréfsins, nema sú frá 2. nóv. 1676. — Transscriptum á pappír af heitbréfinu frá 12. mars 1566, ártalslaust, en staðfest af Gísla byskupi Þorlákssyni, líklega 1668, en hleypir úr kafla. — Allmargar uppskriftir aðrar eru til af þessu bréfi, en þær eru allar að engu nýtar.

## Heitbref aa Myklabæ.

Jn nomine Domini Amen.

Wier epterskrifader Olafur Hialltason. ouerdugur Superintendens Holabiskupsdæmis. Þorsteinn Hallsson. Holastadar Radzmadur. Jon Jonsson kirkiuprestur sama stadar. Gudmundur Biornnson. Gudmundur Gunnlaugsson oc Asgrijmur Hallsson. prestar Holabiskupsdæmis. Pall Grijmsson. Jon Einarsson. Kaar Sæmundzson Þorsteinn Jonsson. Jon Sæmundzson. Olafur Olafsson. Ormur Palsson. Hallur Gudmundson. Eyvindur Magnusson. og Einar Jonsson med aullum audrum hreppstiorum og almuga þar saman komnum j millum Kyrfisar[1]) inn og Hofdahola[1]) wt. a Micklabæ j Oslandshlijd. xij dag Marcij manadar. worum wier til samtals vm þad gamla heit sem werid hafdi halldit og haft meir enn j´ halft an[n]ad .c. aara. af gaumlum forueruruin Biskupum ad Holum og aullum enu yppurstu dandimønnum. sem Bued oc werid hafa j suo langan tijma j adurgreindu takmarki. Hietum wier oc jatudum enn nu vppa nytt. og nu med þessu woru opnu brefe heitum oc jatum allzualldanda eilijfum Gudi og hans elskuliga syne Jhesu

1) „Kyrfisä er i Skagafirde mille Hofstada og ytstu Breckna. Høfdaholar eru skamt fra Høfda a Høfdastrønd. aller ur þessu takmarke sækia heitdagenn til Micklabæiar i Oslandzhlid. Eru þar 3 hreppar. Høfdastrønd. Holahreppur. Vidvikursveit“ (AM.).

Christo. med helgum anda til lofs oc heidurz. Dyrdar og dasemdar. enn oss aullum til fridar oc farsælldar. aargangi og wppriettingar af þeim eymdum er nu liggur aa aullum almuga oc leigit hefur j nockur forlidin aar. og ad Gud wilie þessari oaaran fra oss snua. suo þad werdi oss worum aurfum og aullum epterkomendum til audlegdar og kristeligs epterdæmis. þar vppa hliodandi heilagre skript. oc oss þad biodandi. ad wier skulum aa hann kalla j aullum vorum þraunguingum oc naudsynium. suo ad oss verdi þad til nadar og nytsemdar. oc oþrotnanligrar kristiligrar aukningar og fyrirmyndanar.

J fyrstu. heitum wær. jatum oc lofum þui Gudi. j hans sonar Jhesu Christi nafne. af riettu hiarta oc godfyse. og vppa þad Gud wilie oss milldiliga alijta. og þetta sitt hirtingarhrijs oc sprota myskunnsamliga j burt af oss taka. ad huer oc einn skattbondi j nefndu takmarki skule giefa eyrer einum buandi sueitarmanne. þeim ecki giorer tijund. enn þeir minna eigu. oc buendur eru iij alner aa hueriu aare. Enn aller þeir sem ecki sækia til Micklabæiar j Oslandzhlijd. þridindaginn fyrstann j einmanude til ad hlyda Gudz ordi og medtaka heilagt sacramentum med klaru hiarta oc kristiligri tru fyrir vtan glaum edur gabb. strakskap eda styriølld. skualldur eda skraf. edur neina ohlutuendi þar fremiandi vid rijkann eda fatækann sieu seker .vj. aurum epter Kongsins Ordinanciu. og su seckt leggist fatækum til vpphelldis sem heitgiafernar taka. med hreppstioranna rade. So oc þeir sem þangad ecki koma ad forfallalausu. suare slikri seckt. vtann þeir wilie þad allt fylla og framkvæma sem þar giorist. og sæki suo sem vitafe þessum gudz aulmusumønnum til handa. Enn þeim sem gud hefur meiri fiar audlegd lanad enn adur greiner giefi mun frekara epter þui sem gud blæs þeim j briost. Skal þesse samkomugiøf sitt aar leggiast j hueria þessa þingaa. Hola. Widuijkur. Hofs oc Micklabæiar. og skal taka .iij. hinu fatækustu vr þeim hreppum sem huert aar til fellur. oc hluta huern Gud will af

þeim til kiosa. Hiet Biskupinn þui. af þui ad stadurinn er ʀijkari enn adrer med samþycki ʀadamannan[n]a sem þar woru med honum. ad arlega giefist þeim þessa aulmusu hlutast ad hafa. x. aurar j aullu.

Suo og hefur oss samankomid ad þar halldist messa af heilagri þrenningu a nefndann dag. sie fyrst sungid:

Kom þu godi heilagi ande.

med sinne oracio. þa messo vpphaf:

blezud siert þu heilug þrenning.

Kyrie. i modurmäle. og:

Alleinasta Gudi j himiʀijki.

þar epter oraciu þa hinu leingre. sem stendr tilgiord a sunnudaginn j gagndagaviku. þar epter pistilinn þann sem til er giordur a manudaginn j þeirri somu viku. þar epter alleluia:

Heyr þu hin sæla blezada dyrdarfulla þrenning.

Enn epter alleluia sie sunginn Gract[1])

O drottinn minn gior eigi vid oss.

og wid .iij. vers:

Hialpa þu oss. et cetera.

falli allur lydur a knie. þar epter gudspiall sem a Sunnudaginn gagndaga wikunnar er til giort. Johann. 16. Huers þier bidied. Epter gudspiall sie sunginn psalmurinn:

Gud faudur oc son med helgum anda.

Epter psalminn byriest predikun af vtskyringu sama Gudspialls vm bænina sem þeim þikier gagnligast fyrir almugan er predikar. Ad endadri predikan sie sungin Litania. og sijdan fullgiorist allt embætti epter kristiligum wana. og ad Gudz ordi medteknu og messunne endadri og lycktadri bæn gangi þeir hiner bestu dugandismenn med ædstu hreppstiorum med einum kristiligum samhuga til ad vtvelia sagdan gudz aulmusumann. ey med þöfe eda þrætu. eigi fyrir wilia nie winskap. helldur af riettri godfyse oc godgirne. med suoddan akalli og bæn. sem Gudz postular giordu þa þeir vtuoldu hinn sæla Matthiam j giorningaʙok postulanna fyrsta capi-

1) Svo frbr. eins og lesa ætti: Gractur; Gratj, Tr.; Graduale 5877.

tula. Enn þeir sem þetta wort heit med þriosku eda ofbelldi wilia motfalla og eigi hallda þad j heitdeiginum werdur giort sem adur er sagt. þeir gialldi tuefallt og hreppstiornarmenn huer j sijnum hrepp styrki þann mann til med syslumannsins Räde suo ad þetta wort heit og stadfaust lofun æfinliga hier epter halldist.

Gud sendi oss sijna nad aullum saman og wardveite oss j salu og lijfe vm allar allder allda amen.

Og til sanninda og fullkomligrar stadfestu vm adurgreint heit setium wier fyrrskrifader menn wor jnnsigli fyrir þetta Bref er giort var[1]) j sama stad og dag sem fyrr seiger Anno domini m d Lxvj ar.

Matt. vij. Bidiet og mun ydur giefasth. — Johannis xvi. Sannliga Sannliga seigi ec ydur: Huers þier bidied faudurinn j mijnu nafni mun hann giefa ydur. — Ad Romanos xij: Hatid hid wonda: og giorid ætijd hid goda.[2])

Bændum og Büføstum mønnum samt øllum Søfnudum i Lytingstada Repp öska eg underskrifadur fridar og farsælldar af Gude fødur i h[eiløgum] Anda fyrer Jesum Christum!

med þuj ec sannferdugliga spurt og formerkt hefe. ad heidurligur og vel lærdur kiennemann Sira Magnus Arason soknarprestur ad Mælefelle. vithallde þeim. (af vorumm forverjurum). vel tilskickada heitdeige. med Gudligre þiönustu og Embættizgiord i kirkjunne. Epter vidtekenne Christeligre sidveniu i þessu stipte. so og hinnz vegna. ad eg skil. ad innbiggjendur nefndz Reppz að Lytjngzstødum i Tungusveit. þann dag samann kome Gudz ord ad heyra. þa öska ec og tilmæle. ad eirn og sierhver. bænda og bufastra manna i adurtiedum Repp (hvor epter sinne formeigann og Gödum vilia) villde uppa Gudz vegna sijnar heitgiafer Einhvorjum hellst naudþurftugum sveitarinnar lim gödfuzliga tilleggia

1) 5877; sl. frbr. 2) Um sálma þá, sem nefndir eru í bréfinu ritar Árni í 5877 svo: „Gud fødur og son med helgum anda. þad er nu sä psalmur: Giørvøll kristnen skal glediast nu. Hann byriast i Dønsku: Gud fader og søn og hellig aand.“

Epter þuj sem heidurligur presturinn og Reppstiorarner fyrermæla. Enn Gud sem er brunnur allrar miskunar. hvorjum vier eigum vor sære ad luka. vill þesse ydar godverk af näd sinne med tijmanligre og Eijlifre blessan endurgiallda. Hvorjum eg befel ydur alla med ydar heidurligum salusorgurumm. til bestu umsionar og nädarrijkustu h[eilags] Anda stiornunar i Jesu Nafne. Enn þessu til merkiz skrifa eg mitt nafn hier ad nedann. og vil alltijd finnast ydar og Christnennar vin og þienare.

Skrifad Hoolum i Hialltadal þann 26 Januarij Anno 1724.

Steinn Jönsson.

Þessare skrifligre osk og inneligre bön vors häeruverduga andliga yfervalldz Weledla og hälærdz herra Biskupzinz Mag: Steins Jönssonar. vilium vier Lytingstada Reppz innbiggendur i skilldugre hlydne og undergiefne so godviliugliga andsvara. ad hier under skrifader Eindrægnizliga samann tøkum. heitum þuj og lofum (ad til kalladre h: anda näd) þeim sidvanaliga (af vorum formonnum vel til skickada) heitdeige arliga uppe ad hallda. og þä h[eilaga] Embættizgiord aungan veigin ad forsoma. an merkeligra forfalla. þar næst lofum vier þui og heitum vorum sidvanaligum heitgiøfum (Epter sierhvorz vorz efle[1]) og formegan) Gudz voludum og fätækum limum lostuliga og med gödum vilia ad ütsvara. Epter sem osz af vorum yfermonnum tilskickad verdur. hvar til gud sialfur virdest osz sijna heilagz Anda näd og stiörnan ad veita i Jesu Nafne.

Þetta var upp lesed ad Lytin[g]stødum i Tungusveit. a samkomu edur heitdeige Riettumm. og sameiginliga jätad og stadfest af øllum þar saman komnum hvad þeir auglysa hier med underskrifudum nøfnum dag 21 martij Anno 1724.

Magnus Arason p.
Sveinn Pälzson p.
Olafur Thorlakzson.

1) Svo.

Stephan Sigurdzson.
Gijsle Olafsson. Løgrettumenn.
Sigurdur Jönzson.
Sigurdur Gudmundzson. hreppstiörar.
Jön Jonzson.
Gudmundur Biornzson.
Jön Gudmundzson.
Thomas Jönzson.
Are Jönzson.
Jön Jönzson.
Jön Einarzson.
Gudmundur Eijrekzson.
Sigurdur Marchusson.
Þordur Þorsteinzson.
Gijsle Conradzson.
Haukur Amundason.
Hrafn Arnason.
Jön Asgrijmzson.
Gudmundur Einarzson.
Jön Jönzson.
Ölafur Jönzson.
Jön Ingialldzson.
Gudmundur Hallzson.
Magnus Vigfuzson.
Þorsteirn Hrölfzson.
Jon Sigmundzson.
Magnus Jönzson.
Þorläkur Jonzson.
Jön Einarzson
Biarne Þorsteinzson.
Jön Jönzson.
Brandur Jönzson.

Ad þetta hier ofan skrifad Transkriftar Bref sie ordriett og samhlioda sijnum originalum vottum vid underskrifader med ockar nofnum og eigenhende ad Mælefelle þann 27 Februarij Anno 1731.

Magnus Arason. Jön Biarnason. Joon Eggertsson.[1]

1) Undirskriftir þessar eru með eiginhöndum.

skal taka. J kongsins Ordinantiu stendur so. ad menn skule tijund giefa effter gomlum vanda[1]) Christi þienurum sem eru hans predikarar. Jtem at[2]) prestar skulu niota allra[2]) þeirra priuilegia sem þeir hofdu j Biskupanna tijd. Jtem j nyrre alþingis[3]) samþyckt stendur so. ad tijunder. heitollar. liostollar og grafftrar[4]) þionusta [skal aull[5]) thil kirkiu og kiennemannz jtem[6]) so sem ad fornu hefur vered ad fra skilldu oliunar[7]) kaupe. Þui fyrer allar þessar greiner andlegar og veralldlegar. gamlar og nyar. sem hier ad luta og þessum vorum dome meiga thil bata koma ad so profudu male. og[7]) þar þa fyrer[8]) oss komnu ad heilags Anda nad [med oz[9]) til kalladre j Gudz nafne Amen dæmdum vier Starkad skilldugann [at giallda[10]) fyrst tijundernar allar suo haar og miklar sem þær ad vpphafe til stodu. og j þeim aurum sem þær eiga ad gialldast. vtan so miked sem Sijra Einar medkiendest fyrer oss ad hann hefde ä þessum deige lagt j valld Sijra Halldors. sem være xx alner. enn fyrer hallded a tijundenne hid fyrsta ared aff peningum Starkadar dæmdum vier iij merkur j tijundarhallded. Enn fyrer annad ared ad Starkadur hafdi[11]) eigi[12]) gollded aff sijnum fyrr nefndum peningum og eigi[12]) helldur af jordune Øndöttstødum.[13]) þa dæmdum vier Starkad sekann vj morkum. [Sira Einare til handa.[14])

J annare grein stod j stefnunne ad Sijra Einar gaf Starkadi þa sok ad Starkadur hefde sier eigi[12]) heitoll gollded aff jordunne Øndöttstødum[13]) j iij[15]) är. þui[16]) dæmdum vier Starkad skilldugann ad giallda adur nefnda heitolla Sijra Einare og þriggia aura seckt ofann a huorn eirn. nema hann syne med sannindum ad hann hafe þa med løgum vppboded j ʀiettann og thilsettann Eindaga.

1) vana 67. 2) b. v. 67. 3) 67; alþings 58. 4) graptar 67. 5) [Svo. 6) sl. 67. 7) sl. 67. 8) fyrrer, 58. 9) [b. v. 67. 10) [67, 125, 343; sl. 58. 11) 67; hefde 58. 12) 67; eij (ei) 58. 13) 67; Aundolfstodum 58, 125, 343. 14) [b. v. 125, 343. 15) iij, 67, 125, 343. 16) 67; þar 58, 125, 343.

Var su[1]) þridia sok j stefnunne ad hann hafde heimt lijksaungskaup effter modur hanz og ecki feinged. þui dæmdum vier Starkad skilldugann ad giallda þann lijksaungseyrer so framt sem hann hefur so miked fie edur meira effter hana teked og seckt sem ad fornu hefur vered fyrer[2]) þad hann var ecki[3]) golldenn j tijundareindaga. dæmdum vier Starkad skilldugann ad giallda jnnann sioundar ad heirdum dominum tijundernar þær sem effter standa. heitollanna og lijksaungseiririnn enn allann sakeiririnn ad næstum fardogum Sijra Einare j hendur edur hanns logligum[4]) umbodsmanni.[5]) enn fallist Sijra Einare sa votturenn er steffnuna atti ad sueria. þa sie onyt lagasoknenn nu i[6]) þetta sinn fyrir Sijra Einare.

Samþickte [þennann vorn dom greindur valldsmadur og sette sitt jnnsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta domsbrief er þa samsundis var giordur og vppsagdur sem fyrr seiger.[7])

---

354. 11. júní 1566. á Staðarhóli.

SJÖTTARDÓMR, kvaddr af Eggert lögmanni Hannessyni, dæmir síra Lopti Pétrssyni Sælingsdalstungu.

Lbs. 789, 4to., bls. 400—1, skr. ca. 1630. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 235 d, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar 1666 (styttr).

Dömur vmm Sæling[s]dalstungu og äsetur Teijtz og yrkinng ä saumu jaurdu.

Þad Giorum vier [Eptter skrifader menn.[8]) Oddur Thumasson. Gvenndur Jonsson. Jon Sigurdsson. [Einar Palsson. Thirffinngur Halldörsson. Arnor Helgason[9]) gödum[10]) monnum kunnigtt [med þessu voru opnu Breffe. þa lided var fra frelsaranss fæding[11]) 1566 [aar þann[8]) [xj dag Junij[12]) a Stadarhole j Saurbæ.

---

1) Su var 67. 2) 67; fra(?) 58. 3) 67; ei 58. 4) loglegur 58; sl. 67. 5) 67; -madur 58. 6) b. v. 67. 7) [58; sl. 67, 125, 343. 8) [sl. 1945. 9) [et cetera 1945. 10) øllum 1945. 11) b. v.; vantar i 789; [ad Anno 1945. 12) [9. Julij 1945.

[a1) almennilegu þriggia hreppa þijnge. vorum vier til dömss neffnder af heijdarlegum [og velburdigumm manne1) herra Eggertt Hannessyne logmanne fyrir nordann og vestan a Jslannde. ad skoda og ransaka og [þar med1) fullnadardömss atqvæde ä ad leggia huoria maktt [og affl ad1) haffa skyllde su [akiæra og1) klogun er Magnus Jonsson. [i fullu og løglegu1) vmmbode sijnss mödurbrodurss Sera Loptt[s] Peturssonar klagade til Teijtz B[onda] Eirijkssonar. er [greindur1) Magnus haffde þangad steffntt fyrir tilkall ä jordunne Sælinngsdalsstungu. og i stefnunne jnni stödu. [saum vier steffnuna og yfferläsum. huor steffna ad saun[n]ud var aff tueimur loglegum vittnumm. og medkiennd aff firrneffndum Teijte. þui dæmdum vier hann2) loglega fyrir kalladann.

J fyrstu klagade Magnus [þad1) til Teijtz ad hann hielldi. a sæte og yrcktte jordina Sælinngsdalsstungu. eignn Sera Lopttss. an hannz leyffis j mote laugum.

Þar j mot vændest [sagdur1) Teijtur. [ad upphafe.1) ad Arngrijmur sonur Sera Lopttss hefde loffad Petre B[onda] Einarssyns mage Teijtss saulu ä neffndre jaurdu. og nockra ara äbüd grejndumm Teijte. Enn þö huorke logvedi nie mäla logliga yfferlystum.

Þar j möt medkiende Sera Lopttur fyrir oss neffndum domssmonumm. ad Arngrijmur sonur hannss heffde sier apttur laged halffa [jordina1) Sælingsdalsstungu j proventtu med sier med fullumm lagagiorninge. [þar med ad Arngrijmur var bædi3) siukur og vanfær. sem [oss1) ollum hier [sveijtarmonnumm1) kunnigtt er. [og gat sier aungva biorg nie forstodu veijtt.1) og var a proventtuna kominn til sera Loptts [fodur sijnss.1)

[Nu hlioda suo ord lanndssinnss laga.4) Eff eirn vill arfsale seliast [þä1) skal hann fyrst biöda frændum hinum nänustu med vottum vid sier ad taka þeim sem fullar vordslur haffe. Og enn seiger hun5) vmm log-

1) [sl. 1945. 2) [séna og svarna stefnuna dæmdum vér nýta, og Teit 1945. 3) [því hann var 1945. 4) [Hljóðar svo lögmálið 1945. 5) Svo 789 og 1945; þ. e. landslaga bókin.

ved og mäla. sie þeim ei ad logumm lyst. þa skule þad aungva macktt [edur affl[1]) haffa.

Þui fyrir þessar Greijner og fleijre adrar[2]) [sem hier ad luta.[1]) j naffni heilagrar þrenningar. dæmdum vier greijnder dömssmenn med fullu dömss atkvæde klogun Magnusar rietta til Teijts. og greijnda jord SælinngsdalsTungu Eignn sera Loptts effter sinne proventtu Giøf. og hann meiga hana ad sier taka. byggia og Bæla. og[3]) gagn og allar nytkar aff haffa sagdre hallfflendu ad Endadre Bygging og äbüd Teijtz Eirijkssonar.

Samþycktte med oss þennann döm [ädur greindur løgmann og sette sitt innsigle äsamt vorum h[ier] u[nder].[4])

---

355. 16. júní 1566. á Sleitistöðum.

SIGRÍÐR EINARSDÓTTIR gerir féskipti með dætrum sínum, Guðrúnu og Margréti Jónsdætrum.

AM. Apogr. 4806 „Ex orig. Sira Jons Torfasonar ä Breidabölstad. Sigilla appendent.“ (AM.).

Þat giorum vid Asgrimr prestur Hallzsson og Kar Sæmundzson godvm monnum kvnnigt med þessu ockru opnu brefi þa er lidit var fra Gudz burd M d lx og vi är. a svnnudægin næstan fyrir Halluardz Messo vm vorit[5]) a Oslandi j Oslandzhlid. vorvm vid j hia er Sigridur Einarsdotter giorde soddan feskipte med dætrvm sijnvm: Gudrvnu Jonsdottur og Margretu Jonsdottur. J fyrstu skipte hun þeim xijc. er Petur Þorsteinsson magur hennar atte at greida henne vpp j þann jardarpart er hun hafdi honum adr sellt j Oslandi. gaf hun dottursine sijnum Jone Petrsyne ijc. hundradzhest og mälnytu kuijllde. enn sïn vc skipte hun huorre sinne dottur af þessu jardarverde. vorv soddan peningar tilgreinder iij mälnytukuiellde. vc. j nautum og saudum og kaupl-

---

1) [sl. 1945. 2) b. v. 1945. 3) sl. 1945. 4) [b. v. 1945. 5) þ. e. 12. maí.

um og .ijc. j daudum peningum. J annare grein skipte hun þeim atta hundrudum er hun sagde j þeirra vardveitzlu være Petrs Þorsteinssonar og Palma Sæmundzsonar bænda þeirra fyrskrifadra systra Gudrunar og Margretar. skyllde sin .iiijc. eignaz huor þeirra. Sagde adurgreind Sigridr at atta .c. stæde epter af sinu jardarverdi hia Petri Þorsteinssyne. skyllde þau atta .c. og þad niunda kuielldit er hun hafdi sialf haft standa fyrir henne til framfærir hia þrättskrifudum Petri Þorsteinssyne þar til hun adra skipan[1]) ä giordi. skilde Petr til at bader skillde styrkia hana til vm klædnad bædi til dags og nætur. enn hun kuad jaa vid þuj. Og til sannenda hier vm setium vid fyr skrifader menn ockar insigle fyrir þetta bref er skrifat var ä Sleitestodum j Oslandzhlid sunnudægin næstan epter trinetatis ä sama are sem fyrr seiger.

---

356. 17. júní 1566. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Henrik Momme leyfi til siglingar á þá höfn í „Austfjarðasýslu“, er „Austfjörðr“(!) heitir.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 331. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 679—80 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Henrich Momme fick konn. mattts. breff att maa lade beseigle en haffnn for Isslanndt. kaldis Ostfioerdt. vt sequitur.

Wij Frederich etc. Giøer alle witterligt. at wij aff wor synderlig gunst och naade haffue vnndt och tilladt och nu medt thette wortt obnne breff vnde och tillade. at thenne breffuiser. oss elskelige Henrich Momme maa her effter lade beseile en wor och kronens haffnn paa wortt landt Islandt wdj Ostfiordsyssel. kaldis Ostfiordt. och ther samestedtz medt wore vndersaatte hanndle och wanndle och thennom lade tilføre micl. maltt och anden fethalie. saa och hues andre gode

1) skifan, Apogr.

ware. som the til thieris klede och føde behouff haffue. och ther egienn mue indkiøbe och wdføre. huis ware ther falder. til saa lenge wij anderledis ther om tilsigendes worder. dog saa att handt aarligen til gode rede skal wdgiiffue til oss och kronenn huis toldt och anden rett och rettigheedt. som oss medt rette tilkommer. Skal handt och were forplicht at lade giøre forschreffne wore vnndersaatte ther samestedtz tilføring. effter som forschreffuit staar. medt gode wforfalskede ware. som forschreffne wore vndersotte nøttige och gaffenlige ere och thennom thet for eth skielligt och billigtt weerdt selge och affkennde. Tesligiste skall hanns fuldmegtige bruge reth maade och wegtt och i alle maade seg forholde saa ingen klage offuer hannom komindes worder. Cum inhibitione solita. Datum Haffniæ 17 die Junij anno etc. 1566.

---

357. 25. júní 1566. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Jochim Thim, borgara í Hamborg, leyfi til siglingar á Keflavík.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 332. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 681—2 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Jochim Thim. borger vdj Hamborg. fick breff att maa lade beseigle en haffn for Isslandt vt sequitur.

Wij Frederich etc. Giøer alle witterligt. at wij aff wor synnderlig gunst och naade haffue vndt och tilladt och nu medt thette wortt obnne breff vnde och tillade. at oss elskelige Jochim Thim. borger vdj wor stadt Hamborg. maa her effter lade beseigle en wor och kronens haffnn paa wortt lanndt Islanndt vdj Guldbrynng syssell. kaldis Kieblewiig. och ther samestedtz medt wore vndersaatte hanndle och wandle och thennom lade tilføre miel. malth och annden fethalie. saa och huess anndre gode ware. som the til thieris klede och

føde behouff haffue. och ther egienn at mue inndkiøbe. hues ware ther falder. til saa lennge wij annderledis ther om tilsigendis worder. dog saa att hanndt aarligenn til gode rede skal wdtgiiffue til oss och kronen. huess toldt och anden retth och rettigheedt. som oss medt rette tilkommer. Skall hanndt och were forplicht at lade giøre forschreffne wore vndersaatte ther samestedtz tilføring. effter som forschreffuit staar. medt gode wforfalskede ware. som for schreffne wore wnndersaatte nøttige och gaffnnlige ere. och thennom thet for eth skielligt och billigt weerdt selge och affhende. Tesligiste skal hanns fuldmegtige bruge rett maade och wegtt och i alle maade seg forholde. saa ingen klage maal offuer hannom komindes worder. Cum inhibitione solita. Datum Hafnie 25 die Junij anno etc 1566.

---

358. 27. júní 1566. í Kaupmannahöfn.

KONUNGR veitir Markúsi Hess, borgmeistara í Kaupmannahöfn, leyfi til siglingar á Básenda.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 334 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 683—4 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Marcus Hess. borgemester her vdj Kiøpnehaffnn. fick breff att maa medt hans medtredere lade beseigle en haffnn for Islanndt vt sequitur.

Wij Frederich thendt anden. medt Gudtz naade etc. Giøer alle witterligt. at wij aff wor synderlige gunst och naade haffue vndt oth tilladt och nu medt thette wortt obnne breff vnde och tillade. at oss elskelige Marcus Hess. borgemester her vdj wor Kiøpstedt Kiøpnehaffnn. medt hanns medredere muee lade beseigle en wor och kronenns haffnn for syndenn paa wort landt Islandt wdj Guldbryngssyssel. kaldis Boesand. och ther samestedtz medt wore vndersaatte hanndle och wandle och thennom lade tilføre meel. maldt och anden fethalie. saa och hues andre gode ware. som the til thieris

klede och føde behoff haffue. och ther egienn at mue inndkiøbe. huess ware ther falder. til saa lenge wij annderledis ther om tilsigendes worder. dog saa at hanndt medt hanns medt redere skulle aarligenn til gode rede wdgiffue til oss och kronenn. huiss told och anden rett och rettigheedt. som oss medt rette tilkommer. Skal the och were forplicht at lade giøre forschreffne wore vnndersaatte ther samestedtz tilføringe. effter som forschreffuit staar. medt gode wforfalskede ware. som forschreffne wore vndersaatte nyttige och gaffnnlige ere och thennom thett for eth skielligtt och billigt weerdt selge och affhennde. Tesligeste skal thieris fuldmegtige bruge rett maade och wegt och i alle maade seg forholde. saa ingen klage offuer thennom komindes worder. Cum inhibitione solita. Datum Hafnie 27 die Augustij anno etc. 1566.

---

359. 4. júlí 1566. á Öxarárþingi.

ÞÓRÐI VIGFÚSSYNI og Sveini Jónssyni dæmdar þær sex jarðir, er síra Magnús Magnússon hafði til kallað í hendr þeim.

AM. Apogr. 4804 „Ex originali“. Árni segir til innsigla.

Ollum þeim monnum sem þetta vort bref lesa edur heyra lesid. sendum vier Magnus Jonsson. Þorlakr Einarsson. Einar Gislason. Gudmundr Ormsson. Biarne Einarsson. Einar Pallsson vora kiærliga kuediu. Hier med giorum vier opinbert og heyrum kunnigt aller j doms sæti sitiandi þa lidit var fra frelsarans fæding M. d. lx vj. ar. a miduikudæginn næstann epter visitatio Marie[1] a almenneligu Auxararþinge. af heidarligum og uel burdigum herra Eggert Hannessyne laugmanne nordan og vestan ä Jslandi vorum vier til nefnder ad reyna og ransaka og fullnadardoms adkuædi ä ad leggia huernenn þesser menn skylldu sier hegda og med fara sem

1) þ. e. 3. júlí.

var Þordur Vigfusson og Sueinn Jonsson. vm þa stefnufaur og jarda akiæru sem sera Magnus Magnusson hafdi þeim stefnda og saker a gefnar. vm olaugligtt halld og medferdi. vi. jarda. er þeir bader haufdu ad hallda og eins vorv til komnar. þar med hafdi hann ä fyrgreindum jordum alla þeirra peninga kyrsett et cetera. Lystu adur nefnder menn sig komna til þingsins epter hans stefnu. var eingin a þessu þinge af hendi Sera Magnusar sem hans vmbod edur suar hefdi. enn þo beidduzt greinder menn Þordur og Sueinn þar fyrir aullum. Sera Magnusar edur han[s] laugligs suaramanns. og budu sijn bref og skilrijke j liose ad lata. þau sem þeir haufdu fyrir þessum jordum. et cetera. Nu votta suo ord landsins laga. ef stefndr kemr enn stefnandi eigi. þa sekizt hann þuilijku vid kong. sem hinn er stefnt var. nema lauglígr vmbodzmadur hans kome. eda sie þar fyrir j rietta lagastefnu. Og þui j guds nafne amen. Dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullu doms adkuædi. Sera Magnus sekann mork vid kong. enn skylldann ad suara þeim Þordi og Sueine fyrir sinn kostnað og omak suo miklum peningum huorum vm sig sem suaradi þingfararkaupe. sem tekzt j þeire syslu sem þeir eru vr. Hier med dæmdum vier Þord og Suein fyrgreindum jordum med frelsi hallda mega þar med byggia og bæla. lia og leigselia. gagn og allar nyckar[1]) af hafa. þar til þær sækiazt af þeim med riettum laugum. skal þessi vor domr obrigdanliga halldazt epter fyrra skilordi.

Samþyckti þennann vorn dom. med oss fyrgreindur Eggert laugmann og setti sitt jnsigle med vorum fyrgreindra domsmanna jnsiglum fyrir þetta domsbref huertt er skrifad uar j sama stad deigi sidar enn fyr seigeR.

---

360. 4. júlí 1566. á Öxarárþingi.

SÝKNUDÓMR Þóris Sveinssonar af kapalstuldi, en

1) „ita extat: corr. nytkar“ (AM.).

gjalda skyldi hann eiganda, konungi og Níels skrifara, eftir því sem dómrinn sjálfr hermir.

Lbs. 65, 4to., I, 94—5, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 402 a—b, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar 1666 (með réttu ártali, ódagsett, sleppt dómsmönnum, en efni ekki mjög stytt).

Dömur vm Þörer Sueinsson vmm ord og kapal.

Aullum Gödum maunnum sem þetta Breff siä edur heyra senda Hall[dor] Skulason. Einar Eiriksson. Hannes Olafsson. Halldor Pietursson. Magnus Jonsson. Magnus Jonsson. Magnus Kietilsson. Jön Fusasou. Jön Thumasson. Oddur Oddsson. Þorläkur Einarsson. Þorleijfur[1]) Eiolfsson. og Magnus Olafsson quediu gudz og sijna[2]) kunnigt giorande þä lided var frä lausnarans fæding 1566 þann 4 dag Julij mänadar. ä almenneligu Øxararþijnge. vorum vier j dom nefnder af velburdugum herra Pale Vigfussyne logmanni sunnan og Austan ä Jslande. til ad skoda og rannsaka og fullnadardöm ä ad leggia. þä äkiæru. er Niels skrifare klagade til Þöres Sueinssonar. kongdömsins vegna. huoria heimilld hann hefde hafft firer þeim kaple er einn pilltur hafde tekid og stolid vr Borgarfirde. og Þörer fann j sijnum tünum. og ad søgdum Niels þötte Þörer ei løgliga med farid hafa. nu kom fyrer oss nefndur Þörer framm. med soddan afbøtun. ad hann hefde synt grønnum sijnum kapalinn.[3]) og þar lyst effter nockra[4]) skodan edur virdingu huad hann være verdur þö ecki løgligre. huad oss virdtist hann ei stolid hafa. þui so stendur vijda j løgmalinu. Þad er stulldur er med leind er hafft. Nu af þui ad so stendur j løgbok vorre. þad er nu þui næst ad einginn skal [fyrer ødrum taka. ei skulum vier oss ad gripdeilldum giora. döms er huor madur verdur fyrer sijnu ad hafa.[5]) þui dæmdum vier med fullu döms atkuæde ad Þörer hefde hafft þennan kapal med litlum løgum. og[6]) skyllde hann giallda eigandanum Eyre

1) Svo. 2) v[ora], hdr. 3) i túninu. b. v. 1945. 4) nokkri 1945. 5) [annar stela 1945. 6) b. v. 1945.

ä huorre viku. og fullriette eiganda vpp frä þui ½ merkur skada være ordinn. enn vikurnar reijknudust 8. hliödar og so løgmälid. ad eigande skal fyrst taka sinn riett. og hann hafde og laga bedist. enn konginum iij aura a huorre viku. og ad þui golldnu tijttnefndan Þörer þar vid skilinn. Enn vm ord þau ädurnefndur Niels skrifare hafde vpp skrifad. ad Þorer hefde vid hann talad. ad hann være ranglätur. överdugur ef[1]) þesse ord yrdu skiallega suarin effter løgum Þörer ä heyranda. konge 4 merkur ä huoriu orde. og Niels ij fullriette. 12 merkur. enn ef Eijdarner fielle. skyllde Þörer hafa sinn riett ad løgum. af þeim sem þetta hafde vpp ä hann hermt. slijkan sem hann skyllde ef hann være sannur ad søk. sølinn[2]) fyrstu[3]) ä fyrsta mänude. ønnur ad hauste. allt ad fardøgum. er þetta var[4]) domur firr skrifadur. ad so profudu og fyrer oss komnu.

---

**361.** 5. júlí 1566. **á alþingi.**

SKIPTI með þeim Narfa og Ögmundi Ormssonum eftir föður þeirra.

AM. 238, 4to., bl. 132—3, m. samtíða h. Vigfúsar sýslumanns Jónssonar.

Skiptabref þeirra brædra Narfa og Avgmvndar 1566.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra. Senndir Gisli Sueinsson. Þordr Gudmundsson. Eirekr Arnason. Hallr Olafson. Einar Eireksson. Hannes Olafsson kuediu gudz og sina kunnigtt giorandi þa lidit var fra gudz[5]) Jhesu Christi burd. 1566. faustudaginn nærstann eptir visitacio Marie um sumarit ä alþingi vorum uær til kalladir af heidarligum dandismonnum Narfa Ormssyni og af annari alfu Augmundar Ormssonar. wm þann arf og peninga sem þeim hafdi til erfda fallit eptir sinn faudr[5]) Orm heitinn Jonsson huers sal ad gud nadi. og þeir beiddunst[5]) skipta. Jtem j fyrstu kom

---

1) og 1945. 2) søkinn, 65, 1945. 3) 1, hdr. 4) v", hdr. (65) = vár. 5) Svo.

þar framm fyrir oss Reikningskapur Orms heitins Jonssonar med hans eiginnligri handskriftt j huerium ad jnni stod þeir peningar sem þeir haufdu vpp borit af sinum faudr.[1]) adr enn hann fiell fra. taldist suo til ad Narfi hefdi haft ur faudrgardi.[1]) xxijc. meira enn Augmundr. þar j mot skylldi Augmundr hafa. xxc. j iordunni Grauf er liggur j ytra Hrep. Jtem j annari skylldi Narfi eignast. xlc. j jordunni Reykiawik er liggr ä Seltiarnarnesi. enn þar j mot skylldi Augmundr eignast. xl.c. j Deildartungu. er liggur j Borgarfirdi j Reykiaholltz kirkiu sokn. enn fyrir þad ad oss uirtist jardar munur mikill saker husagardz og annara aftekta. þa skylldi Narfi af sinum peningum fa Augmundi .xvc. ofan ä Deilldartungu. Woru þar til einkut .x. malnytu kugilldi og. vc j þarfligum peningum. Skylldi Augmundr taka leigur eptir fyrr saugd .x. kugilldi stragx um haustid eptir. enn þau .vc. skylldi ut greidast og gialldast ad næstum fardaugum eptir.

---

562. 12. júlí 1566. á Staðarhóli

DÓMR um brigð á jörðunni Kaldakinn, sem Ormr Sturluson hafði fargað án samþykkis konu sinnar, Þorbjargar Þorleifsdóttur.

AM. Apogr. 4799 „Ex orig. Gudmundar Þorleifssonar".

Jhesus.

Ollumm godumm monnum þeim sem þetta breff sia edur heyra. sender Magnus Jonsson. Eirekur Gudmundzson. Biarne Oddsson. Gudmundur Jonsson. Tyrfingr Halldorsson. Arnor Helgason. qvediu gudz og sina. kunnugtt giorandi. ad þä er lidid var fraa hingadburde vors liufa lausnara Jesu Christi M. D. lx. og vj. ara. aa þann xj. dag Julij manadar. aa Stadarhole j Saurbæg aa þingstad Riettum. þa vorumm vier j dom nefnder af Eggertt Hannessyni. logmanne fyrer nordann og vest-

1) Svo.

ann aa Jslandi. til ad skoda og Rietteliga ad Ransaka og fullnadardoms adkuædi aa ad legg[i]a. eppter logum. hveria magtt og afl ad hafa skylldi su klogunn og akiæra. Er Pall Jonsson j logligu og fullmegtigu vmbodi Þorbiargar Þorleifzdottur hafdi aa jordune Kolldukinn. er liggur aa Fellsstrond j Stadarfells kirkiusokn. hueria jord nu hafdi ad hallda sagdur Eggertt logmann. og vændist kaupi fyrer af Jone Grimssyni. og sagdist honum hafa fyrer gefitt jordena Sigmundarstade er liggur aa Asumm j Borgarfirdi j Askirkiusokn. Beiddi nu og krafdi sagdur Pall Jonsson nefndann logmann. at lata log og dom ganga þeirra ä medal vmm fyrrskrifada akiæru. Enn nefndur logmann suaradi Ppale.1) ad hann þættist eigi þar umm eppter laganna auisan med stefnu fyrer kalladur vera. En sagdist og eigi vita. firre enn domur þad dæmdi. huortt hann mætti edur til skylldadist þessa adr nefnda jord under log ad legg[i]a edur eigi. þar til suaradi Pall Jonsson greindum logmanne suo. þo ad svo væri ad hann eigi med stefnu socktur væri vmm þessa akiæru edur adrar. þær sem menn mættu med Riettu til hanz tala. þa mundi honum þo bera og tilheyra. eppter sinne tilkallan. ad lata alla skie log og Riett. huortt helldur ad hann akiærdi adra og eigi sidur þo ad adrer aa kiærdu hann. þar fyrer ad vor nadugasti herra og kongur sem nu med gudz nad Riker yfer Dannmerkur og Noregx velldi og suo skattlondum. hefdi hann med sinu nadar brefi til løgmannz sett og skickad og honumm j sama brefi bodid og bifalad. ad hallda alla med løg. skial og Riett j þessum ijur fiordungum landsinz. sem er fyrer nordan og vestann. J annan mata sagdist og nefndur Ppall1) Jonsson hafa sied og heyrtt wpplesid þad biskermelsisbreff. sem vors nadugasta herra kongsins herra fader godrar minningar hefdi vt gefid honum. suo hliodandi. aa medal annara greina. ad hanz hogmegtugasta nad hefdi hann medtekid vnder sina kongliga vernd frid og biskermelse

1) Svo.

til ad villia forsuara og dagþinga til allra riettra mala. þo suo ad hann skylldi standa huorium til rietta ä þingum og annarstadar þar sem hann væri riettliga aakiærdur. Somuleidis sagdist og tittnefndur Pall Jonsson vita fyrer full sanindi. þad ad Eggert hefdi sinn løgmannzeid suared. j huerium eidi hann mundi alla þaa sem vnder hanz logsogn ero. sier i sinum suardogumm ä hendr hafa falid. til þess ad hallda þaa alla med log og landsinz riett. Sagdist greindr logmann eigi hier neig vid seigia helldur þetta kennast. og þui fyrer fyrrskrifadar greiner þä dæmdum vær logmannenn eppter sinne skylldu nogliga fyrer kalladann vera vmm þessa adurskrifada akiæru. þaa j fyrstu birte Ppall Jonsson fyrer oss breff med godra manna heilum og oskøddumm hanganda jnciglum. suo hliodanda j millum annara greina ad Ormur Stullason hefdi feingid sinne quinnu Þorbiorgu Þorleifsdottur til fullrar eignar þessa jord Kolldukin. med odrum fleirum jordum. er hann þa atte ä Fellzstrond og annarstadar fyrer þær hennar eigner sem hun atti fyrir nordan land. og Ormur hennar bondi hafdi j burtu selltt. Enn nockrumm arumm seirnna. þä selldi nefndr Ormur þessa sama jord Eigle Eireckssyni. sagdi Pall Jonsson ad Þorbiorg Þorleifsdotter hefdi þad kaup alldre samþycktt. sagdist og nefndur logmann eigi hennartt[1]) samþycki kunna þar til ad syna og eigi helldur mundu þad geta giortt erfing[i]ar Eigelz edur þeirra vmbodzmenn. baru þad og marger goder menn ad tittnefnd Þorbiorg hefdi jafnann þessa jord aklagad vid sin bonda. Suo og suor hun eppter vorumm dome þann eid þar stragx þaa aa þingenu fyrir logmannenum og .ij. konur med henne ad hun hefdi þad ed sama kaup alldre samþycktt huorki fyrr nie sidar. medkendist og sialfur Orm[ur] Stullason ad sin kuinna Þorbiorg hefdi þui kaupi alldre samþyck ordid. Og nu af þui ad suo seiger j vorre landzlagabok. einginn madur skal selia eigner husfreyiu sinnar. edur þær[1])

1) Svo.

þau eigu bædi saman vtann hennar samþycki. Og þui firer þessa grein og adrar fleire sem hier ad luta og þessu mali og vorumm dome meiga til bata koma. þaa j gudz nafne amen. ad ollu suo profudu mali sem nu hefr fyrer oss komit. þaa dæmdum vier fyrskrifader domzmenn med fullu domz atquædi. þessa þrattnefnda jord Kolldukinn eign opttgreindrar Þorbiargar Þorleiff[s]dottur vera og verit hafa sidann Ormur hennar bondi feck henne hana sem fyr seiger og sagda jord meiga ad sier taka edur taka lata nær aa timum hun vill. og þad af henne giora sem hun vill og loginn lofa. enn Eggertt logmanne dæmdum vier apptur sina jord Sigmundarstadi med sama skilyrdi. enn erfing[i]ar Eigils Eirekssonar edur þeirra vmbodzmenn skylldu snuast ad Orme Stullasyne vmm slika peninga sem Eigill Eireksson gaf honum fyrer Kolldukinn.

Samþyckte þennann vorn dom med oss tittskrifadr logmann og allur annar almugi þar saman komenn og setti logmadurenn sitt inncigli med vorumm jnciglumm fyrer þetta domzbreff. huertt ed skrifad var j sama stad aa are og deigi sidar enn fyrr seiger.

---

363. 14. júlí 1566. í Stafholti.

KAUPBRÉF fyrir Þverá ytri í Vestrhópi.

AM. Fasc. LXVIII, 7, frumrit á skinni. Af 4 innsiglum er nú 1. og 3. heilt, 2. spjallað, og hið síðasta frá dottið. — AM. Apogr. 1058, og hefir þá Sæmundr Magnússon á Hóli átt frumritið (Árni lýsir þar innsiglum).

KaupBref vmm ytre Þuera j Westurhope: Su sama jaurd giefin fyrir Holseigner.

Þad giorum vier Petur Helgason. Þosteirn Hallbiarnarson. Sigmundur Jngialldzson og Jon Jonsson Godum monnum kunnigt med þessu w[o]ru opnu Brefi. at aarum epter Gudz burd. M. d. lx og vj. þann xiiij dag Julij maanadar aa Borg j Borgarhrepp vorum vier j hia saa-

1) Svo.

um og heyrdum aa ord og handaband þessara manna af eirne aalfu Gudmundar Ormssonar og Astrijdar Oddzdotter[1]) konv hanz. Enn af annare Heinrek[s] Gerkens Hannessonar. faldizt þad og skildizt vnder þessu þeirra handabandi at fyrr nefndur Gudmundr Ormsson med vpplagi. handsolum og fullnadar jayrdi aadr greindrar Astrijdar konu sinnar selldi fyrr skrifudum Heinrek xxc j jordunne ytre Þueraa er liggur j Vesturhopi j Breidabolstadar kirkiu sokn med aullum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fylgier og fylgt hefr at fornu og nyiu epter þui sem hans kuinna Astrijdur Oddzdotter vard fremst eigandi at vndan henni og hennar erfingivm enn vnder fyrr greindann Heinrek Gerkens Hannesson og hans erfingia at aullu suo fullu sem gomul og lauglig jardakaups Bref jnne hallda. Hier j mot gaf opt nefndur Heinrek tijtt skrifudum Gudmundi Ormssyne xiiij maalnytu kugilldi og iijc j godum peningum allt at einum saulum. huer xvijc at fyrr nefndur Gudmundur Ormsson medkiendist fyrir oss at hann hefdi vt tekid og vppborit epter þui sem sier vel likadi. þui gaafu þau bædi aadur skrifud hion j sama handabandi greindan Heinrek kuittan og aakiærulausann fyrir sier og sinum erfingium vm aadur greint jardarverd. hier med handsoludu þau bædi opt nefndum Heinrek at hun skylldi suara lagariptingum aa þessari aadur nefndri jordu Þueraa. enn tijtt nefndur Heinrek hallda til laga. Og til sanninda hier vm setium vier vor jnnsigli fyrir þetta vitnisburdar Bref: huert skrifat var j Stafhollti aa sama aari og deigi sem fyrr seiger.

---

364. 23. júlí 1566. að Skarði.

EINAR GÍSLASON lofar Þorvaldi Björnssyni að svara honum lögum fyrir umboðsmeðferð á eign og peningum Vigdísar Halldórsdóttur.

AM. Apogr. 4802, m. h. Hans Beckers „Ex originali".

1) Svo.

Þad giaurum vid Magnus Gunnsteinsson og Jon Gunnlaugsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefui: Arum epter gudz burd. M. d. lxvj. i Sijdumula i Borgarfirdi laugardaginn næstann fyrer Jaacobsmesso vm sumarit[1]) þar i störu badstofunni. heyrdum vid og saaum ord og giaurning Þorualldz Biaurnssonar og Eijnars Gislasonar med suo felldum skilmaala. ad Eijnar lofadi med fullu handabandi. ad svara Þorualldi sattsamliga laugum aan allz hugmodz eda lagasokna. nær og þar sem Þorualldur villdi og laugen lofua. vm allt þad þaa aa greindi. fyrer vmbodz medferd og adtekter og halld aa eign og peningum Vigdisar Halldorsdottur. sem henni til erfda fiell epter sinn faudur og mödur. hvar sagdur Þorualldur þottist vanhalldinn af sinnar greindar kvinnu vegna. Og hann þessa eign og peninga aa firsta aari brigdadi þä hann þetta vmmbod medtök atti Þorualldur ad kunngiora Eijnari til. nær eda hvar hann villdi þetta til geingi epter þui sem fyrr seiger. lofadi og huor þessara manna ad vera audrum og þeira monnum i godum atuikum til orda og giorda. þo þesse laga ägreining til med þeim stædi fridsamliga. Giordu þeir þetta baader vel viliuger og ödruckner. Og til sanninda hier um setium vid ockur inncigli fyrer þetta bref. skrifad aa Skardi i Langadal aa sama aare .iij. daugum sijdar enn fyrr seiger.

---

365. **2. ágúst 1566. á Grenjaðarstöðum.**

KVITTUN jarðarandvirðis.

AM. Fasc. LV, 25, frumrit á skinni; af 4 innsiglum eru 2 fyrir; læst með einu innsigli saman við LV, 24 og 26. 3. mai 1565 og 2. ág. 1566.

Þad giore ec Arngrimur Jonsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad ec medkennist ad ec uppborit hefi af Magnusi Biornssyni fyrir Marstadi

1) þ. e. 20. júlí.

.xxca. iord er heiter Nes i Fnioskadal og xx malnytu kugillde. xvi uætter smiors og ij fiordunga þar til fyrir x hundrud og enn vc j gelldfie og þar til ve j þeim peningum sem ockur hefur saman komit. þui gef ec Magnus Biornsson og hans epterkomendur kuitta og akiærulausa fyrir mier og ollum minum epterkomendum um greint iardaruerd. uoru þesser uottar ad þessum ockrum handsoludum giorningi tilkallader Olafur prestur Arnason. Jsleifur Þorbergsson og Thomas Þorkelsson huerier ad sin inncigli med minu inncigli settu fyrir þetta mitt kuittunarbref huert giort uar a Greniadarstodum i Adalreykiadal annann dag augusti manadar arum epter gudz burd M d lx og vi.

---

**366.** 3. ágúst 1566. á Reykhólum.

KAUPBRÉF fyrir kaupahlutanum í Reykhólum (60 hundr.) fyrir 60 hundr. í jörðum og 20 hundr. í lausafé.

Frumrit á skinni í þjóðskjalasafninu í Reykjavík meðal Reykhólabréfa. Bréfið er lúið og víða máð og óglöggt aflestrar. Frumritið er m. h. síra Þorleifs Björnssonar. Innsigli fyrir því sýnast hafa verið 7, en þau eru nú öll frá fallin. — AM. Apogr. 4808, uppskrift staðfest í Skálholti 17. febr. 1708 af Snorra Jónssyni, Þórði Þórðarsyni og Ormi Daðasyni eftir transseripto á pappír gerðu á Reykhólum 10. mai 1598, og fékk Árni það „fra Gisla Jonssyne“ í Mávahlíð. — AM. Apogr. 4807, uppskrift staðfest í Skálholti 8. mars 1708 af Magnúsi Markússyni, Snorra Jónssyni og Þórði Þórðarsyni eftir transscripto síra Ólafs Erlendssonar og Guðmundar Illugasonar gerðu að Munkaþverá 22. júní 1604. Um það transseriptum segir Árni: „Þetta bref eignadiz eg af Sira Olafi Stefanssyne, enn gaf þad Gisla Jonssyne ä Vøllum.“ — AM. Apogr. 1227 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733“ (frá Ormi Daðasyni). — AM. Apogr. 1408 „Ex originali ur Reykiahölaskiølum“ m. h. Orms Daðasonar, og er uppskriftin staðfest á Reykhólum 7. febr. 1717 af Ormi, Eireki Þorsteinssyni, Bjarna Einarssyni og Teiti Eyjólfssyni.

KaupBref QuittunarBref og vrskurdr fyrir landamerkium ä Reykiahölum[1]) 1566.[2])

J nafne heilagrar þrenningar og þrefalldrar oskipti-

1) Utan á frumritinu m. h. Páls Jónssonar. 2) m. h. frá 17. öld.

ligrar einingar almattogs Eilifs gudz þess er alla hluti fiarlæga og nalæga. og nalæga eins og fiarlæga. oordna liktt sem vmmlidna profar. reyner. veit. þecker. kenner. dæmer. skickar og forsier hueriu efne sitt vpphaf. tima. tilgang. alldur. æue og Enda. suo at a mote forlaugum skaparans eingin skepna huersu sem uillde kann eitt stra breitt standa. þui saa hefur sem Gud gefur. þeim enum sama se lof og dyrd vmm allder allda amen. Þa jata og kennunzt eg Þorleifur Biornsson prestur fyrir avllvm og sierhverium þeim er þetta nærueranda bref siaa. lesa eda heyra lesid at ec frials uiliugur viela og underhyggivlaust uid radit rad. undertal. iayrde og samþycke konu minnar Ragnhilldar Jonsdottur hefe sellt og afhennt med uottum og handsolum og nu j krapte þessa mins opna brefs sel og afhendi heidarligum dandimanni Pali Jonssyni under hann og hans erfingia til eirnar stodvgrar stadfastrar. æuenligrar. obrigdanligrar eignar og frials forrædis mïna favdurleifd jordina alla Reykiahola aa Reykianese kaupahlutann fyrir lx hvndrut undan mier og minum erfingium med avllvm þeim gavgnum og giædum. rentu og riettugheit. eyivm. jtokvm. vtskerivm. vottnum. veidestodum. skogum. afrettum og ollum landznytium er greindre jordu fylger og fylgtt hefer ad fornu og nyiu j iordu og aa og eingin finzt eigande at epter þeim logmala sem giordur var fyrir nockrum arum med samþycki Greips ockar aa millvm. Hier j mote hefer Pall Jonsson skylldu bundit sig og sina Erfingia at giallda mier og minvm erfingium lxc j iordu og þar til xxc j fridum peningvm alltt fyrir attatige hundrvd. war þar fyrst tileinkadur Savrholl j Savrbæ fyrir iiijc og xx. med þui skilorde ad Pall Jonsson edur hans erfingiar skylldo lausn eiga a henni af minum erfingium. þar til iordin Lavgar er liggur j Huamssueit j Sælingsdals kirkiu sockn fyrir xvic edur onnur xvic iord og þar til xxc iord hier j sueitum. var hun ecki anefnd oc skal ec taca arliga afgialld af Kroksfiardarnese a medan hun greidizt ecki og .x.[1]) malnytu

1) xx, 4808.

kugillde at næstum fardogum og xc nu strax j haust med þessum fridleika .iijc. j gelldum peningum og ijc j øllum peningum og iij uætter smiors fyrir ijc. og iijc j koplum. allt fyrir lxxxc. a kirkian a Reykiaholum iordina Barma med þessum landamerkium. ur Valagrof[1]) og sionhending upp j Skalarhofud. fyrir utan oc læk þann sem gengur fyrir jnnan hraun. a gardurin Reykholar alla Selianesstrond. j mille Hraunslækiar og Þvfnalækiar er kendur er vid Þufnariodur sem er fyrir jnnan lækinn og Huan[n]ahlid alla er liggur fyrir vestan fram j Þorskafirde j mille Griotär og Ísfirdingagils. Eru þetta landamerke j mille Reykhöla og Midhusa ofan vr Slettabergi og j Illakelldu og rettsynne j uogin fyrir innan Gelldingsey fyrir austan. Enn riettsyni rædur ofan vr gia þeirre er gengur j fiallid fyrir jnnan Hollustade mitt ofan vnm myrar j botninn vtanverdan aa Grvndaruog fyrir vestan. Þetta lyse ec og amälga ec sem sa er eignarmadur hefer verid ad adur greindum avllum jordum vera og verid hafa landamerke j mille sagdra jarda epter mins faudurs minne og hinna ellztu manna saugn. Skal huor ockar Pall Jonsson og ec svara lagariptingum aa þeim iordvm er sellde.

Uoru þesse nefndarvittne til bedin at sama giorninge. kaupe. afhending. vottordum og vidlavgum Sygurdur Arnfinsson. Einar Steinsson. Ormur Peturson. Magnus Sueinsson og Biarne Biornsson huerier menn heingdu sin jnsigle med ockar jnnciglum og underskriftt fyrir nedan þetta bref. huertt skrifad war a Reykiaholum a Reykianese laugardagin næstan epter Olafsmesso hina fyrre. hver dagur var hin þridie vt j Avgusti manvde þa er þesse giorningur for framm arvm epter gvdz burd M. d. lxvj.

Þorleifur Biornsson p. Päll Jonsson.
Sygurdur Arnfinsson.[2])

---

1) Óljóst í frumritinu; 1227 og 1408 les: Valagrof; Vokugrof 4808; svo stendr og í uppskrift, sem gerð hefir verið á Staðarfelli 27. ágúst 1847 eftir frumritinu; Uolugrof 4807. 2) Nöfnin eru und-

Medkennust uær epterskrifader menn Arni Geirmundsson.Gudmundur Biarnason. Jon Þorarinsson og Olafur Jonsson ad uær hofum sied og yferlesid suo latandi giorningsbref med heilu. oskoddu og hangandi insigli ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifad stendur. Oc til meiri stadfestu og sanninda ad suo er. setium uær fyrrskrifadir menn uor jnsigli fyrir þetta transkriftarbref. huert skrifad var aa Reykholum ä Reykianesi þann x. dag Maij. þa lidit var fraa hingadburd vors herra Jhesu Christi. M. d. ixtigi og viij ar.[1])

---

367. 5. ágúst 1566. á Staðarhóli.

VITNISBURÐR um kaup á Reykhólum (sbr. næsta bréf á undan) og lögfesta á þeirri jörðu.

Frumrit á skinni í þjóðskjalasafninu í Reykjavík meðal Reykhólabréfa, og er það m. h. Páls Jónssonar; 7 innsigli hafa verið fyrir bréfinu, en eru öll fallin frá. — AM. Apogr. 4803, uppskrift staðfest í Skálholti 8. mars 1708 af Magnúsi Markússyni, Snorra Jónssyni og Þórði Þórðarsyni, eftir transscripto síra Ólafs Erlendssonar og Guðmundar Illugasonar, gerðu að Munkaþverá 22. júní 1604. Segir Árni um transscriptum þetta: „Þetta bref eignadizt eg fra Sira Olafi Stefanssyni, en gaf þad Gisla Jonssyni ä Vøllum". — AM. Apogr. 1226 „Ex originali Reykholensi in Islandia 1733". — AM. Apogr. 1407 „Ex originali ur Reykiahöla skiølum" m. h. Orms Daðasonar, og er uppskriftin staðfest, af honum og Teiti Eyjólfssyni, á Reykhólum 7. febr. 1717. — Jbskj. AM. Barðastrandarsýsla 20, uppskrift staðfest á Reykhólum 25. júní 1703.

Þad giorum vier Sygurdur Arnfinnzson. Einar Steinsson. Ormur Petursson. Magnus Sueinsson og Biarne Biornsson godum monnum kunnigt med þessu voru opno brefe ad þa er lidit var fra hingatburd vors Herra Jesu Christi M D Lxvj är aa Laugardæginn næstan efftter Olafsmesso hina fyrre huor dagur var hinn 3 dagr vtj

---

irskrifuð að eins í frumritinu, eru eiginhandarrit, og hafa aldrei fleiri undir ritnð verið.

1) Þetta stendr að eins í 4808. Vidimus í 4807 hefir aldrei verið upp skrifað in extenso nec terminis.

Augustj Manade vmm hadeigisskeid vte fyrir Saluhlidino a Reykholum ä Reykianese vorum vier til nefnder vottar ad heyra ord og sea handsøl Heidurligra manna Sira Þorleifs Biornssonar af eirne enn Pallz Jonssonar af annare alfu og ad suo fyrir skildu sellde Sira Þorleifur Biornsson med handsolum j samþycke kono sinnar Ragnhilldar Jonsdottur jordina alla Reykhola kaupahlutann. lxc med aullum þeim gognum og giædum. rentu og riettigheit. eyium. jtokum. vtskierum. votnum. veidistaudum. skogum. afriettum og landznytium þeim er greindre jordu fylgier og fylgt hefur ad forno og nyo og Þorleifur vard fremst eigande ad vndan sier og sinum erfingium. Enn Pall Jonsson keypte vnder sig og sina erfingia sem hann matte frekast og riettiligast ad formætte og krafte landzlaganna eptter þeim logmäla sem giordr hafde verid fyrir nockrum arum med handselldu samþycke Greips Þorleifssonar ad aullu tilskijldu vnder fyra skilyrde. enn aungu fra skildu j jordu og ä sem einginn fyndist annar eigande ad. Hier j mot skylldubatt Pall Jonsson sig og sina erfingia ad giallda sira Þorleifi og hans erfingium lxc j jordum og þar til xxc j fridum peningum allt fyrir lxxxc. var þar nu fyrst tileinkadur Saurholl j Saurbæ fyrir xxiiijc. med þui skilyrde. Pall Jonsson eda hanns erfingiar skyllde lausn eiga a henne af Sira Þorleife edr hanz erfingium. þar til jordin Laugar er liggur j Huammz[sueit j[1]) Sælingzdalz kirkiu sokn fyrir xvjc. eda aunnur xvjc jord. Og þar til xxc jord hier j sueitum. var hun ecki ä nefnd og skylldi sira Þorleifur taka arliga afgialld af Kroxfiardarnesse medan hun greiddist ecki og .x. malnytukugillde ad næstum fardogum og xc nu strax j haust med þessum fridleika .iijc j gelldum peningum. ijc j þarfligum peningum. iij vætter smiorz fyrir ijc og iijc j kauplum allt saman reiknad lxxxc. Skyllde huor vm sig Pall Jonsson og Þorleifur Biørnsson og þeirra erfingiar suara lagariptingum a þeim jordum er sellda enn

1) [skafið i frumritinu; sl. 4803.

sa hallda til laga kaupe sino er keypte. Og j samre stund eftter þennan handselldan giorning gengu fyrrskrifader menn Sira Þorleifur Biornnsson og Päl[l] Jonsson og vier adurskrifader vottar heim eftter stiettinne ad kalſdyrunum ä Reykholum. tok þa Sira Þorleifur Biørnsson annare hendinne vmm dyrustafinn til hægre handar þa jnn er gengid j dyrnar enn annare hennde j hægre haund Pale Jonssyne suo mælande. Hier afhende ec þier nu kaup þitt til hefdar og heimilldar fyre huorium manne enn afsala mier. Enn Pall Jonsson vid tok og lagde log og dom fyrer. Sidan gengu þeir aptur fyrer kirkiudyr Pall og Þorleifur. logfeste þa Pall Jonsson kaup sitt med eftterfylgiande ordum.

Eg Pall Jonsson Logfese hier j dag eign mina Reykhola med husum. hybylum. taudum. eingium. vthaugum. afriettum. holltum. skogum. eyium. holmum. skierium. rekum. vøtnum. veidestaudum og aullum landznytium til þeirra ystu halfra landamerkia er adrer menn eiga ä motz vid mig. fyrirbyd eg huorium manne hiedan j fra greinda jord ad yrkia eda af nyta vtan mitt sie lof edr leyfe til.

Sldan heimilade Päll Jonsson Sira Þorleife Biørnssyne greindan stad med handsølum til næstu fardaga og þad leingr þeim badum vel semde.

Sagde sira Þorleifur Biørnsson Päle Jonssyne til eignar stadarins ä Reykhölum sem er aull Barmahlid ad hinum jnnra læknum nær Hyrningzstaudum og kallast Þufnalækur og alla Huannnnahlid[1]) mille Griotär og Jssfirdingagilz fyrer vestan framm j Þorskafirde. en heima skyllde sira Þorleifur ad wore komanda rida ä landamerki nær Päll villde eftter þui sem log wotta.

Og til Sannenda hier vmm vnderskrifudu sig adursagder menn Þorleifur Biornsson og Pall Jonsson og heingdu sin jnnsigle med vorum fyrnefndra wotta jnnsiglum nedan fyrir þetta jardakaupsbref skrifad a Stadarhole j Saurbæ ij nottum sijdar enn fyr seigier.

---

1) Hvammahlijd 4803; 1226 og 1407 les: huannnnahlid.

368. 9. ágúst 1566. á Staðastað.

GÍSLI byskup Jónsson skipar sóknarkirkju að Lóni á Snæfellsnesi.

JS. 143, 4to., bls. 341—2, skr. ca. 1600. — Lbs. 107, 4to., bls. 429—31 m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal.

Bref herra Gisla vmm Lonskirkiu.

Ollum og sierhuerium lærdum og leikum. korlum og konum. vngum og gomlum. fatækum sem RIjkum æski eg Gisli Jonsson S[uperintendent] S[kalhollts] S[tigtis] nadar og myskunar. fridar og farsælldar af almattigum gudi fyrir forþienan hans elskulęgasta sonar Jehsu Christi med vpplysingu þess heilaga anda.

Vitid aller samann ad med radi og samþycke þess edlabornna froma jungkiæra Pals Stigssonar lofligrar minningar kongligrar maiestatis, bifalningsmanns yfer alltt Jsland so og margra annara bædi lærdra og leikra vndervijsan rad[1]) og samþycke. þa hefi eg sett og skickad samkunduhus til gudligrar þionustu j Lon[2]) a Snæfellznese sokum naudþurftar þeirra[3]) sem vier aller vissum huad storann veg oc torvelldan ad fatækur almugi ætti ad fara ar og dag til Saxahuolskirkiu. sierdeilis fra adurnefndu Lone og Dritvik. hefi eg lagt til adur greindrar soknar med fyr nefndz hofudzmanns radi og annara þeirra fromra manna sem þar til nefnder voru alla þa bæi sem adur lau til Saxahuols sem er[4]) Gardar j Beruvijk. Hella. Holar og Dritvijk til soknar tolla og tijunda. þvi[5]) byd eg øllum og sierhuerium sierdeilis þeim sem j greindri sokn bua og adur lau vnder Saxahuol ad þier acktid og rækid fyrnefnda kirkiu og gudz samkunduhus og komid þangad med ydar kvinnum bornum og folke gudz ord ad heyra og adra gudliga þionustu ad medtaka suo sem aller og sierhuerier giora og giortt hafa adur til Saxahuolskirkiu enn huor sem þessa fyrnefnda Lonskirkiu foraktar edur j nockurnn mata suijvirder med ordum og[6]) verckum edur nockurshattar

1) rade 107. 2) Lone 107. 3) sl. 107. 4) eru 107. 5) þ. v. 107. 6) edur 107.

skammligum atferlum sieu slijku seker sem gudz log og riett logmal til stendur og vors naduga herra[1]) kongs ordinantia þar vp[p]a hliodar.

Hafa þesser fromer dandismenn þennan giornning med mier stadfest. fyrst herra Marteinn Einarsson. Loptur Narfason officialis og Olafur Sueinsson prestar Schalholltzstigtis suo og Erasmus Sefrinsson kongs vmbodzmann j Snæfellzsyslu. Þorleifur bondi Einarsson og Jon bondi Halldorsson[2]) og marger adrer dandismenn leiker og lærder.

Og til sanninda hier vmm setta eg adur nefndur herra Gijsle Jonsson S. S. S. mitt innsigli med adur nefndra heidarligra manna innsigli[3]) fyrir þetta bref skrifad a Stadarstad a Ollduhrygg þann 9 dag A[u]gusti. Anno m. d. lx og vj.

Suo hliodandi bref sem hier fyrir ofanskrifad stendur er j Lone a Snæfellznese med iij oskoddum jnnsiglum Anno 44.[4])

---

369. 14. ágúst 1566. á Heggsstöðum.

SJÖTTARDÓMR um kirknafé og varðveizlu þeirra og sókn í Þverárþingi sunnan Hvítár.

Bps. Skalh. Fasc. I, 7, frumrit á skinni. Af 7 innsiglum eru 3 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2505.

Hexstadadomur vm kyrknafie.[5])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Eirikur Grimsson. Jon Magnusson prestar Skalholtzstiktis. Einar Eiriksson. Hallur Olafsson. Þosteinn Siguatzson og Jon Gislason. logriettumenn. kuediu Gudz og sijna kunigtt giorandi. ad arum epter Gudz burd. m. d. lxvj. miduikudaginn næstann epter ix. sunudag Trini-

1) sl. 107. 2) Sira Jón ritar utanmáls í 107: Þorleifur á Hofstöðum bróðir síra Þórðar Einarssonar í Hítardal, faðir Orms á Knerri, og Jón Halldórsson á Fróðá, stjúpsonr Daða Guðmundssonar í Snóksdal? 3) Jnnsiglum 107. 4) þannig hdr., en er eflaust misskr. fyrir 94 = 1594. 5) Aftan á bréfinu.

tatis. a Hexstaudum a þingstad riettum. vorum vier til skodunar og doms nefnder. af heidarligum dandismanni. Þordi bonda Gudmundzsyni er þä hafdi kongsins syslu j Þuerärþingi fyrir sunnann Huitaa j Borgarfirdi. huerninn oss virtist ad fara skylldi eda fara ætti vm þad sem herra Gisle Jonsson bad syslumanninn ad läta skoda epter riettu logmaali. huortt adur nefndur H[erra] Gisle væri skylldugur ad klaaga. heimta og epter ad ganga þeim fiäm sem kirkiu[r]nar mistu eda mist hefdu j nefndri syslu. edur þeir lærder eda leiker. sem þaa stadi eda garda hieldu. eda ættu sem ad kirkiugodzit væri fra komit. Vissu vier j fyrstu. suo sem ollum er og kunigt ad þeir stader sem ad kennimenn halda faa sijn veitingarbref med þui moti ad þeir skulu altt þad fie med lag[a]soknum sækia sem fra þeim kirkium kann rangliga komid vera. hefur oc suo stadit vm vorra forfedra æfi þa ad Skalholtz kirkiu formenn sem ad eru byskupar oc officialar hafa vm Skalholtzstikti ridit. þa hafa þeir aull fie og eigner kirknanna vpp skrifat epter þui sem þeir hafa riett til sagtt sem kyrkiu[r]nar haldit hafa. huortt sem þeir hafa verid heldur lærder eda leiker. Þetta hid sama bydur og vors nadugasta herra kongs Ordinantia. ad kirknana godz faast og laust. kuiktt og dautt. huad hellst sem þad er klarliga j eitt registur vpp skrifa. et cetera. Jtem hofum vier og vitad fyrir full sanninde. ad suo hafa leikmenn sem kennimenn klagat kirknana godz þar þeir hafa þotzt þurfa. Margar greiner hnijga hier ad bædi j andligu og veraldligu logmaali. hueriar ad finnast meiga þo allra helst þar vor løgbok talar vm vmbodzfie. mäla kuenna. og omaga godz. Þui j Gudz nafni amen Ad heilagx anda näd til kalladri þä leist oss þad riettast vera. epter vorre skynsemi. ad þeir væri skylder kirkiufien ad klaga. sem ad kirkiu[r]nar hieldi. og abata af hennar godzi fostu edur lausu hefdi og med tæki. huortt þad væri benefitiator. eda eignarmadur leikur eda lærdur. nema þui ad eins ad hann giæti ecki sokum litilmensku edur annara logligra forfalla þaa dæmdum

vier þad skyldugtt. [ad vmbodzmann domkirkiunar j Skaalholti. skylldugann vera[1]) þann mann ad styrkia til riettar enn hafi fyrir starf sitt epter logmäli. Enn hina alla dæmdum vier skylduga sem mensku og manndom til hefdu. epter þui fie ad klaga. og epter logmaali ad sækia. sem fra þeim kirkium oriettliga komit væri sem ad huer vm sig j sinne vardueislu hefdi. Enn vildu þeir þad eigi giora þa dæmdum vier þä skylduga. þeirra erfingia edur epterkomendur. sem þann gard hefdu edur eignast kynu. þui godzi aullu ad suara sem af þeirra vanræktt vndann kirkiunum komit væri. Jtem dæmdum vier þaa oc suo skyllduga. Gudz ordz þienurum vpphelldi ad veita epter þui sem ber og ad fornu verit hefur. og nu j vors naadugasta kongs ordinantiu er bodit.

Samþyckti þennann vorn dom adur nefndur valdzmann. og setti sitt insigli. med vorum fyrr nefndra domsmanna insiglum fyrir þetta domsbref. skrifadur[2]) j Gordum ä Akranese. laugardaginn fyrir .x. sunudag Trinitatis a sama äri sem fyrr seiger.

---

**370.** 7. september 1566. **á Staðarhóli.**

PÁLL JÓNSSON heitir að gefa Jóni Björnssyni, frænda sínum, 20 hundr. til hjúskapar.

AM. Apogr. 4800, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali.“ „Jnnsigled hanger vid brefed.“

Bref Pals Jonssonar er hann gaf Joni .xxc. til giftingar atti ad vera.[3])

Þad giore eg Pall Jonsson godum monnum witurligt med þessu mino opno brefe ad eg hefe giefit þessum minum frænda Jone Biornssyne .xxc. i godum peningum til giftinga. svo framt sa radahagr tækist hann hefur fyrer mier umm talat. Hier i mot hefur Jon Biornsson lofad ad vera mier til styrks og godrar adstodu. og all-

1) [Svo. 2) Svo. 3) Þetta var „utan ä brefed skrifad manu coæva.‘

deilis i aungvan mata þann flock fylla med rad edr samþycke. sem mier eda minum bornum sie motstadligr. Skal eg þetta utgialda honum þad fyrsta eg næ minum peningum. allt an vela og underhyggiu hef eg heingt mitt innsigle nedan fyrir þetta bref skrifad ä Stadarhoili laugardæginn næstann fyrer Mariemesso hina siidari arum eftter gudz burd. M. d. lxvj. ar.

---

371. 16. september 1566. á Vatnsenda.

VITNISBURÐR um eignarheimild að Garði í Ólafsfirði og Garðshorni í Svarfaðardal og um tilkall Jóns Finnbogasonar til nokkurra jarða í Fljótum.

AM. Fasc. LVI, 6, frumrit á skinni (nú í þjóðskjalasafni), og er innsiglið fyrir. Frumritið er úr skjalasafni Hólastóls („sk"). — AM. Apogr. 3456.

[Bard aa hrært ecki vtan halft.[1]) [Vitnisburdur Jatgeirs Þorsteinssonar um Gard i Olafsfirde og fleire jardir 1566.[2])

Svo felldann vitnezbvrd ber eg Jatgeir Þorsteinsson ad ec heyrda favdur minn Þorstein heitinn Häkonarson optsinnez þad mæla ad jordin Gardur j Olafzfirdi væri med riettv eign Raavgnv[3]) Fimbogadottur en ecki Holadomkirkiv: þui hann sagdist hafa setit hennar brullvp aa Grvnd j Svorfvdardal og hefdi sw enn sama jord verid reiknvd j hennar heimanmund fyrir xxx$^{c}$ enn Gardzhorn ed sydra j Svorfvdardal fyrir avnnur xxx$^{c}$ og þar til xx$^{c}$ j frijdum peningum og ofrijdum. sagdist fader minn hafa verit med audrum godum monnum til vitnez kalladur ad þeim giorningi sem fram hefdi farit millum Þorsteins Jonssonar og aadur nefndrar Ravgnv. Svo og var ec vid staddur j Kvijabeckiar kirkiu ad Jon Fimbogason broder hennar las vpp þad sama kavpmälabref: svo latandi sem fader minn hafdi fra sagt.

1) [Utan á bréfinu m. h. Guðbrands byskups. 2) [Utan á með hinni venjulegu Hólabréfa hendi frá 17. öld. 3) Svo.

enn þennann Gard hafdi henne giefit halfan Arnfinnur bondi Jonzson. og j vmmbodi systur sinnar Ravgnv. þa lavgfesti hann þar þennann Gard. Reid ec þa med honum og sijra Bessi Þorsteinsson wt j Fliot. j þeirri ferd lavgfesti hann xxxc vppi Bard og sagdi þad væri halfur stadurinn ad fra tekinne kirkiv eigninne og lysti þad sijna eign. svo og sagdist hann ecki betur vita enn halfer Illvgastader j Avsturfliotum væri og sijn eign. Höll og Sigrijdarstader j Flokadal med sama mote half hvor vmm sig sijn eign þui þessar eigner hefdi att sinn modurfader. enn hvad j gen væri komit visse hann ecki. hier efter þessvm mijnum vitnezbvrdi vil ec sveria nær þvrfa þikier. Þui til meire stadfestu hier vmm þa set ec mitt jnsigli fyrir þett[a] vitnezburdarbref hvort er skrifad var a Vatnzenda j Olafzfirdi manvdaginn næstan fyrir Mattias[1]) Messv vm havstit arvm epter gvdz[1]) bvrd Jesv Christi M d lx og vi.

---

## 372. 20. september 1566. á Þingeyrum.
## VITNISBURÐARBRÉF.

AM. Fasc. LXVIII, 9, frumrit á skinni læst með 2 innsiglum saman við LXVIII, 8, bréf frá 6. febr. 1563. — Fasc. LXVIII, 12, vidisse á pappír frá 14. maí 1568. — AM. Apogr. 1057, m. h. Styrs Þorvaldssonar, eftir frumritinu, sem þá átti Sæmundr Magnússon á Hóli.

Kaupbref fyrir Kiarlaxs[t]audum og Ormstaudum.

Suo felldann witnisburd berum wid Finnbogi prestur Gijslason og Sigmundur Wermundzson ath arum epter gudz burd M d lx vj [fostudaginn nærsta epter krossmesso wm haustid a Þijngeyrum j Wattzdal[2]) woru vid j hia saum og heyrdum aa ath Gudlaug Ormsdotter lofadi Arna Gijslasyni med handsolum ad sueria fullan bokareijd ef þaurf krefdi epter þessum hennar witnisburdi sem hier er med festur þessum ockar witnisburdi. Oc hier epter wilium wid sueria ef þurfa þiker. Og til

1) Svo. 2) [sl. LXVIII, 12.

sanninda hier wm setium wid ockar jnnsigli fyrir þetta wittnisburdarbref er skrifath war j sama stad deigi oc ari sem fyrr seiger.

---

373. 21. september 1566. að Víkingavatni.

KAUPBRÉF fyrir Klifshaga í Öxarfirði.

Eftir frumriti á skinni frá Brekku í Núpasveit, nú í þjóðskjalasafni, meðal Klifshagaskjala.

Klifzhaga bref.[1])

Þad giore eg Þordur Petursson godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi ad arum epter gudz burd M. d. lx. og vi aa Vikingavatne j Kellduhuerfi þann xxi dag Septembris manadar vottum hia uerande selldi ec sira Sigurde Jonssyne med handsolum alla jordina Klifshaga er liggur j Oxarfirde j Skinnastada kirkiu sokn nu strax til fullrar eignar og frials forrædis med ollum gognum og gædum reka og jtolum j jordu og aa og greindri jordu Klifshaga fylgier og fylgt hefur ad fornu og nyu og fylgia a at logum og eg hefi fremst eigande ad ordit med logligu kaupi og þetta hefur samþyckt med handsolum vottum hia uerandi min eiginn kuinna Gunnuor Jonsdotter. er þessi landareign Klifshaga ut j torfdal er geingur a mille Þuerar og suo rettsyne austur a fiall og uestur j forna Brun[n]ar farueg enn fyrir sunnan j þann gard sem geingur fyrir utann Leifsstadi ofann ur fialle og uestur j aa: enn fyrir uestan ana enu ytre eingiar yfer um þuera Sporda uestur j Sandaa. Enn þo hafa gamler menn mier sagt at jordinn Klifshagi ætti sudur j gardinn er geingur uppa klifunum fyrir sunnan sydre eingiar og upp j ana: Klifshagi a og þesse jtok allann halfann Skoga reka bædi til huals og uida. manadar uerk j Skinnastada land nidur a Sandi uid Holz kil og landeign fyrir nedann Brunnaa uestur j gamla Brunnar farueg og manadar uerk ut a

1) Aftan á bréfinu.

Nups myre. tueggia manada selfor a Myrar sel nordur og manadar selfor j Uestra landz jord. tuenna xij fedminga torfskurd j Sandfells haga jord arliga. Hier j mot lofadi sira Sigurdur og gaf jordina Hol a fialli med iiij kugilldum fyrir xiiij hundrud og ij kugillde er hann hia mier aa. og .ui. kugilldi a hann mier ad greida ad næstum fardogum og þar til atta kugillde sidar meir so allz yrde xx kugilldi. hier til a hann ad fa .xuc. Þorgerdi dotter minne þa hun giptist j godum peningum kvikum og daudum og þar. til a hann mier ad fa .u. hundrud j godum peningum og epter þad j hægdum sinum skylldi hann mier uerda uid x hundrada mun þa mier a lægi. skylldi huor ockar strax eignast greindar jarder er huor keypti enn at sier taka at næstum fardogum og hallda til laga enn gangi jordinn Klifshagi af sira Sigurdi eda hans epterkomendum med logum þa skal hann eda hans epterkomendur eignast þær jarder sem ec gaf uit Klifshaga sem at eru sydre Laugar j Reykiadal Jardbrur j Suaruadardal og Grimsnes j Hofdahuerfi.

Voru þesser menn at ockrum þessum kaupskap til kallader Magnus Biornsson og Thomas Þorkelsson. hvorier ad til var skilid ad hier um skylldi uera lagauitne.

Og til sannenda hier um setti sira Sigurdur og eg ockar jncigli med fyrgreindra manna jnciglum fyrir þetta ockar kaupbref er skrifad uar j sama stad dag og ar sem fyr seiger.

---

374. 22. september 1566. í Ási.

GJAFABRÉF fyrir 10 hundr. í Stóru-Reykjum í Flókadal.

AM. Apogr. 602, m. h. Árna Magnússonar „Ex orig. membr. Exceptum“, sem tekr yfir allt efni bréfsins. Árni lýsir innsiglum. — Bréfabók Guðbrands byskups nr. 467, bls. 449, fyrri hluti bréfsins orðréttr og nokkurn veginn in forma, en ódagsettr og ártalslaus.

Þad giore eg Jon prestur Brandsson kunnigt[1]) þessum monnum hiaverondum. Biarna Sigurdssyne. Snorra Ormssyne oc Orme Snorrasyne. ad ec gef Hrolfi Biarnasyne frænda minum xc) i jordunne Storu Reykium i Flökadal. er liggur i Bardz kirkiu sokn. med ollum þeim gognum og giædum. eignum og itøkum til siafar og landz. sem greindri jordu fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyu. og mier hefur til erfda fallid epter minn faudur. vndan mier og mijnum Erfingium. enn vnder adur nefndan Hrolf Biarnason og hans Erfingia og epterkomendur. til fullrar eignar og frialz forrædis. so framtt sem eg kann þessari jordu ad na aptur af Sera Pali frænda mijnum. þui ec hefi lied honum þennann jardarpart til abylis. Enn huorki giofum nie sølum sellt. fyrr en nu. Enn þad sem ec a meira i jordunne Storu Reykium. þad lofa ec ad selia Hrolfi frænda mijnum fyrir frijda peninga. Enn sie suo ec nae ecki þessum jardarpartti aptur eda Hrolfur. þa gef ec honum xc i einhuorri minne jordu. Enn sie suo ad erfingiar mijner tale hier i moti. þa lyse ec þetta vpp i mijna løggiøf.[2])

Og þetta giører Sira Jon saker þess. at Hrolfur hefur alla tima verit Sira Joni til sæmdar og vilia. og nu tekid umbod af Sira Jone yfer øllum hans peningum føstum og lausum. med svare og sokn þar ä. item. ad Hrolfur gefur Sira Jon kvittann um eitt og annad. sem þeirra hefr i mille farit.

for þesse giørningur framm i Ase i Hegranese. hiaverøndum Biarna Sigurdzsyne. Snorra Ormssyne og Orme Snorrasyne. hverer asamt Sira Jone heingia sin inncigle fyrir brefit. skrifad i Ase i Hegranese. sunnudaginn næstann fyrir Michaelsmesso um hausted. Anno Christi 1566.

---

**375. 24. september 1566. á Breiðabólstað.**

**UPPGJÖF tilkalls til Ketilhúshaga í Áverjahreppi.**

1) b. v.; sl. Brb. 2) Hér þrýtr Brb.; er það, sem eftir fer, ágrip Árna.

Bps. Skalh. Fasc. IV, 9, frumrit á skinni. Af 8 innsiglum er 1 fyrir. — AM. Apogr. 2551.

Vm Ketilhushaga.[1])

Þad Giorum vier Jon Biarnarson. Biorn Olafsson. og Einar Olafsson prestar Skaalholtz Biskupsdæmis. Biorn Þorleifsson. Snæbiorn Haldorsson. og Jon Fusason logriettumenn: Godum monnum kunnigtt. med þessu voru opnu brefi: vier medkennunst ad ä Lambey vm haustid manudaginn epter Matthiasmessu.[2]) Arum epter Gudz burd. M. d. lx. vj. vorum vier j hia. saum og heyrdum ä ord oc handaband þessara manna af einne alfu Herra Gisla Jonssonar. Superintendens Skaalholtz stiktis. Enn af annari alfu þeirra beggia brædra Jons Halssonar[3]) og Brandz Hallzsonar.[3]) þad faldizt og skildizt vnder þessu fyrrgreindra manna handabandi ad þad tiltal og aakall sem ad fyrr nefnder brædur þottuzt eiga til Ketilhushaga. er liggur j AArueriar[3]) hrepp. j Gunnarsholttz kirkiu sokn. Gafu þeir frij og vpp med ollu kuitt og klaartt æfinnliga fra sier og sinum erfingium og logligum epterkomendum. vnder Skalholtzkirkiu til æfinligrar eignar og frials forrædis med ollum þeim gognum og giædum sem ad greindri jordu fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyiu sem ad þeirra faader[3]) og þeir mattu fremst eigendur ad verda. Hier j mot gaf adurnefndur Herra Gisle Jonsson fyrr skrifudum brædrum fyrir aadurgreinda klogun xc. med suo vordna peninga. vj. maalnytu kugildi. þar til .iiijc. j þeim frijduirttum þarfligum peningum sem þeim sialfum skyldi vel lika. huad ad vera skyldi j hestum. nautum og saudum. og ad þessum peningum lucktum skyldi þessir fyrr greinder [menn] skiliazt kuitter vid kuitta. Herra Gisle Jonsson. Domkirkiunnar vegna. enn þessir brædur sinnar klogunar vegna æfinnliga hiedann j fra. Voru stadder vid þennann Giorning. Herra Pall Vigfusson logmann. og Olafur baggi Jensson. kongz vmbodzmann ä Bessastodum. huerier ad samþycktu þennann giorning med

1) Aftan á bréfinu. 2) þ. e. 23. sept. 3) Svo.

optt nefndum Herra Gisla kongdomsins og kirkiunar vegna. Og til sanninda hier vm settu þessir valdzmenn sijn jnsigli med vorum fyrr nefndra manna jnsiglum fyrir þetta bref. Skrifad ä Breidabolstad j Fliotzhlid ä sama äri enn deigi sidar enn fyrr seiger.

---

**376.** 27. september 1566. í Saurbæ.

KATRÍN Hannesdóttir arfleiðir börn Eggerts lögmanns, bróður sins.

AM. Apogr. 1278, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar.“

Jn nomini[1]) domini amen. Auglyse eg Katrín Hannesdotter fyrir aullum og sierhverium ad med sliku forordi og skilmala vil arfleida bornn Eggerttz Hannessonar laugmannz mins brodurs. J fyrstu ad þau gange suo til mins arfs epter mig sem skilgetinn ecktakonu bornn epter þvi sem utvisar og jnnehelldr en fiorda erfd þo suo med þeim audrum skilmala. ad brodur[1]) min Eggert Hannesson hafi a aullum minum peningum [illegible] og daudum. lausum og faustum. þeim eg sialf ecki med haundum hef vm alla sina lifsdaga fullt og allt eignarhalld sier til avinings og abata suo hans born hafi aunguar sialfskylldu heimtr[1]) aa honum vm utgialld a fyrsogdum peningum æ a medan hann [illegible] kunne fyrre forstockott ad verda en hans. J þridiu grein til skil eg og ef hans kann fyrre forstockott ad verda enn minn. ad eg vil kost aa eiga ad hafa slika peninga vt aptr af hans bornum. sem eg læt jnn koma hia honum minna vegna. enn ef eg vil þa eigi alla ut hafa þa vil eg suo mycklu af þeim rada sem danimonnum þicker mier vel soma fyrir mig mier til framfæris at leggia vm mina lifsdaga. huar sem eg vil mier þa koma. hia þeim edur audrum. Hier med til skil eg og ad eg vil vm alla mina lifsdaga hafa mier til aftekta jordina Breidadal

1) Svo.

og þau qvïlldi sem þar med eru og þad af þeirri jordu og qviilldum giora sem gud kann mier i briost ad anda huort sem fyrir þvi verda skyllder eda vandalauser af mier til. Hier med skil eg mier af brodur minum Eggert suo leinge sem gud hann og mig til ender ad þa eg vil heim til hans fara med þa mina peninga sem eg honum greidi ad hafa i hans gard mat og dryck suo sem hann a sinu bordi hefr. hier med til skil eg mier konu til þionustu þo suo ad hun hafi hia honum mat og fot. Hier med vil eg hafa mier til jndælis vtundan ku og asaudar qviilldi. þo suo ad þad sie huortueggia j hans vardveitslu enn minni abyr[g]d. Hier med til skil eg mier hus og herbergi ut af og manns hlut huert vor. klædi og adra mina þorf epter þui sem hann sier mier vel soma. Og epter þessum skildaugum af Katrinu Hannesdottur fram fornum og af Eggert Hannessyne laugmanni fyrir sig oc sina erfingia jatudum þa geingu þesser aller epterskrifader menn fyrir kirkiudyr j Saurbæ a Raudasandi. Katrin Hannesdotter su er arfleiddi og Eggert Hannesson laugmann. sa er jatadi arfi og baurn hans þau er Katrin þar arfleiddi og hielldu þar aull saman a eirne bok og mællti þa Katrin Hanesdotter þessum epterskrifudum ordum.

Eg Katrin Hannesdotter arfleidi þig Jon Eggertzson. Biorn Eggertzson. Þorleif Eggertzson og Ragneidi Eggertzdottr[1]) til allra minna peninga lausra og fastra. kuikra og daudra þ[eirr]a sem nu a eg edur eigandi verd j huern mata sem þa hefr matt edur ma under mig bera. Og suo til sess og til sætis og allz þess riettar sem logbok skyrer ad ættleidingi ber ad hafa ad laugum. Ad vitne ydar Sera Magnus Eyolfsson og ydar Sera Olafur Jonsson og þin Sera Jon Olafsson. ydar Jon Olafsson. Þorleifr Biarnason og þin Ormr Ellingsson og allra þeira er ord min heyra.

Og til sanninda hier vm festum vær fyrnefnder menn vor jnsigle fyrer þetta skilmala og arfleidzlu bref huert ad[2]) giort og skrifad var j Saurbæ a Raudasande faustu-

1) Svo. 2) tviritað í Apogr.

dæginn næstann fyrir Michaelsmesso vnder eins og þad þessi arfleidzla fram for. arum epter gudz burd M. d. lxvj.

---

**377.** 3. október 1566. á Stokkseyri.

**DÓMR** um rán, högg og áverka Jóns Björnssonar.

Bibl. Bodl. Oxf. Coll. FM. 127, 4to., bl. 280v—1v, skr. ca. 1640. — Lbs. 812, 4to., bl. 74—5, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar ca. 1660 (stutt ágrip). — Sams konar ágrip m. s. h. 1666 er i Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 175—6.

Domur vm Ran. hogg og Auerka.

Ollum monnum sem þetta Brief sia edur heyra sendum vier Magnuz Jonsson. Þorgrijmur Oddsson. Heinrik Vilkinnsson suarner logriettumenn. Ellendur Þoruardzson.[1]) Sigurdur Biarnarson. Þorbiorn Jonzson. Þorlakur Hreidarsson. Jon Jsolfsson. Vilkinn Henrekson. Arne Þorarenzson. Einar Þoruardarson og Siguatur Jonzson Q. G. og vora kunnugt giorande Ad Arum Eptter Gudz Burd 1566 fimttudaginn næstann eptter Michaelizmessu vm haustid A Stockzeyre A þijngstad riettum vorum vier j dom nefnder Af Gijsla Sueinssyne kongsinz sysl[illegible] yfer Arnesþijnge Ad skoda og Rannsaka og fullnadardomz Atkuæde A ad leggia huerninn fara skyllde vmm vidskiptte þeirra Gunnlaugz Eyolfzsonar og Jonz Biornzsonar. J fyrstu Bar Jon Biornzson þar framm. A[illegible]-ur Gunnlaugur hefdi farid A sitt heimile og Borid vt sijna penijnga sem var ein kista og nockur hestajarnn j. þar A dæmdum uier fyrrgreindum Jone ii½ mørk [j fullrette.[2]) Enn [ii½ mork.[3]) og Jone [illegible] hestajarn Apttur. enn Gunnlaugur so buid þad rask sem hann feck Af fyrr sogdum Jone j þad sinn. J Annare grein bar Jon Biornsson framm Ad Gunnlaugur hefde sleigid sig .ij. hogg til hofudz med sijnum hnijfe. og

---

1) Þorualldzson, hdr., sem er án efa rangt. Þetta hlýtr að vera Erlendr Þorvarðsson á Strönd, uppgjafalögmaðr. 2) [b. v. 812. 3) [iij aura 812.

ønnur .2. vtann A bukinn. fyrir huor .2. hofudhogg vier dæmdum Gunnlauge lyrittareid. enn ef honum fellst Eidurinn. þa stendur so j vorre Landz Laga bok. Ef madur lystur j hofud manne eda hoggur. þa skal bæta konge .2. merkur fyrir huortt hogg. enn eptter .xij. manudena et cetera. Enn Ef madur hrijfur mann so blæder edur klypur so blatt er edur lystur mann pustur eda hnefahogg þa Bæte þad ed mizgiorda[1]) eptter .vj. manna dome. enn konge halfa mørk fyrir huora grein þessa. Þui dæmdum uier þratt nefndum Jone .iij. marka fullrietti fyrir þau Blok og Rask sem Gunnlaugur veitte honum. enn Gunnlaugur so buid þad hann hafde feingid fyrir sinn verknnad. Enn Bader slijku seker vid kongdominn sem Adur er skrifad. Jtem j .3. grein kom fyrir oss ønnur misferli þessara manna j mille vt A Eyrarbacka eirn sunnudag vppa þennann þeirra hugmod sem Adur var til kominn huor sannliga so profadist. Ad Adur sagdur Jon Biornnzson veitte þratt nefndum Gunnlauge .2. skemdar Auerka og eitt lemstarar[2]) sar. Alltt j einu Atuike.[3]) huorn eirn stijng er hann veitte honum liggiande. huad oss þotte næst[4]) ganga skiemdarverke. helldur enn ødrum hreinligum Atuikum. stendur so j vorre Landz Laga Bok. Ad ef madur særer mann lemstrarsarum þa Bæte þeim er fyrir vard eptter .xij. manna dome. Enn konge .2. merkur fyrir huortt lemstrar hogg eda lemstrasar. Þui j Gudz nafne Amen Ad h[eilags] Anda nad tilkalladre med oss Ad so profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier fyrrnefnder domzmenn med fullu domz Atkuæde þrattnefndum Gunnlauge vc j sijnar Auerkabætur. enn konge .vj. merkur fyrir þessa[5]) Adur greind lemstur og Auerka. Jtem dæmdum vier og konge .vj. merkur A þui Adurgreindu sunnudagsbrote og virda þetta sakferli. dæmdum vier Jone Biornzsyne lijkamliga Refsing eptter þui sem sa leggur A sem kongz ualld hefur j hende til riettra refsijnga þar hann hefur ei fied til ad Bitala minsta koste

1) -giordu 127. 2) Svo 127; lemstrar 812. 3) atvijge 812. 4) nær 812. 5) Svo.

.2. vandarhogg fyrir hueria mørk ogolldna Ad næstum fardaugum.

Og til sanninda et cetera.

[Samþyckti med oss þennan vorn döm ädurnefndur heidursmann G[isle] S[veins]son.[1])

---

378. 4. október 15[66]. í Skálholti.

JARÐASKIPTABRÉF á 5 hundr. i Langholti og Björk í Flóa, með landamerkjum Bjarkar.

Bps. Skalh. Fasc. V, 4, frumrit á skinni, og voru öll innsiglin dottin frá því 1710. — AM. Apogr. 2560 m. h. Styrs Þorvaldssonar. Árni Magnússon getr þess, að þetta bréf sé „daterað dominical F. Var sä sunnudagsbókstafr í tíð herra Gísla Jónssonar Anno 1560, (15)66 og (15)77, enn eigi optar."

Vm Langholltz[part] og Biork j Floa.[1]

Þad giorum vier Þordur Jonsson og Stephan Hallkelsson prestar Skalholltz Sticktis. Magnus Jonsson og Eigill Oddsson leikmenn. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. Vier medkiennunst at aa faustudaginn sialfan Frannciscusdag sem kalladur hefur verid huer ed var þann fiordi dagr j Octobris mänudi ä veiginum milli Foss og Feriu vid Auluesä vorum vier j hia med morgum audrum godum monnum saum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna af eirne alfu herra Gisla Jonssonar Biskups j Skalhollti. enn af annari alfu Biarna Ketilssonar. Þad faldizt og skildizt vnder þessu þeirra handabandi. at adr greindr Biarni selldi fyrr nefndum herra Gisla Domkirkiunnar vegna j Skalhollti þann fimm hundrada partt sem hann atti i Langhollts jordu liggiandis j Laugardæla kirkiusoknu. med aullum þeim gaugnum og giædum sem þeim jardar parti fylger og hefur aatt ad fylgia ad laugum. vndan sier og sinum erfingium. enn vnder Skalholltz kirkiu til æfinnligrar eignar hiedan j fra. Enn hier j mot gaf greindur herra Gisle med kongsvalldzins samþycki og

---

1) [b. v. 812. 2) Aftan á bréfinu, með tveim höndum.

suo Domkirkiunnar Raadi. lika þess Raadzmans sem þa var j Skalhollti Gisla Sueinssonar[1]) þetta domkirkiunnar Eijdikot. heitandis Biorck. huertt at liggr j fyrr nefndre Laugardæla kirkiusokn. med anllum þeim gaugnum og giædum sem greindu koti fylger og maa fylgia ad fornu og nyiu vndan Skalholltzkirkiu. enn vnder optnefndann Biarna og hans erfingia til æfinnligrar eignar og frials forrædis. var þetta kot afhent med þuilikum landamerckium. fyrst sionhending vr Dyshol og j Slauguhol. þadan sionhending og ofan j eitt litid kringlott gerdi. þadan sionhending j Kierhola og hia þeim steine sem þar ä mille stendr. sijdan j burt vr Kerholi og vti Grænutopt og þadan j ädurnefndan Dyshol. Jtem þad þetta Biarckar land matti vijdara vera helldr enn fimm hundrada landi giegndi. þa gaf tijtt nefndur Biarne iiijc. ä millum med suo ordna peninga ij maalnytu kugilldi. vij ägillda hest og v. ägilldi j frijdum peningum. skylldu huorer vm sig sinu kaupi til laga hallda og suo baader lagariptingum suara. Jtem skilde herra Gisle þad til. ef ad Biarne edur hans erfingiar villde edur þyrfti þessa nefnda jord selia. þa skylldi hun fyrst Skalholltz domkirkiu seliazt nema þuiat eins at adrer Bydu fastaeignn. Jtem lofadi og þraattnefndr Biarne at vera Skalholltz domkirkiu og hennar formanni ætijd til gagns og goda sem honum moguligt væri. Og til sanninda hier vmm setti herra Gisle Jonsson og ädur nefndur Radzmadur sijn jnnsigle med vorum fyrr nefndra manna jnnsiglum fyrir þetta Bref. skrifat j Skalhollti ä sama aare enn deigi sijdar enn fyrr seiger.

Anno 1643 þann 14 dag Februarij skodudum wier wnderskrifader þetta bref og war þad þaa med þremur heilum jnsiglum.

Haakon Ormsson m. egh.
Stephan Olafsson med eh.

---

1) Gísli Sveinsson dó 10. apr. 1577, svo að ekki getur þetta bréf verið frá því ári og verðr að vera frá 1560 eða 1566, líklega 1566.

379. 4. október 1566. á Grenjaðarstöðum.

VIGFÚS ÞORSTEINSSON fær Magnúsi Björnssyni umboð sitt í nokkurum hreppum í Þingeyjarþingi.

Fornbréf landsbókasafns, Fasc. II, 5, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 3944, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum. „Ex originali" „ä kalfskinn."

Vigfus Þorsteinsson gefur Magnuse Biornssyni ummbod sitt i Þingeyarþingi.[1])

Jhesus.

Eg Uigfus Þorsteinsson. kongs vmbodzmann j Þingeyarþingi giore aullum og sierhuerium kunnigt med þessu [minu] opnu brefi at ec gef Magnusi Biornsyni mitt fullt og logligt umbod til þess at giora ollum monnum laug og riett þeim sem sin mal fyrir honum logliga kiæra. skal hann þetta mitt umbod hafa yfer Helgastadahrepp. Tiorneshrepp og Myvatnshrepp at ollu jafnfullu sem ec sialfur med þessum skildaga at hann skal taka uid þeim storbrotamonnum sem honum uerda færder og hann skal uardueita lata og foruara þa suo sem hann kan[n] best og suoddan uilia þar aa hafa sem hann sialfur sysluna[2]) hefdi at þeir komist eigi undan likamligri hegningu. enn eg skal fa honum kost til fyrir þa at leggia suo leingi sem þaurf til krefur þa fangada ad hallda og ec skal honum Magnusi þar nog lid til fa sem þa menn skulu geyma. enn kunni þeir ur høpttum eda bondum fyrir honum burt ad komast at hans ouilia ef hann þa foruara lætur sem hann hefur uit og skijn til. þa skal hann saklaus þar um uera og kuittur. skal hann þetta mitt umbod hafa fra þui eg fer ur þessari syslu og til alþingis at komanda sumre: enn kuni mier nockut stockott at uerda þa skal hann reikningsskap standa af þui sem til fellur af syslunne i þessum þremur hreppum. skal þad kuitt fyrir mier og ollum kongsins epterkomanda ualldzmonnum sem hann kuitt gefur þad eg ma med laugum kuitt gefa enn aungvan reikningskap skal hann standa nockrum manni utan

1) Aftan á bréfinu. 2) sylsuna, frbr.

þeim sem med laugum hefur suar minna barna: yfer profastligum sokum skal hann laug seigia. en ecki par med þan[n] sakeyri hafa. giordi ec þenna giorning med handsaulum aa Greniadarstodum j Adalreykiadal uid Magnus Biornsson þann iiij. dag Octobris manadar. þessvm uottum hiauerandi. Sira Sigurdi Jonssyne. Magnusi Arnasyne. Joni Skulasyne. Og til sanenda hier vm set eg mitt incigle fyrer þetta bref er giort uar j sama stad og dag. aarum epter gudz burd. M. d. lx og vj.

---

380. 6. október 1566. í Skálholti.

SJÖTTARDÓMR um ágreining Skálholtsdómkirkju og Hjallakirkju um Keflavíkrreka.

Bps. Skalh. Fasc. VI, 30, frumrit á skinni. Af 8 innsiglum eru 4 heil og brot af einu fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2583.

Vnm Kieflavijkurreka.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta Bref sia edr heyra senda Þordur Jonsson. Gudmundr Þordarson og Stefan Hallkelsson prestar Skalholltzsticktis. Þorgrimur Oddzson. Magnus Jonsson og Olafur Eyolfsson logriettumenn queidiu[2]) Gudz og sijna. kunnugt giorandi ad aarum epter Gudz burd M. d. lx og vj aar. at aa laugardaginn fyrir enn 17 Sunnudag Trinitatis[3]) ä Baackarhollti[2]) aa þingstad riettum. vorum vier til skodunar og doms nefnder. af þessum valldzmonnum H[erra] Gisla Jonssyni S.S. og Gisla bonda Sueinssyne kongs vmbodzmanne j AArnessyslu. at skoda og ransaka og fullnadardom ä ad leggia huad oss litizt riettast vera vm þa nockra ägreining. sem var j millum Domkirkiunar j Skalhollti og Hialla kirkiu j Auluese.[2]) vm þann Keflavijkur reka sem liggur fyrir vtan Þorlachshofn.[2]) og halldin hafdi verit eign Hialla kirkiu. kom þar fram fyrir oss j fyrstu Maaldagi greindrar kirkju aa Hialla. huer suo hliodade. at Hialla kirkia ætti reka og fiorufar j

---

1) Aftan á bréfinu. 2) Svo. 3) þ. e. 5. okt.

Keflavijk.[1]) Enn j annari grein kom þar fram Maaldagabok Domkirkiunnar j Skalhollti. hueria at giort hafdi Vilkinn biskup j Skalhollti.[2]) j huerium maaldaga at suo stod. at Hialla kirkia ætti vidreka j Keflavijk. biargfesti edur hud.[3]) enn eigi greindi hann þar liosara vm. Nu af þui at vier vissum ecki huersu langt ad þetta Keflavijkur tackmark var austur edr vestur. þui j Gudz nafni amen. at suo prouodu og fyrir oss komnu leist oss þad riettast vera at aa þessa Keflavijk væri ridit med laugmaale ed fyrsta sem mætti j hæfiligann tijma. huersu laung at dandi monnum virtizt þessi tijdt nefnd Keflavijk verit hefdi og mundi vera. Enn vidrekann leist oss at Hialla kirkia ætti med riettu j þratt nefndri Keflavijk. epter þui sem Skalhollzt[4]) kirkiu maaldage vt vijsadi. og suo frij fiorufar fyrir einn mann j þratt nefndu tackmarki. þuiat suo stendr j vorri landzlaagabok. at huad sem huer hefur halldit j xx aar edur leingur ätaululaust. þaa skuli sä eignast sem halldit hefur. nema þui at eins at hinn leiddi tau[4]) lauglig vittne at þad sie häns eign ef hann skal orænttur uera. Enn vm hus og skipstodu fra Hialla til Þollakshafnar. suo og hrossa beit fra Þollakshofn j Melsmelamyri dæmdum vier at halldazt skylldi hiedan j fra sem hier til.

Samþycktu þennann vorn dom fyrr nefnder valldzmenn med oss aadurnefndum domsmonnum. og settu sin jnnsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta domsbref Skrifad j Skalhollti ä sama aare enn deigi sijdar enn fyrr seiger.

---

381. 13. október 1566. á Sauðafelli.

EGGERT lögmaðr Hannesson staðfestir Miðgarðadóm Henriks Krags um gjaftolla o. fl., er fram fór 1. maí sama ár.

AM. 238, 4to., bl. 129 b—30 b, m. h. Vigfúsar sýslumanns Jóns-

1) frá 1400. Dipl. Isl. IV, nr. 303. 2) frá 1397. Dipl. Isl. IV, bls. 97. 3) Svo; mun eiga að lesa: hual. 4) Svo.

sonar á Kalastöðum. — Gl. kgl. Saml. 1159, fol., bls. 661—3, skr. ca. 1640. — Uppskriftir af þessum úrskurði eru víða i handritum með sjálfum dómi Henriks Krags. — Prentað i JS. Lovsaml. I. bls. 95—6.

Vrskurdur vppä giaftolladominn sem gieck fyrir uestann. Anno 1566.

Jeg Eggirtt Hannesson laugmann nordann og uestann ä Jslandi giore godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad vel burdugur mann Heinrek Chrag hefr auglyst fyrir mier eitt domsbref. sem j fyrstu grein hliodar vpp ä setta og samþyckta giaftolla. J annari grein um hieradz þingsokner. J .3. grein um ueniuligar tiunder. J .4. grein um þa ueniuliga tolla. sem ad til koma kennimonnum. og þeim sem kirkiur hallda. J .5. grein um helgidaga haulld. Og hefr nu fyrer skrifadr uelburdugr mann H[enrik] K[rag] mig til krafit og skylldat vpp ä laganna uegna hier liosann laganna urskurd yfir ad seigia. huortt þessi domr sumr edur allr j sinum greinum edur aunguom skylldi uid magt blifa. og halldast. hefr eg þennann dom jnnuirduliga skodat og Riettiliga Rannsakad. wirdist mier domrinn fridsamligr og eptir laugmali dæmdr hafa uerit. og af þui ad gud sialfr seigir. ad allt ualld sie af gudi til skickad. og þar fyrir ber oss þui hlydni ad ueita. J annari grein fyrst ualldit er af gudi. þa skipar og Christr. gefit þad gudi sem gudi til heyrir. enn ualldinu þad þui til heyrir. huar ad fleiri greiner ma til finna j gudz laugum og setningi. Jtem j brefi Magnus kongs seigir suo. þad haufdingiar skulu lata halldast gudz frid og godra manna frelsi j milli kristinna manna. og þeim med laugum hofsamliga ad hegna. sem ad audru uerda profadir. Ja hueriuni eptir sinni forþienann j annari grein þar ed suo seigir. eigi meigu haufdingiar anaudga folkit. med ofmikilli agirnd. og ad eigi meigi menn synia haufdingium Riettrar þegnskylldu fyrir þriosku saker edur skamsynrar fauisku. med þeim fleirum greinum sem hier ad luta. og suo ad sierhuerri grein sem j fyrr skrifudum domi stannda. bædi j andligum laugum og uer-

alldligum þa j gudz nafni Amen. og ad aullu suo profudu og fyrir mig komnu. þa seigi jeg greindr laugmann med þessum minum laga urskurdi. og orofnu laugmali. fyrr skrifadann dom myndugann og skæligann. og uid magt skulu halldast med aullum sinum greinum ordum og articulis sem hann ut uisar og jnni helldr. Og til meiri stadfestu Ex Saudafelle 13. dag O[c]tobris Anno et cetera 1566.

---

382. 29. október 1566. í Bólstaðarhlíð.

DÓMR um grip á hesti (ágrip).

AM. Apogr. 4805, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali. 7 innsigli hafa vered fyrir döminum."

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Sygurdur Þormodzson. Jon Gudmundzson. Magnus Gunnsteinsson. svarner laugriettumenn. Gudmundur Einarsson. Jon Eigilsson [og] Þorsteinn Jllugason. kvediu gudz og sina. kunnegt giorande. at þa lidit var fra gudz burd. M. d. lx. og vj. ar. a þridiudaginn næstan epter Simonis et Jude um veturenn. j Bolstadarhlid i Langadal. a þingstad riettum. vorum vier i dom nefnder af heidarligum manni Þorvalldi bonda Biornssyni er þa hafde kongsins syslu og umbod i Hunavatzþingi.

Til ad dæma um hest, er Þordur Gudmundzson hafdi erft epter barn sitt enn barnit epter Sira Einar modurfødur sinn. hver hestur gripinn hafde vered fyrer Sira Jone Jonssyne og sidan saulum fared og um sider nidur komit hia Jone Þorlakssyne. Dæmdist Jon Þorlaksson skylldugur ad giallda Þorde Gudmundzsyne sagdan hest.[1])

Samþyckte þenna vorn dom adursagdur valldzmadur. og setti sitt innsigle med vorum fyrrnefndra domsmanna innsiglum fyrir þetta domsbref hvert ed skrifat

1) [Efniságrip Árna af dóminum; hefir hann aldrei skrifað hann upp orðrétt.

var a Bergstodum i Svartardal. a sama are deige sidar enn fyrr seiger.[1])

---

383. 2. nóvember 1566. í Haga.

SÍRA Magnús Eyjólfsson fær Eyjólfi eldra, syni sínum, hálfan Haga til eignar.

A.

AM. Apogr. 1369, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar“, sem var vidisse Stefáns prests Hallkelssonar frá 6. júlí 1568.

Jhesus.

Þat giore ec Magnus prestur Eyiolfsson godum [monnum] kunnigt med þessu minu opnu Brefi at ec hefi giefit Eyolfi hinum elldra syne mijnum allar minar lauggiafer vr feingnu fie og ofeingnu: faustu og lausu. kuiku og daudu. oc huernenn sem vnder mig hefr borid edur kann at bera. huert helldur þad er med erfdum edur audrum hætti: j hueriar lauggiafer at ec hefi gefit honum oc til fullrar eignar feingit jordina hälfa Haga ä Bardastraund j Breidafirde. med ollum þeim gognum oc giædum sem greindre haalfre jordu fylger og fylgt hefur at fornu og nyiu bædi til sios oc landz og ec vard fremst eigandi at med kaupe og 8iettre erfd. j suo mäta at ec fra skil at fyrr greind jord þad hun sie golldin i nockur sakferle huorke kongdoms ne biskups þo til kunne at falla. (huad gud läti ei skie). Somuleidis at þessi haalf jord Hagi sie huorcki giofum giefin nie saulum selld nockrum manne. vtan sie æfinlig eign Eyiolfs elldra og hans skilgetinna barna. vndan mier og audrum mijnum erfingium. Enn vnder Eyiolf elldra og hans erfingia til æfinnligrar eignar og friäls forrædis. Enn ef suo kann til at bera at þraatt nefndr Eyiolfur hinn elldre þarf at selia sinn fyr greindan part j Haga þa skil eg suo til at hann selie brædrum sijnum fyrstum. ef þeir ero menn til at kaupa leist suo herra

---

[1]) þ. e. 30. okt.

Gisla Jonssyne oc Erlinge heitnum Gislasyne og odrum godum monnum at ec hefda suo micit fie med haundum j faustu og lausu. kuiku og daudu at ec mætti þa giof vel gefa epter laugum. skal þessi minn giorningur standa æfinnliga oc obrygduliga fyrir mier og mijnum epterkomendum. Og til meire stadfestu hier um þa festi eg mitt jnsigle fyrir þetta Bref huert er skrifuat var j Haga aa Bardastraund. laugardagin næstan epter vors herra Jhesu Christi hingatburd. M. d. lx. vj aaR.

B. *(önnur gerð).*

AM. Apogr. 1138 „Ur Storu Transscripto fra Haga a Bardastrond. giordu 1586“ (AM.), 5. maí. — AM. Apogr. 1369, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Ara Þorkelssonar.“

Þat giore eg Magnus prestur Eyolfsson godum monnum kunnigtt med þessu mino opnu brefe. þat at eg medkienunst at eg hefi gefit Eyolfi hinum elldra syne minum allar minar loggiafer vr feingnu fie og ofeingnu bædi vr fostu og lauso kuiku og daüdo huernin sem vndir mig hefur borit edur kann at bera huortt helldur þat er med erfdum eda audrum hætte. og j hueriar loggiafer at eg hefi gefit honum oc afgreitt og til fullrar og allrar eignar honum feingit jordina halfann Haga sem er fiorutiu hundrudum bonda eignen j adur greindum halfum garde huer ad liggur ä Bardastrond j Breidafirde. med ollum odrum þeim gognum og giædum lausafie oc fastaeignum sem greindri halfri jordu fylgier oc fylgt hefr at fornu og nygiu og hun maa med riettu eiga bædi aa kirkiunar vegna og kaupahlutans. og eg vard fremst eigande at med logligu kaupi oc Riettri erfd. bædi til sios og landz. vndan mier og ollum odrum minum erfingium. enn vnder fyrskrifadann Eyolf enn elldra oc hanz erfingia. til fullrar eignar oc frials forrædis. j suo mata at eg fra skil þat at fyrgreind jord hun sie golldin j nockur sakaferlli. huorkie kongsdoms nie kirkiu þo til kunne at falla. huad gud late eige skie. Enn ef suo kann til at bera. at þrattnefndur Eyolfur hinn elldre þurfi edur vilie selia sinn fyrgreind-

ann partt j Haga. þä skal hann at frialsu meiga hann selja huerium sem hann vill. huortt helldur honum eru þeir skyllder edur vandalausir. og skal þat vera æfinliga äkiærulaust af mier og ollum odrum minum Erfingium og eptirkomendumö Wirtist suo herra Gisla Jonssyne oc Ellinge Gislasyne. og odrum godum monnum. at eg ætti þä suo mikla peninga. þa fyrst eg gaf Eyolfi elldra þessa giof. at eg mætta hana vel giefa eptir logum. og þar fyrir skal þessi min giof oc giorningur standa æfinliga oc obrigdanliga fyrir mier og ollum minum Erfingium oc eptirkomendum. Og til meiri stadfestu hier vm. þä feste eg fyrgreindur Magnus prestur Eyolfsson mitt jnncigle fyrir þetta giafar og giorningsbref. hüertt er skrifat var j Haga ä Bardastrond laugardaginn hinn næstann eptir allra heilagra messu arum epter vors herra Jhesu Christi hingadburd. m d lx og vj ar.

---

384. **2. nóvember 1566. í Berufirði.**
**13. janúar 1567. á Skerðingsstöðum.**

ÞINGSÓKNARMENN á Berufjarðarþingstað lýsa því, að eigi hafi þeir heyrt þar lýst veði á Reykhólum.

AM. Apogr. 4809 „Ex originali Gisla Jonssonar i Mafahlid.“ Árni segir til innsigla.

Vier eptterskrifader menn Jon Þorsteinsson. Liotur Þorvalldzson. Einar Steinsson. Jon Sueinsson. Greipur Þorleifsson. hreppstiorar. Erlendur Erlendzson. Einar Bøduarsson. Oddur Einarsson. Þorualldur Gudmundzson. Hoskulldur Clemuntzson. Arnoddur Solmundarson og Jon Biornsson giorum godum monnum kunnigt ad ärum eftter gudz burd M. D. lx. og vj ar ä laugardaginn næstann eftter Allra heilagra messo um haustid ä Berufirde og logsettu almenneligu hieradzþingi vorum vier adsockter. eptterspurdir. og tilkrafder uppa vor sanninde af Erligum manni Pale Jonssyne kongs umbodzmanni j Þorskafiardarþingi. þeim er þa beid[d]-

ist þar af oss sogdum bændum og bumonnum ur Reykholahrepp sem [þingsetumenn erum[1]) ad sama hieradz þingstad, einn opinberligan, almenneligan hieradzþings vitnisburd huort vier hefdum seed, heyrt, eda vitad. nockurn tima [ved virdt heima ä Reykholum fimtudag þann er .vij. vikur eru [af] sumare, þad sama vor er hinn miste fiar sins eftter þui sem mællt er j løgum.[2]) Somuleidis huort vier hefdum heyrt logmala lyst eda vede a sama hieradzþinge af hende Biarna Guondzsonar, Guondz Biarnarsonar, eda Sira Jons Þorleifssonar ä sogdum garde Reykholum eda eij. Nu eftter þui ad eirn, sierhuor og aller, þeim hreinferduga sannleika og heilaga riettlæte til upphefdar, Enn sauruga ranglæti og syndsamligre lygie til nidurþryckingar satt ad seigia. og allra mest þar huor af yfervalldino fyrir løgum og riette ad socktur skylldugur er, þar fyrer þa seigium og vitnum vier ädurskrifader menn, upp a vora tru og sannende eda so hätt sem vier eirn sannleika til ad seigia skyllduger erum, þad vier høfum alldrei seed, heyrtt, nie vitad nockurt ved virdt, eigi helldur løgmala lyst nie vede af hende Biarnar Guondzsonar, Guondar Biarnar[sonar] eda Sira Jonss Þorleifssonar, nockurn tima a nefndum garde Reykholum nie greindo hieradzþinge ad Berufirde. Og ad suo j sannleika er heingium vier adurskrifader menn vor jnnsigli nedan fyrir þetta þinglysingar vitnisburdarbref huort skrifad var a Skierdingsstødum a Reykianese hinn xiij. dag Januarij ar et cetera H. O Lxvij. ar og þetta bar og allur annar almuge sem a þingino var med oss.

---

385. 4. nóvember 1566, á Grenjaðarstöðum.

KAUPBRÉF fyrir hálfri Sælingsdalstungu.

Eftir nýrri uppskrift (Gísla Konráðssonar), meðal Sælingsdalstunguskjala í þjóðskjalasafni, er gerð var eftir rotinni uppskrift m. h. sira Ketils Jörundssonar. Sbr. Dipl. Isl. XII, nr. 496.

---

1) [þingsætum nrni, Apogr. 2) [Svo.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edr heyra sendum ver Þorlakur prestr Hallgrimsson. Einar Palsson og Magnus Jonsson kvediu guds og vora kunnugt giorandi ad þa lidid var fra holdgan Jesu Christi M. lx. vj. [ar] a Vididalstungu i Vididal a manudaginn næstan eptir allra heilagra messudag vorum ver hia. saum og heyrdum upp a ord og handsol eptirskrifadra manna. J fyrstu sira Lopts Peturssonar af einni alfu. en Arngrims sonar hans af annari ad svo fyrir skildu. ad nefndur Arngrimur gaf sira Lopti fodur sinum jordina halfa Sælingsdalstungu i Sælingsdal i Vestfirdingafiordungi. med ollum þeim gognum og gædum. eignum og itokum. sem greindri halfri jordu fylgir og fylgia a med logum. Her i moti skildi Arngrimur ser æfinlegt framfæri a peningum sira Lopts fødur sins. og sira Loptur skyldi svara porcio kirkiunnar i Sælingsdalstungu þvi sem Arngrimi bar ad svara. og svo innstædu. gamalli eign. og svo skyldi sira Loptur svara øllum odrum loglegum skyldum Arngrims. hvad Arngrimur reiknadi eigi stors meira en tvo hundrud. yfir lysti og Arngrimur þvi. ad hann hefdi og aldrei hvorki giøf gefid ne solu selt. eigi vdsett og eigi med neinu moti logad [edur] pantad þessa fyrrnefnda jord halfa Sælingsdalstungu fyrr en þa þ[ann] dag fodur sinum. Nu [med þvi ad svo hafdi adur verid] tilskilid. ad hvor þeirra brædra sira Jons Loptssonar og Arngrims Loptssonar skyldi selia odrum sinn part. hvor sem seldi edur selia þyrfti edur falt leti. þa þar strax samstundis samþyckti sira Jon Loptsson þetta þeirra kaup fødur sins og brodur. med þvi moti og skilordi ad sira Loptur seldi ser þessa halfa jord Sælingsdalstungu fyrstum. Svo og skildi Arngrimur til ad fader sinn skyldi selia fyrrnefnda jord Sælingsdalstungu halfa. sem honum vel likadi sira Joni brodur sinum. þvi þa þar eptir strax a sama stad og degi. sem fyrr segir. seldi sira Loptur med handsolum oss fyrrnefndum monnum hiaverandi. sira Joni syni sinum til fullrar eignar þa strax fyrr nefnda halfa jord Sælingsdalstungu med ollum þeim gognum og gædum.

eignum og itolu i jordu og a. sem fyrr greindri jordu halfri Sælingsdalstungu fylgir og fylgt hefir ad fornu og nyiu. og sira Loptur vard fremst eigandi ad. og fylgia a med logum. Svo skyldi hann og meiga halda og hafa øll kirkiunnar goz. sem kirkian i Tungu ætti med rettu. eptir gomlum logum og landssid. og sira Loptur skyldi þeim øllum svara sira Joni syni sinum bædi fornum og nyium ad tilskildri þeirri porcio. sem fallid hafdi a medan þeir fedgar sera Loptur og Arngrimur hefdi haldid gardinn og kirkiuna. og hvad ranglega væri undan kirkiunni komid. mætti sira Jon med rettu aptur klaga. Her i mot gaf og galt greindur sira Jon Loptsson fodur sinum sira Lopti þar þa strax xiij malnytu kugildi. er sira Loptur medkendist ad sira Jon sonur sinn ætti hia ser. og hefdi leingi att. en sira Loptur skyldi bida og um lida vid sira Jon um þau xvijc sem eptir stædi og skyldi sera Jon gialda þa þeim sialfum vel semdi. og i þvi sem þeir yrdi sialfir asatter um. skyldi sira Loptur byggia alla jordina Sælingsdalstungu ad nærsta eptir komanda ari þeim honum likadi. ef su jord væri ei adur bygd med logum half edur heil. ad þad Arngrimur hefdi med logum bygt skyldi standa ed nærsta eptirkomanda ar. en sira Jon strax eignast jørdina og taka landskyldina ad vori komandi og sira Loptur honum sira Joni henni svara skyldi. og sira Jon alla opt nefnda jord Sælingsdalstungu meiga eignaz og ad ser taka ad nærstum fardogum. med ollu þvi henni til kæmi. og svo kirkiugoz sem alt annat og halda til laga. en sira Loptur skyldi svara lagariptingum a allri. þo um bygging stædi sem fyrr segir. Og til sanninda her um setti sira Loptur sitt innsigli med fyrskrifadra manna innsiglum fyrir þetta bref. hvert ed gert var a Greniadarstødum i Adalreykiadal þann .xij. dag Novembris a sama ari sem fyrr segir.[1])

---

1) Að niðrlagi hafði staðið í uppskrift sira Ketils: „Þetta fyrir ofan skrifad bref er með þremur hanandi innsiglum."

386. 9. nóvember 1566. á Þingeyrum.
13. janúar 1567.

ORMR STURLUSON játar rétta vitnisburði Gunnlaugs Koðránssonar og Fúsa Jónssonar, dags. 6. febr. 1563.

AM. Fasc. LXXII, 17, frumrit á skinni. — Fasc. LXVIII, 12i vidisse á pappír frá 14. maí 1568. — AM. Apogr. 1053, m. h. Styrs Þorvaldssonar eftir frumbréfinu, sem þá átti Sæmundr Magnússon á Hóli.

Þath medkiennust wid Finnbogi prestur Gijslason oc Runolfur Eijrekzson fyrir ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra a Þijngeyrum j Vatzdal laugardaginn nærsta fyrir Marteinsmesso arum epter gudz burd M D lx oc vj vorum vid j hia saum og heyrdum aa ad Arni Gijslason las fyrir Ormi Sturlasyni þessa vitnisburdi sem þetta ockar vitnisburdarbref er nu med fest. Spurdi greindur Arni Gijslason nefndan Orm Stullason huertt hann villdi medkiennast edur eij þann giorning sem nefnder witnisburdir inne hielldu. gaf Ormur Sturlason þad suar ath hann sagdist þad j allann mata medkiennast epter þui sem þessi[r] vitnisburdir inne hallda er med þessu ockru brefi med fester ero oc ecki eitt ord bar þeim a mille Ormi Sturlasyni oc Arna Gijslasyni vm þad er greindir vitnissburdir inne hielldu suo vid heyrdum oc hier epter vilium vid sueria ef þurfa þikir. Og til sanninda hier vm setium vid ockar innsigli fyrir þetta vitnisburdar bref er skrifad var þann xiij dag Ianuarij. arum epter gudz burd M d lx vij.

---

387. 12. nóvember 1566. í Ögri.

JARÐASKIPTABRÉF, og er Heydal í Mjóafirði skipt við Hnífsdal fremra með milligjöf.

AM. Apogr. 4794 „Ex origin. Hlidarend." — „2 innsigle hanga vid brefed."

Þat giorum vid Biarne Olafsson og Jon Tindsson. Godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi.

at þa lidit var fra frelsaranns fæding M. d. lx og vi. ä þridiudæinn næstann firer Festum omnium sanctorum[1]) j Ogri j Jsafirde vorum vid j hiä. säum og heyrdum ä ord og handsol þessara manna. af eirni alfu Magnusar Jonssonar enn af annari Gröu Þorleifsdottur. at so fyrer skildu. at nefnd Gröa selldi greindum Magnusi alla jordina Heydal er liggur j Vatnzfiardar kirkiu sokn. vndann sier og sijnum Erfingium. enn vnder Magnus og hanz Erfingia. Hier j mot gaf Magnus opt nefndri Grou alla jordina Hnifsdal hinn fremra fyrir xijc er liggur j Eyrar kirkiusokn. vndan sier og sijnum Erfingium enn vnder Gröu og hennar erfingia og epterkomendur. Þar til lofade hann henne tolf hundrudum j godum peningum sem henne mætte vel lika at taka. Og taka af henne Eina stulku og koma til mannz. Hier med lofade Magnus at vera Gröu til gagns og goda. Skyllde huor jordinn afhent þar sem stæde at næstum fardogum. Og til sanninda hier vm setium vid fyr skrifader menn ockar jnsigli fyrer þetta bref huort skrifat var j sama stad fiortan dogum sijdar enn fyr seiger.

---

388. 23. nóvember 1566. í Ögri.

SAMÞYKKI á jarðaskiptabréfinu á næsta skjali á undan.

AM. Apogr. 4795 „Ex orig. Hlidarend.“ — 2 innsigle hanga vid brefed, og hafa ei fleiri vered.“ Sbr. bréf frá 12. nóv. 1566.

Vier epter skrifader menn Olafur Jonsson. Jon Tindsson og Jon Erlingsson. Giorum ollum monnum kunnigt þeim sem þetta vort bref opinberast et cetera. þa lidit var fra Gudz burd M. d lx og vj. a laugardaginn næstann firer Katrinæ virginis. þann xxiij. dag Nouembris a Ogri j Jsafirde vorum vier j hia. säum og uppa heyrdum handsol og ord þessara manna. af eirni alfu Magnusar Jonssonar. Enn af annari Jons Gijslasonar. at so fyrer skildu. at nefndur Jon Gislason samþyckti og stad-

1) þ. e. 29. okt.

feste allann þann kaupskap sem Groa Þorleifsdotter (er hann reiknadi sijna konu) hafdi giort vid greindann Magnus. og hun hafdi Epter hanz forlage med fysta giort vm jordina Heydal j Miofafirde og jordina Hnifsdal hinn fremra. epter þvj sem kaupbref þeirra Magnusar og Grou þar vm giort vtuijsar og hier er med fest. vtann. þau tolf hundrud sem Groa hafde eige aa kuedit þa til skildi Jon ad vera skyllde j þessum peningum. j fyrstu atta malnytu kugillde. Skyllde fiogur af þeim greidast at næstum fardogum enn onnur fiogur standa j byggingo hia Magnuse. þar til tolf saude veturgamla firer hundrad. hest fyrer hundrad. þar til tuo hundrud j odrum peningum og eitt skip er kalladur var Kliemens nautur. skyllde jardirnnar afendast þar sem stæde at næstum fardogum og allt annad obrigdanligt firer þeim. þeirra Erfingium og epterkomendum. epter hinum fyrra skilmala. Og til sanninda hier vm setium vier fyr skrifader menn vor jnsigle firer þetta bref huort skrifad var j sama stad. deige og aare sem fyr seiger.

---

389. 30. nóvember 1566. á Reynivöllum.

DÓMR um Sigurð Þorkelsson fyrir þýfsku.

AM. 238, 4to., bl. 109 b—110 b, m. samtíða hendi Vigfúsar Jónssonar á Kalastöðum.

Domr um Sigrd[1]) Þorkelsson 1566.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda[1]) Arni Jonsson. Hannes Olafsson. suarner laugriettumenn. Asbiorn Jonsson. Jon Olafsson. Jon Jonsson. Jon Halldorsson. Pall Jonsson. Olafur Grimsson. Jon Asmundzson. Olafur Asmundzson. Kaprianus Eyolfsson. Þormodur Jonsson Q[uediu] gudz og uora[1]) kunnigtt giorandi ad þa lidit uar fra gudz burd. 1566. laugardaginn nærstann fyrir aduentus sunnudag hinn

---

1) Svo.

fyrsta ä Reynuuaullum[1]) j Kios ä þingstad riettum. worum uier j dom nefndir af heidarligum dandismanni Wigfus Jonssyni kongs umbodzmanni j Kialarnesþingi til ad skoda oc ransaka oc fullnadar doms atkuædi ä ad leggia. huersu fara skylldi um þann mann er Sijgrdr heitir huer fundinn uar med þyfi. huad hann sialfr med gieck oneyddr et cetera. Jtem j fyrstu tuæuetrann gradung ä Efra Halsi. Jtem j annari. ä med lambi ur stecknum ä Maudruuaullum. Jtem j þridiu grein alit naut fimm uetra gamallt fra Gudmundi ä Þorlakstaudum. Jtem j fiordu grein suarttskiolldott naut. og þar til .ij. saudi gellda. Nu af þui ad suo stendr j uorri landzlaga bok. Ad ef þiofr stelr til tueggia marka ad fyrsta bragdi þa hefr hann fyrir stolit lausafie sinu aullu enn halldi þo lifinu et cetera. Nu af þui ad þessa manz þyfzka hafdi alldri til profs komit fyrri enn nu. þa uirtist oss suo at ef madur þessi skylldi liflaus dæmdur uera ad þar mundi þa þurfa fleiri lærdir menn uid ad uera. þuiat suo stendr j Bokinni. ad ef hann stelr optar þa er hann dræpr. Þui dæmdum uier fyrrgreindir domsmenn med fullu doms atkuædi þetta mal undir skodan oc dom .6. laugriettumanna þeirra er þier þar til nefnit.

Samþykti þennann uorn dom med oss.

---

390. 6. december 1566. á Þingeyrum.

PÁLL GRÍMSSON fær Bjarna, syni sínum, hálfa Holtastadi í Langadal.

AM. Apogr. 523 „Ex originali [Biarna Sig]urdzsonar ä (þ. e. i) [Heynese]“ (AM.). Uppskrift þessi hefir orðið fyrir raka og skemmzt. Árni lýsir innsiglinu (S PAVLI. GRIM), sem þá var enn fyrir bréfinu.

Þath giori eg Pall Grims[son godum] monnum kunnigth med þessu [minu] opnu brefi ath eg h[efe afhent] og feingit Biarna Pal[ssyne syne] minum jordina halfa

1) Svo.

[Holltastade] er liggur i Langadal m[ed aullum] þeim gaugnum og giædum [sem] greindri halfri jordu [fylger og] fylgt hefur ad fornu [og nyiu og] eij er med løgum [fra komed] med ollum halfum [jardarennar] eignum og jtaukum .... skal greindur Biar[ne Palsson m]inn son þessa [greinda half]a jørd ad sier taka ad [næstum] fardaugum til frials for[rædis o]g fullrar eignar. Svo og skal [minn ti]ttnefndur son Biarni [greinda h]alfa jord byggia meiga [epter þenn]an dag þeim sem hann [sialfur vi]ll og honum giedfelld[ast er]. suo og hefi eg feingith [þessum m]inum syne Biarna med [nefndre] jordu Holltastodum [iij] [mal]-nytu kugilldi til fullrar [eignar] [enn] þad iiij asaudar [kugilldi. Og] thil sannenda hier [vmm setta e]g mitt jnnsigli fyrir þetta bref er skrifath var a Þingeyrum j Vatnzdal Niculasmesso dag. arum epter guds burd M. D. Lxvj.

---

391. 23. december 1566. á Möðruvöllum.

VITNISBURÐR um loforð Orms Sturlusonar (1560) til handa Árna Gíslasonar, um að selja honum jarðirnar Kjarlaksstaði og Ormsstaði á Skarðsströnd.

AM. Apogr. 1025 „Ex transscripto Sæmundar Magnussonar ä Höli j Bolungarvik" m. h. Styrs Þorvaldssonar.

Þad Giorum vid Jon Marteinsson og Bessi Biornsson godum monnum viturligt þeim þetta brief siaa edur heyra ad vid vorum j hia. säum og heyrdum aa. ad þetta brief sem hier er[1]) fyrer ofan er[1]) skrifad. var optsinnis lesid fyrir Jone Jonssyni ord epter ord sem hier fyrir skrifad er. Og medkiendist nefndur Jon fyrir ockur og flejrum godum monnum. ad sira Þorarin Jonsson og nefndur Jon Jonsson hefdi verid tilkallader til vitnisburdar þa þau Ormur Stullason og Þorbiorg Þorleifsdottir haufdu handsaul og Giorning um Jard-

1) Svo.

ernar Kiarlaxstadi og Ormstadi. sem þetta fyrirfarandi bref helldur. Og ad bon Orms og vilia Þorbiargar seigist nefndur Jon Jonsson profentumadur ä Modrovollum hafa sett sitt jncigli med Orms og sira Þorarins jncigli fyrer þrattnefnt brief. Og ad þad svo j sannleika er. ad þrattnefndur Jon Jonsson hefur þessu fyrir ockur optsinnis lyst og medkienst. þa setium vid adurnefnder menn Jon Marteinsson og Bessi Biornsson prestur ockar jncigli fyrir þetta ockart vitnisburdarbrief skrifad ä Modrovollum j Eyafijrdi Þorlaksmesso fyrir Jol um veturinn arum epter Gudz burd M. d. lx. og sex är.

---

392. 29. december 1566. á Staðarbakka.
26. janúar 1567. á Þingeyrum.

KAUPBRÉF fyrir Núpi neðra í Núpsdal.

AM. Apogr. 514, m. h. Hans Beckers „Ex transscripto membraneo Þordar Þorleifssonar“ 23. mars 1574.

Þat giorum vier Ellendur Þorgrimsson. Jon Gislason. Sigurdur Hallsson. Olafur Baudvarsson. Brandur Vermundsson. Are Ellindsson. godum monnum vitanligt med þessu uoru opnu brefi. at þä lidit uar fra hingatburd uors liufa lausnara Jhesu Christi: M: d lx vj är. ä Stadarbacka j Midfirdi. sunnudaginn fyrstan j jolum. uorum vier j hia. säum og heyrdum upp ä ord og handsaul þessara manna: af einni älfu Jons Biørnssonar enn af annare alfu Þorgierdar Pietursdotter[1]) med vilianligu samþycki Jlluga Þorsteinssonar. hver þar þaa j hia var. þad faldist og skildist vnder þessum þeirra handsaulum ad Þorgierdur Pietursdotter med samþycki sonar sins Illuga selldi ädur greindum Joni Biørnssyni til fullrar eignar og frials forrædis jordina allann nedra Nup j Nupsdal er liggur j Nupskirkiu sokn xxxc ad dyrleika. med aullum þeim gaugnum og giædum. jtokum og aullum hlunnindum. alltt til skilit.

---

1) Svo.

enn ecki neitt fra. er greindri jordu fylgier og fylgia ä at laugum bædi ath fornu og nyiu og Þorgierdur vard fremst eigandi at ordinn j sinn maala. vndan Þorgierdi og hennar erfingium. enn under ädur greindann Jon Biornsson og hans erfingia. Hier j mot þessari fyrsagdri jordu nedra Nupi gaf Jon Biornsson optnefndri Þorgierdi x malnytu kugilldi og .xxc. j godum gagnligum peningum. gielldum saudum og nautum. og kauplum. smiore og uadmali. og aullum godum þarfligum peningum. enn þesser peningar skylldi greidast at fiorum saulum innan tveggia ära aller utgreidder. utan sialfum þeim annad semdi. skylldi Jon Biornsson optnefndri jordu til laga hallda. enn Þorgierdur suara lagariptingum. Enn fyrer upplag greindrar jardar lofadi Jon Biornsson at leggia Þorgierdi til goda j sinum ordum suo hun mætti þvi hallda sem henni bæri j sinn mala. og hennar baurnum j arf epter sinn faudur at laugum. vard Jllugi Þorsteinsson samþyckur þessum aullum fyrrsaugdum giorningi sem ädur er sagdur og hafdi handsaul uid Jon Biornsson at halldast skylldi fyrer sier og sinum epterkomendum. Og til sanninda hier um setium vier greinder menn uor inncigli fyrir þetta jardakaupsbref huertt skrifat uar ä Þijngeyrum j Uatzdal þann xxa. vj dag Januarij äri sidar enn fyrr seiger.

---

393. 31. december 1566. í Skanderborg.

KONUNGR ritar Otta Brade um skip, er strandað hafði í Thy og í voru fimm lestir brennisteins, sem konungr átti.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 8, 456 b. Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to., (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Otthe Brade fick kong. matts. bræff saa liudendis. Vor synnderlig gunst tiilfornn. Wijder. att wij ere

---

1) Svo.

kommen vdtj forffaring. hworledis ther skall werre stranditt ett skiib vnder Thye. hwor paa skall haffue weritt v læster swoffwell som oss tilkommer. hwilckett ther er bleffwitt biergitt och indførd vdj wor kiøbsted Tijstedth. Thij bede wij etther oc begiere. attj mett thett første afferdige etthers bud thidt bortt oc lader forfare. hure ther om er. Oc ther som samme swoffuell fijndis ther. attj tha lader til see. om ther fiindis nogen brøsl paa tønnerne wett bord eller andett. och thennom lader ferdige och sijden lader føre forschreffne suofwell tiill wortt slott Aalborrig och mett første skijb. som løber tiill Amsterdam. thijd fore skicker forschreffne fem læster swouell och thennom lader anttworde en wed naffun Claws Bolless eller och Charstianus Charstiansen. the Løitzers thiennere ther sammesteds. Ther mett skeer oss synderligen tiill welge. och forelade oss ther wesseligen tiill. Beffalendis etther gud. Datum Skanderborrig thend xxxj Decembris anno mdlvvj.

---

394. 31. december 1566. í Skanderborg.

UM sama efni sem næsta bréf á undan.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 8, 457. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Frwe Eddell Hardenberrig Frands Bildis efftерleffwerske fich vdtj lige maade kong. mtts. schriffwelse.

alt hwess aff samme swobell biergitt er och indførd wdj Thijstedth. hun thett vbehindrett lader Otthe Bradis bud och fuldmegtige følge. Actum Skanderborg thend xxxj Decembris anno mdlxvj.

---

395. 1566. á Staðarhóli.

SJÖTTARDÓMR bannar bygging jarða í Saurbæjarhreppi utansveitarmönnum, þeim sem minna fé eiga en 3 hundr.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol., bl. 119 b, skr. ca. 1600. — Dómr þessi er til afar víða í dómabókum, ýmist heill eða í ágripi, en hvergi finnst hann með dagsetningu. Orðamunr handritanna er ekki mikils virði. — Meðal helztu uppskriftanna eru þessar: Lbs. 6, fol. bl. 173, skr. ca. 1640. — Lbs. 65, 4to., I, 61, m. h. Jóns dans ca. 1640. — Lbs. 66, 4to., 149 b, skr. ca. 1666. — Lbs. 69, 4to., 136, skr. ca. 1640. — Lbs. 788, 4to., bl. 98, skr. ca. 1640. — Lbs. 790, 4to., bl. 100, skr. ca. 1642. — Lbs. 812, 4to., bl. 55, skr. ca. 1660. — AM. 197, 4to., bl. 2 a, m. h. síra Jóns Erlendssonar ca. 1650. — AM. 196, 4to., skr. 1657—65: *a*) bl. 91 b —92 b í heilu lagi; *b*) bl. 141 b, ágrip með ártali „1600". — ÍB. 355, 4to., skr. ca. 1750. — Margar fleiri uppskriftir eru til af dómi þessum.

Saurbæinngadomur wmm wtannsueitarmenn.

Ollum maunnum sem þetta brief sia edur heyra sennda Oddur Thumasson. Jon Halldorsson. Sigurdur Oddzson. Gudmundur Jonsson. Tyrfingur Halldorsson oc Jon Sijgurdzson. kuediu Gudz oc sijna kunnigt giaurandi ad þa lidit war fra Gudz burd 1566 aa Stadarholi j Saurbæ aa þijngstad riettum worum wier j dom nefnder af heidurligum manni Arnna bonda Oddzsyni er þa hafdi syslu j Þornesþijngi millum Gijlsfiardar og Gliufurär. til ad skoda oc ʀannsaka oc fullnadardoms atkuædi aa ad leggia huernnin fara skylldi wmm þa aklaugun er sueitarmenn Saurbæiarhrepps beiddust doms aa vm þau oskil sem optsinnis til fielli j greindri sueit og þar wid geinngist ad wtannsueitarmaunnum orijkum wæri bygdt moti hreppstioranna rädi. wilia og samþycki huad bædi þeir enu orijku oc suo sueitarmenninner bijda optsinnis þunga af þeira wanefnum j þeire grein ad þeir giætu ecki laugskilum suarad epter þær jarder sem þeim wæri bygdar og þar med yrdu þesser wtannsueitarmenn og þeira baurnn hrep[p]s vanndrædi j fyrskrifadri sueit. [svo ad[1]) þar af yrdi stort mas oc sundurþycki godra manna j millum þa þeir skylldu aptur færast aa sijna sueit.

Nu af þui ad suo stenndur j texta worar laugbokar. ad laughreppar skulu wera sem ad fornu hefur werid

1) [þ. v. 69 ofl.

eigi færi bændur j hrepp enn xx enn einngi skal eiga minna fie enn x^c. J annari grein stendur suo j kongs[1]) ʀiettarbot: Ad hann af sinne näd hefur þa wægd giefid ad þeim mætti byggia er ætti fimm hundrut. J þridiu grein hefur wirduligur her[r]a Hakon kongur fyrir sakier fatæktar landsins og almuganns naudsynia þa nad giefid ad þeim skylldi byggia meiga er ætti þriu hundrut. enn meiri nad[2]) haufum wier ecki fundit huad oss wirdist ecki ein grein ad luta ad þeim maunnum sem wr audrum sueitum kiæme oc menn wissu einginn skil ä huort þeir wæri skilamenn edur eigi. edur þeir sem adur wæri jnnfædder oc laugliga til sueitarinnar komner þo þeir og þeira baurnn yrdi þroträda. Og ad suo profudu og fyrir oss komnu med þeim fleirum greinum sem j laugunum stannda oc hier ad luta dæmdum wier fyrnefnder domsmenn med fullu doms atkuædi aunguann byggia mega sijnar jarder j greindum Saurbæarhrepp nauckrum wtannsueitarmanni þeim sem minna fie ætti enn þriu hundrud oc wæri þo þar med kienndur ad godum skilum. Enn ef þeir wtannsueitarmenn werda þrotrada j adurskrifudum Saurbæiarhrepp. þa dæmdum wier þa hina saumu sem bygdu skyllduga ad annast þa og þeira omaga oc þa aptur færa j sijna sueit an nockurs hreppsins kostnadar og jardeigendur sialfa skyllduga fyrir sijnar jarder ad suara sem fyrer aunnur bygd bol þar sem hina þrotadi.

Samþyckti þennann worn dom [med oss ädurskrifadur valldsmadur og sette sitt innsigle hier fyrer nedan med vorre fyrskrifadra manna innsiglum.[3])

[þesse domur var[4]) logtekenn a alþinge[5]) [af Þorde G[udmunds]s[yne] l[øgmanne].[6])

---

1) Christians, b. v. 196. 2) vægd, ýmis hdrr. 3) [b. v. 197. 4) b. v. 196. 5) [b. v. 788, 196. 6) [b. v. 196. Það kynni að hafa verið árið 1600, því að ágripið í 196 hefir það ártal.

396. 1566.

DÓMR (Vigfúsar Jónssonar kongs umboðsmanns i Kjalarnesþingi) um leynd Höskulds Þorkelssonar á Páli Brynjólfssyni, þegar hans var leitað (ágrip).

AM. 238 4to., bl. 107 b m. samtíða h. Vigfúsar Jónssonar á Kalastöðum.

1566.

Domur um Hauskulld og Þorkel.

J fyrstu ad Þorkell Jonsson fai undannfæri med siettareidi. þuiat oss leist einginn likindi ad honum berast suo ad hann mætti ecki sinum eidi framm koma. J annari grein kom þar framm fyrir oss .ij. skælig [vitni] ad Hauskulldur Þorkelsson huldi og geymdi þennann mann Päl Bryn[i]olfsson. þa hans uar leitad. og uilldi ecki til seigia fyrr enn hann uar j jarn settr. þui leist oss hann sialfr hafa sett sig j þad fangelsi sem þessi adr nefndr Pall uar j kominn unndir slika myskun sem kongs ualld uill ä giora til riettra ʀefsinga. Enn um þa konu Steinunni Þorsteinsdottur kuinnu Þorkels dæmdum uier hana og hennar mal til nærsta Auxararþings til ʀiettz ransaks þui þar kom ecki framm huorcki asakan nie hennar afbatann suo fullkomlig nema bygdar ʀymttr einn. og frændr Þorkels og hennar skyllduga ad styrkia hana til alþingis. Jtem Þorkel skylldugann ad ʀefsa sinum syni Joni hier strax ä þinginu fyrir þa hylli og samþycki sem ad hann leyndi þessum Pali og dro dulur ä med sinum brodr[1]) Hauskaulldi.

finis.

---

397. 1566. í Galtafelli.

DÓMR um stuld Þórðar Nikulássonar.

Bibl. Bodl. Coll. FM. 127, 4to., bl. 283 v, skr. ca. 1640. — Lbs. 812, 4to., bl. 75 r, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði ca. 1660 (styttra ágrip). — Sams konar ágrip m. sömu h. 1666 er í Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 176 a.

1) Svo.

Domur wnm husbrot og stuld.

Anno domini 1566 j Galltafelle j Hrunamannahrepp uoru þesser menn til alitz og skodunar kallader af Gijsla Sueinssyne er þa hafde logligtt vmmbod yfer Arnesþijngs syslu. sem uar j fyrstu Magnus Jonsson elldre. Þorer Sueinsson.[1]) Magnus Petursson. logriettumenn. Þordur Einarsson. Helge Markusson og Ofeigur Ormsson. hreppstiorar. huernen fara skyllde umm þann Þord Nichulasson sem med stelande hennde upp braut stadarinns skemmu heima j Skalhollttj og Burtt Bar stadarins penijnga huorier penijngar Ad oss uirttist eptter þui sem framm fyrir oss kom meir enn v Aura. enn ecki fullar .40. Alner Ad dyrl[e]ijka. þvi ad so stendur j uorre landz laga Bök Ad ef madur stelur til merkur Ad fyrsta Bragde sa er ecki uar firr Ad þyfdsku kenndur. sa leyse hud sijna 13 mørkum uid kong eda fare vtlægur. nu Af þui Ad þesse þiofnadur uar minne enn til merkur og þesse madur var Alldrei vid þyfsku kienndur so Ad menn vissu. þar fyrir dæmdum uier Ad hann skyllde leysa hud sijna vj morkum vid kong.

Jtem j Annare grein stendur so j uorre Lanndz Laga Bok Ad Allt þad sem husbrot nemur legge A mørk halfa konge enn halfa þeim hus A.

Samþycktte þennann vorn Giornnijng Adur nefndur vmmbodsmann og sette sitt jnnsigle med uorum fyrir þetta domz Brief et cetera.

---

398. 1566.

AFGJALDAREIKNINGR af jörðum síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206, 4to.), bl. 21 (syrpa sira Gottskálks i Glaumbæ).

m. d. lx oc vj.

bygt Andresi Eistadi j þriu ar fyrsta ar med iij ku-

1) Gudmundsson, hdr.

gilldum. annat med iiij oc .ij. kugilldum j landskylld. ij daga slatt. viij alner vadmalz oc suara ollum tiundum.

Valadalr med iij kugilldum. kugilldi j landskylld. iij daga slatt oc kol et cetera.

Gil med fiorvm kugilldum j landskylld oc annat.

Vashlid med somu kostum.

Ey j þriu ar med somu kostum.

Eliuogar j þriu ar med iij kugilldum. iij ær j landskylld. ij daga slattur.... alner uadmals oc kapal ar j kring.

Holl bygdr Asgeiri med iii½ kugilldi. skylldi hann suara .xx. alnum gildum firir huert .... sem þar af biti til daudz oc hundradi j ollum peningum j landskylld og þar til ....

Marbæli med iij kugilldum. hest j landskylld oc hundrad epter uana.

Halldorstader med ij kugilldum. ij daga slatt oc kyr eda h[est] j landskylld oc xx alner.

---

399. 1566.

MINNISGREINIR Ólafs byskups Hjaltasonar um gjöld úr Fljótaumboði.

Máldagabók Ólafs byskups Hjaltasonar í þjóðskjalasafni, bls. 18, með eiginhendi Ólafs byskups. — AM. Apogr. 280 m. h. Grunnavikr-Jóns.

Anno 1566 golldizt j Fliotum.

heim kyr xiij.

kaplar ix. voru hier j ij hestar. annar fyrir kugillde enn annar fyrir iij ær og iiij agilldi golldin annar S[ira] Finboga fyrir c og hross fyrir xv aura. annar sira Jone fyrir viij agilldi og hross fyrir xv aura. Kiartani hross þreuett fyrir x aura. lxxx alnum i kaup til stadarins. v. xv aura kaplar og hinn vj þreuetur. j vadmali xi½ alin. ketil fyrir v aura. ij fotur x alnum.

Von vr Fliotum j Olafsfirdi iiij kyr. naut þreuett af gomlum og annat hia sira Steine.

Jtem j fiskum fyrir sunnan.

Item vr Fliotum iij voder xxar. og iij alner og saud veturgamlan Jone Hallssyni. vr Olafsfirde xiij alner vadmals.

---

400. 1566. í Skálholti.

REIKNINGR kvikfjár, afla og afgjalda Skálholtsstóls, og stóð þann reikning Þórðr ráðsmaðr Jónsson.

AM. 260, 4to., bl. 40—3.

Anno domini M. d. lx oc vj.

Suo micil vetrar vanhaulld ä stadnum oc aullum stadarbuunum fra attadeigi til fardaga. Jn primis ij kyr. Asaudur l oc vj. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri xxx oc iij. Jtem vij hestar fullʀoskner. Hross iiij fullʀosken.

Suo micill frammgangr ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr lx oc vj. Jtem gomul naut xj. Jtem ij þrieuetur. Jtem iiij tuæuetur. Jtem aasaudur iiij$^{c}$ viijtigi oc ix. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iij$^{c}$ oc xuij. Jtem fullʀoskner hestar lx oc iiij. Jtem þreuetrer iij. Jtem ij tuæuetrer. Jtem j veturgamall. Jtem fullʀoskin hʀoss xxx oc vj. Jtem þreuetur v. Jtem j tuæuett. Jtem j veturgamalt.

Suo mikit heim tekid ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr viij. Jtem j naut tuæuett. Jtem ij veturgomul. Jtem äsaudur xix. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iij. Jtem veturgamler sauder xv. Jtem v hestar fullʀoskner. Jtem eirn tuæuetur.

Suo mikid vr fodrum j Floa oc ä Skeidum. Jnprimis kyr xl oc vij. Jtem gomul naut viij. Jtem þreuetur xiiij. Jtem tuæuetur xl oc j. Jtem veturgomul naut xxx oc þriu. Jtem äsaudr l oc v. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xxx oc iij. Jtem veturgamler niutigi oc viij. Jtem fullʀoskner hestar vij. Jtem iij tuæuetrer. Jtem fullʀosken hʀoss viij. oc ij veturgomul.

Suo micit vr fodrum j bädum Hreppum. Jnprimis kyr xx oc vj. Jtem gomul naut ij. Jtem ix naut þreuetur. Jtem xu tuæuetur. Jtem xx oc vj veturgomul. Jtem ä-

saudr xx oc j. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri xuj. Jtem veturgamler sauder ixtigi oc j. Jtem j hestur fullroskenn. oc ij hross fullrosken. Jtem j þreuett. oc eirn hestur veturgamall.

Suo micit vr fodrum j Biskupstungum. Jnprimis kyr xx oc v. Jtem gomul naut vj. Jtem þreuetur naut xj. Jtem tuæuetur naut xiiij. Jtem veturgomul naut xx oc iij. Jtem äsaudr xxx. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri x. Jtem veturgamler sauder xxx oc vj. Jtem fullroskner hestar ij. Jtem fullrosken hross ij. oc j þrieuett.

Suo micit vr fodrum vr Grimsnesi oc Aulesi med Laugardal. Jnprimis kyr xxx oc v. Jtem gomul naut xvij. Jtem þrieuetur naut xx oc ij. Jtem tuæuetur naut xx oc viij. Jtem veturgomul naut xxx oc ij. Jtem äsaudur xl oc vj. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xxx oc vj. Jtem veturgamler sauder xjtiger oc j. Jtem j hestur veturgamall.

Suo micit vr fodrum j Skammbeinstada vmbodi. Jnprimis kyr xj. Jtem gomul naut x. Jtem þrieuetur naut xvj. Jtem tuæuetur naut xiiij. Jtem veturgomul naut xv. Jtem äsaudr xxx oc v. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iij. Jtem veturgamler sauder c xx oc j. Jtem eitt hross fullrosked. oc annat þrieuett.

Summa kyr ä stadnum oc ollum stadarbuum oc vr fodrum oc til luckt vr vmbodum med þui sem heim var tecid. Jnprimis kyr c ixtigi oc viij. Jtem gomul naut l oc iiij. Jtem þrieuetur vijtigi oc iiij. Jtem tuæuetur xjtigi oc vij. Jtem veturgomul naut c oc xj. Jaem aasaudr vj$^{c}$ l oc v. Jtem gamler sauder iij$^{c}$ xjtigi oc viij. Jtem veturgamler sauder iiij$^{c}$ oc xij. Jtem fullroskner vijtigi oc ix. Jtem iij þreuetrer. Jtem vj tuæuetrer. Jtem iij veturgamler. Jtem hross fullrosken xl oc ix. Jtem þreuetur viij. Jtem j tuæuett. oc iij veturgomul.

Suo micit vti luckt burtu bygt oc til jarda sett ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr xl. oc j. Jtem gomul naut ij. Jtem þreuetur j. Jtem tuæuetur x. Jtem veturgomul xv. Jtem äsaudr c oc xviij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre xxx oc vij. Jtem veturgamler

c oc j. Jtem hestar fullroskner iiij. Jtem j þreuetur. Jtem ij tuæuetrer. Jtem ij hross þreuctur. Jtem j veturgamalt.

Jtem haufum vier samiafnad frammganginum oc tillucktinum[1]) vid vtilycktirnar vid þad sem epter var vm sumarit til lifs oc bus oc til fialls. Jnprimis kyr vt sem jnn. Jtem asaudur fiorum færra vt enn jnn. Jtem gamler sauder oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul naut oc vng vt sem jnn. Jtem gamler hestar oc vnger vt sem jnn. Jtem gomul hross og vng vt sem jnn.

Suo mikit til lifs oc bus ä stadnum oc aullum buunum stadarins. Jnprimis kyr c vtigi oc viij. Jtem asaudur vc xx oc ij. Jtem fullroskner hestar lxx oc vij. Jtem þreuetrer ij. Jtem ij tuæuetrer. oc iij veturgamler. Jtem hross fullrosken xl oc ix. Jtem v þreuetur. Jtem j tuæuett. oc ij veturgomul.

Suo mikid til fiallz ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis gomul naut l oc ij. Jtem þreuetur lxx oc iij. Jtem tuæuetur xjtigi oc iij. Jtem veturgomul xjtigi oc vj. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri iijc viijtigi oc j. Jtem veturgamler sauder iijc oc xj. Jtem ix gelldær.

Suo mikel sumar vanholld ä stadnum oc ollum stadarbuunum. Jnprimis iij kyr. oc vj naut gomul. iij þreuetur. Jtem ij tuæuetur. Jtem äsaudr xx oc iij. Jtem tuæuetrer sauder oc elldri xl oc iij. Jtem veturgamler xxx oc iiij. Jtem fullroskner hestar iiij. Jtem fullrosken hross iiij.

Suo micid af fialli ä stadnum og aullum stadarbuunum. Jnprimis gamalt naut j færra af fialli enn ä. Jtem þreuctur naut af fialli sem ä. Jtem tuæuetur naut v færri af fialli enn ä. Jtem veturgomul xvj færri af fialli enn ä. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre iijc oc xx. Reiknuduzt xuiij færri af fialli enn ä. Jtem veturgamler sauder ijc ixtigi oc ix. Reiknuduzt xxx færre af fialli enn ä. Jtem gelldær vj af fialli.

---

1) Svo.

Suo micil haustaflogun ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr xxx oc ix. Jtem gomul naut xxx oc iiij. Jtem þreuetur naut xvj. Jtem tuæuetur viij. Jtem iij ær. Jtem tuæuetrer sauder oc elldre c viijtigi oc ij. Jtem veturgamler xv.

Suo micit til lifs oc fodurs ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis kyr lx oc iij. Jtem gomul naut vij. Jtem ä fiorda vetur v. Jtem ä þridia vetur viij. Jtem ä an[n]an vetur iij. Jtem äsaudur vc oc ij. Jtem gymbrar c oc v. Jtem gamler sauder c l oc viij. Jtem ä annann vetur c lxx oc ix. Jtem fullroskner hestar vijtigi oc iij. Jtem ij ä fiorda vetur. Jtem j ä þridia vetur. Jtem iij ä an[n]an vetur. oc v ä fyrsta vetur. Jtem hross fullrosken xl oc iiij. Jtem v ä fiorda vetur. Jtem j ä þridia vetur. oc ij ä annann vetur. oc vj ä fyrsta vetur.

Suo micit j fodrum ä Floa oc Skeidum. Jnprimis xx kyr. Jtem uiij naut ä fiorda vetur. Jtem ä þridia vetur xx oc iiij. Jtem [ä] an[n]an vetur xiij. Jtem ä fyrsta vetur xxx oc vij. Jtem lomb xl.

Suo micid j fodrum j bädum Hreppum. kyr xx oc iiij. Jtem j naut gamalt. Jtem iij ä fiorda vetur. Jtem xj naut ä þridia vetur. Jtem xx oc viij naut ä annann vetur. Jtem xx oc vj ä fyrsta vetur. Jtem lomb c oc xuij.

J fodri j Biskupstungum. Jnprimis kyr xx. Jtem ij naut gomul. Jtem vj ä fiorda vetur. Jtem viij ä þridia vetur. Jtem xij ä an[n]an vetur. Jtem xx oc vij ä fyrsta vetur. Jtem lomb xtigi oc vij.

Jtem j fodrum j Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal. Jnprimis kyr xuj. Jtem x naut ä fiorda vetur. Jtem xx oc ij ä þridia vetur. Jtem xx oc v ä annann vetur. Jtem ä fyrsta vetur xl oc iij. Jtem lomb viijtigi.

Suo micit j fodrum j Skammbeinstada vmbodum. Jnprimis kyr vj. Jtem ij naut gomul. Jtem viij ä fiorda vetur. Jtem v ä þridia vetur. Jtem xiiij ä an[n]an vetur. Jtem xx oc ij ä fyrsta vetur. Jtem lomb viijtigi oc iiij.

Summa j fodrum ä stadnum och aullum stadarbuunum oc j ollum vmmbodunum. kyr c xx oc ix. Jtem

gomul naut xij. Jtem ä fiorda vetr xl. Jtem ä þridia vetur vijtigi oc viij. Jtem aa annann vetur ixtigi oc v. Jtem ä fyrsta vetur c xxx oc v. Jtem lomb ccc ixtigi oc ij.

Jtem haufum vier samaniafnat þui sem var til lifs oc bus vmm sumarit oc til fialls vid þad sem var til lifs oc fodurs vmm haustid epter ad reiknudum ollum haustaflogum. Jnprimis kyr vt sem jnn. Jtem gomul naut oc vng vt sem jnn. Jtem äsaudr vt sem jnn. Jtem gamler sauder oc unger vt sem jnn. Jtem fullroskner hestar oc vnger vt sem jnn. Jtem fullrosken hross oc vng vt sem jnn.

Summa kirkiu kugilldi j Floa oc ä Skeidum xx oc ij. Jtem leigu kugildi ij^c^ viijtigi oc v½.

Jtem summa kirkiu kugilldi j Badum Hreppum ij. Jtem leigu kugildi c xl oc vj.

Summa kirkiu kugildi j Biskupstungum xij. Jtem leigu kugildi i½^c^ oc halft fiorda betur.

Summa kirkiu kugildi j Grimsnesi oc Auluesi med Laugardal xij. Jtem kugildi ij^c^ xx oc vj.

Summa kirkiu kugildi j Skambeinstada vmmbodi x. Jtem leigu kugildi c xxx oc iiij.

Summa kirkiu kugildi j Gryndavijk med Krysuvijk og Herdijsarvijk viij. Jtem xxx leigu kugildi.

Summa kirkiu kugildi j Heynes vmbodi med Borgarfirdi oc Bryniudal xij. Þar heima suo ordin vj kyr oc iiij asaudar kugildi. Jtem leigu kugildi c xl oc vi½.

Summa summarum kirkiu kugildi j aullum stadarins vmbodum lxx oc viij.

Summa summarum kugildi ä stadnum oc aulllum stadarbuunum oc j fodrum oc leigu kugildi j aullum vmbodunum oc stauku kugildi hia audrum monnum. Jnprimis xiij^c^ oc j.

Summa summarum gomul naut oc vng iij^c^ oc xv.

Summa summarum gamler sauder oc vnger iij^c^ oc xuij.

Summa summarum gamler hestar oc vnger viijtigi oc iiij.

Summa summarum gomul hross oc vng l oc viij.

Summa summarum lomb iijc ixtigi oc ij.

Suo micit vr vllu giortt ä stadnum oc aullum stadarbuunum. Jnprimis xx voder oc iiij. Jtem lagdi Biskupinn til stadarins xxv voder. Reiknuduzt vadmal vt sem jnn.

Suo mikil hlutar skreid oc landskylldar skreid j Gryndavijk. Herdijsarvijk. Seluogi. Þollakshaufn med Eyrarbacka xj lester oc ii½c. Jtem til stadarins vj lester. oc vijc. Jtem reiknadizt skreid suo vt sem jnn.

Suo micil smior heim komin c uætter oc xxx. Reiknadizt smior suo vt sem jnn.

Stod þennann Reikningskap Erlig persona sijra Þordur Jonsson Radzmann. Voru þesser Reikningsmenn. Sijra Biorn Olafsson. Sijra Einar Olafsson. Sijra Gudbrandr Þorlaksson skolameistari. Sijra Þordur Gislason. Gisle Sueinsson. Tumas Gunnarsson. oc Grimur Skulason sa sem skrifadi.

---

401. 2. janúar 1567. á Bygghólmi.

KONUNGR veitir Jóhanni Jellesen, borgara og kaupmanni í Amsterdam, leyfi til siglingar á Eyrarbakka og Þorlákshöfn.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 338. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Iahann Iellesenn. falckenner. borger och kiøpmandt
til Amsterdam. fick breff att maa lade be-
segle tuende haffn paa Islandt.
som følliger.

Wij Frederich etc. Giøer alle witterligtt. at wij aff wor synnderlig gunst och naade. saa och paa thett wore vnndersotte paa wort landt Islanndt kunde fannge nøttørfftige tilføringe til thieris vnnderholdinng. haffue vnndt och tilladt och nu medt thette wortt obnne breff vnde och tillade. at oss elskelige Iohann Iellesenn. falckener. borger och kiøpmanndt til Ambsterdam. maa

lade besegle thuende wore och kronens haffner for søndenn vnder forschreffne wort landt Islanndt vdj Arnenes syssell. kaldis Ørbacke och Torloffs haffner. och ther bruge hans handel och kiøpmandschaff medt wore vndersotte ther samestedtz. til saa lennge wij anderledis ther om tilsigenndes worder. och skal handt mue lade indkiøbe och wdføre. huiss ware ther falder. vnderthagit suaffuel. thet wij oss sielff wille haffue forbeholdit. dog saa att hanndt aarligenn til gode rede skal wdgiffue til oss och kronenn huiss told och rettigheedt oss medt rette kanndt tilfalde. Skal hanndt och were forpligtt att giøre forschreffne wore vndersotte tilføring medt gode och wforfalskede ware. som thennom gaffnnlige ere. och thennom sellige och affhennde for ith skielligt weerdt. Skall hanndt och bruge rett och wforfalskedt wegtt och maal och i alle maade sig saa forholde. at offuer hannom eller hanns fuldmegtige ingenn klagemaal komer. Cum inhibitione solita. Datum Bygholm etc. Nyttaarsdag aar etc. mdlxvij.

---

402. 14. janúar 1657. á Esjubergi.

DÓMR um Sigurð Þorkelsson fyrir þýfsku.

AM. 238, 4to., bl. 110 b—11 b m. samtíða h. Vigfúsar Jónssonar á Kalastöðum, dómnefnanda sjálfs.

Domur um sama Sijgrd[1]) þridiudaginn fyrstann j Þora genginn Anno 1567.

Ollum monnum þeim sem þetta Bref sia edur heyra. sennda[1]) Þorolfur Eyolfsson. Arni Jonsson. suarner laugriettumenn. Þoruardr Þorolfsson. Þoralli Oddzson. Jon Jorundzson. Jon Ualldason. Magnus Þorkelsson. Jon Magnusson. Olafr Þorsteinsson. Olafr Asmundzson. Kaprianus Eyolfsson og Jon Halldorsson Q[uediu] gudz og uora[1]) kunnigt giorandi þa lidit uar fra gudz burd. 1567. a þridiudaginn fyrstann j þorra um uetur-

1) Svo.

inn a Esiubergi ä Kialarnesi a þingstad riettum vorum uier j dom nefndir af Wigfus Jonssyni kongs umbodzmanni j Kialarnesþingi til ad skoda og rannsaka og fullnadardoms atkuædi ä ad leggia huorra suara edur sekta ad Sijgrdr Þorkelsson uæri skylldugr fyrer þa opinnberu þyfsku sem ad hann uar sannprofadr ad og hann sialfr medkenndist þar aullum aheyrandi ä þinginu. huad j fyrstu uar upp reiknad. ij uett naut þa hann uar aa Efra Halsi. Jtem aa med lambi fra Narfa ä Maudruuaullum. gamallt alinaut fra Gudmundi ä Þorlakstaudum. og gellt naut fra Videyiar klaustri. Jtem enn .ij. naut gelld og eina ku. og .ij. saudi gellda. Nu stenndr suo j uorri landzlaga bok. Nu ef þiofr stelr til .ij. marka ä fyrsta bragdi. þa hefur hann fyrirstolit lausafie sinu aullu. Enn ef hann ä j jordu þä uirdi ur til. xiij. marka. og hafi slika refsing sem sa leggur ä er kongs ualld hefr j hendi til riettra refsinga. og halldi þo lifinu. Enn af þui ad oss uirtist þessi fyrskrifadr madur Sijgrdr Þorkelsson myklu meira hafa stolit enn suo ad hann mætti leysa sig med nauckru fiegialldi edur audrum aminningar refsingum. þo ad uor bok tali þar ecki freckt um. þui suo stendur j uorri landzlaga bok. ad þar sem ad laugbok skyrir eigi skiluisliga um. þa skulu .vj. skynsamir menn þar grein ã giora. Og ad heilags annda nad til uor kalladri ad suo profudu mali og fyrir oss komnu dæmdum uier greindir domsmenn med fullu doms atkuædi opt skrifadann Sijgrd Þorkelsson hafa fyrir stolit fie og fride. landi og lausum eyri lifinu med. utann kongs umbodzmadur uillde meiri myskun ä giora. þuiat slik þyfska edr rannskapr leist oss suo miog ur hofi hafa fram geingit. ad obætanda uæri. Einkanliga fyrir saukum uiduaurunar og landhreinsunar uid þa sem ad eptir lifdu.

Samþyckti þennan uornn dom med oss adur greindr umbodzmadur og setti sitt jnsigli med uorum jnsiglum fyrir þetta doms Bref.

403. 14. janúar 1567. í Laugardal.
16. febrúar 1567. í Saurbæ.

SJÖTTARDÓMR um tilkall til Hvallátra og Keflavíkr, og dæmast þessar jarðir Birni og Jóni Konráðssonum eftir föðurbróður þeirra, síra Filippus Jónsson, er gert hefði þeim arfsvik.

Bæjarskjalabók, bls. 98—106, skr. ca 1730—40 eftir frumritinu á kálfskinni (= *a*). — Skjalabók þjóðskjalasafnsins í fol. bl. 213—15, skr. ca. 1604 (= *b*). — Af 7 innsiglum var fyrir frumritinu „fyrst af þeim í röðinni Eggerts lögmanns konstríka innsigli.“

Domur um Latur og Keflauijk þar hann dæmdist
Birne Konradsyne og Joni þui ecki syndist huar
fyrir hann war vti latinn. Arfsuik.
[Þessi er þarfur domur uijda.[1])

Ollvm Godum monnum þeim sem þetta bref Sia edur heyra Sender[2]) Einar Pallsson suarenn laugriettumann. Joachim[3]) Hermannsson. Gudmundur Jonsson. Steinmodur Jorundzson. Þorkell Gunnarsson. Jon Sueinsson. kuediu gudz og sina. kunnigt giorande ad þa er lidit var fra hingatburde wors lausnara Jhesu Christi .m. d. lx og vij ara. Ad a þann xiiij dag Januarij manadar. þa vorum vier j dom nefnder af heidarligum herra Eggertt Hannessyne. laugmanne fyrir nordan og vestan aa Jslande. j Laugardal j Talknafirde a þingstad Rettum. Einvirduliga ad skoda og rietteliga ad ʀansaka og fullnadar doms adkuæde a ad leggia epter laugum og vorre skynseme hueria magtt og afl ad hafa skyllde su þung og langiæd[4]) klaugun og akiæra sem þeir brædur bader Biorn Konradzson og Jon Konradzson haufdu leinge haft og nu enn haufdu ä jordunum Hualatrum[5]) og Keflavik er liggia j Sandzhrepp j Saurbægiar kirkivsokn hueriar jarder ad þeir sogdu sier þickia sinn faudurbroder Sera Filpus heitinn Jonsson hafa orietteliga j

1) Þessi fyrirsögn að eins í *b*; frá [utanmáls. 2) senda *b*. 3) Jochim *b*. 4) langgiæd *b*. 5) Huallatrum *b*.

burtu feingit og þar vti þeim arfsuik giort. Og þar fyrir kaulludu þeir nu sem fyrre þessar adr nefndar jarder sier epter hann til erfda hafa fallid. Enn þessar jarder hafde nu sialfur ad hallda Eggert Hannesson laugmann og kallade þær sina eign vera og barna Biorns heitins Hannessonar epter þeim giorninge sem hann sagde ad adrnefndr Sera Filpus hefde þar med brefe og jnsigle vm giortt vit sina modur Gudrunu Biornsdottr[1]) hina elldre. huerar sal ad gud nade. sem sia matte og sidar meir greiner j þessum dome. Beiddu þa og krofdu fyrskrifader brædr Biorn og Jon adr nefndan Eggertt laugmann vpp a gudz vegna og laganna ad lata sig hier riett vm ske. Þar vpp a suarade Eggertt laugmann þeim suo. ad laugunum villde hann huorcke nie mætti þeim hier vm varna þegar hann være þar vm laugliga fyrir kalladr: Þar vpp a suerudu[2]) honum þesser brædr suo ad bagtt væri sier hann til laga ad sækia ef hann villde þeim suo j þyngia og sialfum sier þar vti slika haskasemd veita. ad hann liete þa þar fyrir eigi rietti na. Enn fyrir þann skulld ad greinder brædr Biornn og Jon sogduzt vita fyrir full sannende ad hann hefde sinn laugmannseid suarid. j huerium eide ad hann munde þa sem alla adra þa er vnder hans laugsaugn erv sier j sinum suardogum a hendr hafa falid og þeim sem audrum laug og riett ad giora. huort helldr sem hann adra akiærde edur aklaugudv hann adrer. J þridiu grein sogduzt og greinder brædr Biorn og Jon vita fyrir full sannende ad vorr nadugazte herra og kongur hefde hann sett til laugmanns yfer þessum ijur fiordungum landzins nordan og vestan. Og hann j sinu nadar brefe til skylldad. skipad og skickad ad hallda alla med laug. og landzins riett. J fiordu grein vændizt og þesser menn Biornn og Jon ad þeir hefde og heyrt vpplesid ä þingum og samkundum hans biskermelsesbref er hann hafde fyrir sier af vors nadugazta herra kongsins

---

1) Svo. 2) suaurudu *b*.

herra faudr[1]) godrar minningar. Suo hliodande j millum annara greina ad hann skyllde standa til rietta a þingum og annars stadar þar sem til hans være talad med riettu. Og þar fyrir vissu þeir eigi betr enn suo ad hann epter sinum eide og tilkallann væri logliga fyrir kalladr vm þessa akiæru bædi sinna vegna og suo anara þeirra sem honum bæri hier vm suorum fyrer ad hallda. Og þar fyrir badu þeir hann enn nu sem fyrre ad lata sieg[2]) hier riette a na. Enn ef ad eigi suo skede þa saugduzt greinder brædr hier mundu annara vega ad vm leita. og villdu sig med þessu hier vm afsakad hafa. ef audru visu[3]) tækizt enn vel. þui þeir sogduzt[4]) nogu leingi þessara jarda hafa a miss geingit ef þeir mættu þær med riettu eiga. Og opttliga hier riettar aa bedizt og eigi feingit. Suarade þa fyrsagdr laugmann þessum brædrum suo vpp a þessar þeirra krofr[1]) og akiærur. ad hann huorcki villde nie suo mætti þad vpp a sig vita. fyrir gude nie monnum. þeim nie suo audrum laugunum ad varna og beidde adr nefndr laugmann oss fyrnefnda domsmenn þar fullnadar doms adkuædi aa ad leggia. huortt hann skyllde med riettu þessar jarder mega vnder laug leggia vid þa brædr suo ad þad sidar meir mætti huorcki koma vppa sig nie sina erfingia. af þeim edur þeirra erfingivm. sem nu þættuzt þessar hallfar jarder eiga vid sig þo ad hann og þeirra vegna vmbod yfer þeim hefde. Dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med sannre og skyrligre vmskodann þessa mallz. og med fullu Doms adkuæde laugmannenn skylldugan epter fyrskrifudum krofum og greinum þessar badar jarder vid þa brædr vnder laug ad leggia og hann og hans erfingia þar vm akiærulausa vera skylldu fyrir erfingivm Biorns heitins Hannessonar og suo þeirra erfingivm þo ad þær med laugum kynne af ad ganga þui vær vissum hann skylldugan til ad lata alla ske laug og riett eigi sidr af sialfum sier enn audrum. Og upp a þetta ed sama þa toku þesser menn Eggertt lavg-

1) Svo. 2) Svo *a*; sig *b*. 3) wijs *b*. 4) saugdust *b*.

mann og þesser Brædr bader Biorn og Jon haundum saman og laugdu sig þar vnder laug og dom og lofudu fyrir sig og sina erfingia þad til obrigdanligrar stadfestv ad hafa og halda sem vier fyrskrifader domsmenn dæmdum þeirra ä mille hier vm. Beiddu þa greinder brædr Biorn og Jon tittnefndann laugmann þad skial ad auglysa sem hann hefdi sinna vegna og annara fyrir fyrsogdum jordum Latrum og Keflavik. Birte hann þar fyrir oss bref. þad er Sera Filpus Jonsson hafde vt gefid og skrifad med sinne eigin hende. og var þad med hans heilu og oskoddu hanganda jnsigle. huertt bref ad suo var hliodande med sinum jnehalldande atridz greinum ad sera Filpus medkendizt ad hann hefde feingit Gudrunu Biornsdottur hinne elldre þessar fyrskrifadar jarder Latur og Keflavik vndann sier og sinum erfingivm enn vnder hana og hennar erfingia til fullrar eignar og frials forrædis. Enn eigi var þad j neirn mata j þessu brefe akuætt fyrir huad ad hann hefde henne þessar jarder feingit. Spurdu þa þrattnefnder brædur sagdann laugmann ad fyrer huad ad sera Filpus skyllde þessar jarder hafa att vte ad lata vid hana og hennar erfingia. Enn greindr laugmann suarade þeim ad hann hugde ad þessar jarder munde hafa komid vpp a Rettarfar Solueigar Biarnardottr.[1]) Þar til suorudu honum greinder brædr suo ad eigi stædi þad j þui brefe ad helldr skyllde hennar syner þessar jarder eignazt enn adrer erfingiar Gudrunar. og þar fyrir hielldu þeir þær eigi j þetta riettarfar komid hafa og eigi helldr vissu þeir sera Filpuss vid hana brotid hafa: þess og annars ad þeir sogduzt vita fyrir full sanninde ad vij arum fyrre enn Filpus þetta bref vtgaf hefdi greind Gudrun Biornsdotter þad gefid j valld biskups Augmundar þad hvn hefde til Sera Filpusar ad tala huad oss virtizt þad uera uegna hennar sona. þui þeir vorv þa j omagavizt[2]) og þeir attu þa rettarfar a Solueigu ad taka. Og þar upp a hafde bisk-

---

1) Svo. 2) omegd *b*.

upinn henne greitt og golldit halfa jordina Aluidrv j Dyrafirde. og vpp a þann giorning. þa lasu þeir brædr Biornn og Jon fyrir oss opid bref med heilu. og oskoddu. aþrycktu jnsigle biskups Augmundar huert bref ad vier sialfer saum og yferlasum. Vmskodudum vier fyrnefnder domsmenn nu þessara manna bref og framburd upp a badar sidr[1]) epter þui vite sem gud hafdi oss þar vpp a gefid og oss virtizt laugmalid auisa. Og nu saker þess ad þad sama bref sem laugmadurenn liet upplesa og[2]) sera Filpus hafde vt gefid Gudrunu Bornsdotter[1]) fyrir fyrskrifudum jordum auisade eigi neitt þar vm huar fyrir edr fyrir hueriar greiner ad hann hefde þessar jarder vte latid vid hana. Suo og kunne laugmadurenn sialfr þar eigi neinu audrv skilvisu skiale þar vm fyrir ad koma fyrer oss vtan sagdizt[3]) hyggia enn þo eigi vita ad þessar jarder hefde att ad koma j þetta riettarfar. sem fyrre vm greiner. Þui j gudz nafne amen ad heilags anda nad tilkalladre og ad aullu suo profudu male sem nv hefr fram fyrir oss komit. þa dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullu doms adkuæde og alycktarorde. þetta fyrskrifad giorningsbref onytt og omyndugt og olaugligt og ad aungu halldande og alldre magtt matt hafa nie suo hafa skule edr hafa mega. og sera Filpus sinum Erfingium riett arfsuik hier vti giort hafa. Enn þa brædr Biorn og Jon dæmdum vier laugliga erfingia. og eignarmenn vera og verid hafa epter sinn faudr brodr[1]) fyrskrifadann Sera Filpus Jonsson ad þessum þrattskrifudum badum jordum Latrum og Keflavik og aullum audrum peningum þeim er hann atte þa gud kallade hann. Enn þa halfa jord Aluidru sem biskup Augmundr hafdi feingit Gudrunu Biornsdottr[1]) hinne elldre til Eignar þa hun gaf þesse malaefne sera Filpvsar j hans valld biskupzins dæmdum vier ad vera skyllde og verid hefde og nu uæri eignn hennar sona Eggertz. Biorns og Biarnar[4]) og þeirra erfingia epter þeirra dag þar fyrir ad hun hafde laugligtt

1) Svo. 2) *b*; og og(!) *a*. 3) *b*; sadizt *a*. 4) Svo *a* og *b*.

vmbod sinna sona og þeir vorv þa j omagavist og voru hennar omagar og henne bar þetta riettarfar vnder þa ad sækia. enn eigi vnder sialfa sig fyrir hugmod edur forþrot sem hun þottizt hafa fyrir ordit af sera Filpuse. Þui vær finum[1]) þar eigi laugmal til ad hugmodr edr forþrot skule ganga fram fyrir riettarfar hins. þui landzlaugin suo liosliga avisa. og suo stadfastliga skipa med stoddum endimorckum þar ad suo seiger. Erfinge skal taka riett a konu huerre ef hun er leigin kallmadur enn eigi kona þo ad hun sie erfinge suo sa sem j omegd er sem fulltida og take vmbodzmadr hans honum til handa et cetera. Og þui nu fyrir allar þessar fyrskrifadar greiner. og suo þennann vornn settann og samtekinn dom. þa badu vier fyrskrifader Domsmenn og tilkrofdum fyrnefndann laugmann. epter sinne skylldu þennann vorn dom medur oss ad samþyckia. edur med liosum lagagreinum[2]) og riettre vnderstadningv laganna vm hann ad leidrietta. ef hann þættizt mega hier laug a moti sia. þui vier villdum giarnann til hans þar vm hneigiazt epter vorre skylldu. Enn hann sagdizt eigi kunna hier laug ä mote finna. helldr villde hann þessum vorum Dome samþyckur verda. Og til meire audsyningar og stadfestu hier vm þa feste opptnefndr Eggert laugmann sitt jnsigle med vorum jnsiglum fyrer þetta domsbref huertt ed giortt og skrifat var j Saurbæ a Raudasande þann xuj dag februarij manadar aa sama are sem fyr seiger.

---

404. 17.–23. jan. 1567. á Gunnsteinsstöðum.

PRÓVENTUBRÉF Helgu Einarsdóttur til Ólafs Þorsteinssonar, sonar síns.

AM. Apogr. 4815 „Ex originali Sira Þorleifs Arnasonar ä Kalfafelli.“

Þad giorum vid Ellendur Jonsson og Magnus Gunnsteinsson godum monnum kunnigt med þessu ockru

1) Svo. 2) *b*; laggreinum *a*.

brefi opnu. ad arum epter Gudz burd M d lx og vij är. a Gunnsteinsstaudum j Langadal j annare viku þorra vorum vid j hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna Helgu Einarsdottur og Olafs Þorsteinssonar sonar hennar ad suo fyrir skildu ad fyrr greind Helga Einarsdotter gaf adur greindum Olafi Þorsteinzsyni syni sinum med sier til frammfæris hia honum halfa jordina Kärastadi er liggur j Höfs kirkiu sokn ä Skagastrond med ollum þeim gaugnum og Giædum er greindri allri halfri jordu hefur fylgt ad fornu og nyiu og Helga vard[1]) fremst eigandi ad ordinn vndann sier og sinum erfingium. enn vnder Olaf Þorsteinsson og hans erfingia. bædi fyrir þad sem hun hafdi adur hia honum verid og suo vpp þadann medan Gud giæfi henni lifdaga til; suo og lysti Helga þui þar fyrir ockur ad hun hefdi feingid Olafi þessa halfa jord til fullrar eignar fyrer longu a Tindum strax epter Einar heitinn Bessason frafallinn med sier til frammfæris. oc þar hefdi hia verid Nichulas Þorgrimsson. og Valgierdur Þorvardzdotter og allt heimafolk. Og til sannenda hier vmm setium vier ockur jnnsigli fyrer þetta Giorningsbref. huert skrifad var a Audkulu j Suijnadal a laugardagin fyrstann i sumri nockrum arum sijdar enn fyʀ seiger.

---

405. 18. janúar 1567. í Lundi.

VITNISBURÐR um fornan farveg Ásgils.

Uppskrift á pappír í þjóðskjalasafni (meðal Reykholtsskjala) frá ca. 1700.

Þat giorum vier Þordur Kietilsson. Magnus Svgurdsson. Þorleifur Jonsson og Magnus Þorlaksson godum monnum kvnnigt med þesso voru opnu brefi. Svo og vitvm vier fyrir fvll sannindi at Asgil rann epter hinvm forna farveg fyrir avstann seliaskoginn i Ase enn nu fyrir fam arvm bravt sic þetta stora Asgil ut yfer

1) Svo.

þuerann seliaskoginn fra stora Ase. þar alldri hefur hvurkie[1]) gil nie lækur fyrr rvnnit. Hier epter vilium vier sveria ef þvrfa þicker. Og til sanninda hier um setium vier fyrr nefnder menn vor inscigli fyrir þetta vitnisbvrdarbref skrifat a Lvndi j LvndarʀeyKiadal. xv. kalendas Februarij manadar arvm et cetera M. d. lx. vij.

---

406. 19. janúar 1567. á Jörfa.

VITNISBURÐR um kaupmála Sveins Bjarnasonar og Halldóru Loptsdóttur.

AM. Apogr. 4810 „Ex orig. Sigurdar Þorgilssonar. 3 innsigle, sem fyrir brefinu verid hafa, eru nu burtu."

Þad giorum vid Olafur prestur Olafsson oc Aussur Biornsson godum mavnnvm kvnnigt med þessu ockru opnu brefi. ad arvm epter gudz burd M. D. lx. vij. sunnudagin næstann fyrir Palsmesso vm veturinn a Jorfa ad Loftur Þorsteinsson[2]) vegna dotter[1]) sinnar Halldoru krafdi Jon Grimsson vittnesbvrdar vm skilmala j mille Sveinz Biarnarsonar og fyrnefndrar Halldoru konu hans. sagdist fyrnefnduʀ Jon Grijmsson þar hafa verid vid staddur er Sveinn hefdi fastnad optnefnda Halldoru laugliga. ad svo adur giordum skilmala. ad Halldora Lof[t]sdotter talde sier xxxc. j motz vid Svein mann sinn. enn tijtt nefndur Sveinn gaf henne .xc. vr sijnu fie. for þessi giorningur fram svnnudaginn næstan fyrir Jonsmessv vm svmarit. reiknadist þa malinn med giofinne fioritige hundrud. og þennann giorning medkenndist Sveirn Biarnarson fyrir ockur. Og til sanninda hier vm sette Jon Grijmsson sitt jnnsigle med ockrum jnnsiglum fyrir þetta kaupmalabref hvert ed skrifad var a sama ari sem fyr segeʀ.

---

1) Svo. 2) „ita correctum est. prius scriptum erat Jonsson" (AM.).

407. 29. janúar 1567. á Friðriksborg.

KONUNGR veitir Kristófer Fogler, hallarskrifara á Segeberg, leyfi til siglingar á Dýrafirði.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. IX, 339. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 493, 4to. (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni). — Pr. í MKet. II, 61—2.

Christoffer Fogler. slotzschriffuer paa Segebierghuss. fick breff att maa lade besegle en haffn vnder Island. saa lyudinndes.

Wij Frederich etc. Giøer alle witterligtt. at wij aff wor synderlig gunst och naade. saa och paa thett wore vndersotte paa wortt lannd Islandt maa saa møgit thess bedre bliffue forsørgit medt nøttørfftige tilføring. aff huiss the haffue behoff til vnderholdinng och andenn nottorfftt. haffue vnndt och tilladt och nu medt thette wortt obnne breff vnde och tillade. at wor slottzschriffuere paa wortt slott Segeberg. oss elskelige Christoffer Fogler maa hereffter lade besegle enn wor och kronenns haffner vnder forschreffne wortt landt Islanndt. kaldiss Dyrefiordt. vdj Issefiordsyssell liggenndis. som her Bertholomeus Tenopell. thennd tiid borgemester vdj Lubeck. siist aff oss bewilligett war att motte lade beseigle. och skal forschreffne Christoffer Fogler ther maa bruge hans handel och kiøpmandschaff med wore vndersotte ther samestedtz til saa lennge wij anderlediss ther om tilsigenndes worder. och ther att kiøbe och wdføre. huiss ware ther falder vnderthagit swauffuel och traun. huilkie wij oss sielff wille haffue forbeholdit. dog saa att hanndt aarligenn til gode rede skall giffue til oss och kronenn slig told och rettighed. som ther medt rette bør aff att gannge. Skal hanndt och lade indføre ther vdj landit gode och wforfalskede ware och the ware. som vndersottenne nyttige och gaffnlige ere. och thennom selge och affhende for ith skielligt och lideligt kiøb. Sameledis skal hand bruge rett wegtt och maall vdj indtegtt och wdgifft och almuenn emoed Islanndtz loug och rett icke beswerre. menn i alle maade

sig saa forholde. at ingen klage offuer hannom. hans thienner eller fuldmegtige komer. Cum inhibitione solita. Datum Frederichsborg thendt xxix januarij aar etc. mdlxvij.

---

408. 29. janúar 1567. í Friðriksborg.

KONUNGR veitir amtskrifara sínum í Segeberg, Kristófer Voegler, hafnirnar Dýrafjörð og Ísafjörð.

Ríkisskjalasafnið í Hamborg, eftir uppskrift 1933 frá H. Christ aðstoðarmanni.

Wy Frederich von Gottes gnaden. der ander. Dennemarcken. Norwegen. Wenden unnd der Gotten Koningk. Hertogen tho Slefswigk. Holstein. Stormarn unnd Dittmarschen. Graffen tho Oldenborch unnd Delmenhorsth. Don kundtt unnd apenbar. datt wy uth sonderlicher gunst unnd gnade (up datt unnsere underdahnen up unsern Lande Isslandt desto bether mogen vorsorgett sin. mit aller nottorfftigen thoforinge van alles wath sie behoff hebben. tho underholdunge unnd aller anderer nottorfft) hebben vorgunnet unnd thogelathen. unnd nhu mit dessem unsern apenen breve vorgunnen unnd tholathen. dat unsserm Ampt Schriver up unsserm husse Segebarge unnser getruwer Christoffer Voegler. dat he hirnha lathen besegeln unnd befharen unnsser unnd des Riks Haven. welcke sindt gelegen under dem vorgeschreven Lande Isslandt welche sin geheten Durefoerde unnd Issefoerde. gelick her Bartolomeus Thinappell der Stadt Lubeck Burgermeister binnen Lubick lest van unnss vorlehnett wass. dat he se muchte lathen bessegelen edder befahren. unnd schall unnd magk de vorgeschrevene Christoffer Voegler aldar mogen gebruken sinen handell und Kopenschopp mit unssern underdahnen. So lange beth dat wy ohme anders darumb unnssere meinung werden anthoegen. unnd he mag darsulvest kopen unnd uthfoeren. wath vor wahre darin desulvigen Lande falt. uthgenhamen Swefell unnd Sal-

peter. welckere wy unnss sulven wollen vorbeholden hebben. Doch datt he tho guder wiss jarlick schall geven unnss unnd dem Rike solcken Tollen unnd gerechtigkeitt. gelick wo van demsulvigen gude geitt. unnd unnss mitt gerechtigkeitt thogehoeret. schall he ock dessgeliken in datsulvige Landt lathen inforen. gude unnd unvorfelschede wahre. unnd de unssernn underdahnen nodig unnd dienstlich sin. und die ihnen vorkoepen vor einen rechten unnd redeliken koep. dessgeliken schall he ock gebruken rechte gewichte unnd mathe in sinem innhemen unnd uthgeven. unnd dat gemene Volck jegen gemene Isslandes gebruck unnd recht nicht beschweren. Men in allen saken sick vorsehen. datt niemandt aver ohme edder aver sine diener edder fulmechtige. klage. Derhalven vorbeden wy allen wo se sin edder sin maegen. Besunder unnssern Foegeden. Amptluden unnd ock allen andern. datt se dem vorgeschreven Christoffer Voegler edder sine Volmechtige nicht vorhinderen in vorgeschrevener Haven. in nener hande mathen. ohme wedder thosinde. under unsser gunst unnd gnade. Gegeven up unserm Schlathe Fredericksborch den 29 Januarii Anno 1567 under unserm Signet.

Friderich.

---

409. **31. janúar 1567.**

DÓMR um framfæri Sigvats, er sagðr var sonr Bjarna Markússonar.

AM. 211 c, 4to., bl. 140—1, dómabók frá síra Sigurði Jónssyni í Holti, rituð um 1700. Ártalið er skýrt i handritinu, en kynni að vera misritað (t. d. fyrir 1577; Árni Gíslason er naumast kominn að Hlíðarenda 1566—7).

Domur um omaga utnefndur af Arna Gislasyni.

Vier effterskrifader menn Magnus Hialltason. Jon Jonsson. Jon Gunnlaugsson. Jon Gudmundsson. Marteirn Arnoddsson. hreppstiorar i Fliotzhlid. og Eyrekur

428. 10. apríl 1567. á Grenjaðarstöðum.

VITNISBURÐR um brot Benedikts Einarssonar með Margréti Erlendsdóttur.

AM. Apogr. 4816 m. h. síra Snorra Jónssonar „Ex transscripto 1571 d. 8. Junii.“ (AM.). — AM. Apogr. 4078, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali.“

Þad giore eg Olafur prestur Arnason og Magnus Þorgrimsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi ad þa lidith var fra gudz burd. M. D. lx og vij är a Greniadarstodum j Reykiadal þann tiunda dag aprilis manadar vorum vid j hia og heyrdum vpp a ad Kristijn Þorsteinsdotter bar suo felldan vitnisburd sem hier epter skrifad stendur: Eg Kristin Þorsteinsdotter ber suo felldann vitnisburd ad i þann tijma sem Benedict heitinn Einarsson sem var minn eiginbondi lifdi hier j heime. þa syndi hann mier og suo las hann fyrir mier þad kuittunarbref sem biskup heitinn Jon hafdi giefid hann kuittann vm þad misferle sem hann brotligur ordid hafdi med Margrietu Ellendzdottur.[1]) suo og vissa eg fyrir full sannendi ad fader minn Þorsteirn heitinn Finnbogason villde ecki gipta mic greindum Benedict fyr en hann hefdi sied kuittan fyrir þui brote sem hann brotligur sagdur var ordinn med Margretu Ellendzdottur kuinnu Pals Grimssonar j hordomssøk og suo sagdi adurnefndur Benedict heitinn mier optsinnis[2]) fra sinum skiptum oc Margrietar huad ec kann ei allt ad sinne ad seigia. en opt sagdist hann hafa ridit til Einarsstada þa Päll Grimsson var ecki heima. en þad visso aller menn þeir sem þa voru j Reykiadal ad bædi reid Päll epter Benedict og villdi sla hann og so matti hann alldri ohyltur[3]) fara vm Reykiadal fyrir Pale Grijmssyne og suo sagdi hann mier ad eitt sinn hefdi Pall epter sier ridit a Skardahalsum en nu seirna moti þui hann deydi sagdi hann Benedict mier ad þetta adurgreint kuittunarbref sitt oc

1) „þad er dat. 1527“ (AM. utanmáls). Kvittunarbréfið er 31. dec. 1527. Dipl. Isl. IX. nr. 361. 2) b. v. 4078. 3) Svo bæði.

þar til annad kuittunarbref sitt þad hann j Austfiordum hafdi feingid ad þau geymde fyrir sig bædi Ormur Jonsson a Draflastødum. Og hier epter þessum frammburdi ockur asiaandi lofadi Kristin med handsolum epter ad sueria fullan bokareid nær sem þorf krefdi. Og til sannenda hier vm setium vid ockar incigli fyrir þetta bref er giort var j sama stad [dag og ar[1]) sem fyr seiger.

---

429. 12. apríl 1567. í Saurbæ.

HANNES BJÖRNSSON kvittar Eggert lögmann Hannesson um fjárgæzlu alla á eignum Daða Guðmundssonar.

AM. Apogr. 4721 b, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali. Bref þetta feck eg epter Magnus Magnusson ä Eyre i Seidisfirde, enn gaf þad Þorde Hannessyne 1708“ (AM.). Árni lýsir innsiglum.

Kvittunarbref Eggerts løgmanns, utgefed af Hannese B[iørns]s[yne].

Þad giori eg Hannes Biørnsson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi þad ad eg medkennunst ad ec under Gudz vitne og margra godra manna vitne hefi þvi lofad mijnum fødurbrodur Eggert Hannessyni løgmanni nordan og vestan ä Jslandi med fullnadar jäyrdi og handabandi ad eg skal alldreie svo leingi sem ec til lifi nie svo mijner erfingiar hvorki a mijnum døgum nie svo epter minn dag hann edur hans erfing[i]a äklaga nie äklaga läta af neinum manne hvorki skylldum nie vandalausum um þa peninga sem voro j Snokzdal og vijdar annarstadar þa er minn modurfader godrar minningar hafdi þar med skipad og þar skylldu med fylgia. epter þvi sem hans Testamentum giørd þar giør um vottar og utvijsar. Og nu saker þess ad hann hefur alldreij med Snoksdal haft nie svo med fyr sagda peninga hvorki kvika nie dauda eigi utan stocks nie jnnann. þar med var hann

1) [4078; og dag 4816.

þar og fra dæmdur af. xij. skilvijsum monnum. þess hins iij. ad ec hefi þvi og alla tijma fyrir mic samþyckur ordinn.[1]) ad þad skylldi halldast sem minn mödurfader hafdi j sinne Testamentum giørd til skipad um Snoksdal og adra peninga er hann þangad og þar med skipadi. hvortt þad yrdi mier til skada edur bata. Þvi ma ec hvorki nie svo skal. hann edur hans erfing[i]a þar um äkæra nie äkæra läta af mier edur mijnum erfing[i]um nie svo af neinum ødrum sem fyr seiger. Og þvi seigi ec Hannes Biørnsson fyrnefndann Eggert Hannesson løgmann og hans erfing[i]a og epterkomendur ølldungis kvitta og äkærulausa. frija og frialsa af mier og øllum mijnum erfing[i]um og epterkomendum fyrir øllu tiltali um fyrskrifud gotz. bædi um kvikt og daudt. lausafie og fastaeign. Var eg fyr nefndur Hannes Biørnsson nu .xx. vetra gamall og heill ad øllu viti og allri minne skynsemi. þa er ec þetta bref ut gaf og med minn godann og lostuligan vilia þetta kvittunarbref sialfur skrifadi med minni eigin hendi. Og þar fyrir ad ec nu enn sialfur ätta ecki neitt jnnsigli þa til meiri audsyningar stadfestu og sans vitnisburdar hier um þa festi Jon prestur Olafsson. Sigurdur Ormsson. Jon Gijslason sijn jnsigli fyrir þetta kvittunarbref. hvert ec Hannes Biørnsson sialfur skrifadi j Saurbæ ä Raudasandi ä þann xij dag Aprilis mänadar. ärum epter Guds Burd m. dc. lx. og vij. ära.

Þath giørum vær Jon prestur Olafsson. Sigurdur Ormsson. Jon Gijslason godum monnum kunigt med þessu voru opnu brefe. ad vær medkennunst ad vær vorum þar j hia. säum og heyrdum ä. ad Hannes Biørnsson medur vilianligu jäyrdi og fullnadar handabandi gaf og giordi sinn fødurbrodur Eggert Hannesson løgmann og hans erfingia og epterkomendr ølldungis kvitta og äkiærulavsa fyrir sier og sijnum erfingium og epterkomendum epter þvi sem hans bref hvert ad Hannes Biørnsson sialfur skrifadi og hier fyrir ofan stendur.

1) Svo.

vtvijsar og jnne helldr. tok Hannes Biørnsson oss fyrnefnda menn til vitnis hier um. og hier eptir vilium vær sveria ef þurfa þyker. ad Hannes Biørnsson þetta vilianliga giorde. Og til sanninda hier um festum vær fyrnefnder menn vor jnsigli fyrir þetta vitnisburdarbref. hvert ad skrifad var j Saurbæ ä Raudasandi xij. dag Aprilis mänadar. arum epter Gudz burd. M. d. lx. og vij är.

---

430. 13. apríl 1567. á Másstöðum.

VITNISBURÐR um fráfall Sólveigar Björnsdóttur og fólks hennar í sóttinni miklu.

AM. Fasc. LXXIII, 17, frumrit á skinni. Tvö innsiglaför, en innsigli ekkert. — Fasc. LXVIII, 11, vidisse á pappír frá 14. maí 1568. — AM. Apogr. 1060, m. h. Styrs Þorvaldssonar eftir frumritinu, sem átti Sæmundr Magnússon á Hóli.

Suo felldan witnisburd ber eg Jngibiorg Salamonzdotter ad hia mier war wijstfaust j seytian är su kona sem hiet Walgierdur Gunnlaugzdotter. lysti hun þui optliga fyrir mier ad hun hefdi werit a Audkulu j Suinadal j sottunne[1]) miclu sem nu sijdazt gieck oc pläga war kollud: sagdi hun þa þar hefdi andazt Solueijg heitinn Biornsdotter: sagdi hun þessi kona Walgierdur ad þar aa Kulu hefdi þa andast fyrst Jon Palsson sonur nefndrar Solueigar Biornssdottur af þui folki sem westan fra Skardi kom med Solueigu: þar epter tuær brodurdætur Solueigar hueriar ed heitid hefdi Olöf og Þorbiorg oc sijdast þessara manna hefdi andazt hustru Solueijg Biornssdotter: hef ec alldri heyrt hier tuimæli a leika: Og til sannenda hier wm set ec mitt jnncigli fyrir þetta witnisburdarbref huertt ed skrifad war ä Marstodum þann nærsta sunnudag epter Quasi modo geniti arum epter Gudz burd M d lx vij.[2])

---

1) Svo. 2) flagnað í frumritinu, en Árni ritar á faldinn „M. D. Lx. vij."

431. 18. apríl 1567. í Saurbæ.

KAUPBRÉF fyrir 20 hundr. i Alviðru, ásamt gerningi með þeim Eggert lögmanni Hannessyni og Hannesi Björnssyni um umboð á Síðumúla.

AM. Fasc. LVI, 7, frumrit á skinni. Öll (3) innsiglin eru fyrir bréfinu.

Kaupbreff af Hannes Biornssyni fyrir partenum j Aluidru og odrum þeim peningumm sem komu fyrir þad reidegialld er Eggertt feck Hinrek.[1])

Þath giorum vier Jon prestur Olafsson. Sigurdur Ormsson. Jon Gislason godum monnum kunnigtt med þessu voru opnu brefe ad aa þann xviij Dag aprilis manadar þa lidit var fra hingatburd uors liufa lausnara Jesv Christi. M. D. lx og vij ar þa uorum vier þar j hia j Saurbæ a Raudasande saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna af einne alfv Eggertz Hanessonar laugmanns nordan og vestan a Jslande. enn anare alfv Hannesar Biornssonar. Enn þath falldizt og skilldizt vnder þessu þeirra handabande. ad fyr greindr Hannes Biornsson selldi adur skrifudum Eggertt laugmanne xx<sup>c</sup> j jordunne Aluidrv. er liggr j Dyrafirde j Nups kirkiu soknn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindum jardar parte fylger og fylgtt hefur ad fornu og nyu bædi til sios og landz og hann vard fremzt eigande ad og þar til alla þa gellda peninga. j nautum og saudum. [hestum og hrossum.[2]) vngum oc gomlum. sem Hannes atte þa j Sidumula. og Eggertt laugmann hafdi þar j hans vmbod[e] medtekit. þar med veitti Hannes Biornsson saugdum Eggertt laugmanne fullt og alltt eignar vmbod a gardinum Sidumula. med aullum þeim peningum kuikum oc Daudvm lausafiam og fastaeignum sem þar hafa nu j næstv iij ar med fylgt og til leigit. Og skyllde þetta fyrskrifad vmbod sem Hannes ueitte Eggert laugmanne yfer Sidumula og audrum fyr-

1) Utan á bréfinu m. gamalli h. (Eggerts). 2) [utanmáls, og er visað inn.

skrifudum peningvm sem fyr seiger halldazt j næstv epterfarande iiij ar fra þeim fardaugum sem nu kemr næst og er hier med reiknad þath arid sem Eggertt laugmanne bar med riettu an bitalings þetta fyr greint vmbod ad hafa. Enn fyrir xixc j jordune Aluidrv og fyrir alla þa gellda peninga sem saman standa j Sidvmula og suo fyrir leigur og landskyllder og alla jntegtt og abata. sem verda kann vm þriv ar a gardinum Sidumula og aullum þeim eignum sem þar nu vnder liggia. og leigit hafa. og þar med fylgia. kuiker peningar og Dauder. lauser og faster þa galltt optt nefndr Eggertt laugmann og greidde fyrskrifudum Hannese Biornssyne j haund ijc og attatiger jocundale[1]) og var talid tietige Daler j huertt hundrada.[1]) Sellde huor þeirra audrum þessa peninga. vndan sier og sinum erfingivm enn vnder huornn þeirra og þeirra erfingia og epterkomendur. til æfinligrar eignar. Skylldi Eggert laugmann hallda þessum jardarparte og gelldum peningum. auexti og abata a saugdu vmbode til laga enn Hannes Biornsson suara laga riptingum. ef nockr kynne nockurtt af þessu ad klaga. af Eggertt laugmanne. et cetera. Suo og heyrdu vær fyrskrifader menn adr nefndan Hannes Biornsson þui yferlysa j fyrskrifudu handabande ad þennan giorning[2]) giorde hann med sinn godan og lostuligan vilia vid sinn faudrbraudr[1]) Eggertt Hannesson laugmann og hier hefde hann sialfr epter bedizt af honum. Og til meire audsyningar. stadfestu og sans vitnisburdar hier vm[3]) ad suo j sanleika er sem hier fyrir ofan skrifad er þo festu vær fyrnefnder menn og aheyrande uottar vor jnsigle fyrir þetta kaupbref huertt ad giortt og skrifad var j sama stad aa are og Deigi sem fyr seiger.

---

**432.** **19. apríl 1567.** **á Friðriksborg.**

KONUNGR kvittar Björn Andersen, lénsmann á Kaupmannahafnarsloti um matvælabirgðir, þar í „Jslandtz

1) Svo. 2) b. v.; vantar í frbr. (hefir gleymzt). 3) vmm, frbr.

fisk", og er sá fiskr talinn, er hann hefir tekið við 1564—6 „xx½M lxxxxviij Jslanndtz fisk" og að þar af sé enn eftir í birgðabúrinu „iiijc Jsslandtz fisk."

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 228. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar i JS. 372, 4to., bls. 687—8. — Hér er tekið upp í fyrirsögnina það, er varðar Ísland.

---

433. 20. apríl 1567. á Friðriksborg.

KONUNGR býðr Henrik Krag að taka við 5 hundr. dala af Eggert Hannessyne, vegna misferlis Daða Guðmundssonar í Snóksdal, og sé þar með lokið öllum kröfum af hendi konungs og eftirmanna hans.

A. *á dösnku.*

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 340. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar i JS. 372, 4to., bls. 709 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni). — Á íslenzku er dagsetningin 21. apríl.

Wij Frederich etc. Giøer alle witterligtt. at wij haffue befalit oss elskelige Hinrich Krag. wor mand. thienner och befalingsmandt paa wortt landt Islanndt. paa wore wegne att skulle annamme och vpbere aff Eggertt Hansenn. laugmand for westenn paa forschreffne wort land Islanndt. fem hundrede daler. som hand oss paa Daddj Gudmundsenns wegnne skal fornøge och forschreffne Hinrich Krag egien skal giøre oss rede och regenschaff fore. Thj lade wij forschreffne Eggertt Hansenn och hanns arffuinge quith och frij for ald ydermere kraff eller efftermaning aff oss och wore efftterkommere. koninger vdj Danmarck. for forschreffne vct. daler. nar hannd forschreffne Henrich Krag thennom paa wore wegnne offuerantwordit haffuer. Datum Frederichsborg thenndt xx dag aprilis aar etc. mdlxvij.

B. *á íslenzku.*

Lbs. 72, 4to., bls. 636, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hitardal ca. 1720—30.

Friderici 2di Bref um þesse vc dale Anno 1567.
Wier Friderich annar med guds näd Danmerkur. Nor-

egs. Vendes og Gotters konnig et cetera. giøre alle viterligt. at vii haffve bijfalad oss Elskelige Heinrek Kräg. vor mann. þienara og Bijfalningsmanne upp a vort land Jsland upp a vorra vegna. ad skulle annante og uppbere af Eggert Hanssøn Løgmanne fyrir vestan uppa fyrrnefnt vort land Jssland fimm hundred daler sem hann oss uppa Dade Gudmundssonar vegne skal fornægia. og fornefnde Heinrek Krag i gien skal giøre oss rede og reikningskap fyrer. Þvi lätum vii fyrrnefndann Eggert Hanssøn og hans Erfingia kvitta og fyrer allre ytarmeire krøfu og efftermaninge af oss. edur vorum efftekomendum kongunum uthi Danmark fyrer fyrrnefnda 500 daler. nær hann fyrrnefndum Heinrek Krag þa uppa vorra vegna offverantvortet hafer. Gefid upp a vort slot Fridrechsborg þann 21. Aprilis Anno 1567.

Under vort Signet.

Friiterich.

---

434. 20. apríl 1567. á Friðriksborg.

LEIÐARBRÉF Henriks hirðstjóra Krags frá konungi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 341. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 711—12 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Henrich Krag fick følge breff til menige bønder och almu paa Isslannd saa lyudenndes.

Wij Frederich etc. Helsse etther alle. wore kiere thro vndersotte. bønder och menige almue. som bygge och boo offuer aldt wortt land Island ewindeligenn medt gudt och wor naade. Wiider. att wij haffue tiltroit och befalit oss elskelige Hinrich Krag. wor mand och thiener. at haffue forschreffne wortt land Islandt vdj befaling och etther ther medt alle vdj were oih forsuar att haffue. till saa lennge wij anderledis ther om tilsigendes worder. och ther aff giøre oss gode rede och regennschaff for huiss hand ther paa wore wegnne vppebe-

rinndes och egienn wdgiffuindes worder. Thj bede wij etther alle och huer serdelis strengeligenn byude. attj rette etther her effther att suare forschreffne Hendrick Krag och were hannom hørige. lyudige och følgagtige vdj huiss maade hanndt etther paa wore wegnne tilsigenndes worder. giørindes och giffuindes hannom paa wore wegne etthers aarlige landskyldt. Sagerøer och ald anden renthe och rettigheedt. som i oss och Norgis krone medt rette pligtige ere och i aff gambel tiid giortt och giffuit haffue. Sameledis attj giffue och til gode rede fornøige hannem paa wore wegnne ald thennd rest och effterstanndt. som i Pouel Stiisenn ere skyldig bleffuit vdj forledne aar. Hannd skal vdj lige maade ther fore giøre oss gode rede och clartt regenschaff och thett aldsamen att komme oss til beste. Hannd skal holde etther alle och huer serdelis weed Islanndtz loug. skiell och rett. eij tilstedindes nogne aff etther att wforrettis emod lougenn vdj nogre maade. och huem som forschreffne Hinrick Krag setter for enn fogit paa wore wegnne vdj hans frawerelsse. nar hand drager ther frann landit. attj tha ere hannom hørige. lyudige følgagtige ligerwiiss som hand sielff personligenn hoess etther tilstede war. Ladindes thet ingenlunde. Datum Frederichsborg thendt xx dag aprilis aar etc. mdlxvij.

---

435. 25. apríl 1567. á Friðriksborg.

BRÉF konungs til handa Pétri Einarssyni fyrir Fagrey.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 9, 342 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar i JS, 372, 4to., bls. 685 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Her Peder Enesen fick breff paa en øe. ligginndes paa Islandtt. kaldiss Fagerø. som hand nu sielff vdj were haffuer. thend frij och quith wden affgifft att beholde vdj hanns liiffs tiid. att beholde(!). och nar hand død och affgangenn er. skal same øe egienn wbehinndrit

komme til oss och kronenn. Datum Frederichsborg thend xxv Aprilis aar etc. mdlxvij.

---

436. 27. apríl 1567. á Friðriksborg.

KONUNGR leggr fyrir Jóhann Friis og Pétr Oxe að birgja Hans kaupmann Nielsen með því, er hann þurfi til Íslandsferðar.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 9, 309 b. — Uppskrift Jóns Sigurðssonar i JS. 372, 4to., bls. 689 (Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni).

Breff till Johann Friis och Peder Oxe saa liudendis.
Frederich etc.

Wor synderlig gunst tilfornn. Wij bede ether och begiere. attj wille wed thett første forschaffe thenne breffuissere. Hans Nielsenn. hues hand till thend Islandtz reigse fornødenn behoff giøris. saa att hand till rette thide motte bliffue afferdigitt. och j wille ther hoss betencke. att ther som samme reigse schulle forsømmis och bliffue tilbage. huad skade thett wille giffue oss. saa och huad nød worre arme vndersotte ther paa landitt wille lide for hues vnderholdinge the schulle haffue att leffue aff. Ther fore wille j ther med saa bestille. som j wide wortt gaffnn kand werre. och att wij med widere offuerlob om samme wdregning motte bliffue forskonnitt. huor till wij oss wisseligenn forlade. Datum Frederichsborg thend 27 aprilis aar etc. 1567.

---

437. 29. apríl 1567. á Hálsi.

VITNISBURÐR um brot Benedikts Einarssonar með Margréti Erlendsdóttur.

AM. Apogr. 4817 m. h. síra Snorra Jónssonar „Ex transscripto 1571 d. 8. Junii.“ (AM.).

Suo felldann vitnisburd ber eg Teitr prestur Magnusson ad eg var heimilisfastur madur a Einarstodum j

Reykiadal fyrst þa Pall Grimsson og Margret Ellendzdotter kuinna hans biuggu þar og heyrda ec þar þa almennings ordrom a vera ad Margret Ellendzdotter kuinna Pals hefdi ordit brotlig med Benedict Einarssyni j hordoms sauk sijdan hun giptist Pale. en eij veit. ec huort satt er eda eigi. Suo oc hefi eg sied oc yferlesid a Draflastodum j Fnioskadal fyrir nockrum umlidnum arum þad kuittunarbref sem biskup Jon vtgiefit hafdi Benedict Einarsyni fyrir þui broti sem hann brotligur hafdi ordit med Margretu Ellendsdottur j hordoms sok. Og til sannenda hier vm set ec mitt incigli fyrir þetta bref er giort var a Halse j Fnioskadal þann xxa og ixa dag aprilis arum epter gudz burd. M. d. lx. og vij.

---

438. 29. apríl 1567. að Ósi.

VITNISBURÐR um umboðshald Jóns Magnússonar á arfi barna síra Bjarnar Jónssonar.

AM. 234, 4to., bls. 549—50, skr. ca. 1600.

Annar vitnisburdur.

Suo felldann vitnisburd ber eg Einar Sygurdzson. ad eg hefe verid j Hünavatzþijnge nær xl. är. og eptter þad. ad siera Biornn heitenn Jonsson frä fiell vissa eg fyrer full sannende ad peningaskiptte voru giord med Pietre Einarssyne og Jone heitnum Magnussyne ä ollum peningum sera Biarnar heitins Jonssonar. epter hann fräfallenn. ad frateknum jordum og silfre. Vissa eg eij sannara j þann tijma enn Pietur Einarson skyllde medtaka greinda halfa peninga kongdomsinns vegna. Enn adur sagdur Jon Magnusson vegna sinnar dottur barnna Jons Biornssonar og hanns syskena. annann helming. Hier med hef eg verid j Hünavatzþijnge sijdan þesse fyrrgreind skiptte ä geingu. og heyrda eg alldrej tuijmæle ä leika ad þeir peningar sem Jon Magnusson medtok eptter sera Biornn. være annara manna eignn. enn Barna sera Biarnar Jonssonar. Suo og vissa eg aldrej

Jon heitenn Magnusson lata virda þa peninga sem hann med tok. vegnna barna sera Biarnar. og var eg j sumum þeirra skipttum Pieturs og Jons heitins. og eij vissa eg Jone heitnum Magnussyne þad vmbod dæmtt hafa verid. sem voru peningar sera Biarnar heitenns. Sømuleidis heyrda eg Jon heitenn Magnusson lysa þui. ad hann ætte vjc hundrud[1]) hundrada til borgunar fyrir peningum sera Biarnar þa hann skylldi hafa vmbod Barna sera Biarnar Jonssonar. og hier eptter þessum mijnum frammburde vil eg sueria bokareid. ef þurfa þikier. Og thil sannenda hier vmm set eg mitt jnnsiglle hier fyrir nedann þetta mitt vitnissburdarbrief. huertt skrifat var ä Öse j Midfirde þridiudagenn næstann fyrer krossmessu. Anno m. d. lxvij.

---

439. 30. apríl 1567. í Keflavík.

ÁREIÐARDÓMR um Keflavíkrreka.

Bps. Skalh. Fasc. VI, 31, frumrit á skinni. Af 9 innsiglum eru nú 2 fyrir bréfinu. — AM. Apogr. 2584.

Keflavijk 1567 areidar Brief.[2])

Jn Nomine Domini Amen. Skiedi suo vmm vorit miduikudaginn fyrer krossmessu arum eptter Gudz burd. M. D. lx og vij. ad eptter þeim dome sem gieck aa Backarholltj j Auluesi vmm haustid fyrer laugardaginn fyrer þann xvij Sunnudag Trinitatis þaa var eg Gisle Jonsson Superintendens Skälholltzsticktis med laugmanninum Paale Wijgfussyne til aareidar vpp aa þaa Keflavijk. sem liggur fyrir vtan Þorläkshaufnn. j huerre nefndre vijk. ad Hialla kirkia skule eiga vidreka et cetera. Þaa tokum vid laugmadurinn og eg þessa menn med ockur. fyrst Gisla Bonda Sueinsson sem þaa var Raadzmann. Biørnn Þolleifsson. Magnus Jonsson og Olaf Eyiolfsson laugriettumenn. Jtem þessa Presta Sijra Einar Olafsson. Sijra Gudmund Þordarson og Sijra

---

1) Svo. 2) Aftan á bréfinu.

Þord Jonsson med audrum fleirum dandis monnum leikum og lærdum. ridum fyrst aa þaa Gnijpu sem kallast Maauagnijpa. tokum oss þar fyrst staudu og leist oss þad sannliga vera ed fyrsta vpptak þessarar Keflavijkur fyrer austan fra þessu nefndu forbergi. ridum sijdann þadann og vt yfer vijkina ad þui ytra skerinu sem var bædi hærra og fram j sioenn leingra. huertt ad liggur fyrir vestan þessa Keflavijk. og tokum oss þar adra staudu og hugleiddum þaa med allri giættne huad oss litist riettast vmm þessa Keflavijk. Þaa ad heilogum anda aakaulludum. þaa leist oss sannliga og vrdum samþycker aller samann ad þesse Keflavijk væri j millum greindra takmarcka. og ad Hialla kirckia ætti þann vid sem j þessa Keflavijk kiæmi. eptter þui sem maaldagabokin Wilikens Biskups j Skalhollti vtuijsar. Var vid þessa aareid Paall bonde Eyiolfsson er þaa var suarsmadur Hialla kirckiu og fann ecki par ad so menn heyrdu. Og til sanninda hier vmm setium vier fyrr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta bref skrifad aa sama aare og deige semm fyrr seiger.

---

440. 3. maí 1567. að Skriðuklaustri.

DÓMR um skipti Benedikts Sumarliðasonar og Árna Sturlusonar.

AM. Apogr. 5609, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum. „Ex originali“ „ä kalfskinni.“

Þat giorum vier Þordur Biornsson. Steingrimur Gudmundsson. Sygurdur Einarsson. Audun Steingrimsson. Jon Þorsteinsson. Jon Jonsson[1]) godum monnum kunnigt. a laugardäginn nestan fyrir krossmesso um vorit.[2]) þa lidit uar fra gudz burd. M. dc lx og vij ar. a Mulaþingi. vorum vier tijl doms nefnder. af Ereki Arnasyni kongdomsins walld hafandi þä j Austfiordum. atli tractiera. skoda og Ransaka. og dom ä ad leggia huerra

1) „giorum“ hér endrtekið í Apogr. (ofaukið). 2) þ. e. 26. apr.

suara Benedict Sumarlijdason skylldi plyctugur uera vm þau Rad. sem Arne Stullason kalladi tijl hans. ad hann hefdi Radit hann j þriu ar med tilgreindu kaupi. og annarri lidueislu ad Arne Stullason ueitti honum. þa hann græddur uar. sem þar sønnur aa Reynndust. Nu af þui suo stendr. ef madur kauper uerk ad frialsum manni med handsolum. þa skal þad halldast sem þeir verda asatter. Jtem stendr suo. Ei er lagakaup uid uerkmenn. utan med händsolum sie giort. þui med heilax anda näd. ad suo prouudu dæmdum uier j fyrstu stefnuna logliga og þennan Benedickt Ret[t]iliga fyrir kalladann og hann skylldugan ad uinna. og þiona med dygd og goduilld greindum Arna med þeim skilmala. ollum sem giorst hefdi þeirra ä mille og opt nefndur Arne fram bar. wtan hann suerie einnseijdi. ad hann hefdi alldri med honum Radist eda sinne þionustu honum med handsolum heitid. sem bok logmalsins greiner. Ef kaüp ero handsolud og sie eigi uottar tijl. synie med einseidi er selldi edur käup halldist. skylldi hann og þa i næstum fardogum sin Rad og handsol ennda. ef hann aa eijdnum fielli. þar med betala Arna aptur þan kostnad sem hann hafdi fyrir honum j græslun[n]e. Enn faut og mat skylldi Arne optnefndur honum greida epter þorfum sinum. Enn ef þessi Benedict Sumarlijdason uill i þrioskn blifa. og eigi sijn Räd efna. þa dæmdum vier honum Refsing. vj. vandarhogg. sem þeim oskilamonnum sem handselia sig tueimur edur fleirum. epter þeim alþingisdomi þar um dæmdum. vtan hann fai borgan fyrir sig. Enn Arna Stullasyni hundrad og vtgreitt ad næstum fardogum. og halfa mork j handsalsslit og mork j stefnufall. halft kongi enn halft þeim ed sækir. og jnna honum þan kostnad med fyrra skilordi sem tittnefndur Arne hafdi fyrir honum i grædslunne. sem uier giordum .v. aura og ij aura fyrir huoria krof Retta. og halfa mork kongi j leijgufall. þad fyst hann hiellt eigi sin Rad. huer þennann dom Ryfi. edur fylgi ueitti Rangliga hier aa moti dæmdum vier domRofi sekan epter logmali. var þessi

domur vor samþycktur þar af syslumannenum og ollum odrum þar þa þingmonnum leikum og lærdum. Og tijl sannennda hier [vm] setur vor syslumann. fyrr skradur. sitt jnnsigli med vorum fyrr greindra manna jnsiglum fyrir þetta domsbref skrifat a Skriduklaustri viku sijdar enn fyrr seigir.

[atian alner kemur til ad samsetia j skra slikann dom.1)

---

441. 4. maí 1567. að Ósi.

VITNISBURÐR um umboðshald Jóns Magnússonar á erfðahluta barna síra Bjarnar Jónssonar.

AM. 234, 4to., bl. 550, skr. ca. 1600.

Þridie vitnisburdur.

Suo felldann vitnisburd ber eg Jon Brandsson. ad eg var þienare sera Biarnar heitins a Melstad j Midfirde þann tijma er Gud kallade greindann sera Biornn til sinna nada. Suo og uar eg ä Mel vmm veturinn eptter og til fardaga vm vorid eptter þad ad greindur sera Biornn fra fiell og haustid eptter. vissa eg fyrir full sannende ad peningaskipte voru giord med Pietre Einarssyne. og Jone heitnum Magnussyne a ollum peningum sera Biarnar eptter hann fra fallenn. ad frateknum jordum og silfre. Wissa eg eij sannara j þann tijma en Pietur Einarsson skyllde medtaka kongdomsinns vegnna greinda halfa peninga. Enn Jon Magnusson annann helming vegna barnna sera Biarnar heitens Jonssonar. Heyrde eg alldrej tuijmæle a leika. ad þeir peningar væri annara manna eignn. enn barnna sera Biarnar heitens Jonssonar. og var eg j Hunavatzþijnge. þar eptter nær fimmttan är. og heyrda eg alldrej tuijmæle a leika ä ollum þeim tijma. Suo og vissa eg ädür nefndann Jon Magnusson alldrej läta meta nie

---

1) [var skrifað fyrir neðan dóminn í frumritinu „med sømu hønd.“

virda þa peninga sem hann ad sier til vmbodz tök. vegnna sinna dötturbarnna Jons Biornssonar og hanns syskena. so eg vissee nie heyrde þess gietid. Og alldrej visse eg Jone Magnussyne þad vmbod hafa verid dæmtt. Og hier eptter vil eg sueria ef þurfa þiker. Og til sannenda hier vmm set eg mitt jnnsiglle fyrir þetta mitt vitnissburdarbrief. huertt skrifad var a Ose j Midfirde. sunnudagenn næstann eptter krossmessu. Anno m. d. lxvij.

---

442. 4. maí 1567. á Hóli.

ÓLAFR JÓNSSON lofar að selja Árna Gíslasyni fyrstum manna hálft Laugaból í Ísafirði.

AM. Apogr. 4726 b, m. h. Hans Beckers „Epter kalfskinnsbrefe sem alldri hefur innsiglad vered. Utan ä brefenu stendr þess innehalld med hendi Arna Gislasonar (ä Hlidarenda). Brefed er komid fra Borg i Borgarfirdi til Sira Þordar Jonssonar ä Stadarstad.“ (AM.).

Þad medkiennunst vid Sueinn Jonsson og Jon Þorlaksson fyrer aullum monnum þeim sem þetta bref siä edur heyra: sunnudaginn næstann fyrer vppstigningardag: arum epter gudz burd M: d: lx og vij.[1]) ä Hole i Bolungarvijk vorum vid i hiä. säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna: Arna Gislasonar og Olafs Jonssonar. ad suo fyrer skilldu. ad nefndur Olafur Jonsson lofadi greindum Arna Gislasyni med handsaulum ad hann skyldi eiga kost ad kaupa fyrstur ad ädurnefndum Olafi jordina halfa Laugabol er liggur i Jsafirdi i Kirkiubols kirkiusokn: nær og þä Olafur Jonsson villdi greinda jord selia. lofadi Arne Gislason ad giallda tiitt nefndum Olafi Jonssyni fyrer ädur nefnda jord hälfa Laugaböl: xijc jord. og iiij. mälnytu kugilldi og .iiijc. i audrum godum þarflegum peningum. edur i annann maata xvic. jord og þar til iiij maalnytu kugilldi. Lofadi Arne Gislason ad greida oftnefndum

---

1) „corrigendum puto 1568“ (AM.). Sbr. bréf frá 14. maí 1568.

Olafi Jonssyni greinda jord i Jsafirdi. Og til sanninda hier vm setium vier greinder menn vor. insigli fyrer þetta bref er skrifad var i sama stad og äre deigi sijdar enn fyrr seiger.

---

443. 6. maí 1567. á Hvanneyri.

KVITTAN Bergsveins Runólfssonar fyrir andvirði Fiskilækjar.

AM. Apogr. 4750, m. h. Þórðar Þórðarsonar „Ex originali Arna Hannessonar yngra."

Þad giorum vid Einar Eirikzson og Sygurdur Jonsson godum monnum kunnigt med þessu ockru opnu brefi þa lided var fra gudz burd M. D. lx. og vij är þann vj. dag Maij manadar aa Hvaneyri j Borgarfirdi. vorum vier j hia saaum og heyrdum aa ad Bergsveirn Runolfsson gaf og handlagdi Henrik Gerkens Hannesson kvittan og aakiærulausann fyrir sier og sinum erfingium vm þad allt jardar verd sem greindr Henrek hafdi att honum ad greida fyrir jordina Fiskilæk þui hann kendist þad fyrir ockur ad hann hefdi þetta jardar verd upp dregid ad aullu svo fullu sem þeirra kaupbref innehelldur og þetta ockart vitnisburdarbref er med fest. Og til saninda hier um festum vid fyrrnefnder menn ockur jnsigli fyrir þetta ockart vitnisburdarbref skrifad j sama stad og deigi sem fyrr seiger.

---

444. 6. maí 1567. í Bæ.

KAUPBRÉF fyrir 8 hundr. í Dynjandi í Grunnavík.

AM. Apogr. 845, transscriptum á pappír, þeirra Gísla Hannessonar og Ívars Steinssonar, gert á Snæfjöllum 30. apr. 1704, m. h. Ívars Steinssonar. „Concordat, qvantum ad verba, cum originalibus. AM." Frumritið var með 3 innsiglum.

Þat giorum vær Ellingur Pälsson og Biorn Gunnarson og Ormur Jonsson godum monnum kunnvgt med

þessu voru optnu[1]) brefe. at vær vorum til kalladir af uelkiendum monnum af annari alfu Jöns Grimssonar enn af annare Jöns Ionssonar at heyra. og umm at bera hvorier skildagar og kavpskapur fram for a millum fyr skrifadra manna Jöns Grimssonar og Jons Jonssonar ä Kyrkiuboli j Skutulsfijrdi at Jön Jönsson og Brigita Jönsdotter kona hanns seldu Joni Grijmssyni halfa jordina Dyniandi viijc[2]) er liggur j Grunnavijkur kriku[3]) sokn med ollum þeim gognum og gædum sem greindri jordu fyl[g]t hefur ad fornu og nyu undan sier og sijnum Erfing[i]um en under Jon Grimsson og hanns Erfing[i]a og Jon alla lagasonk[1]) a greindre jordu hafa og at sier taka. Hier j möt skilldi fyrr greindur Jön Grimsson fä opt nefndum monnum Jone og Brigita iiij mälnytu kugilde og jc j godum peningumm. Skylde þessir peningar eigi fyre greidast enn Jon hefur jordinne nad og skal fyrgreindur Jön Grimsson alla laga sonkn[1]) og sok ä fyrgreindri jord eiga hverer sem hana hallda eda hafa halldit. Og til sanninda hier um setium vær wor jnnsigli fyrer þetta uitnisburdarbref skrifat j Bæ j Sugandafijrde sunnudæginn epter krossmessu umm vorit arum epter Guds burd M. D. lx vij ar.

---

**445.** 15. maí 1567. í **Bólstaðarhlíð.**

VITNISBURÐR um landamerki í millum Ennis og Blöndubakka.

Kopíubók Hólastóls hin yngri m. h. Sigurðar Einarssonar á Geitaskarði (d. 1748), rituð nálægt 1695 (bls. 267).

Vitnezburdur vmm landamerke mille Enniss og Bløndubacka med eijnu jnnsigle.
Daterad M: D: lxvii.

So felldann vitnezburd ber eg Einar Þorarenzson. ad þann tijma sem fader minn Þorarenn heitenn Steijndorzson (huorz saal ad gud vernde) aatti jørdena Enne

---

1) Svo. 2) „Þetta viii^c. er raderad og krassad i Originalnum“ (AM.). 3) kirkiu, transscr.; kriku, AM. eftir frumritinu.

j Refasueit j Hoskulzstada kirkiusokn. voru þetta halldenn landamerkie j millum Bløndubacka og Enness. dældezver geingur ofann epter fyrir utann Enne. og þar riettsyness ofan j siö enn fyrir sunnan þad Enness land og sandurenn kalladur Ennesssandur sudur j Bløndu. vissa eg fødur minn hafa þar og liaa sølvatekiu og var eij ad funded. medan hann þaa jord aatti. og eingenn tuimæle heirda eg j þann tijma aa leijka. og hier epter vil eg sueria nær þørf krefur. Og til sanninda hier vmm. set eg mitt jnnsigle fyrir nedan þetta vitnezburdarbrief huort ed skrifad var j Boolstadahlijd 15 dag Maij. ad hiaa verande sira Jone Biørnssyne og Grijme Eijnarssine Anno M: D: lx og vii Ar.

---

446. 22. maí 1567. á Þingeyrum.

VITNISBURÐR um umboðshald Jóns Magnússonar á erfðahluta barna síra Bjarnar Jónssonar.

AM. 234, 4to., bls. 548—9, skrifað ca. 1600.

Vitnisburdur vm peningaskiptte eptter fräfall sera Biorns heitins Jonssonar.

Suo felldann vitnisburd ber eg Þormodur Arason ad eg hefe verid j Hunavatzþijnge vel fiorutiju är. Og eptter sera Biornn heitinn frä fallenn vissa eg eij betur enn suo. ad peningaskiptte voru giørd. þo eij være eg þar vid. med Pietre Einarssyne og Jone[1]) Magnussyne heitnum. a ollum peningum sera Biarnar heitins Jonssonar. ad fräteknum jordum og silfre. Vissa eg eij sannara j þann tijma Enn Pietur Einarsson skyllde medtaka kongdomsinns vegnna greinda halfa peninga. Enn Jon Magnusson annann helming. vegnna sinna dotturbarnna. Barnna sera Biarnar heitins Jonssonar. Suo og hefe eg verid j Hvnavatzþijnge sijdann þesse peningaskiptte a geingu a millum greindra manna. Og heyrda eg alldrej tuijmæle ä þui leika ad þeir peningar være

1) Pietre, hdr. AM. leiðréttir utanmáls.

odrum monnum eignader enn bornum sijra Biarnar. þau half gotz sem Jon Magnusson medtök. Hier med hef eg alldrej heyrtt þad sagtt. ad Jon Magnusson liete virda þa peninga sem hann medtok vegna sijra Biarnar. og eij vissa eg hønum þad vmbod dæmt hafa verid. Somuleidis heyrda eg nockra menn tala þad. ad Jon heitenn Magnusson hefde lyst þui ad hann hefde att sex hundrud hundrada j þann tijma hann skyllde hafa ad sier tekid peninga sera Biarnar Jonssonar. Og til sannenda hier vmm set eg mitt jnnsiglle fyrir þetta mitt vitnisburdarbref huertt ed skrifad var a Þijngeyrum j Vatzdal fimmtudagenn j fardagaviku. Arum eptter Gudz burd m. d. lxvij.

---

447. 26. maí 1567. á Loptsstöðum.

DÓMR Gísla sýslumanns Sveinssonar, um fjallskil um Flóa og Skeið.

Lbs. 10, fol. bl. 90 b, skrifað á Baugsstöðum og Stokkseyri 1632—4 af S[igurði] J[ónssyni], sem um hríð var skrifari hjá Gísla byskupi Oddssyni. — ÍB. 58, 4to., skrifað ca. 1750. — AM. 259, 4to., II, brot, skrifað ca. 1600 fyrir Odd byskup. — Uppskrift dágóð er í dómasyrpu Jóns dans í Lbs. 65, 4to., I, bls. 71—2, skr. ca. 1640. — Prentað í Alþb. Íslands III., bls. 118—20.

Dömur og samþycktt vmm allann Floa og Skeid. vmm fiallrekstur edur fiallskil Anno 1567.[1])

[Anno 1567[2]) war þessu jatad og samþycktt af hreppstiörum i ollum [þessum hreppum sem er vmm allann[3]) Flöa og Skeid.[4]) sokum þess skada og tuidrægnne sem þar [nu vmm stund nockra hefur af verid.[5]) þui[6]) ad sumer hvorier sem eru i þessunm hreppum [ad þeir[7]) vilia Eingenn skil giøra. vmm sinn afrett. hvorrke vmm fiallrekstur a vor nie vmm fiallgønngur vm haustid helldur þikiast sialfrader vera mega vmm alla sijna skickun. hvad oss og løgrettumonnum og ødrumm skynnsømum

1) 10, nema hvað ártalið er þar að eins „15". — Loptzstadadomur 1567, 58. 2) [b. v. 58. 3) [sl. 58. 4) Skeidahreppum 58. 5) [umm hefur nockra stund orded 58. 6) sl. 58. 7) [sl. 58.

mønnum virdest oreiknannligur skade verda mega af þuilijkre vandræcktt[1]) og þvertt ä möte Texta Bokarinnar. og so i möte skickun hreppstiöranna. stendur og so i Bunadarbælcke. hvor madur sem saude a skal gannga eitt sinn a fiall. og vmm landeignn sijna. hvort sinn logrett a ad vera. skal so [skipa[2]) gongum sem hreppstiorar giora räd fyrer. sekur hvor halfre morck vid konng er ecki giorer so og helldur ecki hreppstiora skipun loglega og abyrgest saude vid þa menn er eiga. alla þa er i þeirra[3]) leit ero og þar hann a[4]) leitina. Jtem i sama Capitula Rietter skulu þar vera sem ad fornnu hafa vered og so vitt og langtt til reka. sem hreppstiorum og hinum skynsømustu mønnum þiker best hennta. Jtem i sama Bælcke i 20[5]) Capitula aller þeir menn sem afriett eiga saman skulu reka fie sitt i midia afrett. Enn vmm gelldfiar rekstur a vor og fiallgongur a haust hvornn Tijma vera skal giøre hreppstiornarmenn räd fyrir. eptter þui sem sierhvoriu Bygdarlage hæffer.[6]) þui ecki hæffer einn veg allstadar. nu ef ecki er so giortt þa sekist hvor sa[7]) sex aurum. er þann afrett eigu. hafe þeir halfftt er næster Bua. Jtem sejger Løgmäled so. Lofad er ad gielldfie sie heima ef grannar og hreppstiörar lofa secktalaust.

Nu effter þessum greijnum sem hier ad hniga. og vorum döme mega til [gagnnss og[8]) bata koma. samtökum vier og dæmdum med konngz vmmbodzmannsinns räde Gijsla Sveinssonar. alla þa menn sem v saudum fleira ætte i sinne äbyrgd. skyllduga til fiallskila ad svara. effter þui sem bære. so þui betur mætte afrietturenn leitadur vera.[9]) ella seker halfre morck vid konng þeir enu sømu sem ädur er sagtt.

J annare Grein dæmmdum vier og samþyckttum ad aller þeir menn[10]) sem þennan ädur sagdann[11]) afriett eiga. ad þeir skylldu reka sitt fie. vnngtt og gamalltt. i þennann midiann afriett eda almenninng so

1) vanrækt 58. 2) [58; skipta odrum 10. 3) þess 58. 4) atte 58. 5) 53, 58. 6)heyrer 58. 7) sl. 58. 8) [sl. 58. 9) verda 58. 10) sl. 58. 11) skrifadann 58.

lanngtt sem hreppstiörar skipa og ad fornnu hefur vered.[1])

J þridiu grein vmm þa stade sem nordurleit hefur vered tilskickud. [dæmdum vier ad þeir menn aller sem þessa stade hallda[2]) [Gaulveria[3])Bæ.[4]) Stockseyre. Kalldadarness. Hraüngerde. Villinngaholltt. Olafzvelle [a Skeidum[5]) [skyllduga þessare Nordurleit vppe ad hallda. so[6]) sem ad fornnu heffur vered. [Ellegar seker[7]) sem fyrr seiger.[8])

[Þui ad heilags anda näd til kalladre ad suo profudu og fyrir oss komnu[9]) dæmmdum vier og samþyckttum hreppstiörar [firr greindra[10]) sveita med [fvllu dömz alyckttunar orde og epter bokarinnar ordum.[11]) ad hvor sem þessa vora samþycktt. döm og almenneleg samtok leikra og lærdra og hinna skilvijsustu manna i þessu Takmarcke i nockre grein ryfur og ecki helldur veri[12]) sekur[13]) [halffre Mørck[14]) vid konng. so sem fyrir[15]) annann løgsamdann döm.

Jtem[16]) skulu aller hreppstiörar [og enu skynsømustu menn[17]) [vr ädur greindum sveitum[18]! [skylldug- er saman ad koma sunnudaginn[19]) i niunndu viku sumars i þann[20]) [sama[21]) stad sem [þeim[21]) þiker henttugastur [þar til[21]) vera.

Samþycktte [med oss[22]) þennan vornn dom[23]) [þesser aller logrettumenn og kongs ummbodzmann[24]) Gijsla Sveinsson[25]) fyrst[26]) Magnus Jonsson. [Magnus Pietursson.[27]) [annar Magnus Jonsson.[28]) Þorer Sveinzson.

1) Hér eptir hefst brotið i 259. 2) [sem eru i fyrstu 259. 3) 58; Gaulveriar 10. 4) [sl. 259. 5) [b. v. 58. 6) [Dæmdum vier og samþycktum ad þeir [menn] sem þessa stade hallda sieu skyllder vppi ad hallda þessare nordurleit 259. 7) seka 58. 8) [ellegar svare slikre seckt sem adur skrifad stendur 258. 9) [259; So og 10; So 58. 10) sagdra 58; frá [adur nefndra 259. 11) [259; fvllre döms alyckttan 10, 58. 12) b. v. 259. 13) sekann 58. 14) [iiij mørkum 259. 15) 259; vid 10, 58. 16) sl. 259. 17) [b. v. 259. 18) [sl. 259. 19) [259; saman koma 10. 58. 20) 259, 58; þeim 10. 21) [b. v. 259. 22) [b. v. 58. 23) giørning 259. 24) 259; — madur 58. 25) [adurskriffadur valldzmadur Gijsle Sveinsson 10 (og þrýtr hér). 26) 259; sl. 58. 27) [65; 259 (föðurnafn fúið úr); vantar í 58. 28) [sl. 58.

Sigurdur Biarnarson.[1]) Henrich Vilchenzson. Oddur Oddsson. og marger adrer goder menn. [og settu s[in inn]sigle fyrir nedan þetta samþycktarbref. Skrifad a Loptstødum a Eyrarbacka manudagenn næstan epter hvitasunnu arum epter gudz burd 1567.[2])

---

448. 9. júní 1567. í Snóksdal.
6. júlí 1567. í Kumbaravogi.

HANNES BJÖRNSSON kvittar Eggert lögmann Hannesson af fjárgæzlu eigna Daða Guðmundssonar og samþykkir fyrri gerninga af hendi sinni við Eggert og Jóns Halldórssonar fyrir sína hönd.

AM. Apogr. 4723 b m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali“ hvort tveggja bréfið, og var síðara bréfið saman stungið „vid hid fyrra brefed.“ Lýrir Árni innsiglum, og um síðara bréfið segir hann: „Hier under er innsigle Hannesar Biørnssonar, stort, cum insignibus nobilitatis, allika ad giørd og innsigle Eggerts Hannessonar, hid störa.“ En frá frumritunum skýrir hann svo: „Bref þetta feck eg epter Magnus Magnusson ä Eyri i Seidisfirde, enn gaf þad Magnuse Jonssyne ä Hole i Hørdadal 1708.“

Kvittunarbref Eggerts løgmanns fyrir umbode Hannesar Biørnssonar.

Þad giori ec Hannes Biornson godum monnum kunigt med þessu minu opnu brefi þad ad ec medkennunst ad minn fødurbroder Eggert Hannesson løgmann hefur mier ærliga og vel. riett og reidugliga nu aptur i hendur feingid. greitt og utgolldid mier epter þvi sem mier vel lijkar og änæ[g[er af honum alla þa peninga kvika og dauda. fastaeigner sem lausafie. og hvad hellst þad er edur nefnast kann i minna hlut edur meira sem mier hefur til erfda fallid epter minn modurfødur godrar minningar Dada heitinn Gudmundsson. hvers säl Gud nädi. yfer hverium peningum hann hefur nu j næstu forlidinn .iij. ar eignarumbod yfer haft minna vegna epter þvi sem løg ävijsa. og thil standa. sem dandi

1) Biarnason 58. 2) [259, 65; Actum Loptstodum 58.

manna domur þar giør um vottar og utvijsar. og þvi j Gudz nafne Amen. þa seigur[1]) eg fyr greindur Hannes Biørnsson minn fødurbrodur Eggert Hannesson løgmann fyrir kongi og karli kvittann. friann og frialsann. lidugann og äkærulausan fyrir allri äkæru og thilkalli vegna sagdra gotza og hann mier fulluliga og riettilega søgd gotz og peninga kvika og dauda. lausa og fasta ut greitt og golldid hafa. Þvi giøri eg og gef hann og hans erfing[i]a og epterkomendur medur fullnadar jäyrdi og handabandi ølldungiss kvitta og äkærulausa fyrir mier og øllum mijnum erfing[i]um og epterkomendum. um fyr skrifad ummbod og peninga medferd og allann þann ävøxt sem þar hefur af komid og hann hefur medtekid og eignast. Hier med hefur ec hann og hans Erfing[i]a kvitta gefid fyrir mier og mijnum Erfing[i]um umm allt tiltal vppa þa peninga kvika og dauda. lausa og fasta. sem adrer hafa mätt öløgliga ad sier taka än doms edur laga og än hans leyfis og afgreidslu af fyr søgdum gotzum. enn hvad hann hefur sialfur greitt og ut golldit skal statt og stødugt standa og obrygdanliga halldast akærulavst fyrir mier og mijnum erfing[i]um og epterkomendum um alldur og æfi. Enn hvat hus edur herbergi ä mijnum gotzum utangards edur jnnan hafa mätt fyrnast eda ä mijnum høfudbolum. sem hann med høndum haft hefur edur hefur. þad hefur ec kvitt og akærulaust gefid og gef og þar fulla næ[g]iu upp fyrir borid sem mier vel lijkar og anæ[g]er. og til meire audsyningar. stadfestu og sanns vitnisburdar hier um ad þetta fyrskrifad uppa mijna tru og æru skal statt og stodugt og obrigdanlega halldid vera af mier og mijnum erfing[i]um og epterkomendum til æfinnligrar tijdar og stadfestu. þa hefur ec sialfur þetta kvittunarbref skrifad med minn[e] ei[g]enn hendi þar fyrir ad eg ä nu enn eij sialfur jnnsigli. Og ad svo j sannleika er sem fyr skrifad stendur. þa til meiri audsyningar. stadfestu og sans vitnisburdar hier um. þa festu þesser epternefnder hia verandi

[1]) Svo.

og äheyrandi vottar. sem var j fyrstu Jon prestur Olafsson. Gudmundur Jonsson. Tyrfingur Halldorsson. Arnor Helgason sijn jnsigli fyrir þetta kvittunarbref hvert ad gertt og skrifad var j Snoksdal i Middølum þann ix dag Junij mänadar. arum epter Guds burd. m. dc. lx og vij. är.

Þat giøri eg Hannes Biørnsson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu brefi þad ad eg medkennunzt ad eg nu med þessu mijnu jnsigludu brefi styrki og stadfesti med øllum sinum Greinum. ordum og Articulis þad kvittunarbref sem hier fylger og med fest er. og eg medkennunzt ad eg hefi med minne eiginn hendi skrifad. Sømuleidis styrki ec og stadfesti med þessu mijnu jnsigludu brefi þann giørning sem eg hefi giort vid minn brodr[1]) Eggert Hannesson løgmann. um Sijdumula og þær eigner fastar og lausar er þar med fylgia. og um halft ed .xxc. er eg selldi honum i jørdunne Alvidru. sem bref med godra manna jnsiglum þar giør um vottar og vijsar. Svo og styrki eg og stadfast giøri þann kaupskap sem Jon Halldorsson minn modurbroder giordi vid Eggert Hannesson løgmann minna vegna. þa er eg var i ömagavist. um jørdina halfa Krossadal. og halfa Glerarskoga. epter þvi sem bref med godra manna jnsiglum þar um utvijsar. Og til meiri audsyningar hier um og obrygdanlegrar stadfestu. ad svo skule halldazt. sem fyr skrifud bref hvert fyrir sig utvijsa og jnnehallda. þa festi eg fyrskrifadur Hannes Biørnsson mitt jnsigli fyrir þetta mitt stadfestingarbref hvert ad giørt og skrifad var med allri visku og skynsemi i kaupstadnum i Kumbaravogi þann vj dag Julij mänadar ärum epter Gudz burd. m. d. lx og vij. är.

---

449. 13. júní 1567. í Vallanesi.

VITNISBURÐR um kynning Eiríks sýslumanns Árnasonar.

---

1) Svo.

AM. Apogr. 4811 „Ex originali. xij innsigle hafa hangt vid brefed, eru nu oll burtu“ (AM.).

Vitnesburdur um kynning Eireks bonda Arnasonar.[1])

Jesvs.

Þat giorum vier Einar Arnason. Olafur Arnason. Hialmur Einarsson. Magnus Jonsson. Asgrimur Þordarson. Ion Marchusson. prestar. Jon Skulason. Steingrimur Gudmundsson. Magnus Jonsson. Magnus Ketilsson. Jon Magnusson. Þosteinn Jngialldzson leikmenn kristnum monnum kunnigt j þessu voru opnu brefi. ad vier hofum vel fornumid j fyrr lidinn fiogur ar. huern tima ad edla borinn heidurzmann Eirekur Bondi Arnason hefur haft herra konungsins syslu og vmbod profastzdæmis. j Mulaþingi. ad þau hafa eingin mälafelli fyrer hann komit a þingum edur þar hann hefur att Riett yfer ad seigia þar vier høfum verit vid staddir. ad eigi hafi huer mann hrept laug än motmælis af honum til. sem sin mälafelli hafa riettiliga fram borit fyrir hann. Og eigi helldur af vorum skilningi launsattir edur samninga giort. suo þar fyrir hafi þegnarner þarnast sins Riettar. nie herra konungurinn sinna sakfella. Suo og latid Refsingar veita og veitt ollum þeim monnum sem þar til hafa vnnit epter dome og eigi hafa fie til haft sig að frija. hier ad auk er greindur Erekur Bondi liufur og lijknsamur vid almugan Aurmenne[2]) og öaseiñn vid fatækann lyd. Er hann vitugur og vel mentur j Andligum laugum og veralldligum. Lijst oss og almuganum j þeirre syslu ad sa frome mann sie miog vel skickadur til ad vera valldzstiornare fyrir margra hluta saker adur greindra og fleire annara. þui vilium vier hann fyrir vora haund og Almugans samt til kiosa. Og til sanninda hier vnm setium vier vor jnsigle fyrir þetta bref skrifad a Vallanesstad j Austfiordum. fiorum dogum fyrir Botholsmessu dag Arum epter Jesv Christi fæding M. d. lx. og vij.

---

1) Var „utan ä brefed skrifad.“ 2) Aurmme, Apogr.

**450.** **25. júní 1567.** **á Bessastöðum.**

**HENRIK** höfuðsmaðr Krag kvittar Eggert Hannesson um 500 dali fyrir sakferli Daða Guðmundssonar.

Lbs. 72, 4to., bls. 635—6, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720—30.

Høfudsmannsins Henrichs Krag kvittunar Bref upp a vc dala medtøku af gotze Dada 1567.

Jeg Henrek Krag kongl. Majst Bijfalningsmann yfer Jslande bekienner fyrer øllum ad upp ä hæstbemelte kongl. Majst mijns nädugasta herra vegna hefe upp borid 500 daller uthii sakafelle af Eggert Hannesssyne uppa Dada Gudmundssonar vegna hvilke penninge ieg af kvittere honum uthii allann mäta. at svo uthi sannheit er. hafver ieg þryckt mitt signet hier under fyrer þetta mitt opna Bref. Datum uppa kongl. Majst gard Bessastødum þann 25 dag Junii Anno 1567.

---

**451.** **fyrir alþingi 1567.**

BORGFIRÐINGASAMÞYKKT frá 1567 um fátækt fólk, „lögtekin“ á alþingi 1567 og síðan enn „lögtekin og samþykkt“ á alþingi 1604.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol. bl. 116, skr. ca. 1600 (= *a*). — Dómabók í 4to. (bls. 319—21) í eigu erfingja Árna landfógeta Thorsteinssonar (nú í þjóðskjalasafni), og er þetta þar m. h. frá ca. 1670 (= *b*). — JS. 343, 8vo., bl. 135—6, skr. ca. 1650. — ÍB. 125 B 4to., nr. 158, skr. ca. 1650. — Steph. 62, 4to., bl. 132—3, skr. ca. 1650. — Lbs. 63, 4to., bl. 80, skr. ca. 1640 (pörtuð sundr). — Lbs. 65, 4to., I, 83—4, m. h. Jóns dans Magnússonar ca. 1640. — Lbs. 67, 4to., bl. 33, m. h. síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti ca. 1650. — AM. 197, 4to., bl. 56 a, brot m. sömu h. — Lbs. 788, 4to., bl. 160, skr. ca. 1640. — Lbs. 790, 4to., bl. 59, m. h. Ara Magnússonar í Ögri ca. 1642. — Lbs. 873, 4to., bl. 18, skr. ca. 1620 (brot). — Lbs. 812, 4to., bl. 52, skr. ca. 1660. — Ny kgl. Saml. 1945, 4to., bl. 148 a, m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666 (utanmáls rangt ártal „1583“). — Lbs. 99, 4to., bls. 54, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal ca. 1720. — ÍB. 114, 8vo., LXXI, skr. ca. 1700. — Maurersbók CLXXIV, skr. ca. 1698. — Í Add. Brit. Mus. 11,080, 4to., er talið Alþb. Ísl. bls. 335—7.

að samþykkt þessi hafi verið lögtekin á Alþingi 1606. — Þessa efnis er ekki getið í þingbók Þórðar lögmanns.

Samþyckt [Þordar logmanns og hellstu manna med almuganum i Þuerärþijnge vmm fatæka[1]) Anno[2]) 1567.[3])

J Gudz nafnni amen.

Woru þessar Greiner laugteknar oc samþycktar j Þuerarþijngi fyrer sunnann og westann Huijtaa. ad frateknu Lækiarbugsþijngi.

J fyrstu ad allt þad fatækt folk sem sier gietur ecki wnnid til matar oc klæda oc wanfært er edur omaga eigu framm ad færa oc barnnfædt er j greindu Þuerärþijnngi þa skal þad med frialsu fara mega wmm alla þessa syslu ad frateknum laugteknum eda dæmdum omaugum suo leingi sem þad gietur flutt sig sialft edur fært til jafnadar wmm alla sysluna. Enn ef þui kann nauckur krankleiki edur forfaull ad haundum koma suo þat kann edur gietur ecki sig til biargar dreigid þa skulu þeir hreppsmenn sem j þeirri sueit bua sem þrotid fellur domlaust flytia mega slijka omaga j þann hrepp sem sa omagi er barnnfæddur oc hina skyllduga þa wid ad taka oc leita þeim enum wanfæra ad lauglìgu frammfæri eda annast sialfer.

Suo oc skulu aller þeir sem laugbylisjaurd hafa skyllduger til wera ad hysa alla þessa fyrskrifada wanfæra menn ef þad will sialft wera. Enn wijsa ecki wt fyrir wtann þess eiginn wilia j frost edur ofært wedur.

Jtem skulu aller menn mega ad sakalausu styrk oc tilsion weita enum fatæka til næsta bæiar þa wonnd wedur eru eda þar sem är edur torfærur eru bygda j millum suo þeim skal ecki misþyckt[4]) ad werda sem fyrir situr.

Jtem skulu hreppstiornnarmenn adgiæta j sierhuerium hrepp ad þetta fatækt wmferdarfolk sie ecki fyrirlitid helldur ad sierhuor weite þui biaurg epter efnum.

1) [*b*; Borgfirdinga wmm fatæka *a*, 790. 2) b. v. 99, 114, Maur. 3) 63, 125, 343, 114, Maur., 99; sl. hin. Sira Jón Halldórsson (í 99) kallar þetta „Borgfijrdinga samþickt Anno 1567“. 4) gialld 62.

Jtem skulu aunguer buandi menn mega taka wtannsueitarmenn til husmennsku nema þeir annist þad sitt tak til næstu fardaga þo þeir hafe adur leingi werid j sueitinni wtann þeir sem full þaurf er ad wera meigi.

Jtem wmm þa wanfæra menn sem menn wita ogiaurla huar barnnfædder eru þa skal þess saga stannda og giauri þad satt med fullnadareidi ef skynsaumum maunnum wirdist þar þaurf til wtann þar kome tuau lauglig witni ä moti.

[Var þesse samþyckt løgtekinn aa alþijngi ä sama are ad halldast skylldi j øllum sijnum greinum. þui løgriettumonnum leijst hun vera epter texta bokarinnar.[1])

[Þesse Þuerar(þings) samþyckt logtekinn og samþykt ä Alþingi Anno 1604 aff Þorde og Joni logmonnum og allri logriettu.[2])

---

**452.** **30. júní 1567.** **á Öxarárþingi.**

TYLFTARDÓMR dæmir löglegt kaup Henriks Gerkens á hálfu Svignaskarði og Sigmundarnesi.

AM. Fasc. LXXVI, E, I, 2, uppskrift á pappír frá því skömmu eftir 1600. Þar fylgir uppskrift Hans Beckers.

Øllvm mavnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Arngr[i]mur Jonzssonn. Jonn Ormzssonn. Erlindur Jonnzssonn. Magnvss Gvnsteinnzssonn. Jonn Siggurzssonn. Gvendur Gillzsasonn. Þordur Þordarsonn. Jonn Jonzsson.. Tvmi Þorgrimzssonn. Magnvs Jonnzssonn.. Einnaʀ Sigvrzssonn. Gvenndur Nichvlazsson. svarner logriettumenn kviediu[3]) gudzs oc sinna kvnnigt giorandi at arum eptter gudzs burd M d sextier oc vij manudaginn næstan epptter Petturzs messo oc Pallzs aa allmeniligu Auxaraʀþingi vorum vier j dom neffnder af ærligum oc vel bvrdvgum manni herra Eggertt Hannezssyne logmanni nordan oc vezstan aa Jslanndi at skoda oc at rannsacka oc fullnadar domzs atkuædi ä at liegia[3]) hvort apl[3]) at hafa skylldi sv akiæra. er

1) [b. v. 343, 125. 2) [b. v. 63. 3) Svo.

Heinnreck Gerkienzs Hannezssonn hafdi til Ara Ormzssonar vm hallfa jordinna Svignaskard. oc hallft SigmundaRnezs. er ligur j Stafhollzs kirkiu souckn.[1]) oc fyr greindur Heinnreck vænndizst kaupi fyrir. kom þar fram fyrir oss riettarbott Eireckx kongzs er svo hlioda[r] j milli annara greinna sem hun jnne helldur. Jtem at ef madur hefur bref logmannzs edur syllzsumannzs edur annara skillrickra manna ef hann feri vr ætthagga[1]) sinum oc j adra stadi þad honum beri vittni at hann sie skillrickur madur. j annari greinn kom þar fram fyrir oss bref. er þann fromi herramann godrar miningar Pall Stigzssonn hafdi vtt giefit adur nefndum Heinnreck Gerkienzs. at hann mætti byggia oc bua hier j lannditt. sem adrer jslenzsker menn. Þui j gvdzs nafni amenn at ollu svo profvdv oc fyrir oss komnu. dæmdum vier neffnder domzmenn med fullu domzs atkuædi titt nefndum[1]) Heinnreck Gierkienzs Ecki sæckia meiga jarder edur odul hier j lanndit fyr enn hann feingi skillrickra manna bref slickra manna sem þessi riettarbott til seier. Enn þad bref sem fyr nefndur hofvdzmann Pall Stigzssonn hafdi vtt giefit dæmdum vier myndvgt oc skialligt j allan mata. med ollum sinum greinum oc artikulis. Enn Ara Ormzsson oc Gvdmund brodur hannz hallda meiga til laga fyr greindri jordu.

logsamdi oc samþyckti þenan vornn dom fyr skrifadur herra Eggertt logmann oc þryckti sitt jnnsigli med vorum adur nefndra domzmanna jnnsiglum aa þetta domzbref huort skrifat var j sama stad oc dag sem fyr sieir.[1])

Þad giorum vier Einar Eirickzson. Hallur Olafzsson. Jonn Gillzsasonn. Biarnni Einarzsson godum monnum kunigt med þessu vorv oppnu brefi at uier hofum sied oc yferlezsitt svo lattanndi dom sem hier fyrir ofan stenndur ord fyrir ord med logmannzsinzs og domzsmannanna jnnsiglum oskodvdvm. Og til sanninda hier um setium vier vor jnnsigli fyrir þetta vortt vittnizsbvrdarbref skrifad j sama stad [oc] dag sem fyr seier.

1) Svo.

453. 30. júní 1567. á Öxarárþingi.

SJÖTTARDÓMR um brottnám vinnustúlku.

Handritasafn háskólans i Uppsölum R. 714, 4to., bl. 22, m. h. sira Skúla Magnússonar i Goðdölum ca. 1660—70.

Domur vmm þad ord stal sig jnn et cetera.

Þeim fromum monnum sem þetta Bref sia edur heyra senda Jon Sigurdsson. Einar Gijslason. Jon Ormsson. Arngrijmur Jonsson. Tumi Þorgrijmsson. Erlendur Jonsson suarner logrettumenn. qvediu Gudz og sijna kunnugt giorandi ad þa lidid var fra gudz sonar fæding M. D. Lxvij a manudaginn eptir Petursmesso og Pals vmm sumarid a almenneligu Øxararþijngi vorum vær j dom neffnder af Herra Eggert Hannessyne Logmanni nordan og vestann a Jslande til ad skoda. ransaka og fullnadardoms adkuæde a ad leggia vmm þa akiæru er Biarne Þorsteinsson veitte Sveini Jonssyne. hofdu þ[e]ir Bader løglagt sig vnder alicktan þesza adurgreinda logmans og þeirra domsmanna sem hann þar til nefnde. Þui þessum firrsøgdum Biarna hafde ej lijkad sa domur er valldzmadurinn og hans domendur hofdu adur heim j hieradj þar vmm ganga latid. Sagdist þessi adur greindur Biarne hafa þad til ad tala Sveini Jonssyne ad hann hefde stolid sig jnn j sinn Bæ a nattartijma og gripid j burt sijna vinnustulku Sigrijde Gijsladottur. an sinnar vitundar og latid hana so heima a sijnu heimili vera sijdann sier til þionustu. Enn þessi stulka sagdist ei hafa þorad annad enn eptir hanz vilia ad giora. og j burt med honum ad fara. Enn medkiendist þo vistud hafa verid hia greindum Biarna. Þetta ord vitnadi Sveirn Jonsson vppa Biarna. ad hann hefde stolid sig jnn j hans bæ. Enn hann sagdist þo onguu hafa stolid þadan. og þætte sier hann fiolmælizmadur heita meiga. fyrir þessa lysing. og beidde oss hier vmm dæma. Enn løgmadurinn sagdist Bevijsad geta. Þetta ord stædi j h[eilagri] Ritningu. og fyrst heidarliger forfedur hafa þetta adur talad þa þickir oss þad rettmæle þui Sveirn Jonsson gieck med leind jnn j hanz bæ. Bar þessi tijtt

nefndur Sveirn þad fyrir sig. ad adur greind Sigrijdur væri sistir konu sinnar. og hefde verid skilldust honum ad þiona. Lijst oss þetta einginn lagavorn. helldur slijkur strakskapur ei lijdast mætte og bædi gudz log og manna hier a vijkia. Þui dæmum vier opt nefndann Svein Jonsson skilldugann ad færa heim aptur Sigrijde þangad sem hann sokte hana og giallde Biarna Þorsteinssyne Eirir a huorri vijku er hann hafe hana oløgliga halldid j vinnumissir og fullriette hans þar ofan a. Samþickte þennann vorn dom adurgreindur logmann setiande sitt nafn med vorum hier vnder.

---

454. **1. júlí 1567. á Grenjaðarstöðum.**

ÞORSTEINN ÞORGILSSON lýsir kaupi sínu við Magnús Björnsson á Másstöðum í Skíðadal.

AM. Fasc. LV, 26, frumrit á skinni. Af 3 innsiglum eru 2 fyrir bréfinu. Læst með einu innsigli saman við LV, 24 frá 3. og 12. mai 1565 og LV, 25 frá 2. ág. 1566.

Kaupbref og kuittunar og urskurdur fyrir Marstodum.

Þad giore ec Olafur prestur Arnason. Þordur Petursson oc Benedict Þordarson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi arum epter gudz burd M d lx oc uij þann fyrsta dag Iulij manadar a Greniadarstodum i Adalreykiadal uorum uier i hia saum oc heyrdum uppa ord oc handsol þessara manna Magnusar Biornssonar af eirne alfu enn Þorsteins Þorgilssonar af annari. j fyrstu medkendist Þorsteinn Þorgilsson ad hann feingit hefdi fyrir fiorum arum Magnusi Þordarsyni þeim sem sagt er ad brent hafi hey a Marstodum sitt umbod til þess ad sækia til helminga med logum iordina Marstadi er liggur i Skidadal oc suo um þa iord ad semia suo Þorsteinn feingi halft uerd enn ei hefdi hann honum leypt brennu ad giora þar oc fyrir þann skulld ad suo hefdi nu illa fyrir honum tekist oc

ei hefdi eindagi a gior uerid huersu leingi ad Magnus skylldi þetta umbod hafa þa lofadi greindur Þorsteinn nefndum Magnusi Biornssyni med handsolum ad adur sagdur Magnus Þordarson skylldi ei leingur af sier umbod hafa oc ei helldur nockur annar upp fra þeim deigi til þess upp a Marstadi i Skidadal ad klaga edur a ad telia oc alldri sagdist greindur Þorsteirn Þorgilsson uppa Marstadi skylldi klaga helldur skylldi þessi iord atolulaus uera fyrir sier oc sinum erfingium oc eign Magnusar Biornssonar oc hans epterkomenda allur sa partur sem hann mætti epter sinn fodur sira Þorgils i Marstodum eiga oc suo yferlysti Þorsteinn þa i handsolunum ad hann hefdi alldri nockrum manne feingit þann part i Marstodum edur nockurn son edur sama giort uid nockurn mann ad nockur skylldi hann eignast utan uid Magnus Biornsson ad fra skilldum þeim giorningi sem hann uid Magnus Þordarson giort hefdi oc þo hefdi hann ei odruuis uerid en þa frammsagt hefdi huern giorning oc umbod hann sagdist þa allan aptur taka. sagdist Magnus Biornsson þennan giorning mest fyrir þad giora. ad hann uilldi ei leingur hier um fyrir omaki uerda. Og til sanninda hier um setium uier fyrskrifader menn uor inncigli fyrir þetta bref er skrifad uar a Greniadarstodum i Adalreykiadal v nottum sidar enn fyr seiger.

---

455. 1. júlí 1567. á Öxarárþingi.

TILKALL Jóns Björnssonar á hendr Sigurði Jónssyni, um fé sitt og systkina sinna, dæmt til þings á Sveinsstöðum í Vatnsdal.

AM. 234, 4to., bls. 553, skr. ca. 1600.

Alþijngisdömür vm klogun Jons Biørnssonar.

Þeim godum monnum sem þetta brief siä edur heyrasendum1) vier Einar Pälsson. Jon Gijslason. Jon Gud-

1) Svo.

mundsson. Tyrfingur Halldorsson. Þorarinn Gijslason. Ellendur Jonsson.[1]) kunnugtt giørande. ad þa lidit var fra hijngat burd. vors liufa lausnara Jesu Christi 1567 ar. a þridiudagenn næstann eptter Pietursmessu og Päls. ä almennelegu Auxar är þijnge vorum J dom nefnder af heidarlegum herra Eggertz[1]) Hannessyne. logmanne. nordann og vestann a Jslande. ad skoda og rannsaka og fullnadar döms atkuædė ä ad leggia. vm þä akløgun. sem Jon Biornsson kiærde til Sigurdar Jonssonar vm þa peninga sem greindum Jone þotte Sigurdur orietteliga fyrir sier hallda og sijnum syskenum sem J omegd voru. Nu saker þess. ad Sigurdr Jonsson var þar af Jone Biornssyne. stefndur logliga. oss aheyrande. vmm adur sagda peninga. enn fyrer þa grein. ad fyrrnefndur Sigurdur þottizt ecki hafa hia sier. sijn gognn og pröf. sem honum mætte. til gagnns og bata koma j greindu mäle. Nu stendur suo j vorre løgbök. ad eptter gøgnum og vitnumm skal huertt mäl dæma. J annare grein. Þar skal vm arf dæma sem däenn er. Og fyrer þessar greinar. og adrar fleire. sem logmaled a vijkur. ad heilags anda näd tilkalladre og suo profudu og fyrir oss komnu. dæmdum vier sagder domsmenn. med fullu dömsatkuæde. þessa fyrrgreinda menn. Sigurd Jonsson. og Jon Biørnsson. skyllduga ad koma til Sueinstada j Vatzdal. j Hunavatzþijnge. manudagenn næstann eptter päska viku ad äre komande. med oll sijn pröf og skilrijkie. sem þeim mætte til bata koma j greindu mäle. edur þeirra loglega vmbodzmenn än sannra forfalla. og skyllduga. þa menn Sigurd og Jon sattsamlega logum ad suara. huor ødrum. Samþycktte þennann vornn dom med oss. ädur greindur logmann Eggert Hannesson. Og sette sitt jnnsiglle med vorum jnsiglum. fyrir þetta doms bref. huertt skrifad var j sama stad. deige og are. sem fyrr seiger.

456. **1. júlí 1567.** **á Þingvelli.**

AFHENDINGARBRÉF fyrir Draghálsi.

1) Svo.

AM. Apogr. 4813 „Ex originali“. Árni segir til innsigla og kveðr „fugl breidande ut bada vænge“ i innsigli Jóns Marteinssonar.

Þat giore ec Jon Marteinsson godvm monnum kunigt med þessu minu opnu brefe at ec hefi greitt oc golldit Gudmunde bonnda Sueinbiarnarsyni jordina Dragszhals huer at liggur j Saurbæar kirkiu soknn huer at er xx hundrud at dyrleika med aullum þeim gaugnum oc giædum sem at greindre jordu fullger[1]) at fornu oc nyu til ystu utmerkia sem at adrer menn eigu j mote henne undan mier oc minum erfingium enn under hann oc hanns erfingia. hefi ec þessa xx hundrada jord golldit af penninngum Ellindz Þoruardzsonar[2]) epter þui sem alþingisdomur jnne helldur oc laugmalit skylldadi mic ute at lata fyrir þa jord Nesiar sem adur greindur Ellindur Þoruardzson hefdi fyr skrifudum Gudmunde Sveinnbiarnasyne feingit þessum monnum hia uerannde Augmunde Eyolfssyne oc Fiolsuinne Helgasyne. Oc til meire sanninnda hier um set eg mitt jnnsigle med adur greindra manna jnnsiglum fyrir þetta adur greint[3]) jardargreidzslu bref huert at skrifat uar aa þridiudaginn næstan epter Petursmesso oc Palls um sumarid aa Þinnguelle arum epter gudz burd M d lx ok uij ar.

---

1) Svo. 2) Þorualdzsonar, stóð i frumritinu. 3) greindz, frumritið.

# Prentvillur.

Bls. 2 í yfirskrift: 1551, l. 1557. — 3 í yfirskrift: 1551, l. 1561. — 27 (í fyrirsögn nr. 29), l. Tómas Brandsson lofar að selja Halldóri Sigurðssyni. — $37^{16}$: heygmechtugheit (síðasta e-ið snýr öfugt). — $37^{22}$: ocki, l. ecki. — $57^{15}$: bls., l. bl. — $57^{23}$: Jonsdottur (er svo í hdr.), en hefði átt að vera Sturludottur (og var hún fyrri kona Þorleifs). — $65^{1}$: at effthertlhij ere komme, l. at effterthij wij ere komne. — $65^{19}$: tec, l. etc. — $67^{20}$: veri gerr, l. verið gerr. — $89^{21}$: hardur, l. bardur. — $132^{26}$: Soer, l. Joen. — $143^{27}$: Hardbaksmaut, l. Hardbaksnaut. — $152^{16}$: Raudamelskikia, l. Raudamelskirkia. — $158^{27}$: sæde, l. bæde. — $163^{36}$: Veltere, l. Vettere. — $203^{30}$: indubis, l. in dubio. — $209^{11}$: kalfa, l. kolfa. — $226^{26}$: in primih, l. in primis. — $231^{35}$: landziytium, l. landznytium. — $235^{28}$: syslu.., l. syslu. — $240^{4}$ titl, l. til. — $252^{16}$: dómur, l. dómr. — $256^{14}$: momine, l. nomine. — $308^{12}$: itl, l. til. — $312^{26}$: sos, l. so. — $317^{17}$: decehbris, l. decembris. — $334^{12}$: Dennearckenn, l. Dennemarckenn. — $343^{24}$: 1561, l. 1461. — $349^{7}$: Bornhofer, l. Bomhofer. — $353^{30}$: Tht, l. Tha. — $355^{1}$: lenererer, l. leuererer. — $355^{10}$: lýsing, l. hýsing. — $372^{25}$: framfærz, l. framfære. — $403^{10}$: restr, l. prestr. — $410^{33-4}$: nie obotamal. skiemdarvig edur nijdingsverk og alldri mig bedid, falli niðr. — $419^{14}$: syrlar, b. v. [svo]. — $436^{15}$: ömedar, l. ömegdar. — $445^{7}$: Reykiarfiadará, l. Reykiafiardará. — $450^{27}$: Talld, l. Tolld. — $478^{22}$: anrs, l. ars. — $480^{31}$: vijvitanda, l. vijsvitanda. — $491^{3}$: peninum, l. peningum. — $501^{9}$: framfærir, l. framfæris.. — $508^{19}$: 562 (bréfnr.), l. 362. — 546 (nm.): hanandi, l. hangandi. — $554^{9}$: brøsl, l. brøst. — $561^{28}$: Jaem, l. Jtem. — $579^{30}$: Frammfærslu greinds omaga. Stendur so skrifad i, falli niðr. — $612^{12}$: Á dösnku, l. Á dönsku.

# Lagfæringar

á registrum XI.—XIII. bindis o. fl.

XI. b.

Agnes Jónsdóttir, Finnbogasonar, l. Jónsdóttir ábóta, Þorvaldssonar.

brennivín 618, l. 617.

Bær í Hrútafirði (sbr. Var), l. Bár í Eyrarsveit (sú jörð helzt í eigu niðja Gottskálks byskups óslitið til 1653).

dagr, skortir ívitnan í fardagar, gagndagar.

Dalbær, l. Dalabær.

Fjall ytra í Aðaldal 877, 880 (þessar tölur niðr við Fjall í Kolbeinsdal).

Gljúfrá á Skógaströnd 726, l. 720.

Guðni Þormóðsson, Guðnasonar, l. Arasonar.

Saurar í Kolbeinsdal, l. í Hjaltadal.

Sviðningr í Kolbeinsdal, l. í Hjaltadal.

Vigfús Erlendsson, lrm., l. lögm.

XII. b.

Arnfinnr Sigurðsson, l. Símonarson.

Eggertsdóttir: Jónína, Steinvör, l. Jónína Steinvör.

Einar Einarsson, lrm. á Hvanneyri, l. Eiríksson (og sést þetta á röðinni).

Jón Guðmundsson í Einarsnesi (1552—72) 373—4 (hefir fallið niðr).

Magnús Ketilsson var ekki prestur, heldr staðarhaldari á Valþjófsstöðum.

Ólafr Hjaltason, við bætist bls. 30.

Ólafr Rögvaldsson, falli niðr bls. 30.

XIII b.

Helga Árnadóttir, Þorleifssonar, l. Eiríkssonar.

Þorsteinn Sigurðsson, síðar sm. í Krossavík, l. á Víðivöllum í Fljótsdal.

# REGISTR.

DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI.

XIV, 1.

(1551—1563).

REYKJAVÍK.

Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU

1944.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER NERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI.

XIV, 2.
(1563—1565).

REYKJAVÍK.
Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU H.F.
1945.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER NERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI.

XIV, 3.

(1565—1567).

REYKJAVÍK.

Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU H.F.

1946.

DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFÉLAGI.

XIV, 4.

REGISTR

REYKJAVÍK.

Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU H.F.

1949

